Mag. Joons Þorkels Sonar Widalin

(Fyrrum Biskups i Skaal-Hollts Stifti, Sællrar Minningar)

# Huss-Postilla,

Innihalldandi

Gudrækilegar

# Predikanir

yfer øll Haatijda og Sunnu-Daga

Gudspiøll.

## Sijdari Parturinn,

Fraa Trinitatis Haatijd, til Adventu.

Editio VIII.


Hoolum i Hiallta-Dal,

Þryckt af Eyrijki Gudmunds Syni Hoff.

1768.

# A Trinitatis Hátijd.

## Gudspialled, Joh. 3. Cap.

A Þañ Tijma, Var þar eirn Madur af Pharisæunum, Nicodemus ad Nafne, Eirn Høfdinge Gydinga. Hañ kom til JEsu a Naattarþele, Og sagde til hañs; Rabbi, Vier vitum ad þu ert eirn Læremeistare komeñ af Gude, Þvi eingeñ gietur giørt þau Teikn sem þu giører, utañ Gud sie med hønum. JEsus svarade og sagde til hañs: Sañlega, Sañlega seigie eg þier, þad eingeñ, nema hañ, saa ed fædest ad nyu, fær ad siaa Guds Rijke. Nicodemus sagde til hañs: Hverneñ maa Madureñ Endurfædast þa hañ er gamall? Hvert gietur hañ hörfed aptur i siñar Moodur-Kvid, og fædst so ad nyu? JEsus svarade: Sañlega, Sañlega segie eg þier, nema þad nockur verde Endurfæddur wt af Vatne og Anda, þa kañ hañ ecke iñ ad gaanga i GUds Rijke. Hvad af Hollde er fædt, þad er Hold; Eñ hvad af Andanum er fædt, þad er Ande. Undrast þu ecke, ad eg sagde þier, ad ydur byriar ad fædast ad niju. Vindureñ blæs hvar er hañ vill, og þu heyrer hañs Þyt, eñ eige veitst þu hvadañ hañ kiemur, eda hvert hañ fer. So er og sierhvør af Andanum fæddur. Nicodemus svarade og sagde til hañs: Hverneñ maa þetta skie? JEsus svaradi hønum, og sagde: Ertu einn Meistare i Jsrael, og veitst ecke þetta? Sañlega, Sañlega segie eg þier, ad vier seginn þad vier vitum, og vitnum hvad vier sied høfum, og voru Vitnisburd medtaked þier ecke. Hafe eg sagt ydur Jardneska Hlute, og þier trwed ecke, hverneñ mundud þier þa trwa, ef eg segda ydur Himneska Hlute? Eingeñ uppstigur til Himens, utañ saa sem ofañ stie af Himne, Mañsins Sonur, Saa sem er a Himne. Og so sem Moyses upphoof Høggormeñ a Eydemørkeñe, lijka svo byriar Mañsins Syne upp ad hefiast, so ad aller þeir sem a hañ trwa, Fortapest eige, helldur ad þeir hafe Eilijft Lijf.

### Exordium.

MJKel var Blindne Heidingianna Fordum Daga i Guds Dijrkan; Hiner Vijsustu af þeim søgdu, ad eitt miked Rijke kynne ecke leinge ad standa fyrer utann Einvallds-Dæme; þo skopudu þeir sier Otal Gude til ad stioorna allre

Ver-

Verolldinni, svo sem eirn væri ecki sier um ad rada fyrir; hvi er þeir, þo af Náttúr- unar Liooss þeckia mattu, ad hann sialfur skapad hefdi, og so ad þeir æ einhvern Hatt feingiu smijdad sier Einvallds-Domi i Heiminum, þar trwdu þeir ad eiñ væri þeirra mestur sæ ed odrum stiornadi, ætti þo slijkt ad vera eftir Mañlegum Plagsid, svo ad hann þurfti þeirra vid æ Stundum, eins og Agamemnon siña under-Konunga, þoott hann hieti hiæ Griekium Konunganna Konungur. Þegar eg athuga þetta, þa kiemur mier i Hug þad sem Paulus skrifar 2. Cor. 3. ad Speki Veralldar þessarar sie Heimska hiæ Gudi, og undir eins brennur mitt Hiarta i mier af Elskuñi til mijns Skapara, ad hann hefur opinberad oss, siñum Vesælingum, þad sem hulid var fyrir Spekingum og Vitringum, þar vier trwum æ Eiñ Gud Þreñañi Einingu og Einann i Þreñingu, hver ed einkis vidþarf, eñ allir hañs, og er Sialfrædi allra Hluta, bædi æ Himni og Jordu, svo sem David segir, i Psalm. 115. Vor Gud er æ Himnum, og giorir hvad honum lijkar. Þessarar hæleitu Guddoomsins Þreñing- ar Veglega Hatijd eigum vier nu i Dag ad hallda, æ hverri oss verdur predikad þad Evangelium, sem innibindur þær hellstu Velgiorninga, er Fadir, Sonur og Heilagur Andi hafa veitt oss syndugum Monnum til Myskunar, þad er Endurgietningiñ og Endurlausninn, af hvorjum allt añad hængir, sem hinn Nædugi Gud vill læta oss Persoona til Sæluhiælpar. Um sialfa Hlutina hefi eg ædur i þessari Book vijda tal- ad: Enn þad er merkilegt i þessu Gudspialli, ad hier kiemur einn Hofdingi Gydinga, Einn Meistari i Jsrael, til ad læra þessa Himnesku Fræde af honum, sem til þess var sendur wr Fodursins Skauti, ad opinbera hana syndugum Moñum. Þvi vilium vier nu hier af athuga einn froomann, enn þo fæviisann Lærisvein, og undir eins einn Goodann og so Alvijsann Meistara, med þeim Lærdoomum, er þeirra Samtal med sier færir. Styrk oss til þessa Verks, goodi Gud, med Nææd þijns Anda, fyrir Son- arins Forþienustu, AMEN.

## Utleggingiñ.

HAr Var Eirn Madur Af Phariseunum, segir Textinn: Hvilijkañ Vitnisburd DRottinn giefur þessum Flock, mæ allvijda siæ i Gudspiallamañaña Bookum, og þo ecki sijdst hiæ Matth. 23. Cap. Hvar hann medal añars kallar þa Eitur- Orma og Nodru-Kyn, þo fañst þessi Gudhrædd Madur medal þeirra; Þad Ord stendur stodugt um Æfi, ad þeckir Gud þæ sem hañs eru, segier Postulinn, 2. Tim. 2. Lær þad af þessa gooda Mañs Dæmi, Christiñ Madur, ad ei samlagir þu þig vondri Verolldu þessari, þoott þu hliootir i henni ad lifa. Þar var þo einn Abraham i Ger- ar, eiñ Loth i Sodoma, einn Hobadja i Achabs Hwsi, eiñ Simeon, eiñ Zacharias, þessi Nicodemus og Joseph af Arimathia æ Christi Dogum, hvorier hinir sijdustu Tveir ecki samþycktust Gydingum i Lijflæti DRottins, Luc. 23. Svo varid ydur og, Born mijn, þier sem lifid i hreckvijsre Olld þessari medal vor, enn vilied þo DRottinn Ott- ast, ad ecki dragid þier Ok med henni, so þier ei medtakid af hennar Plægum, helld-

ur skijned svo sem Lioos i myrkvum Stad aa medal þessarar Prettvijsu Kynsloodar, og treisted þvi; ad sw alvollduga Bæn, er Frelsarenn beidde fyrer sijnum Læresveinum, hun nær og til ydar, ef þier Otteſt Gud, þar hann sagde: Joh. 17. Eg bid þig Fader, ecke ad þu taker þa burt wr Heimenum, helldur ad þu vardveiter þa fyrer hinum Vonda. Sioorenn er salltur; enn Fiskarner, sem þar iñe lifa, þeir eru þo ecke sallter. Svo eiga Guds Born ad vakta sig fyrer Spillingu þeirre, sem i Heimenum er af Gyrndenne, svo sem Petur ad Orde kiemst; Þoott þau verde ad synda i giegnum þenna fwla Dam, aa medann Gud vill reina þau med þvi, ad horfa uppaa alla þa Ohæfu, sem þar inne framenn verdur. Þesse Madur var Hofdinge Gydinga, aan Efa einn af þeim 70. Olldungum þess mikla Raads, samt var honum svo miog giefed um Velferd Saalar sinnar, ad hañ þoottest ecke ofgoodur til ad læra af JEsu, hvern hans Lagsmenn kolludu Vijn-Svelg, Vin Tollheimtumanna og Bersyndugra. Hvad giora þeir hier aa moot, er sig kalla Hofdingia medal vor, og eru þo Vesælingar hiaa Nicodemo? Eg voga ad segia, þeir vita ecke sumer hvad þeir eiga ad trwa, Frædenn hafa þeir lært ad sonnu, enn eg þecke þa sem ecke skilia ollu meir i þeim, helldur enn Gielldingur Drottningarennar Candaces i Spaadoome Esajæ, enn hvort þeir eru so Leidetamer til ad laata sier undervijsa, svo sem hann var, þegar Philippus til hañs kom, Act. 8. Þad bid eg þa ad Hugleida, sem jafnvel hata sijna Saalusorgara fyrer Heilsusamlegar Kienningar, og þoott sumer af þeim meige vita ad nockru Leite, hvad þeir eiga ad trwa og giora, þa meiga þeir þo ecke Sannleikann heyra af Prestsins Munne Reidelaust: Medann hann þeiger yfer Lijtum þeirra og Skomum, þa er hann Guds Eingill; enn tale hann um nockra Ohlutvendne, þa sturlar hann Israel, eins og Elias, 1. Reg. 18. Hann skytst under Caldæos eins og Jeremias, Jer. 37. og verdur allt til Saka funded. Gud bæte þessa Tijma! Taled þad sem oss er þocknanlegt, sogdu Judar Fordum: Su Olld er apturkomeñ, Spaadoomur St, Pauls er rættur, þeir samannhrwga sier Lærendum epter þvi sem Eyrun klæa, Menn laata so daatt ad Lostum sijnum, eins og Mooder ad einasta Syne, jafnvel þoott þeir sieu marger og liooter; Menn elska sinn eigenn Þreck, eins og Sialldur Auga sijns, so eru Menn vidkvæmer, nær hann snertur er, svo sem væru þad Saar, og ad mestu Leite eru vorer Hofdingiar svo Lynder eins og Joachim Konungur, þa hanns Þienare Judi hafde lesed honum Þriu eda Fiogur Blod af Spaadoome Jeremiæ, þa skar hann Bookena i sundur og kastade henne i Elldenn, Jer. 36. Eg ætla þa einu gyllte þoott allar Bækur væru brendar, sem hlioodа um Guds Otta, og aller Munnar tilbyrgder, sem þar um tala.

Nicodemus kom til JEsum aa Naattar-Þele, aan Efa fyrer Otta Saker eins og Joseph af Arimathia, er var heimuglegur Christi Læresveirn, Sokum Hrædslu vid Gydinga, Joh. 19. Veikleike fannst nockur hiaa þessum goodu Monnum i slijku, og þo var þad Upphaf til þeirra Hiaalprædis; Enn þu sem eingañ þarft ad Ottast i þvi ad filgia Christo epter; Tak þier Dæme af Nicodemo i þvi, ad vilja læra af honum, og þeim sem hann

hefur

hefur i sinn Stad sett, enn ecke i þvi ad fordast Verølldena ad slijku; Pad er audrarded af Samtale DRottens vid hann, ad hañ hefur ecke vered mióg Frooður i Christeñdoominum þegar hañ fyrst kom, eñ ecke varde þad leinge, þar til hañ vogade ad forsvara Christum berlega i Raadenu, er hann sagde: Dæmer nockud vort Logmaal Mannenn, nema hañ sie ædur heyrdur, Joh. 7. Og maatte heyra þar fyrer: Ert þu og vorden Galilæus? Sem vaŕ hitt mesta Smaan medal Gydinga. Pad mætte synast ad lyte være med Christ, þegar hann var svo sem Jllrædis Madur til Dauda dæmdur og a Gaalgañ uppfestur, hvar hann liet sitt Saklausa Lijf; Eke er lijklegt ad þeir Joseph mune hafa vered Froodare um Upprisuna helldur enn Læresveinarner, samt vogudu þeir ad grestra hann, og vordu þar til Femunum sinum: Svo er Gud kræftugur i goodum Vilia, þoott veikur sie: Eñ þu sem vorden ert Sañfroodur um Dijrd DRotteñs i hañs Upprisu, og veist ad hann situr til Kraptarens Hægre Hañdar; Breit epter Nicodemo i þessu, og laat þier einkis Mail svo skylldt vera, ad þu afræker riett ad giora; Laat einga Veralldar Makt svo ofbiooda þier, ad þu i minnsta Maata skierder Dijrd þijns Guds, i þvi ad fremia þad epter Mannanna Bode sem hann bañad hefur. O! hversu Faavijser og Onijter eru aller þeir, ed kalla sig Ohullta, nær þeir giora allt hvad hinn Vollduge bijdur þeim; Heyre þier hvad DRotteñ segier fyre Munn Zophoniæ, Cap. 1. Eg skal a þeim Deige straffa alla þaa sem stockva yfer Proskullda, hvorier ed uppfylla Hws Drottna sinna med Raane og Svikum. Sama er um allt annad ad segia, sem nockur Ofrijkis Madur bijdur a moote Guds Bode, hvert hann er hærre edur lægre Stiettar. Pañig var nu Nicodemo haattad, sem ædur er sagt, þa hañ kom til JEsum; Eñ hvert Eyrended vered hafe, er audsært af Lausnarans Andsvare, þoo ecke stande hanns Spurning wtþryckelega i Gudspiallenu, hann hefur ænn Efa viliad frædast af DRottne, med hveriu Moote hann kynni Guds Rijke ad erfa; Eñ DRotteñ, sem allt visse hvad med honum bioo, hañ svarar honum ecke eins og hinum Rijka Ungis-Manni, hiaa Matth. 19. er friette hann ad, hvad hañ giora skyllde so hañ mætti eignast Eilijft Lijf, hverium hañ vijsade til Logmaalsins, af hvers Verkum eingenn kañ þo Hoolpenn ad verda; Hvar fyrer? Af þvi hañ þoktest Logmaaled uppfyllt hafa; Ecke svo sem Pharisæis og Herodis Pienurum, er komu til hanns med vidlijkum Formaala og Nicodemus, enn þo fuller af Underhyggiu og Flaattskap, og spurdu ad, hvert ad leifdest ad giefa Keysaranum Skatt edur ei: Ecke svo sem Kiennemonnunum og Olldungunum, er spurdu hann ad, af hverium Myndugleika hañ kieñde, Matth. 21. DRottenn visse ad Nicodemus var i Logmaalenu noogu Froodur ad Gydinga Plagsid, þvi hann var Meystare i Jsrael, þar fyrer tefur hann ecke ad undervijsa honum i þvi sem honum var Aboota vant, og opnade honum enar Fyrstu Dyr Lijfsins Vegar, sem er Endurfædingenn. med þessum Ordum: Nema Ad Einhvor Fædest Ad Nyu, Pa Kañ Hann Ecke Ad Siaa Guds Rijke. Hier af maa siaa hversu megnt Faafræde ad drottnad hefur medal Gydinganna i Andlegum Efnum þegar Christur kom. Pad sijnest ad þeir hafe ecke þeckt Uppruna Syndena, Jafnvel þoott þeir mættu lesa hiaa

 David,

David, Ps. 51. J Syndinni em eg alin̄, og i Syndin̄i hitnadi min̄i Moodur med mier; Ecki Endurfædinguna, edur ætlad ad Umskurninn mundi vera heñar Medal af Gudi tilskickad, helldur soo sem nockurskonar wtvortis Teikn, med hveriu Jsraels Foolk være adgreint fraa ødrum Pioodum, þar þo Moyses segir þeim berlega, Devt. 30. Drottin̄ mun um̄skiera þitt Hiarta og þijns Sædis Hiarta til ad elska DRottinn Gud þinn af øllu Hiarta þijnu, og af allri Ondu þin̄i, soo ad þu lifer; Hvar ei kañ ad vera añad meint eñ þad sem Paulus um̄talar, Rom. 2. Er hañ nefnir Um̄skurn Hiartans sem er i Andanum og ecke i Book-Stafnum, hverrar Lofstijr ecki er af Møñum helldur af Gudi. Ur þessari Villu vill nu DRottin̄ fyrst hiaalpa Nicodemo; Og meigum vier Christnir Men̄ Odaudlegar Packir Gudi kuña, ecki einasta fyrir þad hann hefur Endurgietid oss til eiñar lifandi Vonar, sem Petur ad Ordi kiemst, 1. Pist. 1. helldur og þad, ad hvert Barnid aa medal vor aa Kost aa, ad nema þa Himnesku Speki um̄ Endurgietninguna og hennar Kraft, sem þessi Hæælærdi Olldungur vissi eckert af. Gud gæfi, ad bædi Kienni-Fedur og Forelldrar hefdu so mikla Astundan aa, ad briyna þvilijkt fyrir sijnum Børnum og hinum Einfølldu, so sem þad er lioost i Guds Heilaga Ordi! Þaa mundu Menn ecki svo oftlega flecka sitt Skijrnar Klædi sem Menn giøra, þa mundum vær hafa meira Traust i Mootgaanginum og i Freystingunum, af þvi ad vier erum Christo inplantadir og settir i hañs Rijki, og Kraftur Skijrnariñar mundi framar auglijsa sig i Endurnijungu Lijfdaganna og Deydingu Holldsins, helldur enn almennilega skiedur.

Þad er merkilegt, ad Endurlausnarin̄ brwkar þetta Ord; Ad Fædast ad Nyju. Skijrnin̄ er ecki nein̄ Stundar Þvottur, er giørir Mañ hreinañ um̄ Sin̄ fyrir Gudi, helldur verdur hin̄ Skijrdi nij Skiepna i Guds Augliti, og þar fyrir kallast þad Endurgietningar-Laug, Tit. 3. Hverrar Kraftur varir um̄ allann þess Alldur, Er ecki afrækir sinn Skijrnar Saattmaala, helldur kostar Kapps um̄ ad endurnlja hañ med Betrun Lijfernisins Daglegana. Sioaid til, Born mijn! Madurinn fædist i Heiminn daudur i Upprunа Syndin̄i, blindur i sijnum Saaluhiaalpar Efnum, þvi Holldlegur Madur skyniar ecki hvad Guds Anda er, seigir Paulus, 1. Cor 12. Er þad ecki þaa ad fædast ad niju, ad Heilagur Andi i Skijrnin̄i upplijsir Hugskotid, Endurskapar Viliann, og giefur oss nijar Andlegar Gaafur, ad vier faaum sied Guds Rijki, þeckt þad i Trwnñi, samsinnt þvi er um̄ þad talad verdur, ad vier leitum þess, laangar eftir þvi, og ødlunst þad um̄ sijdir, hvad Omøgulegt er Holldi og Bloodi, svo sem Postulin̄ vottar, 1. Cor. 15. Spekingarnir segia, ad Madurin̄ sie Madur fyrir Saalarinnar Skulld; Þvi añars beri hann eckert af Kvikindunum; svo er hann og Guds Madur alleina fyrir Heilagañ Anda, er vier i Skijrninni medtokum, annars er hañ ecki einasta Skynlaus, helldur og daudur i Andlegahn Maata; Þvi er þetta Guds Verk rictt kallad Endurfæding. J Annañ Maata er oss kunnugt, ad vier fædunst i Heimi þeña Born Reidinnar, sem Paulus skrifar; Þañig er vor Naatturleg Fæding; En i Skijrninni verdum vier Guds Born; þar verda oss, fyrir alls eckert, alleina fyrir Jesu Christi Forþienustu, Syndi-

nar fyrirgiefnar, enn vier riettlættir fyrir hans Naad, og til Arfs teknir med Guds Syni; Hvi so wtmaalar Paulus Endurfædinguna, Tit. 3. Segied mier: Er ecki slijkt ad niju fæddur ad vera? J Hridia Maata, innibindur og Skijrninn i sier Avoxt Endurfædingarinnar; sem er Endurnijunginn, hver ed Daglega aa fram ad koma og i Voxt ad fara, fyrir hvoria Madurinn Endurfæddur verdur ein nij Skepna, 2. Cor. 5. skapadur i Christo til goodra Verka i Skijrninni, enn iklædist Daglega einum nijum Manni, sem Endurnijast eftir hans Mynd er hann skapad hefur: og i þessu Þrennu er Endurgietningin foolginn, hveria DRottinn vill teiknad hafa med þvi Ordi, ad Fædast ad niju. Þo skal einginn so daarlegur vera, ad hann meini ad þad noog sie, ad færa Børninn aa Kyrkiuna, og laata þau þar Vatni ausa, og tala Guds Ord yfir, enn alldrei sijdann vekia i þeim Kraft þessa Himneska Medals med Gudrækilegri Uppfrædingu. Þolannlegra væri ad kasta þeim wt aa Morkina, og laata uppeta af Vorgum, sem þo er hinn versti Glæpur, helldur enn ad ala þad upp, sem Gud skapadi i Moodur-Lijfi, og Endurskapadi med Heilogum Anda i Skijrnar-Lauginni, Fiandanum til Þioonustu og honum i Braud, sem er Guds svarinn Ovinur. Umskorinn var Nicodemus; Endurgietinn var hann eftir þeirri Guds Skickan sem vardi allt til Christum, enn þo var hann so Ofroodur um sialfs sijns Endurfædingu. Meinar þu ad Barni þijnu, sem kannskie alldrei fær ad heyra nema Faavitskuna, þvi muni betur farnast enn þessum Lærda Manni? Nema þu alir þad aa hinni hreinu og skynsamlegu Mioolk Guds Orda, sem Petur umtalar, 1. Pist. 2. ef þu ert fær þar um; og siert þu ecki, sem eg dylst ecki vid ad margur muni vera, hvad Gud betri! þaa skammast þijn ecki ad gaanga med Nicodemo, jafnvel aa Naattar-Þeli, þad er heimuglega, ef þu blygdast vid ad giora þad Opinnberlega, þar þu ert gamall vordinn, til Christi Þienara, edur annarra sem betur vita, til ad læra Frædi þa, er þier maatt ecki aan vera, so þu faair hoolpid bædi þinni og svo þeirra Saalum, er þier er tiltrwad; nema þu vilier kveliast aasamt þeim, i eilijfum Helvijtis Loga, sem Gud hafdi bodid þier med Christeligri Uppfrædingu til Himnarijkis ad leida.

Ecki fær Nicodemus þetta so braadt skilid, er Jesus sagdi honum, og þvi talar hann um Holldlega Fædingu, honum þookti þad Ofgar, ad Madurinn Skylldi hverfa aftur i Sinnar Moodur-Kvid, Nær hann er Gamall; Og Fædast Svo Ad Niju. Enn þoott þad væri so laangt fraa hans Þanka og yfirgeingi hans Skynsemi, er Jesus taladi, samt forlætur hann ecki DRottinn ad helldur, og vill heyra meira hier um talad. Olijkur var hann þeim, sem aa vorum Dogum ecki vilia laata sier i Guds Ordi undirvijsa; St. Paals Spaa er rætt aa þeim, er hann seigir, 2. Tim. 4. Ad þær Tijdir muni koma, ad þeir muni ecki lijda Heilsusamlegann Lærdoom: þeir hlaupa i Felur nær þeirra Christinndoom aa ad rannsaka, þeir skioota Børnum sijnum undann, nær þvilijkt skal um Hond hafa, þeir hæda ad Kiennendunum, nær þeir i slijku vilia giora sitt Embætti, og hroosa þvi hver fyrir odrum, ad þeir aa einhvern Haatt hafi gietad sloppid fraa þvi ad laata Leidseigia sig til Himna-Rijkis. Þetta giora nockrir af þeim aa medal vor, sem bædi eru

 slijkd-

Kijrdir og gaanga til Guds Bords, Þrisvar, Fiosvumsinnum a Are hverju, eñ veidast Guds Þienara, ef hann vill ecke leisa þeim og Bornum þeirra, ad eta og drecka Holld og Blood DRottiins sier til Fordæmingar. Þu Vitfyrringur! Munt þu þa helldur vilia til Helvijtis fara, og þar eiliflega brenna, enn ad liaa Eyru þijn Hailsusamlegri Kienningu, svo þu mæiger þinna Saaluhialpar Medala verduglega niotande verda? Edur villt þu leida þinn Kienne-Fodur i þann Saalar-Voda, ad hañ hafe Altared til ad syndga, eins og Ephraim? Þad giora þo aller þeir ed þaa vijsvitande til Altares-taka, sem þess Overduger eru. Ecke styggest DRotteñ vid þessa Einfelldne Nicodemi, hann vill ecke þenna braakada Reyr i sundur briota, helldur til þess, ad upprata þessa Faavitsku wr hanns Hiarta um lijkamlega Fædingu, þa seger hañ hverneg þessare andlegu Endurgietningu sie vared, med þessum Ordum: Nema Ad Einn Endurfædest Af Vatne Og Anda, Þa Kann Hann ecke Ad Inngaanga J Guds Rijke. Hañ Blessadur hafde þa allareidu skijrast laated nær þetta skiede, og Johannis Skijrn hefur Nicodemo alkunnug vered, þa var og Logmaal Umskurnarennar afmaad, svo ad i Christo gilldte hverke Umskurn nie Yfer-Hwd, þvi Tijme Endurbootarennar var komenn, sem Paulus umgietur, Hebr. 9. Enn Skijrnenn var aptur i hennar Stad iñsett, og DRotteñs Kvolldmaaltijd kom̃u sijdar i Stadenn Paaska-Lambsins, hver ed vara mun aasamt Skijrneinne þar til Verolld-þrijtur. Þess gietur Paulus, 1. Cor. 11. er hann bijdur, ad vier med þessu Himneska Gesta-Bode skulum kunngiora Dauda DRottenns þar til hann kiemur; Til þessarar Alvijsu Raadstofunar hinnar Haaleitu Guddoomsins Þrenningar, vijsar enn Frelsarenn þessum sijnum Læresvein, og leggur Orsokena til, sem þesse goode Madur hefur ecke aadur skyniad; Hvad Sem Af Holldenu Er Fædt, Þad Er Holld: Eñ Hvad Sem Af Andanum Er Fædt, Þad Er Ande. Þad er Upphaf Christenndoomsins, ad Madurenn vite ecke einasta ad hann sie spilltur ad nockru Leite af Uppruna Syndenne, helldur og olldungis i Syndenne daudur, svo ad vor Naattura verdur ad endurfædast med ollu, hvad Omogulegt er ad ske kuñe, nema fyrer Almættis Kraft Guds, er Mañeñ i fyrstu skapade riettañ edur heilagañ, svo sem hiñ vijse Salomon ad Orde kiemst, Eccl. 7. og þess vegna hefur vor goode Kieñe-Fader Lutherus laated Logmaaled undañ gaanga odrum Portum Christelegs Lærdooms, ad vier af þvi kynnum ad siaa vorn holldlegann Saurugleik, svo þad yrde þañig vor Typtunar-Meystare til Christum. Eñ Hvad Sem Af Andanum Er Fædt, Þad Er Ande; Þad er, þad sem Endurfædt er, og af Gude fædt, Joh. 1. J hverium Guds Sædeer, Joh. 3. þad er Ande: Ecke svo ad Hollded umbreitest i Anda, helldur verdur sa hinn same Andlegur Madur, eins og Adam vard ad lifande Saal, 1. Cor. 15. þad er lifande Madur, hann verdur einn Ande med Gude ef hañ aahaanger honum, 1. Cor. 6. og Foottredur ecke Guds Saattmaala, Jafnvel þoott ecke sie þess Von i þessu daudlega Hollde, ad vier alldeilis Andleger verdum, þvi sw er Glijmañ a mille Holldsins og Andans, er Paulus svo optlega talar um; Þad skiedur fyrst i Upprisu Riettlaatra, ad vier Andleger verdum til fulls, þa munu vorer Lijkamer Andleger og Englum

um jafner verda, og vorar Saaler eitt med Gude, ſem verda mun allt i øllu aa þvi Gleddennar Lande; Þvi nefneſt hun og Endurfæding hiaa Matth. 19. Cap. Þad er Uppreiſn allra Hluta, ſvo ſem Petur þad kallar, Act. 3. Viſſe DRottenn ad ei munde Nicodemo ſkiliaſt þetta enn nu, þvi ſegier hann hier ſtrax epter; Undraſt Ecke Ad Eg Sagda Þier, Ad Ydur Byriade Ad Nyu Ad Fædaſt; Og ecke einaſta ſegier hann þad, helldur þar ad auke framſetur hañ eitt Omootmælanlegt Dæme uppaa Faavitſku hanns, og añara daudlegra Manna, ſem langt eru fraa þvi, ad ſkilia þaa Hlute er þeir daglega umgaangaſt, auk helldur ad þeir ſkynia muneſþa Himneſku, er ſvo langt yfergaanga Mannlegann Skilning; Vindurenn Blæs Og Þu Heyrer Hanns Þyt, etc. DRottenn blies aa Læriſveinana og ſagde: Medtaked þier Heilagañ Anda. H. Ande kom i ſterkum Vinde yfer Poſtulana aa Hvijtaſunnudogum. Svo tekur nu Frelſareñ hier Dæme af þeim Hlut ſem Andanum var lijkaſtur, til ad hiaalpa Faafræde þeſſa einfallda Manns. Vier heyrum aller Vindenn þioota, vier finnum hanns Megn aa Lijkamanum, eingeñ ſier hañ þo, eingeñ veit hvar hann hefur ſijn Upptok, Vindurenn blæs aa ſømu Stundu i Imſum Stødum, af Auſtre og Veſtre, af Nørdre og Sudre. Seig mier, hvar hafa þeſſer Vindar ſijn Upptok? Hvert fara þeir? Hvar ſlotar þeim? Fyrſt eingenn hefur enn nu fundeſt ſvo vijs, ad hann giete ſagt oſs þad, hverſu munum vier þa ſkynia þad ſem miklu meir yfergeingur vorn Skilning; Enn Svo Eru Og Aller Þeir Sem Af Andanum Eru Fædder: Þeir finna Guds Anda Hræringar i Saalu ſinne, þegar hann ſtraffar Syndena, uppvekur Ydrañena, lijfgar Trwna, kveiker Elſkuna, efler Þolenmædena, og verkar adrar Chriſtelegar Dygder; Vier vitum og ad hann er fraa Gude komenn, af þvi Ritningeñ hefur ſagt oſs þad, eñ hvernig hann er fraa Gude wtgeingenn og i Hiartad komeñ, þad vitum vier ecke, þvi Guds Rijke kiemur ſvo þad verdur ecke adgiætt, ſegier Frelſarenn, Luc. 17. Ecke helldur vitum vier hvert hann fer, þvi Andenn fer i burt og kiemur iñ aptur, vier vitum ad hann færer oſs inn i eilijft Lijf, ef vier ſlockvum hann ecke, eñ þad Lijf þeckium vier ecke nema ſvo ſem fyrer Speigel og i Raadgaatu, þvi þad er Oſynilegt enn nu hvad vier verda munum, og vort Lijf er foolged i Gude, Col. 3. Þar fyrer ſaa ſem finnur Verkaner H. Anda i Saalu ſinne, og vill þo ecke Endurfædingunne trwa, þad er eins og vilde hann neita þvi ad Vindurenn blieſe, enn giæte þo ecke ſiaalfur aa Jørduñe ſtaded fyrer Oſvidre. Ef vier þvi neydumſt til Naatturuñar Verkum ad trwa, þoott ei ſkilium vier heñar Orſok eda Upptok; Þvi ſkylldum vier ecke giefa vora Skilningu fangna uñder Hlijdne Trwarennar i Andlegum Efnum, ſem ſvo miklu eru Oſkilianlegre?

Ecke ber Nicodemus aa moote þeſſum Vijsdoomsfulla Sannleika, er DRottenn talade, eñ þo vill hann frædaſt gior hier um, og þvi ſegier hann; Hverneg Maa Þetta Skie? Þar fyrer tekur Lauſnarenn til þeſs ſem ſterkaſt var, þad var hanns eigenn Vitnisburdur, ſem er i Fødurſins Skaute: Sannlega, Sannlega Segie Eg Þier, Vier Vitum Hvad Vier Segium, Og Vitnum Hvad Vier Sied Høfum. Eingenn Røk edur Vitne ſvo ſterk ſem þetta; Gud hefur þad talad. Þvi ſagde JEſus Fordum vid Gy-

unga

inga, Joh. 8. Þoott eg beri Vitni af sialfum mier, þa er þo mitt Vitni stødugt; Enn þetta vissi Nicodemus enn þa ecki; Hann sagdi ad sønnu i Ondverdu Samtalinu; Meistari, Vier vitum Þu Ert Einn Lærifadir Af Gudi, Þvi Einginn Kann Ad Giøra Þau Verk Sem Þu Giørir, Nema Gud Sie Med Honum. Hefdi hann sagt: J Honum, þa hefdi hann riett talad; Enn svo var hann enn þaa ecki upplijstur, þo byriadi hønum ad trwa Christo, þar hann jaatadi, ad hann være af Gudi, og giørdi svo mikil Kraftaverk; Enn DRottinn liet hann ecki leingi vada i Villu þessari; helldur skijrir hønum berlega fraa, hver hann sie, segiandi: Einginn Mun Uppfara Til Himins, Nema Hann Sem Ofann stie af Himni, Mannsins Sonur; Hver Ad Er aa Himni. Þetta Ord Ad uppstijga Til Himins, merkir i Ritningunni, ad rannsaka Guds Leyndar-Raad, svo seigir Agur til Ithiel og Uchal, Prov. 30. Þad er umm hann sem heitir Gud Med Oss og saa Maattugi, þad er Christur; Hver mun uppfara i Himininn, og ofann þadann? Þad er, hver mun Guds Leyndardooma rannsaka? Þar umm talar so Moyses, Devt. 30. Þad Bodord er eg bijd þier i Dag, þad er ecki hulid fyrir þier, edur laangt i burtu, þad er ecki i Himninum, svo þu seigia þurfer: Hver mun fara fyrir oss upp i Himininn? Þau Ord wtleggur St. Paall, Rom. 10. Þegar hann hefur aadur talad umm Leyndardoom Mannsins Riettlætingar fyrir Gudi, Cap. 9. Þu skallt ecki seigia i Hiarta þijnu; Hver mun fara fyrir oss upp i Himininn? Þad er ad toga Christum ofann wr Hædunum. Hvar fyrir? Þvi hann var Einusinni ofann til vor kominn, og færdi oss þessa Himnesku Speki wr Skauti Fødursins; þvi þurfti einginn upp aftur ad fara i Himininn, til ad rannsaka Guds Vilia umm Mannsins Saaluhiaalp; þad er hid sama sem DRottinn segir hier Nicodemo: Eg sem ad vid þig tala i Lijkingu syndugs Holldsins, ad Hegdan fundinn sem Madur, og er ofannkominn af Himni af mijns Fødurs Skauti; Eg veit hvad eg segie, og vitna hvad eg sied hefi, einginn annar mun uppfara i Himininn til ad rannsaka Guds Vegu, nema eg sem nu er aa Himni, þoott eg hier vid þig tali, þvi byriar þier mijnum Ordum ad trwa, ef þu villt hoolpinn verda. Þessi er Efalaust Meining Frelsarans, þvi einginn hefur umm Alldur Gud sienann, saa eingietni Sonur Fødursins, sem er i hanns Skauti, hann hefur oss þad opinberad, segier Joh. Cap. 1. Enn Lijka Sem Moyses Upphoof Høggorminn aa Eydimørku, Svo Byriar Mannsins Syni upp Ad hefiast, segir Frelsarinn. Einhver mætti adspyria: Hvad kiemur þessi Fyrirmyndan hier vid? Einginn er betri, Christinn Madur, i øllum Fiaarsioodum Ritningarinnar, einginn sem betur hlijdi uppaa þad Efni, sem hier var umtalad, þvi valdi Frelsarinn hana til ad sannfæra Nicodemum med, hver hann vissi ad var uppfræddur i Løgmaalinu. Paulus segier, Hebr. 9. Er hann þijdir Gamla Testamentisins Foornir uppaa Christum, sialfur Gydingur fyrir ødrum Gydingum: Hversu miklu framar mun og Bloodid Christi (segir hann) sem fyrir hinn eilijfa Anda hefur Foornfært sialfann sig Oflekkadann Gudi, hreinsa Samvitsku vora af daudlegum Verkum, til ad þiena Gudi Lifanda. Segid mier, hvar verda vorar Samvitskur fyrst hreinsadar?

Syrn=

Skijrninni, Þar fyrir kallar Petur hana Sáttmála goodrar Samvitsku; Fyrirhvad verda þær hreinsadar? Fyrir JEsu Blood, sem vitannlegt er af Postulans Ordum, Er strax voru lesinn; Hvar gaf Frelsarinn Þad wt? J Grasgardenum, i Pijning-Hwse Pilati, Enn allra hellst á Krossens Gálga, þvi þar blæddi sialfu Lijfinu til Olijfis, og Daudi hanns var Fullkomnan vorrar Hreinsunar; Þvi sagdi hann undir Andlátid; Þad Er Fullkomnad. Hver Fyrirmyndan gamla Testamentisins hlijdir nu best uppá Krossfestingu DRottins? Einginn betur enn þesse, nær Moyses, eptir Guds Bode, Upphoof Eyrorminn á Eydimörku; Moyses heingdi Ormiñ uppá Tried, svo er og JEsus á Gálgann uppheingdur; Uppá Tried bar hann vorar Syndir, og festi þar Handskriftena þa sem moote oss var, Col. 2. J þeim Orme var eckert Eitur, þoott hañ være hinum ödrum lijkur. Guds Son er ad allre Hegdan fundeñ sem Madur, þo án Syndar; Hann er fyrir oss synduga Orma Madkur og ecki Madur vordinn, Jafnvel þoott hann væri Hreinn og Heilagur, og fráskilinn Syndurunum; Já, þoott hañ ecki vissi af Synd, þa giördi Gud hann ad Synd, svo vier yrdum Guds Riettlæti i honum, 2. Cor. 5. Allir þeir ed litu þann Eyrorm, sem Moyses uppfesti, þeir urdu læknadir af Eitur-Orma Bitinu. Þu, minn HErra JEsu, ert á Tried upphafinn, so ad allir þeir ed þig lijta Trwarinnar Augum, þeir verdi læknadir af þvi Biti, er hinn slægi Höggormur Diöfullinn beit vora Fyrstu Moodur med, og oss sijdann Daglega bijtur; Þvi segier hier og i Gudspiallinu: Svo Byriar Mannsins Syni Upp ad Hefiast, svo ad Allir Þeir Sem A Hann Trwa Fyrirfarist Ecki, Helldur Hafi Eilijft Lijf. Þu hefur sagt, DRottinn minn; Ef eg upphafinn verd, mun eg draga alla til mijn, Joh. 12. Þad er ecki Gydinga einasta, helldur alla þa af öllum Þioodum, sem þinn Fadir hefur þier giefid. Svo drag oss þa, HErra JEsu, sem bwum i þessu fátæka Landi, hveria þu eins vel leyst hefur med þijnu dijrmæta Bloodi og adrar Þioodir; Drag oss (segie eg) undir þinn Kross, ef þier so lijkar, Já, uppá Krossinn med þier, Ef þad má til þinnar Dijrdar gagna og vorrar Sáluhiálpar. Þad er oss fyrir minnstu þijnum minnstu Vesælingum; Vier vitum þu sagdir vid Gydinga: Þegar þier hafid Mannsins Son upphafid, þa munud þier þeckia ad Eg em hann, Joh. 8. Þvi trwum vier ad þu ert, DRottinn miñ, ad sigrudum Dauda, Diöfle og Helvijti, yfer alla Himna hafinn i þijna Dijrd, til ad bwa oss þar Viist þijns Födurs-Hwsi. Drag oss þangad med þier, O! HErra JEsu,

Svo ad hvar sem þu ert, þar meigi og þijnir Þienarar vera: Þier med Födur og Heilögum Anda, sie Valld, Heidur, Dijrd og Kraptur, þu Háleita Guddoomsins Þrenning um Alldir Allda, Amen.

# Fyrsta Suñudag epter Trinitatis.

Gudspiallid, Luc. 16. Cap.

I Þañ Tijma. JEsus sagde til Pharisæaña: Þar var eirn Rijkur Mañ, sem klæddest Pelle og Purpura, og lifde hvørn Dag i Vellistingum Pracktuglega; Og þar var eirn Purfa-Madur Lazarus ad Nafne, hver ed wte lꜳ fyrer hañs Dyrunum, fullur Kauna, hañ gyrntest ad sedia sig af þeim Molum, sem fiellu af Borde hiñs Rijka. Þa komu Hundar og sleiktu hañs Sꜳr. Eñ so skiede, ad hiñ Volade andadest, og vard boreñ af Einglunum i Fadm Abrahams; Eñ hiñ Rijke andadest lijka, og var greftradur. Eñ sem hañ var i Helvijte og Kvølunum, hoof hañ upp sijn Augu, leit Abraham ꜳleingdar, og Lazarum i Fadme hañs; Þvi kallade hañ og sagde: O! Fader Abraham, myskuna þu mier, og send Lazarum hijngad, ad hañ drepe hinu fremsta sijns Fijngurs i Vatn og kiæle Twngu mijna, þvi eg kvelst i þessum Loga. Og Abraham sagde til hañs: Sonur, hugleid þu, ad þu medtookst þid Gooda i Lijfe þijnu, og Lazarus lijka hid Vonda; Þvi hlijtur hañ nu ad huggast, eñ þu ad kveliast. Fram̃ yfer allt þetta, er, ꜳ millum vor og ydar, mikid Diwp stadfest, so ad þeir, sem hiedañ vilia fara til ydar, gieta þad ei, og eige þeir helldur þadañ frꜳ ydur, upp til vor komest. Og hañ sagde þa: Eg bid þig Fader, ad þu sender hañ i mijns Fødurs Hws, þviad eg hefe Fiñ Brædur, þad hañ skijre þeim frꜳ, so ad eige kome þeir i þeñañ Kvala Stad. Og Abraham sagde til hañs: Þeir hafa Moysen og Spꜳmeñena, heyre þeir þeim. Eñ hañ sagde: Ney, Fader Abraham, helldur ef nockur Fram̃lideña fære til þeirra, þa mundu þeir Ydran giøra. Eñ hañ svarade hønum: Ef ad þeir heyra ecke Moysi og Spꜳmøñunum, þa munu þeir ecke helldur trwa, þo ad nockur Fram̃lideñ upprise.

## Exordium.

Vilie ydur Audur til, þa heinged ecke Hiartad þar vid, segier David, Psalm. 61; Ecke fordæmer hann Audenn i siꜳlfum sier, helldur ofmikla Elsku ꜳ honum. Rijkdoomurenn er goodur þeim, er riett kañ ad brwka hann. Audur er Afl þeirra Hluta sem giøra skal, segier Cicero. Orlꜳtur Madur Fielaus, hann er eins og eirn Kappe Vopnlaus. Eckiann sw er lagde einn Pening i Guds Kistuna, hun lagde ad søñu meira enn aller hiner Rijku, þvi hun gaf af Fꜳtækt sinne; Enn hefdu þeir eins mikid giefid af siñe Audlegd, epter þvi sem Tala rann til, þa munde þad og af DRottne ecke sijdur vel hafa þeiged vered. Være Rijkdoomurenn ecke Guds Blessan, þa mun-

de

de hann ecke hafa heited honum til Launa sijnum Elskendum, er vardveita hanns Bodord, og ecki sæmt Astvini sijna þar med. Abraham, Isaac, Jacob, Joseph, Barzelai, hin Sunamiska, Joseph af Arimathia, og adrer miklu fleire voru Rijkismeñ og þo Guds Viner kallader: Eru þvi Audæfenn stoor Astgiof DRottenns, þvi segier Salomon, Prov. 10. Ad Blessan DRottenns giore Rijka, og Hormungenn mune ei naalgast þaa, þau eru Riettvijsum Manne til mikils Heidurs: Þvi segjer hann eñ þa aptur, Prov. 14. Audæfe hinns Vijsa eru hanns Corona; Med þeim kunnum vier Londum og Lijdum ad hiaalpa; med þeim faaum vier sett Born vor og Naaunga til Menta og Mannkosta, med þeim kunnum vier ad biarga Naaunganum i sinne Angist, med þeim gietum vier aflad oss Fie-Siooda aa Himnum, ef vier stundum epter ad vera Rijker i goodum Verkum, 1. Tim. 6. svo þeir medtake oss i Eilijfar Tialldbwder, ef vier giorum Gott þar af i sañe Trw, og i Guds Nafne, hvar fyrer ad sa ed Faatækum giefur, hann laanar DRottne, og hafa Menn alldrei betur vared Fe sijnu. Svo eru nu Audæfenn stoort Guds Laan og hanns Elsku Merke, nær þau Riettfeingenn eru og riett brwkud; Enn svo sem þau eru hinum Froomu og Riettvijsu til mikels Heidurs, svo eru þau hinum Ogudlega og Agiarna nærsta Oþorf og Skadsamleg; þvi segier DRottenn, ad Naaunglætesins Fie-Siooder sieu Elldur i Hwsenu: Jaa, þoott einn sie vel komenn ad Aud sijnum, enn brwkar hann þo Gude til Stygdar, til Ohofs og Metnadar, til ad underþrickia hinn Vesæla og Lijtilmagnann, og helldur honum til Okurs, og inne fyrir Verka-Mannenum, og hinum Faatæka, sem Gud hefur skipad ad ala, þa er hann Bolvanenne undervorpenn; þess gietur hinn Vijse med þessum Ordum: Sa ed prettar hina Riettlaatu aa vondum Veige, hann mun i sinne Glotun hrapa, og hiner Einfolldu munu eignast hanns Gootz: Jaa, svoddann Audlegd er hveriu Volæde argare, svo þad er Kongdoomur ad fara aa Vonar-Vol alla Æfe sijna, hiaa svoddann Rijkdoome. I þessa Dags Evangelio verda oss fyrer Siooner setter Tveir Menn, Einn Rijkur, Añar Faatækur. Vier vilium i Guds Nafne skoda 1. Dæme hinns Rijka, og svo hanns Afdrif. 2. Hinns Faatæka, og svo hanns Endalok.

Þu goode Gud, sem alleina Rijkur ert, hiaalpa oss med Rijkdoome Naadar þinnar, ad giora þetta Verk i þijnum Otta, fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

HAR Var Einn Rijkur Madur, segier Textenn. Rijkdoomureñ kann eingum af sialfum sier ad banna inn i Himna-Rijke, svo sem i Inngaangenum sagt er, þvi siaaum vier og i Gudspiallenu hinn Faatæka Lazarum i Skaute hinns Rijka Abrahams. Tokum Vanbrwkunena i burt, og mun Auduriñ ecke skada, giorunst rijker i goodum Verkum, og mun þad nockud til Himna-Rijkis gagna; Enn þad vantade þenna rijka Mann: Hañ Klæddest Pelle Og Purpura, segier Texteñ. Pell var eiñ Vefnadur Forkuñar væñ og Gullvægur hallden, hañ er nu eckl ad faa i Heimenum; Sama er um Purpuraññ ad segia, þad var eiñ Litur forkostulegur, tilbweñ wr Skiel-Fiskiar Bloode, og er nu

 ecke

ecke ad finna i Verolldenne. Hverttveggia þetta var Konunga Bwnadur og annarra Høfdingia, og leifdist ei Mwga-Mønnum ad bera. Þannig var Aaronis Bwnadur, og Høfud-Presta Gydinga, Exod. 28. Svo var Joseph klæddur, Gen. 41. Þetta Skart bar Daniel, Dan. 5. Þannig var Mardochæus bwinn, Est. 8. Enn um þenna rijka Mann stendur ecki i Gudspiallinu, ad hann hafi nockur þess-Hættar Madur verid, þad er og ecki lijklegt, þvi Frelsarinn mundi ei hafa til þess tekid, ad hann hefdi svo verid i Skart bwinn, hefdi hann verid Høfdingi nockur, þeim er soomt hefdi ad bera svo dijrmæt Klædi; Og var i þessu ecki lijtill Ofmetnadur. Satt er þad, ad Klædinn giøra eingann vondann nie goodann af sialfum sier, enn Fatnadurinn er Manninum giefinn til ad skijla Blygdan sinni, og vardveita Lijkamann fraa Kulldanum; Þvi mætti þad sijnast, ad sa sem kieppist vid ad bwa sig Tiguglegar helldur enn Virdingu hanns soomir, ad hann giori þad annadhvert fyrir Lauslætis edur Metnadar Sakir; Og er hverttveggia stoor Synd i Guds Augliti: Fyrir þvi mun þad ei Syndlaust vera, er Menn brwka til þess ad efla þessa Lesti med Mismunur i Klædnadinum aa ad vera, og var Fordum, til ad adgreina Virdingar Manna, og svo ec Raad fyrir þessu giørt i Lands-Løgum vorum: Hvad sem þar fram yfir er, þad er Osidsemi og Ranglæti, þvi þad er ad taka sinn Riett fraa þeim sem Ædre eru, ad svo miklu Leite sem þessum Hiegooma nemur. Eg vil segia, hvert sem ad einn er Kostum bwinn edur ei, þa syndgar hann ef hann klædir sig betur enn hanns Standi soomir; Sie hann vel ad sier um marga Hluti framar ødrum, þa spillir han miøg svo Agiæti sijnu, ef hann meinar þad verde aagiætara fyrir Bwningsins Skulld, þvi Salomon i allri sinni Dijrd var ecki svo skrijddur sem eitt af Akursins Liliu-Grøsum, og vier vitum þo, ad Gud hefur meira virdt hinn Aumasta og Heimskasta Vesæling aa medal vor enn þau; Enn vier eigum ad bera sømu Virdingu fyrir Hlutunum, og hann, sem þaa skapad hefur; Enn sie nockur einema Almennilega Kostum bwinn, og vill þo leita sier Fordilldar af Klædnadinum, þa er mikil Faavitska i þvi. Eg veit ad einn Asni verdur þo alldrei Hestur, þo Menn setie Gull-Sødul aa hann, og so verdur einn Daari alldrei viis, hvernig sem hann maalar sig utann. Þessi Osidur fer miøg so i Voxt i Landi voru smaamsamann nu nockur Ar. Ambaattinn vill eins klædd vera og Hwss-Mooodurinn, Þienarinn eins og Herrann, Sonurinn betur enn hanns gamli Fadir. Formeguninn, Mannskapurinn og Vijsdoomurinn er i burtu wr Landinu, enn Bwningur og Klæda-Snid eflest Daglega: Einn Skoola Dreingur kostar øllu til þess ad faa vænann Kiool, enn ad kaupa sier eina Book, Hvar af hann nockud Gott meigi læra, þar hyrdir hann ecki um. Og um alla Hluti fram, þa skulu vor Klædi skorinn vera eptir Framandi Þiooda Snidi, giætandi lijtid ad þvi, sem DRottinn segier skie skuli aa sijnum Slaatrunar-Deigi, ad hann vilie straffa alla þaa sem bwast Utlendskum Bwnadi, Zoph. 1. Hvad vill hier af verda um sijdir? Eg ætla DRottinn þurfi ecki ad leggia Høndina aa oss, Vær erum vorir eiginn Bødlar i slijku, svo ad lijkast er, ef þessu skal leingi fram fara, ad þad muni gaanga oss eins og þad gieck Judum, er þeir tooku upp Sidu Grickia, ad þeir urdu þeim ad Braad, Hverra Sidum þeir breyttu eptir, 2. Macc 4.

Fram

Framveigis stendur hier um̃ þenna Munadar-Kropp, Ad hann hafi Etid Daglega Skijnandi Kræsir. Eptir Textans Ordum er þad so: Hann hiellt sig Forkostulega Gladværann Daglega. Þetta maa skilia, ad hafi verid i Mat og Dryck og ødru O-Hoofe, Sem heyrir til Lijkamlegs Munadar. Nu er þad hier ad segia, Ad DRottinn hefur ecki bannad ad hafa Inndæli af sijnum Skiepnum i riettann Tijma og med Hoofi og Sidsemi. Sialfur var Frelsarinn ad Heimbodi Manna aa sijnum Hiervystar-Døgum i Cana i Galilæa, Hiaa Simone Pharisæara, Hiaa Zachæo og optar: Hvar fyrir, þoott hann væri hid fegursta Sparneytninnar og Hoofseminnar Dæmi, sem nockurn Tijma hefur skinid i Verølldinni, þa var hann þo af Illgiørnum Phariseis Ofneytslu-Madur og Vijnsvelgur kalladur. Jaa, hann liet sitt Blessada Høfud smyria med dijrmætu Salve, og þoott hann væri allra Hluta DRottinn, bædi aa Himni og Jørdu, þa mundi hann þad ecki giort hafa, Nema sliikt væri Leyfilegt nær þad er i Hoofi og med goodri Skickan brwkad. DRottinn baud sialfur i sijnu Løgmaali um̃ Laufskaala Haatijdina, Levit. 23. Þier skulud vera gladir fyrir DRottni Gudi ydar i Sio Daga, Hvert Løgmaal ad Moyses Itrekar, Devt. 12. Þier skulud eta fyrir DRottni Gudi ydar og gladir vera, þier og ydar Hyski, af øllu þvi sem þier riettid ydar Hønd til af hveriu DRottinn Gud hefur blessad þig. Og fram̃veigis i hinu Atianda Versi segier hann; Ad þeir skuli ecki eta innann sinna Porta aa Laufskaala Haatijdinni sijnar Korn Tijundir, eda Tijundir af Mustinni edur Oliunni; enn hann segir; Þier skulud eta þad þar i þeim Stad sem DRottinn Gud utvelur, þu og þinn Sonur og þijn Dottir, Þræll þinn og Ambaatt þijn, og Levitinn, sem er innan̄ þinna Porta, svo skallt þu gledia þig fyrir DRottni Gudi þijnum: Hvert Løgmaal Nehemias og Hezras Kiennimadur apturinnleiddu eptir Herleidinguna, Nehem. 8. Er þeir budu Foolkinu aa Laufskaala Haatijdinni: Etid hid Feita og dreckid sætann Dryck, og sendid þeim einn Part, sem eckert tilbwid hafa. Af þessu er audsært, ad hinn goodi Gud hefur ei bannad ad gledia sig i Hoofi, þo svo, ad Menn dyrki hann med Virdingu, og gledie sig med Otta, sem David bijdur, Ps. 2. Vijn og Vistir eru fyrir Manninn skapadar, ecki forgiefins, Helldur hønum til Unadsemdar og skickannlegrar Brwkunar, enn Vanbrwkuninn kiemur af Holldinu og af Fiandanum. Vid þetta Guds Eptirlæti aa nu Metnadur og Ohoof ens Rijka Sælgiætings eckert skylldt. Hier stendur, ad hann hafi halldid sig Forkostulega Gladværann Daglega: Þad er ad skilia, Hann var allur sockinn i Munad Veralldar þessarar, hyrdti eckert um̃ Gud, eckert um̃ sijnar Syndir, eckert um̃ hid komanda Lijf edur sinn Dauda, helldur hafdi hann Magann fyrir sinn Gud, svo sem Postulinn ad Ordi kiemst, Philipp. 3. Jaa; Riett eins og Esajas segir i 56. Cap. Komum, Laatum oss fylla oss af sterku Vijni og Morgun-Dagurinn skal þessum lijkur verda, og enn þa kostulegri: og vantar oss ecki þa i Landi voru, er hid sama giøra mundu, hefdu þeir Raad, eins og þessi. Eckert hyrda þeir um̃ sitt Embætti, eckert um̃ sitt Fram̃ferdi, Eckert um̃ Landsins Gagn, Eckert um̃ sijna Saaluhiaap, Eckert um̃ sijna Burtfør af Heiminum, svo



sem

sem hefdu þeir Feste-Bref af Andskotanum, ad þetta skule Æfeinnlega vara, Jaa, um ein-
gañ Hlut nema um Muñ og Maga, og þad sem þeir kuñe ad hafa til ad þioona þeim med,
Jafnvel þoott þad skule verda hripsad wt af Munne Naaungans med Ofbelldе og Raan-
gindum. Nu vorú þesser Lester hinns Rijka Sælkiera svo vonder og Fordæmannleger,
sem allareidu er nockud umtalad, enn þad jook ofnmiklu aa, ad hinn Vesæle Lazarus, full-
ur Saara og Kauna, laa Hwngradur fyrer hanns Dyrum; Og er Lijklegt, ad hañ hafe
nærsta Klædsaar vered, þvi saa sem eckert hafde til ad sedia med sinn Hwngrada Maga,
hañ mun ecke hafa miked haft til ad klæda hinn saara Lijkama. O! Hvilijk skielfeleg
Hardydge var þetta? Eckert þurfte þesse Gudlause Kroppur ad missa af sijnu Borde,
til ad sedia þenna Vesæling med, þvi hann gyrntest ad sediast af Molum þeim, er fiellu þar
af; Eckert af sijnu Pelle og Purpura, þoott hann hefde kastad einne Flijk aa hann (sem
hañs Þrælar villdu ecke bera) til ad hylia sijn Kaun med; Eñ þvi var ei svo vared: Hund-
arner voru myskunsamare helldur enn hann, sem Gud hafde giefed Vit og Skyn, og þar
ad auke Fullsælu Fiaar, þvi þeir komu og sleiktu Kaun hanns, og maatte lijklega segiast,
ad þeir mundu fyrr inngaanga i þaa Himnesku Jerusalem, Apoc. 22. hefdu þeir þar til
skapader vered, helldur enn þetta Villu-Dyr.

O! Gud giæfe, ad þeir sem hann hefur blessad med Audlegd Veralldar þessarar, þeir
villdu þo, segie eg, einhvern Tijma hugleida, hvad miked þeir eru Guds voludum Lim-
um skylldugег. Seig mier, þu sem vellter þier i Maurunum, og varla veitst hvad þu
skallt af þeim giora: Þegar þier var kastad inn i Heimenn under eins og Faatækis Barn-
enu, hvad hafder þu til meira unned af Gude helldur enn þad? Voru þid ecke bæder
eins i Syndenne gietner? Barst þu nockud meira med þier inn i Verølldena helldur enn
hann? Edur muntu meira i burtu bera? Hvar fyrer var Gud þa skylldugur til, ad
giora þig rijkann enn hañ Faatækañ? Ecke til þess, ad þu skuler Kappala þinn syndugañ
Bwk, eins og þesse Daare, ecke til ad bwa þig i Skart eins og hann, ecke til þess ad upp-
hefia þitt Hiarta edur festa þad vid Audenn, enn gleyma þijnum Broodur, sem ad
Naudstaddur er; helldur til ad dyrka sig þar med, og leggia svo miked af vid hann sem
Gud krefur, þvi hann er Hwsbondenn, enn hann krefur svo mikels, sem hinum Volada
maa verda hoolped med, og þu kañt vel ad missa, og þad jafnann nær þu sier edur heyrer
einn Naudstaddann; og nær þu þad sier edur heyrer, þa vit, ad þar er komeñ eiñ Skull-
da-Madur fraa Gude, til ad beidast þess, er hann laanad hefur, og þu hefur Ofmiked, en
hann maa vel biargast vid. Þegar þu krefur Skulldar þinnar hiaa Aumingia nockrum,
og hañ hefur þad ecke til sem hañ skal giallda, edur hann maa þad ei missa, aan sijns stoors
Baga, þa krefur hann þig under eins, i Guds Umbode, þeirrar Skulldar, er þu aatt
honum ad lwka, enn hann hefur Vesælingnum giefed; Laater þu hana ecke til, þa verdur
þu Skullda-Priootur Guds, Jaa, Þioofur i hañs Auglite, þar þu stelur wr siaalfs þijns
Hende, og hinn straange Hwsboonde mun krefia þig Avaxtar Fiaar sijns i Tollbwd-
eñe hiaa þeim Rijka Mañe, nær þu uppvaknar i Helvijte og Kvolunum, eins og hañ, ne-

ma þu brwker Raad Danielis, er hañ gaf Nebuchadnezar Konunge, Dan. 4. Og afplaanar Ranglæte þitt med Olmuſugiordum vid Fatæka; Heyr þvi Salomonis Ord, er hann ſegier, Prov. 3. Gleim ecke ad giora þeim gott, ſem byriar, nær þijn Hønd hefur Eyne þar a; Seig ecke til þijns Naunga: gack burt og kom aptur, a Morgun vil eg giefa þier, og þu hefur þad þo; Og laat þier þad ſagt vera, ad hinn Volade hefur miklu meire Riett til þeſs, er þu eignar þier, helldur enn ſiaalfur þu til ad brwka Guds Laan til Ohooſs og Metnadar, hvert hann margfalldlega bannad hefur. DRottenn ſegier fyrer Muñ Hoſeæ, uñ Gydingaña Samkundu, Hoſ. 2. Hun veit ecke ad eg er hañ, ſem gief henne Korned og Muſtena og Oliuna, og fæ heñe anægiañlega Silfred og Gulled, er hun giorer Baal af. Þetta a miog ſvo vel heima hia þeim, ſem Gud hefur feinged i Hendur alls Nægter Fiaar, enn þeir draga þad af hanns faraadum Limum, i hverium hann ſkipad hefur ad dyrka ſig, enn brwka þad til ad ala ſinn Lauſlaatann Kropp, til Nidur-Dreps honum ſem Rangindenn lijdur, til ad hefna a Ovinum ſijnum. Þeſſer giora Baal wr þeim Hlutum, ſem gooder eru i ſiaalfum ſier, og ſetia hann i Guds Kyrkiu, ſem vera atte Hiarta þeirra, þad er hina orguſtu Svijvirdingu Foreydſlunnar i þann Stad ſem ætte ad vera hinn allra-Helgaſte. O Gud betri vorar Tijder! Satan hefur Kaupmenn ſijna i Guds Kyrkiu medal vor, þad er i Mannanna Hiortum, hveria hann giort hefur ad Ræningia-Bæle, ei ſijdur enn Gydingar Fordum Muſtered; Enn hvad ſelia þeir þa og kaupa? Þeir ſelia hiñ Riettlaata fyrer Peninga og hiñ Volada fyrer eina Skoo, þeir troda Hoſud Fatækra i Saurenn, og uñturna Vegum þeirra Hæglaatu, Amos 2. Enn uñ ſijder ſelia þeir ſijnar eigenn Saaler. Þeſs gietur Syrach i 10. Cap. med þeſſum Ordum: Eckert er Rangláatara Fiegiornum Manne, ſegier hann, þvi hann lætur ſala Saalu ſijna; Þar fyrer ſegier Frelſarenn, ad lijted gagne þad Manninum, ad hañ eigneſt allañ Heimeñ, og lijde Topun a Saalu ſinne: Hvar uñ þeſſe Rijke Madur maa ollum þeim liooſt Dæme vera, er elſka Kroppenn meir enn Saalena. Ecke ſtendur hier i Gudſpiallenu, ad hann hafe vered illa komenn ad Aud ſijnum. Þad var hañs Fordæmingar-Sok, ad hann brwkade hann til Ohooſs, enn gleimde hinum Naudſtadda og Faraada. Nu, ef hann fieck ſvo ſkielſelegann Doom, hvad vilia þeir þa ſegia a medal vor, ſem ecke einaſta ſtijnga wr ſier Augun, nær þeir ſia einn Purfamann, edur annann, ſem vinnur Bake brotnu fyrer þvi er þeir brwka til Munadar ſier, helldur og ryna Guds Volada Saude, og eta ſitt Braud i þeirra Andlitis Sveita? Hvad munu þeir ſegia vilia? Hvers munu þeir vænta ſier, nær þeir eiga ad ſkilia vid allt þad, er þeir med Rangindum hafa ſamanndreiged? DRottenn ſegier vid Konungeñ af Tyro, Ezech. 28. Þu ſegier: Eg em ſterkur Gud; Eg by i einu Guddoomlegu Herberge; Eñ ſkomu ſijdar verdur honum ſagt: Muntu nockud ſegia vid þinn Veganda; Eg em ſterkur Gud? Laangtum eru þeir minnie Mattar enn Konungurenn af Tyro hia oſs, er ſig giora nærre þvi ad Gudum, þegar þeir uppheſia ſig yfer Guds Ord og Konungſins Log, þegar þeir fella hinn Saklauſa, enn heſia Skalkenn, og þyker ſvo ſem þad ſtande i ſijnu Vallde ad raada

fyrer

fyrer hvers Mañs Giæfu og Ogiæfu, Enn þegar Daudinn kiemur svo sem ein Volldug Hetia og kastar þeim i Bana-Sængina, þegar Samvitskann tekur til ad bijta, þegar Minning Glæpanna tekur ad Ofbiooda þeim, þegar Satan, sem hefur flekad þa til allzkonar Odæda, þegar hann reidir Svipuna til, og synir þeim Helvijtis Loga, hvar hinn Rijki kvelst og kveliast mun um Alldir Allda, enn Guds Reidar-Þruma slær af Himnum ofann, mun þa vesæl Manneskia segia: Eg em sterkur Gud? Heyrid þetta; O! Þier sem wtsiwgid Hws-Eckna og Fodurlausra, og leitid DRottinns æ medann hann er ad finna. Hinir Agiornu og Ofrijkismennirnir eru med Tvennu Mooti, sumir færa Foorir Neti sijnu, og brenna Reykelsi fyrir sijnum Veidarfærum, þviad fyrir þau er þeirra Hlutur feitur vordinn, og þeirra Matur hinn besti, svo sem Habacuc ad Ordi kiemst i 1. Cap. Þetta, eru þeir sem reikna þad til sinni goodri Forsioon (riettara ad segia, Raangsleitni sinni og Undirhyggiu) ad þeir eru rijkir vordnir, og feitir af annarra Braude. Adrer eru þeir ed segia, Blessadur siert þu DRottinn, þad eg em rijkur vordinn, en drepa þo Slaatur-Saudina med Ofbelldi, og einginn er saa sem ad fædi þaa edur brwki Medaumkan med þeim, eins og þessi sami Spaamadur ad Ordi kiemst. Þetta eru þeir, sem af Gudi og enn hærsta Valldi eru yfir adra settir, til þess ad þeim lijdi vel, enn giora þo eckert þad sem Gud og Konungurinn bodid hafa, helldur leta i krijngum sig eins og Ulfar og Byrnir, og sijna þeim einga Myskun er undir þeirra Valldi stynia, helldur kalla, ber hijngad, ber hijngad, og nær þeir hafa svo druckid Blood Vesælinganna, þacka þeir Gudi svo sem fyrir Riettfeingin Sofn. Hverier af þessum verri sieu, er eigi svo audvellt ad segia, nema þad, ad Hræsninn giorir hina sijdari andstyggilegri i Guds Auglyti, þvi af Tvennu illu þa er skaarra, ad eigna Hreckvijsi sinni Klækina helldur eñ Gudi. Hitt veit eg, ad hann segier um þessa hverutveggiu, Hab. 2. Vei þeim er safnar þvi sem ecki er hanns (hvar skal þad lenda?) og þeim ed samanndraga hinn þietta Leyr. Vei þeim sem er giefinn fyrir Raangfeingnum Abata fyrir Hws sitt, ad hann bwi Hreidur sitt i Hædunum, ad hann verdi frelsadur af Valldi hinns Vonda, þu hefur eitt skamarlegt Raad tekid fyrir þitt Hws, og upprætt margt Foolk, og hefur syndgad æ mooti sialfum þier, þvi Steinninn i Veggnum hroopar þad, og Kvisturinn i Trienu vitnar þar um: Eg veit þar er margur er segir, eg safna ecki til þess ad giora eins og þessi Rijki Madur, eg helld mig sparlega, eg er ecki Sydslusamur; Þad er gott ef þu safnar Riettilega, og giorir gott hinum Volada, enn ef þu safnar einasta fyrir Erfingia þijna, og þad med Riettu og Raungu, þa maa ælijka gyllda, hvort ad Moab liggur æ Dreggium sijnum, edur og ad hann fagnar i sinni Spyu, og verdur til Athlaaturs, Jer. 48. Þvi skylldi eg steypa mier til Helvijtis fyrir minn Erfingia, J þeirri Von, ad hann skuli lifa vel eptir mig daudann, og eg veit þo ecki hvort af þvi verdur edur ei, þvi kannskie mijn Ogudleg Bwksorg giori hann verri i þvi, ad hann misbrwki þad til Ohoofs er eg med Raangindum safnadi, og eg kynni þar med ad leida hann til Helvijtis med mier, þoott þad verdi ecki um sama Veg og eg foor; Og hvernig sem þvi er varid, þa plagar Guds Straff ad fylgia

svoddañ

svoddañ Raangfeingnum Aud, i þar eru Þusund Meler i hveriu Alnar-Virde, sem ecke verda i burtu teknir, nema Erfinginn giori sier Vini af þessum Raanglætis Mammonolia, og vil eg þa helldur giora þad sialfur medann eg lifi, svo þeir medtaki mig i eilijfar Tialldbwdir, helldur enn eiga þad undir honum, sem þo gietur ecki leyst Saalu mijna wr Helvijti, med ollu þvi sem eg honum eptirliet. Þad segiest um̃ hinn rijka Purpura Gyck, ad han hafi Pelli klæddur verid; Þad verdur ecki svo Greinilega sagt aa vora Twngu, hvad þad Ord þijdi, er i Textanum stendur; Enn um̃ vidlijkann Vefnad skrifar Plinius, ad hann brenni ecki i Elldinum, þvi voru Lijk Konganna sveipud þar i, aa hinni gomlu Brenni-Olld, ad ei blandadist þeirra Aska med Vidar-Oskunni. Meigi eg skiemta um̃ hinn Oskiemtilegasta Hlut, þa villdi eg segia, ad þessi Daari hefdi giort vijslega, hefdi hann tekid nockud af þessum dijra Vefnadi med sier til Helvijtis, hefdi þad maatt hlijfa honum fyrir Loganum sem hann kvalldist i: Enn Einglarnir voru fwsari til ad bera Lazari Saal i Abrahams Skaut, helldur enn Dioflarnir til ad færa hanns Pell og Purpura og allt annad Oflæte med honum. Lazarus skilde sinn Armood epter vid Dyr hinns Rijka, enn hiñ Rijke sijna Fe-Dijngiu i sijnum kostulega Garde, og hrapade so Fwll og Felaus i þad Dijked sem rijkur af Elldi og Breñesteine: Somunu og aller þeir giora, er laata hanns Laatum i þessum Heime, eñ forsmaa hiñ Naudstadda og Oreigañ, og laata hañ jafnvel i Hwngre wt af deya, aa medañ þeir ala sinn giaalijfann Kropp til ad verda Helvijtis Ellds-Matur og Brenne-Foorn Andskotans. Og er svo þanneg wt-talad um̃ hinn Rijka.

Nu Eptirfylgir ad taka med faam Ordum um̃ hinn Volada Lazarum Gudspiallid minnist hanns aa þeñann Haatt: Þar Var Einn Þurfa-Madur, ad Nafni Lazarus, Hvered Uti Laa Fyrer Hanns Dyrum, Fullur Kauna. Allt þad Volædi sem einñ Mañeskiu kann til ad falla, hefur aa þessum Manni laigid: Hann var Faatækur, þad var mikil Vesolld, þad er þad sem flestir af oss veria sig hvad mest fyrir, og nockrir selia sijna Arfleyfd, i Himnenum, til þess, ad vera ecke Faatæker i Heimenum: Svoddann ein Hormung þyker Orbyrgdenn Maña aa medal, þvi seger Salomon, Prov. 15. Aller Dagar hins Faatæka eru illir. Textinn segir: Ad honum hafe verid kastad nidur hiaa Dyrum hinns Rijka, eins og odru Hræi, sem einginn hyrdte um̃, meir enn þo daudum Hundi væri wtkastad. Svo breyta Menn vid Guds Mynd, þegar hun bijr i liootu Hwse, og virda Hwsboondann eptir Herberginu. Þessi Forsmaan hefur og maatt auka miklu ofann aa Volædi þessa faaraada Manns, og hefur þad geingid hier eins og Salomon segier, Prov. 19. Brædur hinns Faatæka hata hann, og Vinirnir vijkia i burt fraa honum; Enn þad took yfir alla hanns Eymd, ad hann var fullur Kauna, og svo Aumur, ad Hundar sleiktu hanns Saar. Magiñ hefur kañskie verid Heilbrigdur, og þvi hefur hann gyrnst ad sediast af Molum þeim, er duttu af Bordi hinns Rijka; Enn allir adrir Lijkamans Limir svo plaagadir, ad hann gat einga Biorg sier veitt, og hefur Magans Heilbrygdi ecki annad giort, enn afla honum þess meiri Pijslar med Hwngrenu

 renu

renu og Matar-Lystinni, þar hann feck eckert ad sedia sig af. Saa sem heilbrygdur er, hann gietur unnid sier Mat, þo hann sie faatækur. Forsmaan Verralldarinnar er ecki so þrwngt ad lijda, þeim er hægt ad forsmaa Heiminn, sem Heimurinn forsmaair, Og er þad þa Kaup Kaups, sem Menn plaga ad segia. Þvi vottar og Paall um sig, Gal. 6. Ad hann sie krossfestur Heiminum og Heimurinn sier, þad er, ad hver forsmaai annann: Eñ þad er hverium Mootgaangi meira, þegar Gud tekur svo Heilsuna af nockrum, ad hann gietur ecki borid edur raadid sialfum sier, þad geingur nærst þvi, ad vanta Hugsvolun Guds Anda, og finna ei til hennar, nær Mann laangar þar eftir, þvi soddañ er Helvijtis Pijslum lijkast. Þessu gat Satan nærri Fordum Daga, er hann sagdi vid Gud um Job, Job. 2. Snert þu hanns Bein og hanns Kiøt, og siaa hvert hann bølvar þier ecki undir Augunn. Skuli Menn og satt seigia, þaa fleckst þessi Guds Madur ecki so mióg þar um, þoott hann misti Fiaar-Hluti sijna, Syni og Dætur sijnar, edur þoott þeir af Saba og Caldæa veittu hønum Yfergaang; Enn þegar Gud leid Andskotanum ad slaa hann med hinum verstu Kaunum, fraa Hvirfli og allt til Ilia, þaa took þessi DRottinns Vinur, helldur enn ecki, ad laata sier Hug fallast. Svo var nu Lazarus aumur, sem sagt er, og øll hin þijngstu Mootlæti Verralldarinnar laau aa hønum, Ørbyrgd, Klædleysе, Hwngur, Forsmaan, og Lijkamans Vanheilsa. Eñ þu, syndugur Madur, sem ert heill og hraustur, hefur noog til ad klæda og fæda Lijkamann med, og ert af eingum Ovirdtur i neinu, munt þu ecki hafa Orsøk til ad þacka hinum lifanda Gudi? Þegar þu aalijtur þetta Vesæla Hræ, nidurkastad fyrir Dyrum hinns Rijka, og eckert Auga mys-kunadi hønum, ad hann so vel giørir til þijn, ad þig vantar eckert af þvi, sem hann allt vantadi; Munt þu nockud vera Heilagri, helldur eñ hañ? Eg veit ecki hvilijkur hann verid hefur; Þad sie eg, ad hañ hefur Guds Vinur verid, annars hefdi ecki Saal hanns verid borinn af Einglum i Abrahams Skaut: Eñ hitt veit eg, ad ecki ert þu Heilagri eñ Job, hver ed hefur Guds Vitni um þad ad hann hefdi ecki sinn Lijka i Landinu, Job. 2. Hveriu mun þa vera ad þacka, ad þu ert ecki eins plaagadur sem Job og Lazarus, nema Guds Orannsakañlegri Giædsku og miklu Þoliñmædi, sem med Rijkdoomi siñar Laang-lundar dregur þig til Ydranar? Seig þvi ecki eins og Ephraim: Eg em rijkur vordinn, allt mitt Erfidi nægir mier ecki, þeir ed syndga, bera Straff Syndarinnar, Hos. 12. Miklu helldur nær þu stijgur aa þijn hraustu Bein, þa hugsa til þess, ad Gud hefur ecki Velþocknan aa þeirra Styrkleika, helldur aa þeim, sem hann Ottast. Nær þu telur Fe þitt, edur skodar þinn Klædnad, þa Hugleid, ad Lazarus aa af þvi svo mikid, sem hann vid þarf, og ef þu hefur Tvenn Klædi, þa heyra hinum Nakta oñur til; Ef þu villt vera Johannis Baptistæ Lærisveinn, Luc. 3. Þegar þu hefur hid mesta Gaman af Skilningar-Vitunum, sem Gud hefur giefid þier til Naudsynlegrar Brwkunar, þegar Tungann, Augunn, Eyrun og adrir þijnir Limir, eru þier til hinnar mestu Skiemtunar, þa laat jafnvel þessa Guds Skapnadar Misbrwkan minna þig aa Lazarum, þar hann liggur nidurkastadur, eins og annad Daudyfli fyrir Dyrum hinns Rijka, og hefur einga

Bærd

Værd fyrir Saurum og Verkum. Þecktu hann medan hañ er hiaa þier, ad ecki þurfer þu ad kañast vid hañ fyrst, nær þu uppvaknar i Helvijti og Kvolunum, sem þu ecki þeckia villdir aa medann þu liekst þier ad allri Fullsælu i Heimmum, jaa, medann þu hefur hina mestu Skiemtan af syndsamlegri Glede þessarar Veralldar, þa laat þier i Hug koma, hversu ad hun sie eckert hiaa Sælu Lazari, þar hann badar nu i Abrahams Skauti; þvi hann sem best þeckir þa eilijfu Dijrdar-Vist, hver og hefur keypt oss hana til Handa med sijnu dijra Bloodi, hann bijdur oss, ad vier allann þennann Hiegooma skulum afsitijda, svo vier kunnum ad eignast hana; Jaa, hugsa til þess, ad Sællijfe þessa Heims maa ei leingi vera, og þoott þu yrdir allra Kalla ellstur, þaa skal þad briota, og þad er ecki laangvint, sem eitthvern Tijma Enda tekur; segir Augustinus, enn Lazari Gæstabod tekur eingann Enda. Vijslega hefur hiñ Stoori Konungur þvi tilskickad, svo sem ollu odru i sijnu Rijki, ad hann liet Pijslir Fordæmdra verda eilijfar, þvi væri þar Endurlausn wr Helvijti, þaa efast eg ecki um, ad margur Gudlaus Dææri mundi vinna þad til Stundlegs Munadar, ad fremia alla þaa Ohæfu, er honum i Hug kiemur, þoott hañs Hreinsunar Elldur ætte ad vara um allann Heims Alldur; og svo sem hann hefur i þvi Vijslega giort, svo hefur hann aa hina Sijduna Vægdarsamlega breytt vid þa, sem hañs Ok bera hier aa Jordunni, og halldnir eru Afrak Veralldar, og so sem nockurskonar Hreinsunar-Foorn, eftir Paals Ordum, þar hann ei einasta lofad hefur, ad þurka oll Taarinn af þeirra Augum, og ad Daudinn skuli ecki framar vera til, og ecke Sorginn og ecke Hrooped, og Mædann skule ecke vera framar, þvi ad þad umlidna sie burtu, so sem Johañes ad Ordi kiemst, i hanns Opinberunum, 21. Cap. Helldur þar ad auki skuli þessi Arfur ecki skiemast kunna, ecki saurgast og ecki rotna, svo sem Von er aa, þvi Christi Rijki mun eingann Enda taka, Luc. 1. Enn vier munum med Christo lifa og rijkia, og med DRottni aavallt vera, svo sem Guds Andi hefur oss heitid fyrir St. Paals Munn, 1. Thess. 4. Þvi hefdum vier ecki þessi Guds Fyrirheit, þa mundu þeir braadlega yfirgiefa sig, sem eru Guds Born, enn hiaa-Born Verralldarinnar. Takid ydur þad til Huggunar, DRottinns Vinir, sem erud Stallbrædur Lazari, þier erud faatækir eins og hann: Vardar mikid um þad, nær þier erud i Trwnni rijkir? Hvad gylldir ydur Audlegd Verralldarinnar, nær þier hafid hann eignast, sem Gud hefur giefid oll Endimork Verralldarinnar til Arfleifdar? Er eg þier ecki betri enn Tiju Synir? sagdi Elkana vid Konu sijna, Moodur Samuelis: Þegar þier hafid Christum i ydar Hiortum gietid, mun ydur þa nockud vanta? Mun hann ei verda ydur betri enn oll Rijki Verralldarinnar og þeirra Dijrd? Lazarus edur Eleazar, sem er hid sama Nafn, þad merkir þann, sem Gud er til Adstodar. Barn mitt, ef Gud er med þier, hver kann þa ad vera aa mooti þier? Mun nockud Jaarnid briota þad Staalid af Nordrinu, segier DRottinn vid Jeremiam, þegar hann heitir honum Lidi sijnu aa mooti Jerusalems Ossa, Jer. 15. So vil eg segia med David: Þegar Gud er med þier, hvad vill þier Madurinn giora? Þeir vega allir minna enn eckert, þeir kasta þier wt af Dyrunum, þeir

C villa

vilia ecki unna þier Vidtals, Hvad þa? Munu þeir kunna ad banna þier ad tala vid Kon-
ung Himnanna i Bænum þijnum? Munu þeir kasta þier wt af Dyrum Himnarijkis?
A medann þeir ecki þetta gieta, Barnid gott, þa ætla eg þu standir Jafnriettur upp i
Guds Augum, þoott þu liggir flatur fyrir Dyrum hinns Rijka. Hvad er nu framar?
Þu ert forsmaadur, lijdur Oriett, einginn vill kannast vid þig: Þad er ecki nijtt i Heimin-
um. Salomon, sem ecki vissi af mikilli Ovirdingu ad segia, hañ giorir Raad fyrir þvi,
svo sem hier ad framann er fyrir skomu sagt. Seig mier, af hveriu verdur þu Ovirdtur?
Af vondum Monnum: þad er ecki þwngt ad vera hæddur af þeim sem jafnvel ad Gudi
hæda; og undir eins þeir forsmaa þig, Þa forsmaa þeir Skapara þinn og þinn Endur-
lausnara, hvers Ok þu ber: Þu verdur af Heimskum Monnum Ovirdtur, þvi eingiñ er
Faavitska meiri enn sw ad forsmaa þann sem Gud hefur virdt med Teikni sijns Sonar:
Þetta sijnist mier liett ad bera, þvi eg mun ei faast mikid þar um̃, þoott einn Skiptingur
hlæi ad mier: Þu verdur af svo morgum Ovirdtur; Eg jaata þad, þviad fleyri eru Vond-
er eñ Goodir, Heimskir helldur enn Vitrir: enn þo ecki af ollum, Nockrir eru þeir sem giæ-
ta Guds og sijns Overdugleika, Vitandi ad þeir hafa hid sama verdskulldad, og eins
þeirra Doomur aa ad gyllda meira hiaa þier helldur enn alls hinns Skynlausa Mwga:
Þar eru goodir Menn i Verolldiñi, Er sama hafa til Brunns ad bera og þu, og gietur þu
þa huggad þig med Postulans Ordum, ad þijnir Brædur i Heiminum meiga lijda slijkt
hid sama. Hversu laangt mun Rykti þessarar Ovirdingar wtberast? Varla leingra eñ
um̃ þad Land er þu lifer i; Ef Rykti hinns Stoora Alexandri, og hanns Skoola-Meist-
ara Aristotelis, ecki naadi yfir um̃ Fiallid Caucasum, edur Fliootid Gangem, hvad lijtill
Partur mun þad verda þa af Heims-Byggdinni, sem þijn Ovirding gietur floged um̃?
Hversu faair eru þeir ed til hennar vita, hiaa hinum Oteliandi Skara Heilagra Eingla
og Utvalldra Manna, A medal hverra þu munt Dijrdlegur skijna, ef þu lijdur þessa
Stundar-Mijnkun Þolinnmoodlega. Enn hvad leingi skal hun vara? Allt til Grafar-
innar. Hversu minna er þad enn eitt Augnablik, ef þad er samannborid vid Eilijfdina?
Eg vil ei faa mier til Orda um̃ svo margra Heilagra Mañ og Guds Pijslarvotta Dæmi,
sem hloou ad Ovirdingu Veralldar þessarar, eñ þeirra Vegsemd og Heidur uppvaknadi
svo eptir Daudann, Ad Hiaatrw Faavijsra Manna hefur þaa nærri þvi ad Gudum
giort, hveria Verolldinn ecki hiellt verduga til ad þricka sijna Skoo i Lijfinu, og var þo
ecki þeirra verd, Heb. 11. Svo hlæileg er nu Alldar þessarar Virding, edur Ovirding! Ed-
ur; seig mier, hver er nu meir lofadur i Heiminum, Lazarus edur hinn Rijki Magans-
Þræll? Eg trwi flestir hroosi Lazaro meir, og jafnvel þeir sem hinum eru hvad lijkaster.
Nu kiem eg til þess sem flestum saarast þykir, sem er Heilsubresturinn, hann hefur marg-
ann Kappa yfirbugad; Enn þier, sem Guds Hetiur erud, og strijdid undir Frelsarans
Merkium, Giætid þess, Born Drottinns, af hverium ydur er Sigurdoomuriñ uppaa-
lagdur, sem er af ydar Skapara, hann hefur feingid Saalum vorum Lijkamina, svo sem
annad Herbergi til ad bwa i, og aa hann frialst ad umbreita þvi; og jafnvel aldeilis nid-

ur

urbrioota eptir Villd sinni. Hvad villt þu kieppa vid soddann Haatign? Og ecki mik-lu helldur Þolinnmoodlega lijda hvad hellst hann aaleggur: kannskie þu hafer, og sialfur ver-ed Orsök i þinni Vanheilsu med Giaalijfum og Ovørum Lifnadi; Og seig mier þa, hvad hefur þu ad klaga? Mun þa ei Raadlegast ad þu ydrest Synda þinna, og lijdir þad med Christilegu Umburdar-Lyndi, er þu fyrir þeirra Skulld lijda maatt, Og laatir þannig, Jafnvel Syndina, gagna þier til Saaluhiaalpar; Enn ef ødruvijse er, Þa vit þo, ad Gud leggur eckert aa neinn fyrir Sakleysi. Siert þu þvi ecki Orsök i þinni Vanheilsu med Ovarlegum Lifnadi i Mat og Dryck, edur annari Haattsemi, Er plagar ad kreinkia Heilsuna, þa hefur þu forþienad Siwkdoominn med ødrum Syndum; Þvi ef ad jafnvel hin minnsta Synd vinnur til Helvijtis, vilie Gud hana tilreikna, þvi mun hun þa ecki viña til Lijkamlegra Meinlæta, sem vara svo skaña Stund? Enn Tilgaangur DRottinns er allur annar aa Stundum: Kannskie Saal þijn sie vanheil, og hann plaagi Lijkamañ heñi til Heilsubootar, og þvi skyllda eg þa reidast Læknernum, Þoott hann skieri þad Saar upp, sem svid er? Heilsann er alltijd good, enn þo er hun dijrust þegar hana vantar, og þykir mest til hennar koma, nær hun er aptur feinginn; þvi tekur Gud hana i burt aa Stundum, til ad vekia vor dosenn og sofandi Hiørtu til Þacklætis og Lofgiørdar vid sig, og tijtt legg-ur hann Krossinn aa þa sem eru hvad Saklausastir, ødrum til Eptirdæmis, ad sijna þeim hvad þeir forþienad hafe, og hvad mikla Orsök þeir hafi til ad losa Gud, sem þyrmir þeim, sem meira hafa syndgad, fyrir þvijlijkum Ørkumslum. Skañast þijn ecki þar fyrir ad vera settur ødrum til Þolinnmædinnar Eptirdæmis med Job, og vert gladur af þvi ad lijkiast Christo, sem og hefur oss til Eptirdæmis lidid, 1. Pet. 2. Og fyrst þu skallt þad þo lijda, þa Hugleid hvad miklu betra er ad lijda eins og Guds Barn og hreppa eilijfa Sælu og Fögnud til Launa, helldur enn ad brioota Okid i sundur med Møglan og Oþolinnmædi, og ecki einasta sleppa af Laununum, helldur ad hrapa wr hinni Tijmañ-legu Eymd i þa Eilijfu, sem alldrei mun Enda taka. Eg vil ei hier tala uñ þad sem Ci-cero skrifar, ad einginn Mootgaangur sie saa, ad Tiimalengdinn ecki lini hann' þvi vier høf-um eina ædri Huggun, ad vor Lijkami er alldrei svo veikur, ad Guds Kraptur ecki sie i vorum Breiskleika maattugri, þvi hann er Trwr, og freistar einkis yfer Megn frañ; Og uñ alla Hluti frañ, þa hugga þig vid þa Sælu-Von og Dijrdar-Auglijsingu Guds Barna, Hverrar ecki verd eru þessa Heims Mootlæti; Svo nær Verkirnir stijn-ga þig, og þu stynur af Ofraun, þa hura hvad fagur ad sie Einglanna Saungur: Nær þu sier þinn Lijkama afmyndadann af Saarum og Kaunum, Þa hugleid þad, ad hañ skal aa sijdann verda Einglunum jafn, Jaa, Samlijkur JEsu Christi Dijrdlegum Lijkama: Nær þier einginn Hlutur er til Skiemtunar i Heiminum, þa laat þier til Hugar koma, hvad fagur ad sie Abrahams Fadmur, Jaa hin Himneska Jerusalem, Hverrar Sool og Tungl ad Gud er, og hañs Dijrd upplioomar hana. Þangad ad komast, og þar ad bwa uñ eilijfar Alldir, uñi oss hin Heilaga Guddoomsins Þreñing, Fadir, Sonur og H. Andi, Haa-Blessud uñ Allder Allda, Amen.

# Annann Sunnudag eftir Trinitatis.

Gudspiallid, Luc. 14. Cap.

A Þañ Tijma. JEsus sagdi til eins af Pharisæunum, þessa Eftirlijking: Nockur Madur var sa, sem giørdi mikla Kvølldmaaltijd, og kalladi marga þar til, og sendi wt siñ Þioon um Kvølldmaals Tijmañ, ad hañ segdi þeim sem bodnir voru: Komid, þvjad nu eru allir Hlutir til Reidu. Og þeir tooku allir til i einu Hlioodi ad afsaka sig. Hiñ Fyrsti sagdi til hañs: Akur keypta eg, og hlijt eg ad fara wt ad skoda hañ, eg bid þig afsaka mig. Og hiñ Aññar sagdi: Fim Pør Akneyta keypta eg, og fer nu wt ad reyna þau, eg bid þig, afsaka mig. Og eñ Aññar sagdi: Konu hefe eg mier festa, og fyrir þvi maa eg ecki koma. Og sa Þioonustumadur kom og kuñgiørdi þetta sijnum Herra. Þaa vard Hwsboondiñ reidur, og sagdi til sijns Þioonustumañs: Far þu snarlega wt aa Stræti og Gøtur Borgariñar, og leid Volada, Vanada, Blinda og Hallta hier iñ. Og Þiooniñ sagdi: Herra, þad er giørt hvad þu skipadir, og þo er eñ meira Rwm. Og Herrañ sagdi til Þioonsins: Far þu wt aa Þiood-Brautir og Twn-Garda, og naudga þeim hier iñ ad gaanga, svo ad mitt Hws verdi fullt. Þvi eg seigi ydur þad: Ad eingiñ þeirra Maña, sem kalladir voru, munu smacka mijna Kvølldmaaltijd.

## Exordium.

ORsokinn til þessarar dijrmætu Eftirlijkingar, sem Jesus frañsetur i þessu Heilaga Evangelio, var sw, ad þegar hann var ad Heimbodi med einum af Pharisæanna Høfdingium Brauds ad neyta aa Þvott-Deigi, þaa var þar einn af Bord-Giestunum, er sagdi; SÆLL er sa Madur, Sem Etur Braud i Guds Rijki: Og er i henni sierdeilis Tveñt athugandi, Sem er: Hvad meint sie med þessari Kvølldmaaltijd, og i Annann Maata, hverier þeir sieu, sem bodnir voru. Fyrir Maaltijdina kunna vel ad skiliast allir þeir Andlegir Velgiørningar, sem oss veittir eru i JEsu Christo, hvern Gud i Heiminn sendi aa Kvølldi Veralldar þessarar, og liet honum slaatra aa Krossins Alltari, og steikia i Bruna sinnar Heiptar Reidi, J hønum hefur hann allri Verølldu alla Hluti tilreidt, sem duga til þeirrar eilijfu Veitslu i Himnenum, sem fyrst verdur þeiginn hier i Naadinni, eñ sijdar mun fullkomnast i Dijrdinni. Hann er Lijfsins Braud, sem af Himnum er ofannkomid, Joh. 6. Hañs Holld er sannarleg Fæda, og hanns Blood er sannarlegur Dryckur, hvert vier ecki einasta

asta medtokum med Trwarinnar Munni Daglega, helldur og Lijkamans i Heilogu Altarisins Sacramento: Enn fyrir þvi, ad DRottinn svaradi þessum Gyding uppaa sitt Tal med þessari Eftirlijkingu, þa er lijklegt, ad hann sier i Lagi meint hafi þad Himneska Bordhalld med Abraham, Isaac og Jacob, og lendir þo allt i sama Stad, þvi einn og hinn sami er Christur, hvern vier smockum hier i Naadinni, enn munum hanns algiorlega þar i hanns Dijrdar Rijki niootandi verda. Somu eru Visternar, þad skilur alleina, ad þær eru ecki med sama Mooti framreiddar. Hier siaaum vier fyrir Speigil og i Raad-Gaatu, þar munum vier siaa Augliti til Auglitis; hier gaungum vier i Trwnni, 2. Cor. 5. Enn þar munum vier gaanga i Siooninni. Trwinn er Vera þeirra Hluta, sem vier vonum eftir, hver ed sijnir þad sem ecki sied verdur i þessu Lijfi, enn i hinu odru munum vier þeckia svo sem vier þecktir verdum; Og svo sem Foornir Gamla Testamentisins voru ei nema Skuggi eftirkomandi Giæda, svo er og For-Smeckur Himnarijkis i Hiortum Guds Barna i þessum Heimi, ecki nema ein Skugg-Siaa þeirrar Eilijfu Dijrdar, sem vid oss mun opinnber verda. Fyrir þaa morgu, sem ad i Gudspiallinu segir, ad kalladir sieu, eiga allir Menn ad skiliast: Þvi svo seigir Endurlausnarinn, Matth. 20. Ad Mannsins Sonur sie til þess kominn, ad wtgiefa Saalu sijna til Lausnar-Gialldz fyrir marga, hvad Paulus svo wtleggur, 1. Tim. 2. Ad Christur hafi giefed sig til Endurlausnar fyrir alla: Þo er lijkast ad hid Fyrsta Bod sie þad sem kom til Gydinganna, sem voru Rijkisins Synir, jaa, kannskie til þeirra Hofdingia Phariseanna og Skriftlærdra, þvi DRottinn hefur aan Efa bendt þeim hier med, er til Bordsins saatu; og þad er auglioost, ad Stoor-Menni hefur þar verid samannkomid, þvi annars mundi hann ecki hafa talad fyrir þeim skommu aadur i sama Sinn, ad nær þeir giordu Giesta-Bod, skylldu þeir kalla Faatæka, Veika, Hallta og Blinda, Luc. 14. Enn hinn Sijdari meina eg ad vera Faavijsann Almwga Gydinga, sem raafudu aa Strætum og Gotum Borgarinnar, Hveria sialfir Hofdingiarner kolludu Bolvadann Lijd, sem ecki vissi af Logmaalinu, Joh. 7. Enn hid Sijdarsta kalla eg ad heyri oss til Bornum Heidingianna, er saatu aa Piood-Brautum og Twn-Gordum, fiarlægir Israels Borgar Rietti, og aan Guds i Heiminum, svo sem Paulus talar: Ad þessu so fyrirmæltu, vil eg giefa mig til ad Hugleida Textann nockud gior, og af honum Tvennt yfirvega, sem er. 1. Hvad oss allra mest hindri fraa ad þiggia þetta Heimbod. 2. Hvad oss eigi mest ad leida til ad þiggia þad.

Stijr þu Maali mijnu, DRottinn minn, og Hiortum Barna þinna, til Lofs og Dijrdar þier, enn oss til Saalar Nota, J JESU Nafni, AMEN.

## Utleggingin.

HJaa Matth. i 13. Cap. Upptelur DRottinn fierdeilis Prent, sem bægi Mannum fraa ad heyra Guds Ord med Avexti: Þad er, Sorg Veralldarinnar, Audæfi og Gyrndir hennar: Og þetta Prent segir saa Lærisveirn, sem hann elskadi, ad Heimurinn sie fullur af, sem er Drambsamt Lijferni, Fijsn Augnanna, og Gyrnd Holld-

sins

ens, 1. Joh. 2. Allt þetta er ad siaa hiaa þessum Faavijsum Monnum, er ecki villdu þigg-
ia Maaltijd þessa, er i Gudspiallinu talar um.

Hinn Fyrsti segier: Bwgard hef eg mier Keyptañ, og hlijt eg ad fara wt ad Skoda hañ.
Þad kalla eg sama og Sorg Veralldariñar, sem Lausnariñ nefnir hiaa Matthæum, eñ Jo-
hañes Drambsamt Lijferni, þvi til hvørs kaupa Meñ stoora Garda edur byggia þaa, nema
ad þeir vilia sijnast ødrum meiri, og auglijsa þar med, ad svo sem þeirra Hiarta er stærra eñ
añarra, svo skulu og þeirra Hybijle vera. Nebuchadnezar Konungur stærdi sig af hiñi mik-
lu Babylon, er hann hafdi byggia laatid til Heidurs vid sinn Herradoom, eñ þar fyrir vard
hann ad Villu-Diiri og aat Gras med þeim. Svo verda og allir þeir, er stæra sig af
Yferlæti Veralldar þessarar, þegar þeir vilia vera meiri enn Menn, þa verda þeir Hestum
og Mwlum argare, og þeckia ecki Gud Himnanna, hveriu einginn er Faasinna meiri. Þeg-
ar Mennirnir uppreistu Babel, til ad giora sier Nafn aa Jordunni, Svo sem þar
ad kvedur, Gen. 11. Þa voru þeir straffadir af Gudi, svo eirn braut þad er Annar byg-
di, Þeir villdu byggia hann upp til Himna, svo sem þar segier, enn Himnanna DRottin
sloo þaa med Raadleysu, svo þeir og þeirra Afkvæmi skridu wt um alla Verolldina. Þvi
mun þad ei Vegurinn vera til Himnarijkis, ad bwa sier fasta Boolfestu hier i Heimi.
Þetta segie eg ecki þess vegna, ad allur Metnadur sie þar i foolginn, ad eignast Gootz og
Garda, ei helldur, ad þad ecki Leyfilegt sie, nær Menn eru vel ad þvi komnir, Helldur tekur
Lausnarinn til þessa, svo sem eins hellsta, er Menn plaga ad stæra sig af, Jafnvel þeir ed ød-
rum þykiast Hugprwdari, þvi þeim þykir ecki til þess koma, ad stæra sig af Hiegoom-
anum, svo sem af fogrum Bwningi, af Hreysti Lijkamans, af Aliti, af gøfugu For-
elldri, þvi had sie einum nærst sem hann siaalfur er; Enn þeir ed mikid Gootz og Garda ei-
ga, þeir hafa optast Manna Forraad, og þykir i þvi Rijki nockud, enn margir af þess-
um hiaa oss, eru svo Lyndir, ad þeir vilia ad allir þeir, sem Lond þeirra byggia, skuli ve-
ra svo sem þeirra Eignar Þrælar, aan hverra þeir væru þo ecki meira eñ einn af þeim, þvi
þeir eru þad sem ala Dramb þeirra aa Sveita sijnum, og skylldu hinir missa þad, þa
mundu þeir snart brioota Odd af Oflæti sijnu; Þvi fæstir af þessum Veralldar Son-
um hafa nockurn Tijma drepid Hendi sinni i kallt Vatn, mundu þvi koma til ad bidia,
þar þeir ei duga til ad grafa, hvar uppaa Menn hafa og nockur Dæmi, ef vel er leitad, eñ
hvernig sem þvi er nu varid, þa er varla nockur Syndari fiær Himna-Rijki, eñ einn
Dramblaatur. Mikilaatur Madur kann ecki ad þeckia Synd sijna, þvi hann þykist allt
riett giora, og aa medann Syndinn er ecki þeckt, þa er ecki Von aa Himnarijki; DRott-
inn mootstendur Dramblaatum, Jac. 4. Enn hvernig vill sa iñgaanga i Himna-Rijki,
sem Gud fyrir Ovin hefur, Hver alleina aa þess Valld, enn einginn añar. Hafe And-
skotinn verid rekiñ wt wr Himninum vegna Drambsemiñar, þa er Lijklegt, ad sa mu-
ne þar ecki innkoma, sem honum vill i þessum skamarlegasta Glæp lijkur vera. Salomon
segir, Prov. 16. Ad sa sem er stoor i Hiarta sijnu, sie Andstygd fyrir Gudi, og þo hann
taki Hond i Hond (þad er, þo hann taki annañ med sier, og alldrei svo marga) Þa mun
hañ

hañ þo ecki Ohegndur verda. Og til hvers ſkal þa ſa Þoottinn, ſem ei giørir nema áfla Manninum Hegningar af Gudi, fraa hverium Omøgulegt er ad flya? Nema þier verdid eins og þetta Ung-Barn, þaa kunnid þier ecki inn ad gaanga i Guds Rijki, ſegier Frelſarinn, Matth. 18. Nu vitum vier ad Smaa-Børninn eru ecki Dramblaat: Eins leikur Kongs Sonurinn ſier vid Faatækis Barnid, ſem vid ſinn Lijka, ef hann maa raada. O! hverſu laangt er þaa einn Dramblaatur Aſni fraa Himnarijki, þegar honum þykir einginn ſtanda Jafnfætis ſier, hafi hann edur hanns Forfedur ſvælt nockud wt af ødrum. Sælir eru Hoogværir, þvi þeir munu Landid erfa, ſegir Frelſarinn, Matth. 5. Ad vijſu er þad i fyrſtu meint uñ Lijkamlega Farſælld, ſvo ſem ſiaa maa af hinum 37. Davids Pſalmi, hvadann Ordinn tekinn eru; Þvi þeir ſem hæglaatir eru, og ecki aaleitnir vid adra, þeir hafa oftaſt ſitt i Kyrdum, jafnvel þoott misjafnt beri til uñ þad, nær Gudlijdur Fiandanum ad vada upp i Dramblæti Oflaatunganna, enn verdi þeir Arfi ſijnum ræntir hier, lijda þad þo med Hoogværd, þa eiga þeir hann vijſann aa Landi Lifandi Manna, ſem alldrei mun ſkiemaſt, 1. Pet. 1. Siaai hinir til, ad þoott þeir blaaſe ſig upp, eins og Nadrann, af þvi ſem þeir hafa ſtolid fraa Aumingianum, hvert þeir munu naa til ad verda Samarfar Chriſti, ſem var Hoogvær og af Hiarta Lijtilaatur, Matth. 11. Þad Port er þraungt ſem til Lijfſins liggur, og Vegurinn er tæpur ſem þaangad leidir, hvernig meiga þeir gaanga þar uñ, hverium ecki dugir allt Landid til ad bwa i, þoott ei ſieu þeir ad Lijkamans Haattum Fyrirferdar meiri eñ adrir Menn? Eñ Hiartad er vaxid upp wr Skijunum, kiemſt þo alldrei i Himnarijki, nema þad lijti Svip ſinn i Mollþunni, aadur enn þeir ad Molldu verda. Hier uñ talar DRotteñ merkelega hiaa Eſaj. Cap. 5. Vei þeim er ſamañdraga eitt Hws til annars, og leggia eiñ Akur vid annann, þaangad til ad þar er ecke meira Rwm, ſvo ad þier bwed einſamler i Landenu, þad ſama er fyrer Eyrum DRottenns Zebaoth, ſegier hann.

Fim̃ Þor Akneyta Keypta Eg, Og Fer Eg Nu Ut Ad Reyna Þau, Eg Bid Þig Affaka Mig, ſegir hinn Annar: Med þeſsari Grein af Eftirlijkingunni vill DRottinn teiknad hafa hina ſkadlegu Bwkſorg og Oleifilegu Aura-Eiſkū, og ber hann ſiaalfur lioosaſt Vitni uñ þad, hvad mikinn Farartaalma Audurinn giøri þeim, er hafa feſt Hiarta ſitt vid hann, aa Reyſunni til Himnarijkis, er hann ſagdi vid Læriſveinana uñ hinn Rijka Yngis-Mann, ad hægra væri Ulfballdanum ad gaanga i giegnum Naalar Augad, helldur enn rijkum Manni inn i Himnarijki, Matth. 19. Og er þeſsi ſami Ynglijngur Eitt lioost Dæmi þar uppaa, hverſu ad Fiegyrninn og Elſkann til Jardneſkra Muna, banna Manninum ad eftirfylgia Chriſto inn i Guds Rijki: Hann villdi frædaſt af DRottni hvad hann giøra ſkylldi, ad hann mætti eignaſt eilijft Lijf: Frelſarinn neitadi ecki þvi, ad hann hefdi Bodordinn halldid allt i fraa Barnæſku ſinni; Enn er hann heirdi, ad hañ ſkylldi ſelia allt þad hann ætti, giefa þad faatækum og fylgia ſier eftir, þa vard hann hryggur og gieck i burt. O! hvad goodu Bodi hafnadi þeſsi faavijſi Madur. Lijkur var hann miøg ſvo þeſsum Veralldar Sonum, er hier talar uñ i Gudſpiallinu; Hvad

leinge aatte hann Aude sijnum ad fagna? Kann skie ecke til Morguns, og þo yfergaf hann
hid gooda Hlutskipted, og liet þeña Veralldar-Saur draga sig fraa Himnarijke i Sa-
tans Valld. Marcus skrifar, ad Lausnarenn hafe start aa þennann Rijka Mann og elsk-
ad hann, Marc. 10. Hvad nockrer wtleggia, ad hañ hafi teked vel aa moote honum, og
hafa þeir nockud til sijns Maals; Enn hvert sem var, DRotteñ miñ, þa sie eg hier þijna
Fødurlega Giædsku i þvi, ad leita allra Bragda vid Mañeskiuna. Svo elskader þu Saul,
Minn Herra, aa medann hann gieck aa þijnum Vege; Svo varst þu med Jehu, allt svo
leinge ad hann rak þitt Eyrende; Svo miskunader þu Achab, er hann klæddest i Seck:
Enn ecke er ad furda, Børn mijn, þoott DRöttenn hryggdest i Anda og talade svo skoreñ-
ordt til Læresveinanna hier um̃, er hann saa þenna Vesæling adkomeñ Himnarijkis Dyr-
um, falla þadann aptur i Satans Net, og hefur hann hier først Soñur aa Maal sitt, er
hann aadur talad hafde, ad Omøgulegt være under eins Gude ad þioona og Mam̃ona,
Matth. 6. Mam̃on er eiñ vesæll Gud, og þeir honum þioona, eiga aumañ Hwsboonda,
hann gietur ecke hallded sialfum sier kyrrum, þvi hversu opt siaaum vier ad stoorar Fe-
Dyngiur hrapa i einu, svo Eigandenn veit eckert af; Svo er hann wtfws, þegar til vill, ad
Þrælar hanns gieta ecke hallded honum, og ei þoott þeir giøre vid hann eins og þeir i Tyro
giørdu vid sinn Afgud Herculem, er þeim barst i Drauma, ad hann villde fraa þeim hlau-
pa i Herbwder ens Stoora Alexandri, ad þeir bundu hann med Hleckium. Þad er eins
og Jeremias segier um̃ Skwrgodenn, Cap. 10. Þeir giøra þau føgur med Sylfre og
Gulle, þeir festa þau med Nøglum og Hamre, ad þeir misse þau ecke. Eñ Gud giæfe!
Meñ villdu hugleida, hvad lijted þeir hafa mist, þegar þeir hafa tapad øllu þessu, ef Gud
vill svo vera laata, þvi þa hafa þeir feinged Orsøk til, ad varpa allre sinne Ahyggiu uppaa
Gud, sem er alleina Rijkur, og vill ala þa er hann elska, jafnvel sofande. Þa munde
Laban ecke renna epter Jacob, þo hann vantade sijna Afgude. Eg hefe talad nockud um̃
þetta Efne fyrer Skøm̃u, og þvi vil eg enda med St. Pauls Ordum, er hañ segier, 1. Tim.
6. Þeir ed rijker verda vilia, falla i Freistingar og Snørur og margar Gyrnder heimsku-
legar og skadvænar: Hvad laangt eru þeir þa fra Himnarijke, sem alla Neidu faster eru i
þessu Satans Nete! Og er hier af audsært, hversu miøg ad Fe-Gyrndenn og Of-miked
Aura-Safn bæge þeim fraa Guds Rijke, er naalægt eckert annad stunda.

Konu Hef Eg Mier Festa, Og Fyrer Þvi Maa Eg ecke koma, sagde hinn Þridie.
Hann villde ecke hafa sig undann þeigenn, þvi hañ þoottest Løglega afsakadur: Hañ sem
Bwgardenn hafde keypt, gat laated bijda til Morguns ad skoda hann, og hiñ ad reina
Ak-Neytenn, enn fyrer þvi ad hier maa skiliast, ad Brwdkaups-Dagurenn hafe vered til-
settur, þa vill þesse Brwdgume ecke eyda mørgum Ordum til ad afsaka sig, þar hañ hafde
til añars Giesta-Bods ad gaanga, sem honum være hvad kiærast, og hañ mætte ecke for-
sooma. Lijklega lijtur þetta wt fyrer Mañlegum Doome, þvi DRotteñ hefur boded, ad
Madureñ skyllde jafnvel yfergiefa Fødur og Moodur, eñ samteingiast sinne Egta-Kvinu;
Enn þo mun þesse eins sekur vered hafa i Guds Auglite og hiner. Hier stendur i Texte
i. Annu

anum, epter þvi sem eg hann skil: Ad þeir afsøkudu sig aller med sama Giede. Þad er, ad hver þeirra villde hafa sijna Syslan meir, metna eñ þessa Kvølldmaaltijd. Nu villde þo Hws-Boondenn einga af þeim gyllda taka, og þvi vard sw Aiyktunneñ ad Sijdurstunne: Einginn Þeirra Manna Sem Bodner Voru, Skulu Smacka Mijna Kvølld-Maaltijd. Svo er þa Meiningeñ: Ad eingeñ Hlutur skule oss svo kiær vera, ecke Virdingar vorar, ecke vor Audur, ecke Fader nie Mooder, ecke Systur nie Brædur, ecke vorar eigenn Konur, sem oss ættu hvad kiærastar ad vera, Jaa, ecke vort eiged Lijf, ad þad hindre oss fraa þeirre stooru Kvølldmaaltijd, sem hinn Alvallde Hwss-Fader hefur oss tilreidt i sijnum Syne: Þad vottar Frelsarenn sialfur skoñu sijdar i þessum sama Capitula, segiande: Ef nockur kiemur til mijn, og hatar ecke Fødur sinn og Moodur, og Konu og Born, og Brædur, og Systur, og jafnvel sijna eigeñ Saal, hañ kann ecke miñ Læresveiñ ad vera. Hvad er þetta, Born M. Hañ kann ecke miñ Lærësveiñ ad vera? Þad er, hañ skal ecke i mitt Rijke koma. Gud gaf Mañenum Konuna i Fyrstuñe honum til Epterlætis, og til ad fiølga Kyne sijnu, enn ecke til þess ad hann skyllde leysa henne ad draga sig af Guds Veige, edur briootа aa moote Bode sijnu; Þvi segier hann og Deut. 13. Ef þiñ Brooder, Sonur Moodur þiñar, eda þiñ Sonur eda þijn Dootter, eda þijn Kona er þu fadmar, vill koma þier til ad dyrka añarlega Gude, þa skal þijn Hond vera hin fyrsta ad þu deyder hana. Eñ skodum nu oss, Brædur mijner, mun oss ecke verda vidlijka og Fødur vorum Adam, ad bera Skulldena uppaa Konuna, þo þad sie med ødru Moote? Segied mier, þegar hiñ Volade bidur uñ Hiaalp, og hiñ Naudstadde; þeinkium vier ecke? Þad maa eg ecke fyrer Konu minne og Bornum, ad leggia miked af vid hann, annars munu þau kannskie fara aa Vonarvøl. Þegar Guds Eyrende aa ad giøra og briootast nockud i moote Satan og hanns Offinnum, laatum vier þa ecke Hug fallast? Jafnvel þeir sem Hugprwder vera þykiast, og segium med sialfum oss: Giore eg þetta, munu þeir sijdann Konu minne og Bornum allt Illt giøra; eins og Skaalkurenn sie ecke i Hende DRottenns, og hann kunne ei ad vernda sijna, þaa er setia allt sitt Traust aa hann. Þegar vier nu þetta giorum, þa erum vier eingu betre enn hañ, er sagde: Konu Hef Eg Mier Festa, Og Fyrer Þvi Maa Eg Ecke Koma. Eg vil ecke faa mier til Orda uñ þeirra Hioonaband, sem locka hvert añad til Lasta og Synda, til Agyrne, Hofmoods, Øfundar, Hardydge, og eru samlynd i þvi, enn giæta eckert þeirrar Elsku, sem þau eiga aa Gude og Naunganum ad hafa, ei helldur þeirra Harttalag, sem ad i Egtaskapnum bwa samann eins og Hundar og Kietter, edur hiña, sem ad soñu erú samañvijgd til Hioonabands, enn lifa þar iñe rïettum Skiækiu Lifnade. Laangt er fraa ad soddañ Manneskiur hlijde Postulans Bode, i þvi ad hallda Egtaskapenn heidarlegañ, og Hioona-Sængena Oflleckada, Hebr. 13. og munu þeir þo hafa þykiast fulla Orsøk, ad ei kome þeir til DRottenns Kvølldmaaltijdar, þvi þeir hafe Konur sier festar: Og kann eg ecke añad ad segia, enn ad þesse Afsøkun sie gylld, þviad Dioafullenn helldur med þeim Sæng og Sess, Eñ Paulus segier, 1. Cor. 10. Ad vier kuñum ecke under eins ad drecka DRottens Ka-

leik og Dioflanna; og ecki undir eins ad vera hanns Bords Hluttakandi og þeirra. Taki einginn svo Mæl mitt, ad eg lasti þessa heilogu Stiett; Hun er af Gudi i Fyrstu Innstiftud, Frelsarinn hefur prijdt hana med sinni Nælægd, med henni hefur hann teiknad þa Guddoomlegu Ast, er hann hefur æ sinni Elskulegri Brwdi Christninni; Enn þad lasta eg, ad Menn gleyma Gudi fyrir Lijkamans Munad, og lifa þar inni þvert æ mooti hans Bodi, giorandi Hioonabandid ad Frillulifnadi margur hver. Frelsarinn vill og ecki Hioonabandid lastad hafa, þoott hann segi um hina Gudlausu Verolld fyrir Floodid ad þeir hafi gypt sig og gypta lætid, helldur hitt, ad þeir voru svo drucknir i Munudum sijnum, ad þeir ei hlijddu Predikun hinns Riettlæta Noe. Og er nu svo wt-talad um hid Fyrra er eg hiet æ ad minnast.

Enn hvad hinu Siidara vidvijkur, þa er þad margt er oss ætti ad leida til ad taka þessu Vegsamlega Heimbodi. Hver er sæ, ef Konungurinn bijdur honum til Bords, ad hann þiggi þad ecki Allshugar feiginn, og mundi Osviñur þykia, ef hann dræpi Hendini æ mooti slijkri Sæmd: Enn hier er ecki nockur Jardneskur Herra, ecki Assverus, ecki Balthazar, ecki Alexander hinn Stoori, hverra Veitingar urdu æ Stundum Giestunum ad Hefndar Giof; Enn hier er hinn Nædugi Konungur Himins og Jardar, sæ ed hefur Konunganna Hiortu i Hendi sier, hann ed sedur allar lifandi Skiepnur med sinni Blessan, og allt hvad Jardneskir Konungar veita sijnum Giestum, þad meiga þeir af hanns Orlæti þyggia, annars væru þeir ecki megnugir um ad fæda siaalfa sig, auk helldur Fiolmenni so mikid. Ecki sedia Veralldar Hofdingiar nema Lijkamann alleina, hvers Fylli æ Stundum verdur ad Saalar Hwngri; eñ DRottinn mettar Saalir vorar med svo goodri og heilnæmri Fædu, ad sæ ed hennar nijtur, hann þeynkir lijtid um Veralldlegar Kræsingar, þvi hann hefur þann Mat og Dryck, sem adrir siæ ecki, Joh. 4. Þeir kunna ad hallda eitt Giesta-Bod i heila Viku edur leingur, sijdañ hwngrar þæ og þyrstir, er bodnir voru; Enn hver sem etur og dreckur af þessum Vistum, hañ skal ecki hwngra nie þyrsta ad Eilijfu: Þad skiedur i Hofdingianna Giesta-Bodum, ad þeir sem ad Veitslunum eru, verda Mætti sijnum firnari þegar kallad er hvad best veitt, svo þegar Vijnid er rokid wr Hofdinu, villdu Menn þar alldrei verid hafa, og ecki betala þurfa þad sem til Gooda var giort med þvi Illa sem æ eftir fylgir. Enn i þessu Heimbodi munu Meñ alldrei ofmikid eta nie drecka, þess meir þeir drecka, þe's vijsari verda þeir: Eingann skal hier Dryckiann hvessa til Brædi, ecki hreifa hann til Oþarfrar Mælgi, ecki hvetia hann til Lauslætis edur nockurrar Fiblslegrar Hattsemi nie Gantaskapar, sem alltijd er, þvi verr, i sumra Manna Giesta-Bodum; Enn hier er Fridur og Fognudur i Heilogum Anda, sæ Fridur, sæ Fognudur, sem yfirgnæfir allann Skilning.

Eg hefi nockrum Siñum ædur borid mig ad tala i þessari Book um þæ Dijrdlegu Vist Heilagra, med Gudi og hanns Einglum, og mæ eg medkienna, ad þar verdur ecki umtalad af mier æ nockurn Veg, svo sem verdt er, og ecki af nockurri syndugri Twngu, þvi ef Madurinn kann ecki ad siæ Gud og hallda Lijfinu, svo sem DRottinn sagdi vid Moys-

Moysen, Exod. 33. Pa munu Menn ei helldur kunna ad wtskijra hvad Vegsamlegt þad sie, ad siaa hañ so sem hañ er, og þeckia hann svo sem vier erum af honum þecktir. I einu Ordi ad segia; Þar uñ verdur ecki annad sagt, enn þad sem Esaias i 64. Cap. Og Paulus, 1. Cor. 2. hafa lagt oss i Munn, ad þad hafe ecki Auga sied, og ecki Eyra heyrt, sem Gud hafi tilbwid þeim, er hann elska, og var þo Paall uppnuminn i hinn Þridia Himin, svo ad lijkast er, ad einginn lifandi Manna hafi giort sied þa Himnesku Vistar-Veru, þo matti hann ecki med Ordum wtskijra hvilijk hun var, þvi hann segist hafa heyrt þar þau Ord, sem einginn fær wt-taladi, 2. Cor. 12. Hvad segid þier nu, Brædur mijnir? Finnid þier nockra þa Asiokun i Heiminum, er ydur gylld þyki til ad hafna þessu Giesta-Bodi? Stoorir Høfdingiar lata bera Vistirnar og Dryckina fram i Gull- og Silfur-Kierum, þeir hafa marga Rietti, og Inniïslegann Tilbwning, eftir þvi sem Steikarans Kunnatta gietur hræsnad fyrir þeirra Goom, sem bodnir eru; Enn hier er ecki nema einn Riettur, þad saklausa Lamb Guds, hvert ed slatrad er i fraa Heimsins Upphafi, hann er steiktur a Krossens Altari i Guds Reidi-Elldi, a þeim Kolunum, sem bru nid hefur af, sijdañ Adam braut, þad eru Syndir vorar, sem erum Nydiar hanns: Hann er Lækning þeim Siwku, Huggun þeim Angraadu, Rijkdoomur þeim Voludu, Uppreisn þeim, sem Verolldinn hefur nidurdrepid, Sadning þeim, sem Hwngra og Þyrsta eftir Riettlætinu. Hvar saud þier soddann i einu Giesta-Bodi, Christnir Menn? Ja, hañ er eins og Esaias uñ hann spaair: Syn þeim blindu, Fætur þeim Hölltu, Hreinsun hinum Lijkþraa, Heyrn þeim Dausu, Uppnisa hiña Framlidnu, og, þad sem yfirtekur, Naadar Bodskapur hinum Fatæku, hvern Spadoom hann þijdir uppa sialfann sig, hiaa Matth. 11. Heyrid þier mier nu, sem bwid i Landi þessu, erud þier margir Vitrir? Erud þier margir Forsvalir? Erud þier margir Gøfugir? Ef eg maa spyria ydur med St. Paals Ordum: Þier munud segia Ney, ef þier takid Hendi i ydar eiginn Barm, og þo hefur hin Guddoomlega Elska latid oss Fatækum Gudspiollinn boda; Enn hver giegnir vorri Raust? Hver tekur þessu Bodi? Hiñ Vijsi hrosi sier ecki af Skynsemi siñi; hinn Vollduga ecki af Valldi sijnu, og hinn Rijki stæri sig ecki af Audi sijnum, enn saa sem vill hroosa sier, hann hroosi sier af þvi, ad hann þecki mig og skilie, ad eg sie Jehova, saa ed giori Goodgyrni, Riettiñ og Riettvijsina a Jordu, þvi þad lijkar mier, segir DRottinn, Jer. 9. O siaid nu hier, þier sem hrokid ydur upp af þvi, sem eckert er i spunnid, enn forsmaaid þessa miklu Kvolldmaaltijd, ad þar maa ecki stæra sig i Guds Augliti af hinum mestu Hlutum, Viti, Makt og Audæfum. Eñ hvad skulu Menn seigia vid hina Dramblatu Hwsgangs Herra vor a medal? Þegar Betlirringurinn hroosar sier af Danielis Speki; Þegar hañ, sem gietur nidurdrepid þeim, sem er vesælli honum, þa ætlar hann sig Konung vera, og þorir þo ecki ad geispa a mooti þeim, sem honum mattkari er; Ef hann, sem einhvern Tijma la vid Hwsgangi, et hann, seigieg, med folskum Kaup-Eyri, med Prælslegri Hondlan, ja, med allra Handa Svikum og Prettum, hefur dreigid undir sig Gootz Naunga sijns, Og

ſellt hønum aa Stundum, annadhvert ſijna eigenn Þørf edur Faavitſku, þa ſkærer hann ſig af þeirre Audlegd, er hanns Framſijne hafe aflad hønum. Þetta er ſvo Allment og Opennbert, ad ei þarf epter ad grafaſt, ſvo ſem DROttenn ſegier fyrer Munn Jeremiæ: Og þetta giørum vier, ſem þo erum af audrum Þioodum lijtils virdter, um̃ hveria med øllum Riette maa ſegia þau St. Pauls Ord, er eg fyrer ſkom̃u las, ad vier erum ecke marger Vijſer, ecke marger Forſiaaler, ecke marger Gøfuger, og þo tiggiunſt vier og tønlunſt Innbyrdis, Jaa, bijtunſt um̃ þetta Volæde, er vier mille Handa høfum, eins og Gadd-Heſtar um̃ illt Foodur; Eñ þad er allra aumaſt, ad þad ſem verſt er aa hinum Farſælu Þioodunum, er lifa i þeim goodu Londunum, og þad ſem Guds Bræde hvad meſt uppæſer, ſem er, ad þær hyrda lijtt um̃ Gud, og faa ſier ei Stunder, fyrer Vellyſtareñar Saker, ad dyrka hañ ſem byriar, þad, ſegie eg, ſkilur ecke helldur vid Eymder vorar, ſem þo ættu ad neyda oſs inn ad gaanga til þeſſa Gieſta-Bods: Og ſvo ſem ad Nægternar og allra Handa Tijmannlegt Epterlæte, ætte ad draga adrar Þiooder til ad elſka og pryſa Skaparans Giædſku; Svo ætte og vor Þørf og Ørbyrgd ad reka oſs til ad daaſt ad hanns Millde, ad hann i øllu þeſſu hefur unt oſs þeirrar Sælu, ef vier hana riett brwkudum, ſem allar Þiooder mættu øfunda oſs af og alla ſvo miøg epterlaangar, ſem er Fridur og Rooſeme; Enn Gud giæfe ad hier vantade ecke allt ofmiked aa, og ad þeir ſem hiaa oſs eru audrum Fæte fremre, þeir ecke hæddu ad Guds Orde, forſmaadu og oſſæktu hanns Þienara! So laangt er fraa þvi, ad þeir leite DROttens, edur kome þegar þeir bodner eru.

Þa vard Hws-Bondenn Reidur, ſegier Textenn, Og Sagde Til Þioonuſtu-Mannſins: Far Þu Snarlega Ut A Stræte Og Gøtur Borgarennar, Og Leid Volada, Vanada, Blinda Og Hallta Hier Inn. Þeſſer munu vera Allmwga Menn Gydinga, þeir ed ſkipuduſt vid Chriſti Lærdoom, þvi færſter voru þeir af hinum, ſem geingu hønum til Handa; Þad er bert af Phariſæaraña Ordum, er þeir ſøgdu: Trwer nockur af Høfdingiunum aa hann edur af Phariſæis? enn þeſſe Allmwge, ſem ecke veit Løgmaaled, er bølvadur, Joh. 7. Gydingum byriade og fyrſt ad predika Guds Ord, ſvo ſem Paulus og Barnabas vottudu fyrer þeim i Antiochia, Act. 13. Eñ nær þeir raaku þad fraa ſier, og hielldu ſig Guds Rijkis Omaklega, þa hafa þeir ſnwed ſier til Heidenna Þiooda, ſvo ſem þar ſtendur; Þvi ſegier og hier i Gudſpiallenu; ad nær Þioonenn ſagde, ad þar være enn meira Rwm, þa hafe Hwſsboondenn ſagt: Far Þu Ut A Þioodbrauter, Og Twngarda, Og Naudga Þeim Hier Iñ Ad Gaanga. Hvørier munu þeſſer vera, B. M? Nema vier Heidenna Manna Børn, hverra Fedur voru aan Guds i Heimenum, Jaa, ecke vier ſijdſt, ſem bwum hier under hinu ytſta Heims Skaute. A oſs er ad fallu rættur Spaadoomur Guds, er hann ſegier vid Sonenn, Eſ. 49. Þad er Oflijted ad þu ſiert minn Þienare, til ad upprietta Jacobs Kyn, og aptur ad ſækia þad tapada af Iſrael, helldur hefe eg giørt þig til Liooſs Heidenna Þiooda, ſvo ad þu ſiert mitt Hiaalpræde til Veralldarennar Endemarka. Siaaed þvi og, þier Chriſtner Menn, hvilijkañ Kiærleika ad Faderenn hefur oſs giefed, þad vier Guds Børn kallader verdum, eingu ſijdur

eñ

enn Rijkesins Syner. Þesse er JEsus Christur Sonur Guds lifanda, hañ sem er vor Fridur og giører eitt af bædum, og Gyrdingu Mid-Veggiarens hefur broted, svo sem Paulus ad Orde kiemst, Eph. 2. Hvad er oss þa til Hindrunar, Børn Mijn, ad framganga til Nadar-Stoolsins? Þar vier høfum frijann Tilgang fyrer hann, segier Postulenn til Hebræos. Trwed mier, ad þad er ecke lijtell Velgiørningur, sem vier þeiged høfum i Christne-Bodenu; Eg vil ei tala um þau gledelegu Umskipte, ad vera leyster undann Satans Vallde, enn setter i Guds Sonar Rijke; Enn hitt ætte oss alldrei wr Minne ad lijda, ad hiner Natturlegu Kvisterner eru afbrotner, enn vier innplantader, Rijkesins Syner eru wtrekner i hin ytstu Myrkur, enn vier eigum Kost a ad sitia til Bords med Abraham, Isaac og Jacob.

O! Børn mijn; Eg gratbæne ydur fyrer JEsu saru Kvøl og bloodugar Under, Ja, fyrer ydar eilijfrar Velferdar Saker! Taked vara a þessare ydar Kallan, og lijkest ecke hinum i þvi, ad giøra ydur Guds Rijkis Overduga. Þad er Dasamlegt ad horfa a hina Alvitru Guds Radstofun i sijnu Nadar-Rijke: Fyrst sette hann Þeckingu sijns Nafns svo ad segia midt i Verølldena; Þegar þeir raku hana fra sier, þa hefur hun færst sinamsamann Nordur epter þessare Heimsins Alfu, svo ad hun einnig er komenn til vor hinna ytstu Heims Bwa, og varla er hina sønnu Guds Dijrkun ad fiña nu i Heimenum, nema i þessum Nordustu Løndum. Segied mier nu, Christner Meñ, ef vier nu forsmaum þessa Guds Giøf, og ei þeckia vilium vorn Vitiunar-Tijma, hvert a Gud þa ad fara? Eda fyrer hverium a hann sitt Ord ad Predika lata? A hann ad fara wt wr Heimenum? Edur Predika lata fyrer Jøklunum, Biarndijrunum, og Refunum i Grænlande? Litlu munar virdest mier hia mørgum hverium medal vor, þar Hiarta Mannanna er svo freded, svo Iskallt vorded, ad þad brædnar ecke vid Guds straungu Hootaner, ecke vid hañs Nadar Bodskap, og ecke vid Miñing hiñs sijdarsta Dooms, nær Høfud-Skiepnurnar munu af Hita brædna; Kiærleikureñ og Trwskapurenn eru burt wr Landenu, enn Agyrne og Fe-Drattur taka Yferhønd; Þeir sem meiga sier nockud, eta i krijngum sig eins og Byrner og Leon, þegar þad tekur sijna Brad, og hiner Einfølldu dansa epter þeirra Pijpu, og støckva yfer hvern Þrøskulld, til ad uppfylla Hws Drottna sinna, med Rane. Og þoott vier meigum jata oss hverre Þiood heimskare, þa erum vier þo noogu vitrer i Slægdenne, Ja, falsker eins og Refar. Ein med hinum stærstu Syndum, hvar fyrer Gud rak sitt Foolk wt i Herleidinguna, var Flarærde og Otrwskapur; Heyred Jeremjam þar um talande, Cap. 9. Eingenn trwe Vin sijnum, og eingenn trwe nockrum Broodur, þvi sierhver Brooder er einn Svikare, og sierhvor Vinur umgeingst falsklegana, og tala ecke Sannleikann, þeir kienna Twngu sinne ad tala Lygd, og þeir erfida sig þreitta i þvi ad høndla Sviksamlega. Segied mier; Ef Jeremias mætte lifna upp aptur, munde hann kunna betur ad wtmala vora Olld, enn med þessum Ordum? Og hvad erum vier þess, ad vier skylldum vænta oss betra af Gude, nær vier uppfyllum þeirra Mæling? nema vier ydrunst af Hiarta, og

legg

leggium af Klæki þessa. O! hversu mikid hefur oss hnignad, ecki einasta i ollum Mañskap og Hyggendum, helldur og i Sakleysinu og Naudvendninni: Hvar er hin forna Trwfesti, Stødugleiki, Rokſemi, Vijsdoomur i Naadsloguñum, Hugprijdi i Utrettingunum, Sannsogli i Ordunum, Riettviiſi i Doomunum, sem a Dogum Forfedra vorra var so miøg Lofud og Elskud? Þetta høfum vier i Utlegd rekid, og forum Dag veſnandi, svo ad þeir sem ecki eiga mørg Ar til Baka ad telia, þeir þeckia ei Landid edur Stioornina hiaa þvi sem hun var, hvert ed sijnast mætti ad vera eitt viiſt Teikn til Undirgaangs og Eydileggingar. Guds Polinmœdi vardveiti oss fraa Jeremiæ og Ezechielis Tijmum, hverier ed baadir saau Ofarir Gydinga-Lands, og baadir miøg svo hormulega klaga um þessa og þvilijka Stoorglæpi skomu fyrir Herleidinguna, og meigum vier kannast þar vid, ad Gud hefur beudt Forfedrum vorum med vidlijku Mooti, sem eg þo voga ad segia, ad voru miklu betri enn vær. Utlegd hefur jafnann halldinn verid hid mesta Volædi, enn eg veit ei hvad eg seigia skal, Betra er hvervetna utlægur ad vera medal Christenna Manna, enn ad lifa i þvi Landi, hvar Dygdinn er fyrir Skom halldinn, enn Klækirnir i Forsvar teknir, jafnvel af þeim sem hvad mest ættu ad asstijra vondu Framferdi. Nær eg Hugleidi þetta, þaa giet eg ei bundist ad taka undir med Jeremia, er hann segir i Guds Orda Stad i 16. Cap. Tak þier ei Konu til Egta, og al ecki Syni nie Dætur i þessum Stad. Þar fyrir O! Guds Børn, takid Vara aa Velferd ydar, laangt er sijdann þier Bodskapiñ heyrdud, og enn nu er Naudar-Tijminn, Eñ eingeñ veit hvert þetta Bod stendur leingur eñ til Morguns; Leggid þvi af alla Illsku og Prettvijsi og allañ Ohreinleik, enn iklædist, so sem Utvaldir Guds Heilagir og Elskulegir, Hiartgrooinni Myskunsemi, Goodgyrniñi, Lijtilætinu, Hoogværdinni og Poliñmædiñi. Eñ hiñ Naudugi Gud virdist ad vardveita sijn Børn i Solli þessarar Ogudlegu Alldar, svo þau Ostraffanlig fiñast mættu aa þeim Tilkomu Deigi JEsu Christi; Bænheyri þad goodur Gud fyrir sijns Sonar uthellt Blood og saaru Pijslir, Amen, i JEsu Nafni Amen.

# Pridia Sunnudag eptir Trinitatis.

Gudspiallid, Luc. 15. Cap.

J Þañ Tijma. Eñ allir Tollheimtarar og Bersyndugir nalægdu sig til hañs, so ad þeir heyrdu honum. Og þinir Skriftlærdu og Phariſæi mogludu og søgdu: Þessi medtekur Bersynduga Meñ, og etur med þeim. Eñ hañ sagdi til þeirra þessa Eftirlijking, so segiandi: Hver saa Madur af ydur, sem hefur Hundrad Saudi, og ef hañ glatar einum af þeim, yfirgiefur hañ ecki þaa Niju og Nijutijgir aa Eydimørku, og fer eftir þeim sem glatadist, þaangad til hañ fiñur hañ? Og þa hañ hefur fundid hañ, leggur hañ

bañ ſama (med Føgnudi) ſier aa Herdar, Kiemur heim, Og kallar ſamañ Vini og Naabwa, Og ſegler til þeirra: Sam̃gledieſt med mier, Þviad eg hefe minn Saud aptur fundid, Þañ ſem glatadur var. Eg ſegie ydur: Ad lijka ſo mun Føgnudur vera aa Himnum, Yfer Einum Syndugum ſem Ydran giørir, Meir eñ yfir þeim Nju og Nijutijgir Riettlaatum, Sem eigi þurfa Yfirbootar vid. Eda, hvør er ſw Kona, Sem hefur Tiju Peninga, Ef hun tijnir Einum, Er eigi ſo, Ad hun kveikir Lioos, Og ſoopar Hwſid, Og leitar vandlega, Þaangad til ad hun finnur hañ? Og þa hun hefur hañ fundid, Samañkallar hun Vin-Konur ſijnar og Grañ-Konur, ſegiandi: Samgledieſt med mier, Þviad eg hefe miñ Pening aptur fundid, Hvørium eg tijnda. Lijka ſo og ſegie eg ydur, Þad Føgnudur mun vera fyrir Einglum Guds yfir Einum Syndugum, Þeim ed Yferboot giørir.

## Exordium.

EG Em Anglijſtur þeim ſem ecki ſpurdu eptir mier. Eg em fundinn af þeim, ſem ecki leitudu ad mier. Eg ſagdi: Siaaid mig, ſiaaid mig, Vid Foolk þad, Sem ecki nefniſt eptir mijnu Nafni; ſegir DRottinn, Eſa. 65. Þeſſi Spaadoomur aa ad ſkiliaſt um̃ Heidnar Þioodir, Þad Foolk, ſem ſat i Myrkrunum, Og var aan Chriſts, Fraaſkildir Iſraels Borgar-Rietti, Framandi i Saattmaalum Fyrirheytiſins, Hafandi einga Von, og Gudlauſer i Heiminum: Svo ſem Paulus vottar, Eph. 2. Hvar Poſtulinn meinar a lleina þau Fyrirheyt, Sem Gydingum voru hier i Lagi giefenn, Svo ſem ad þar ſkylldi upprenna einn Kviſtur af Root Jeſſe, Og adrer þvilijkir Spaadoomar, Sem høndla þar um̃, ad Meſſias ſkylldi fædaſt af Gydingum; Enn ecki hin Almenniiegu, Sem øllum giefenn voru, Svo ſem þegar Gud hiet Abraham, ad i hanns Sædi ſkylldu bleſſaſt allar Þioodir, Gen. 22. Hvad liooſt er eckert einaſta af hinum mikla Fram̃gaangi Evangelij, ſtrax eptir Himna-For DRottinns, er hann, ad ſigrudum Dauda, Diøfli og Helvijti, took Einvallds Stioorn i ſinni Kyrkiu um̃ allann Heiminn, Helldur og ſpaair Gud þar um̃ fyrir Munn Hoſeæ, 2. Cap. ſegiandi: Ad Tala Iſraelis ſkuli verda ſvo ſem Siaafar Sandur, Hvørn einginn gietur mælt nie talid: Enn ſvo ſem aa Døgum Hoſeæ var Iſrael ſvo laangt nidurſockiñ i Gudleyſeſins Afgrunn, ad hann villdi þeim ecki framar myſkuna, þad þeir ecki ſmaamſaman Herleiddir yrdu; Svo og er ad Ottaſt fyrir aa þeſſum Verſtu og Sijduſtu Døgum, ad Chriſtninn, Hveria Guds Sonur hefur med ſijnu Bloodi afrekad, Hun meigi verda køllud Loruchama, edur Naadarlaus, Og ad margir hennar ſijnilegir Limir munu verda Konungi Myrkranna ad Braad, nema Menn bæti ſiñ Chriſtinndoom og taki ſier annad Haattalag, helldur enn Almennilega tijdkaſt. Sneñia hoof Bruñur Myſkunar,

ennar ad auglijsa þad, ad eckert Manngreinar Alit væri hiaa sier, þegar hann took vid Bersyndugum og Tollheimtu-Mönnum, hverier ed voru af Phariseis bölvadar Manneskiur halldnir, og einginn villdi med þeim Sess nie Samneyti eiga, enn ecki skiedi þad þess vegna, ad þeir voru Bersyndugir og Tollheimtu-Menn, þvi alltijd er Gud samur vid sig i þvi, ad ei lijkar honum Ogudlegt Athæfi, helldur hinns, ad þeim laa hvad mest aa, og þegar allir höfdu fordæmt þaa, villdi hann ecki fordæma, sem alleina hafdi Valld til, ad Riettlæta. Svo skulum vier og ecki meina, ad vier edur Fedur vorir hafi Myskun hlotid af þvi, ad þeir voru Heidingiar, þvi Heidingia og Tollheimtu-Menn leggur DRottinn ad Jöfnu, Matth. 18. Helldur, eftir mikilli Myskunsemi sinni, hefur hann oss hoolpna giört, svo sem Paulus vottar, Tit. 3. Þad giörir JEsus bert i þessu Gudspialli med Eftirlijkingunni um hinn tapada Saud og tijnda Pening. Enn ef vier afrækium þessa Naad, er oss svo leingi hefur frambodinn verid, sumum forgiefins kannskie (hvad Gud naadi og betri!) þaa dyliunst ecki vid, ad vor Doomur muni þess þijngri verda, helldur enn hinna Naatturlegu Kristanna, sem ad þeim helldur tilheyrdu Fyrirheitinn, enn oss. Eg vil wt af Gudspiallinu alleina Hugleida i þetta Sinn: 1. Hversu Naadugur ad Gud sie i þvi, ad leita eftir oss. 2. Hversu tregir vier sieum i þvi, ad laata oss finna.

Styrk oss hier til Giædskurijki Fadir, med Krafti þijns Anda, fyrir JEsu Christi Forþienustu, Amen.

## Utleggingin.

MEiningin i þessum fögru Eftirlijkingum hlijdir sier i Lagi uppaa þaa, sem stoor-Syndir hafa drijgt, eru fallnir fraa Guds Vinaattu i hanns Oblijdu, og hafa þannig forbrotid Guds Barna-Riett, og hanns Faderni, sem siaa maa af Eftirlijkingunni um hinn fortapada Son, er i þessum sama Capitula strax aa eftirfylgir. Nu ef vier rannsokum vora Lijfernis Haattu, Christnir Menn, þaa mun einginn vera saa af oss, ad ecki finni hann i Samvitsku sinni, ad hann hafi Guds Naad þraafalldlega af sier brotid, og ad hann þar fyrir sie Daudans sekur. Ecki er þad noog, ad vier ei drijgium þaa Glæpi, sem vinna til Utsetningar af Kyrkiunni; þad er betra ad vera wtrekinn af Samkundunni, helldur enn fraa Guds Naadar Stooli. Margur mun saa innst i Kyrkiu, sem ei mundi inn fyrir Himnarijkis-Dyr koma, ef hann dæi i sama Haattalagi. Hvad vardar um þad, þo einginn viti, ef þijn Samvitska veit? Lijtid gagnar ad dyliast fyrir Mönnum, þar allt er þo opid fyrir Guds Auga; vilier þu þar fyrir siaa Guds Giædsku i þvi ad leita ad þier, og kalla þig syndugann til Ydranar, þaa skoda hvar fraa þu fallinn ert, Apoc. 2. Drottinn samlijkir soddann tijndri Manneskiu glötudum Saud; og er þad nærsta vel tilfundid, þvi hann er saa goodi Hyrdir, Joh. 10. Enn vier foorum allir villt sem Saudir, segir Esaias, Cap. 53. Og förum Daglegana. Saudunum erum vier lijkir i Einfelldninni og Faafrædinu, enn ecki i Meynleysinu; Börn i Vitskunni, enn ecki i Hreckvijsinni, þvert aa mooti þvi, sem Postulinn bydur, 1. Cor. 14. Hier maa siaa i Gudspiallinu, ad Madurinn

urinn hefur halldid Hiord sinni a Beit i Eydimorku: Og hvad mun eiñ Voladur Saudur Guds vera i Eydimorku Veralldar þessarar, ef hann villist fra hinum gooda Hyrdir, hver ed geingur undann sijnum Saudum. Þegar DRottinn var reidur Israel fordum, og hiet ad wthella yfir hann Brædi sinni, þa segir hañ hia Hoseam i 4. Cap. Ad hann vilie fæda Israel, svo sem eitt Lamb a Vijdlendinu; enn hvad er eitt Lamb i svoddañ Plaatzi? Eckert annad enn Braad Varganna; og þo er þeim midur farid, sem med Syndum og Glæpum hefur giort sig vidskila hinn Osijnilega Drottinns Sauda-Flock, hverier ad þeckia sinn Hyrdir, og af honum þecktir verda, Joh. 10. Pad er hin sanna Guds Christni og Sofnudur hanns riett-trwadra Barna. O! hvilijk er þa Giædska hiñs blessada Hyrdirs, ad hann virdist til ad leita ad svoddann tijndum Saud. Naakvæmlega wtmaalar DRottinn sitt Fodurlegt Hiartalag i þessari Eftirlijkingu. Ecki yfirgiefur Gud hina Riettlaatu; Ei þarf hann helldur ad yfirgiefa þaa, til ad leita ad þeim sem tapadur er; Enn uppaa þad ad þu vita meigir, syndugur Madur, hversu giarna ad hann vill ad hinn Ogudlegi snwi sier og lifi, þa jafnar hañ siñi breñandi Elsku samañ vid þann Mañ, sem lætur sier hvad saarast vera til þess sem villt hefur farid, Jaa, saarara til eins af þeim, helldur enn til allra hinna sem vijsir eru. Þessa Guds Fodurlega Giædsku ettum vier ad laata smellta Hiarta vort, þegar hann leitar ad oss Daglega i sijnu Heilaga Ordi, Oss, sem ad Daglega syndgunst og ei vinnum nema til Hegningar. Nær giörir hann þetta? Pad giorir hañ, nær hann sijnir oss i Logmaalinu, hversu miog vier hofum vikid af hanns Vegi, þegar hann lætur sinna Bodorda, siña strangu Hootana Pruinulenna uñ Eyru Syndarans, nær hann dauf heyrist vid hiñi blijdu Raust þess gooda Hyrdirs, og ecki vill laata sig med Guds Naadar Fyrirheitum leida a hinn rietta Veg, þad giorir hann nær Syndaranum vid þetta Reidar-Slag Ofbiooda sijnir Glæpir, og hann segir med David: Par er eckert heillt a mijnu Holldi fyrir þinni Ognan, þar er einginn Fridur i mijnum Beinum fyrir mijnum Syndum; Mijn Saar lykta illa og fliota af Greftri fyrir minnar Heimsku Sakir. Þegar hin fraavillta Saudar-Kynd ecki rædur sier þannig, fyrir Ofbodi Helvijtis Pijsla, þa mun Guds Hiarta bresta i honum svo hann hlijtur honum Myskunsamur ad vera, Jer. 31. Pa mun Christi Andbidia fyrir henni med Ouñrædilegum Andvorpunum, Rom. 8. Pa mun hun og breatt heyra: Poott ad þijnar Syndir sieu raudar sem Blood, þa skal eg þær Snioohvijtar giora; Og þoott þær sieu sem Purpuri raudar, skulu þær Ullhvijtar verda, Esaj. 1. Og þannig fer nu hinn goodi Hyrdir ad leita eftir hinum tijnda Saud. O hvilijk Fodurleg Giædska! O hvilijk brennandi Elska! O þad Orannsakanlega Afgruñ Drottinns Myskunar-Ydra! Komid hijngad allir þier sem Erfidi drijgid, og Pwnga erud þiadir, hann vill Endurnæra ydur, Matth. 11.

Par Mun Verda Meiri Gledi J Himninum Yfir Einum Syndara, Sem Ydran Giorir, Helldur Enn yfir Niju Og Nijutiju Riettlaatum, segir DRottinn: Hia hverium mun su Gledi vera? Hia Gudi og hanns Blessudum Einglum; Par munu

glediast Einglar Fridarins, Esa. 33. Ad þeir siaa sitt Erfidi hefur ecki forgiefins ver-
ed; Þar munu fagna vorir Vardhallds-Einglar, sem eru Þioonustusamir Andar,
wtsendir þeim, er Saaluhiaalpina erfa skulu, Heb. 1. Nær þeir merkia, ad þeirra Ve-
rk færir svo goodann Avoxt, ad þeir faa aptur bættann þann Skada, er Satan vañ þeim,
Nær hann droo Þridiung Stiarnanna, Þad er Einglanna, þeirra Stallbrædra, i Afgruñ
Myrkranna med sier, Þa hann fiell af Himni, ad þeir faa hann bættañ, segie eg, med Fyll-
ingu Utvalldra Guds Barna, sem Ydran giora; Þar gledst Eingill hins mikla Raa-
ds, nær hanns dijra Blood hrijn aa einum faaraadum Syndara, sem Ydran giorir, hañ
reiknar ecki þau Bøndinn, þau Hogginn, þa Hraakana, þa Hwdstrokuna, þann Þyrne-
Kransenn, þann Hraknihginn, þa bitru Þijsl og Helvijtis Kvalir, er hann Saklaus leid
fyrir þverbrótinn Syndara, Nær hann ydrast af Hiarta, og lætur af Glæpunum: Siw
Gledinn yfirgnæfir, Ad hann hefur Saud sinn aptur fundid þann er glatadur var: Jaa,
øll Guddoomsins Þrenning fagnar yfir Apturhvarfe Syndarans; Fadirinn, þvi hann
elskar oss i sijnum Elskulega Syni; Sonurinn, af þvi hann hefur oss verdi keypta; Hei-
lagur Andi, af þvi hann er Pantur Arfleifdar vorrar; Þvi segier og DRottinn, Hos. 6.
A Myskunsemi hefe eg Þocknan og ecki aa Offri: Til hvers Lyknar-Ords DRottinn vijs-
adi Phariseunum, Er þeir mogludu um þad, ad hann æti med Tollheimtu Mønnum,
Matth. 9. Farid þier, sagdi hann, og lærid hvad þad er, Myskun vil eg, og ecki Offur,
Þvi ei kom eg ad kalla Riettlaata, helldur Synduga til Ydranar; Og hvad er þad sem
auglijse meir Guds Guddoomlega Ast til Syndarans, helldur eñ þad sem hier stendur i
Gudspiallinu: Og Þa Hann Hefur Hañ Fundid leggur Hañ Þañ Sama Med
Fognudi A Herdar sier? Hann slær hann ecki nie lemur, Ei rekur hann med hardre Hen-
de undann sier, helldur leggur hann aa Herdar sier, Þar til hann nær til Hiardarinnar, ad
hann ecki aptur tijnist. Svo er og Gud vid Syndarann Naadugur: Hann gleimir øllu þvi
sem undann er farid, Hann skilur ecki hinn villta Saud eptir i Raadleysu og Hugar-Vijli,
helldur sijnir hønum, med Vitnisburdi Heilags Anda, ad hanns Syndum sie kastad i
Hafsins-Diwp, Svo þeirra Minning ei skuli uppkoma ad eilijfu. Þessa Grunnlausu
Ast wtmaalar DRottinn merkilega, Esa. 46. segiandi: Heyrid þier mier af Hwse
Jacobs, og allir hinir sem eptir eru af Hwse Israelis, Þier, hveria eg ber i mijnu Lijfe,
og med hveria eg geing, Jaa, Eg mun bera ydur allt til Elli-Daga, og þaangad til þier
graair af Hærum verdid, Eg vil upphefia, Bera, og Frelsa. Hvad opt lesum vier i Hei-
lagri Ritningu, ad Gud hafe ydrad þess Illa, sem hann ætladi ad leggia edur hafdi lagt
aa Mannkynid (Svo wtmaalar hann sijn brennandi Myskunar-Ydur eptir Mannlegum
Plagsid), Enn sialldnar skulum vier lesa, ad hann hafe ydrad þess Gooda sem hañ hafdi
giort, Þvi svo miklu yfirgnæfir Naadinn Reidina og Myskunseminñ Riettlætid: þar fyr-
er segier hann og fyrir Munn Hoseæ, 13. Cap. um þa Naad, er hann huggdi syndugu Mañ-
kyni ad veita i Christo: Ydraniñ er huld fyrir mijnu Augliti; Þad er, eg skal þess alld-
ri ydrast. O hversu er Gud oss syndugum Mønnum þa Olijkur! Hønum leidist alld-
rei

rei gott ad giora, enn oss alldrei ad fremia hid illa: Hann segier hiaa Joel, Cap. 2. Er hann wteys fijnum diwpu Myskunar-Ydrum yfer Syndarann. Eg em Naadugur og Myskunsamur, mikillrar Goodgyrni, Og saa ed ydrar þess Illa: Hvar hid Illa merker Guds Riettferduga-Hefnd yfir Glæpum Mannanna: Enn Manneskian lætur sig svo lijtt ydra þeirra swlu Skamm, er hun reitir hann til Reidi med. O hvilijk er þa Giædska DRottinns, ecki einasta i þvi, ad hann hefur Polinnmædi med Illgiordum vorum, helldur og leitar eptir oss aa allar Lundir, og tekur aa mooti einum Syndugum sem Ydran giorir med allskonar Blijdu! Mikil var Ydran Jonæ Spaamanns, Og þo ecki minni hanns Trw, ad hann, eptir þad hann hafdi jaatad Misgiord sijna, vogadi þo ad laata kasta sier wt i hid brwsanda Haf; Enn þo var enn stærri Guds Fodurleg Giædska, er hann sætteft svo braadt vid hann og svo algierlega, ad hann tilbioo honum Vist i Hvalfiskiarens Kvidi. Þesse Guds undrunarleg Hiarta-Giædska, ætti ecki einasta ad leida oss til ad sættast vid hann, svo opt sem vier honum aa mooti brioovum, helldur er þetta ein Obrygdul Huggun fyrir þa sem undir sitt Andlaat ydrast. Stoorlega hafdi þessi Guds-Madur syndgast, þar ed hann þeckti Guds Maatt, og taladi vid hann eins og Madur vid Mann talar, Jon. 4. og setti sig þo upp aa mooti hanns Bodi; Enn hann, er svo braadlega tilgaf honum þessa Hrooplegu Synd, Mun hann ei bædi kunna og vilia forlaata þier þijnar Illgiordir, Ef þu ydrast þeirra af Hiarta? Þoott ei hafir þu laangann Frest til Ydranar; Varla mun nockur Syndari vera meiri Haaska vidkominn enn hann var þa, Og þo vogadi hann svo aa Guds Myskun, ad hann sagdi, Cap. 2. Eg em wtkastadur fraa þijnu Auglyti, Enn þo skal eg ecki laata af ad horfa aa Musteri þijns Helgidooms. Hvert var þad Musterid? Þad var Guds Myskunar-Hiarta. Hvar var þad? Þad var jafnvel i Fiskiarins Kvidi. Laat þier þvi sagt vera, ad þu ert alldrei i þeim Stad staddur, Hverki aa Sioonie Landi, Hverki i Vatni nie Ellds-Voda, ad ei sie hann þier Naadugur, nær þu af Hiarta Fridmælist vid hann; Og, i einu Orde ad segia, þar er Musteri hanns Guddooms, sem þu aakallar hann i Anda og Sannleika: Enn þessa Guds Naad att þu ecki ad brwka til ad draga sialfann þig aa taalar, Svo sem þu villdir hafa þad fyrir Lijfstykieri Saaluhiaalpar þinnar, ad Gud hefur eptir sumum leitad alla Æfe þeirra, Enn fundid þa kannskie ecki fyrr enn aa Dauda-Stundunni, Og lagt þa svo sier aa Herdar, og borid inn aa Land Lifandi Manna: Ertu þar fyrir Raangeygdur þoott hann sie Goodgiarn? Þoott hann hafi svo vid nockra giort, sem nu er mællt, Þeirra Orsaka vegna, sem hann sialfur veit; Er hann þar fyrir skylldugur ad giora eins vid þig, sem forsmaair Rijkdoom hanns Laanglundar i Oftrausti hanns Naadar, Af þvi þu veitst hann er Myskunsamur? Spaamadurinn, er eg strax umgat, Hann var Guds Madur, hann þeckti bædi Guds Giædsku og hanns Riettlæti, Og þo honum yrdi þad aa ad syndga svo stoorlega, þa vard honum þad og fyrir ad ydrast, strax sem Gud liet hann þeckia Synd sijna; Enn þier mun baagara um ad giora svo fliota Ydran, sem alldrei þeinkir nema um Glæpina, og hvernig þu kynnir þeim best i Verk ad koma. Þad hendir Guds Born, ad þau

jaua i stoorar Syndir, annadhvert af Gaaleysi eins og Moyses, af Braadrædi eins og David, af Otta eins og Petur; Þetta skiedur þegar Vilienn rædur fyrir Skynsem ina, Andinn lætur sigrast af Holldinu, enn þau ydrast aftur af Hiarta, þau væta sijna Sæng i Taarum med David, og graata beysklega med Petri; Enn sa Gudlausi hefur einga Hvijld, hann þeinkir ei annad enn hvernig hann meigi hinu Jlla framkoma, og eydir ollum Saalar og Lijfs-Kroftum til ad fylla Gyrnd sijns illfwsa Hiarta. Þoott nu ad Guds Fodurleg Ast til Mannkynsins sie jafnann bwinn til ad taka vid Syndaranum, nær hann snijr sier til Yfirbootar, þa kann eg ecki ad segia, ad þess Hattar Manneskium muni vera liett um Afturhvarf, þvi Guds Raust er miog svo hardtolud aa mooti þeim, er hann segir: Mich. 2. Vei þeim sem hugsa Raanglætid, og þeim sem stunda uppa hid illa i Svefn-Hwsum sijnum, ad þeir vilie framkvæma þad þegar byrtir, nær sem þad er i Valldi þeirra. Siaai nu þeir til, sem aasetia ad temia sier þvilijkt Hugarfar allt fram i Daudann, hvert þeir muni eiga Hlut i þessari Guds Giædsku, um hveria eg læt nu ad svo stoddu wt-talad vera, jafnvel þoott hun alldrei wt-tolud verdi, edur nooglega prijsud um alla Eilijfd. Og vil svo koma til hinns Sijdara, er eg hiet um ad Ræda.

Svo er nu Gud Raadugur til ad leita eftir oss, sem eg hefi sagt; Enn hversu erum vier nu audvelldir til ad laata oss finna? Gud hroopadi aa Adam, er hann hafdi syndgast, og sagdi: Hvar ert þu? Og enn nu hroopar hann aa oss Daglega i sijnu H. Ordi, nær vier, ad Dæmi þessa vors Fodur, briootum hanns Skipanir; þad saaum vier ad finna i hanns Tiju-Laga Bodordum, sem vier allir læra eigum, strax aa Unga Alldri. Adam og Eva foldu sig er þau merktu Guds Raust i Alldinngardinum, enn strax sem hann kalladi Manninn vid Nafn, þaa ansadi hann og jaatadi Synd sijna. Svo er þad enn nu fyrir oss, ad aa Ungmennis-Arum vorum heyrum vier ad sonu Raust Drottinns i hanns Logmaali, vidlijkt og Adam Þitinn af hanns Ferd um Alldinngardinn, enn þaa verdur oss þad fyrir, ad skijla oss aa medal Eikanna, þad er i Faavitsku Barndoomsins, og meinum ad vier kunnum ad dyliast fyrir Gudi, ef vier gietum dulist fyrir þeim, sem oss er til-trwad, og vid oss eiga um ad vanda. Svo er nu Spilling Raatturunnar fraabær i þvi, ad laata sig ecki finna af Gudi, þoott eftir Manninum sie leitad! Enn þess væri Oskandi, ad þegar vier erum komnir til Vits og Ara, og Gud kallar oss med Nafni, ad vier þaa ecki Vetthlerar værum, helldur breitum eftir Fodur vorum i þvi, ad dylia ecki leingi med oss Synd vora. Þu munnt ad spyria, hvad þad sie, ad Gud kalli Einn med Nafni? Þad kalla eg ad vera, nær hann i sijnu Ordi straffar þær Syndirnar, sem þu ert sekur i, enn þu villt ecki vid þær kannast, annadhvert af þvi, ad þu kallar þad litla edur einga Synd, er þu vel maatt þeckia Synd ad vera, edur og ad þu ert so forherdtur i þeim stooru Syndunum, sem allir Glæpi kalla, ad þu ecki ydrast þeirra, Vaninn er vordinn svo rijkur i þinni spilltri Raatturu, ad þu ei þeckir Armood þinn og Faatækt i Guds Augliti, edur ad Gud er so smaar i þijnum Augum, ad þu ætlar hann muni ecki forsmaa þann sem hann vanvirdir, 1. Sam. 2. Þegar Menn hafa nu Grein af einhveriu þessu, erum vier

vier þa ecki nærsta Torvelldir til ad laata oss finna? Þegar vorir Fyrstu Forelldrar, af Gyrndenne til ad þeckia hid Illa, neyttu þess Avaxtar, er þeim bannadur var, þa hlutu þau Osk sijna, enn þad Fyrsta Illt er þau þecktu, voru sialf þau og þeirra Fatleyse. Af þessari fyrstu Gyrnd hinns Fyrsta Mañs, er iñsmogiñ til allra Maña nockurskonar Þorski ad vita þad sem Illt er, hvadañ flestar Odygdir og Lestir spretta; enn þess væri Oskandi, ad fyrst vier Einusiñi hofum ratad i þetta Spillingarinnar Hættalag, ad oss þaa yrdi hid sama fyrir, eins og vorum Fyrstu Forelldrum, ad vor Augu lykiust upp, svo vier þecktum sialfa oss og vora Blygdan, vorn Veikleika og vora Orbyrgd, og ad vier stadfastir værum i Hugleidingu þessarar vorrar Omyndar, þaa mundi hinn goodi Hyrdir ecki einasta finna oss tijnda Saudi, helldur mundum vier leita hanns Andlitis strax sem hann kallar, hann mundi breita vid oss eins og þau, og klæda oss, ecki med Skinn-Klædum, eins og Forelldra vora, helldur med þeim Riettlætis Kyrtlinum, er hann wtvegadi oss þegar hann Hwdflettur var: Enn fyrir þvi ad vier erum so Toomlaatir i slijku, þaa fylgir þad aa eftir, ad vier sneydum Himininn þeirri Gledi, sem hann hefur af einum Syndara, sem Ydran giorir, og sialfa oss þeirra Samneyti sem i honum bwa, þar vier kioosum helldur ad eta Drafid af Svijna Tryglenum, jaa, ad hverfa aftur eins og þau til Leyrvelltunnar, helldur enn ad leita til Hijbijla vors Fodur, og mettadir verda med Abraham, Isaac og Jacob, af Nægtum Guds Hwss Eilijflegana.

Þegar einn Syndari ydrast af Hiarta, og lætur af Glæpunum, þaa kallar DRottiñ, ad hann hafe Saud sinn fundid; Enn hversu tregkomid ad sie til þess morgum Manni, þad er audsied af Glæpunum, sem Heimurinn er fullur af. DRottiñ segir fyrir Muñ Zophoniæ, Cap. 3. Er hañ talar uñ þa Naad, er hañ heitir ad veita oss i JEsu Christo: Eg vil umbreyta Vorum Foolksins, ad þær sieu hreinar; og skoñu þar eftir segir hann: Eftirleyfar Israelis skulu ei Raanglætid fremia, og þeir skulu einga Lijgi mæla, og i þeirra Munni skal ei folsk Twnga finnast. Þessi dijru Spaadooms Ord heyra og vorum Tijdum til, og mun ei þrioota þar til Verolld þrijtur, þvi svo leingi hefur Frelsarinn lofad ad vera hiaa oss. Eñ hlustid til, hvernig DRottinn i þessum Ordum, wtmaalar hinn Andlega Israel, Christner Meñ! Munu þeir verda af þvi Sauda-Hwsi, sem lasta Gud med Ordi og Verki, þeir sem eckert Lof sijngia honum med Munni sijnum, þeir ed falska Eyda vinna vid hanns hrædilega Nafn, Liwga, Baktala, Rægia og brugga Svik med Twngu sinni sijnum Broodur, sem med Guds Sonar Bloode er endurkeyptur? Laangt er fraa þvi, þeir eru eingu sijdur aan Guds i Heiminum, og fiarlæger Israels Borgar-Rietti, helldur enn hinir verstu Heidingiar, uñ hveria Paulus talar, Rom. 1. Giorid þvi Ydran i JEsu Nafni, O þier hin fraasnwnu Borninn! Og leitid Drottinns aa medann hann er ad finna, svo þier af honum fundnir verdid. Eckert er þad sem meir hindrar Gudrækni vora, helldur eñ Undandraattur Ydrunariñar. Hvernig kann Guds Ast i honum ad bwa, sem ei Daglega lætur sig þad aangra, ad hann hafi svo Naadugann Gud styggdann, hver ed i so morg Ar hefur leitad aa allar Lundir eftir hañs

Vel-

Velferd, Og viliad leida hann med Giædsku sinni og Rijkdoomi sinnar Þolinnmædi til Apturhvarfs. Vier þeckium ad sonnu Glæpi vora, Vors Guds Fodurlegt Hiarta konnunst vier og vid, i þvi, ad lijda þaa. Vier jaatum og vitum, ad ei verdur þeirra Sekt burt-tekinn, nema þeir verdi med beiskum Taarum afþvegnir: Enn hvorsu faair eru þeir ed giora svoddann Ydran, sem þeim, ad nockru Leiti, meigi sambiooda! Vær erum nærri þvi eins Lyndir og Guds Foolk, eptir þad Gud hafdi leidt þaa aptur wr Herleidingunni, Um̃ hveria skrifad stendur, Hagg. 1. Þetta Foolk segier: Þar er ei komiñ Tijmi til ad byggia Hws DRottinns; Eñ hann segier: Er þar Tijmi til ad þier skulud bwa i þiliudum Hwsum, og þetta Hws skal svo standa i Eydi? Oss hefur hinn goodi Gud af Omælsannlegri Giædsku sinni frelsad fraa Diofulsins Herteknningu i Endurgietningar Laugiñi; Enn hversu tregir erum vier og hisknir i þvi, ad uppbyggia hanns Kyrkiu, sem er vort Hiarta, med Endurnijung vors iñra Manns, Enn fyrir voru Jardnesku Hwse berum vier nooga Um̃hyggiu, eg meina Kroppinn, Þann Ham Saalarinnar, þar hun, sem er Hwsboondenn, fer þo i ollu Reidileyse. Enn hvad segier DRottinn um̃ sitt Foolk skomu sijdar i sama Capitula: Þier saaid mikid og safnid litlu inn; Þier etid, enn eingañ Veiginn til Sadnings; Þier dreckid og verdid ecki drucknir; Þier klædist og verdid þo ecki varmir; Og sa ed Laun tekur, hann leggur þau i rifinn Siood. Sama hendir þaa Haalf-Christnu aa medal vor, þaa Volgu, Um̃ hveria Guds Andi talar i Opinnberingar Bookinni, Cap. 3. Þeir vilia ad sonnu Guds Born heita, enn þo forgiefens, Nema þeir briooti nidur þa Satans Capellu, J hverri hinn Gamle Adam þioonar honum, og er hañs Prestur þar inni; enn byggi Gudi eitt nijtt Musteri i sijnum Limum med sannri Trw, Lifandi Trw, Saaluhiaalplegri Trw, Hver ed verki fyrir Kiærleikann. Þeir saa mikid; Þeir lesa Guds Ord, heyra þad, Enn þo med haangandi Hendi; Þvi safna þeir litlu inn, svo varla nockud þar af verdur geimt i Korn-Hlodu Hiartans, þeim til nota, nær aa þarf ad hallda. Þeir eta og drecka Holld og Blood DRottinns, Eñ ecki til Sadningar, miklu helldur til Fordæmingar. Christo hafa þeir ad sonnu Jklædst, Enn affært sig honum aptur med Gudlausu Athæfe og Þverbrotnu Hiartalage. Þeirra Christinndoomur er frosenn og hefur eingann Naatturlegann Varma, Og þau Laun, er þeir meina sig ad hafa fyrir Lijking sinna goodra Verka, Hver þeir giora sialfum sier til Hroosunar, enn ecke Gudi til Dijrdar, Þeim hella þeir i rifinn Siood, Þvi hin sanna Audmykt Hiartans er laangt þar fraa, Og svo Trwinn, aan hverrar Omogulegt er Gudi ad þocknast.

Breitum ei þanneg, Christnir Meñ, breytum ei þanneg! Helldur laatum oss ydra þess sem Undannfarid er, Sundurkremium vor Hiortu med Angri og Trega aan Hræsnis, og ecki um̃ Stundar-Sakir, helldur Alvarlega, Jduglega og Daglega, Þvi Daglega Syndgunst vier, og vinnum aavallt til Hegningar, Annars mun Christiñdoomsins Nafn ad eingu gagna oss, Eckert Heyrn Ordsins, og eckert vor Kyrkiu-Gaungur, vorar Olmusur, nie oñur Goodverk, helldur mun þad verda eins og DRottenn segier fyrir Muñ Haggæi, Cap. 2. Spyried Prestana ad, ef nockur ber helgad Kiot i sijnu Kaapu-

Skauti, mun hann Heilagur verda? Hverium Prestarnir svorudu Ney, og enn aptur sagdi hann: ef nockur sa sem Ohreinn er af Daudyfle, Snertir eitthvad þvilykt, hverium þeir svorudu: Þad mun Ohreint verda. Sama mun framkoma vid þa sem ei ydrast af Hiarta, og eru svo Volgir og Toomlaatir i Verki Saalar sinar. Þad Ordid er þeir heyra, Guds Lijkami og Blood er þeir medtaka, Bænirnar er þeir flapra wt af Munninum, Kyrkiann i hverri þeir byrtast fyrir Guds Augum, munu ecki helga þaa, Miklu helldur, þar þeir eru sialfer Ohreinir, og ecki þvegnir med Laug sannrar Ydranar, þa munu þeir vanhelga þessa Helgu Dooma, til Fordæmingar sier og eilijfrar Glotunar, Nema þeir betur vandi Ydran sijna og Apturhvarf fraa Syndunum; Enn vid þessu Daufheyrast Menn Almennilega, Jafnvel þoott þad sie Guds eiginn Raust i allri Ritningunne. Svo tregt veitir Heilogum Anda ad koma oss i Leitina, þegar hinn goodi Hyrder ad oss leitar. O hversu liett giora Menn sier Ydrunar-Verkid! Vier meinum ad Lygar, Stuldur, Hoordoomur, Gudlastanir, Meinsæri, og hinir verstu Klækir og Skammir, sem Diofullinn fær tilbwid i Vantrwarinnar Bornum, verdi med einu Taari afþvegnar, og jafnvel þoott ei sie þad svo miog af Grunni Hiartans; Enn Ninive Borgar-Menn grietu Syndir sijnar i heila 40. Daga. David, sem var hinn Kiærasti Guds Vinur, Hann griet þo Beisklega i Seck og Osku. Nebuchadnezar maatti af-þvo sitt Rangleti med Sis Ara Ydran. Enn hvad meinar þu þier byrie ad giora, sem ert þier svo margra Synda medvitandi, og þo eru þær fleyri sem þu ecki veist, ecki manst, og ecke athugad hefur, og sumar kann skie halldid fyrir litla edur einga Synd, enn ert þo ecki viss um, ad þu hafir svo laangann Frest til Ydrunar, sem ad Fiollda Glæpanna samboode. Mun þier ei Þorf aa ad laata þig finna af honum, sem ollum Stoorsyndurum, Tollheimtumonnum og Pwtum hefur til sijn bodid? Reid þig ecki uppaa Olmusur Phariseanna, Jafnvel þoott Olmusur sieu af Gudi skipadar; Þad heitir ad vilia kaupa Saattmaalans Blood. Med Ydran og sannri Trw aa hinn Krossfesta verdur þad feingid, enn ecki med Femunum; Þvi oll Verolldinn med allri sinni Dijrd er liettari enn Fis hiaa einum Dropa Guds Sonar Bloods, og dugir eckert til ad Endurkaupa Saal Mannsens, svo sem Frelsarinn vottar, Marc. 8. Laat þier þar fyrir allra mest hier um hugad vera, Þa munu hin wtvortis Verkinn sialfkrafa aa eptir fylgia. Ydraninn og Trwinn eru þær Tvær Hendur, Er þu aatt ad breida aa mooti þijnum Lausnara, nær hann finnur þig Villuraufandi aa Eydimorku: Gior svo, Þa munt þu Leiditamur verda til allra goodra Verka, þvi saa sem hefur Plaagad Hiarta sitt med Minningu sinna Illgiorda, hann mun skirrast vid, ad vinna þad til hinnar raudu Vellingar, Gen. 25. Er hinn slægi Bragda-Refur Diofullinn vill kaupa hanns Frumgietningu med, ad standa wt ad nyu slika Plaagu, Er Syndinn hafdi aflad honum, edur ad pijnast eilijflega i Helvijti ad odrum Kosti, og hann sem trwir aa Guds Son, og er viss um ad honum eru svo margar Syndir uppgiefnar, Hann elskar meir enn svo, ad hann laati sier finnast hanns Bodord þwng, er hann svo heitt elskadi, ad hann bar alla Guds Reidi, þa hann var Saklaus kvalinn fyrir hanns Synd-

er. Veit eg ad hverugt þetta stendur i voru Vallde: Eingeñ kañ til JEsum ad komast
nema hanns Fader drage hann, Joh. 6. Og hier stendur i Gudspiallenu: Ad Madureñ
hafe leitad eptir þessum tijnda Saud. Svo leitar JEsus ad þier, þad munde hañ ei gió-
ra, nema hønum være Alvara ad hiaalpa þier; Hann leitar ecke Forgiefens ad neinum,
nema þeim sem ecke vill laata sig fiña, eins og Pharisæi og Skriftlærder, þar fyrer leit-
ade hann ad Tollheimtumønnum og Bersyndugum, sem voru tapader Sauder, þvi hañ
var komenn til ad frelsa þad sem tapad var. Hann leitade ecke leinge ad Matthæo, aadur
enn hann liet sig finna, ecki ad Zachæo, ecke ad hinne Bersyndugu, ecke ad Hoorkonuñe,
er hañ afleiste i Musterenu. Eingum af þessum bægdu Syndernar fraa ad laata sig fiña,
enn Pharisæi mootstoodu H. Anda, Act. 7. Þvi geingu Tollheimtumenn og Portur
inn i Guds Rijke, þar sem þeir voru wtrekner: Madureñ took þeña Saud aa Herdar
sier. Hvar fyrer? Þvi ad hann hafde svo leinge raafad i Villunne, ad hañ hefur ei siaalf-
ur gaanga kuñad. Svo giører og Gud vid Syndarañ: Af þvi vier megnum eckert Gott
af siaalfum oss ad hugleida, auk helldur ad framkvæma, þa ber hann oss aa Høndum sier,
eins og einn Madur ber sinn Son, sagde Moyses um̃ Guds Foolk i Eydemørkunne.
Nu þar vier høfum svo Naadugann Gud, ad hvar sem Syndenn yfergnæfer, þar yfer-
gnæfer þo Naadenn miklu framar, og svo Milldann, ad hann vill siaalfur giefa oss Krapt
ad þocknast sier, þa laat alldrei Synd þijna svo vaxa þier i Augum, ad þu efest um̃ hanns
Myskun, nie vantreist svo þijnu Maattleyse, ad þu ei strax fylger hønum epter, þvi hañs
Kraptur er i breiskum Maattugur. Satt er þad, ad DROttne mislijkar Vondskann
svo miøg, ad eingenn Hlutur er ødrum svo gagnstædur; Vatned er Elldsins Vinur, og
Ulfurinn Saudanna, hiaa þvi Hatre, sem Gud hefur aa þvi Illa, añars munde hañ ecke
hafa unned þad til ad forlijka Heimenn vid siaalfann sig, ad ofurselia sinn Eingietenn Son i
svo bitrar Kvaler: Þetta lætur hann oss skilia er hann segier; Þo ad Moyses og Samuel
stædu frame fyrer mier, þa være ecke mitt Siñe til þessa Foolks, Jer: 15. Eñ hier er ecke
Moyses nie Samuel, DROtteñ miñ, hier er eiñ faaraadur Syndare, ein ormædd Saal,
einn harmþrwngenn Ande, einn tijndur Saudur, er þinn Sonur hefur þo aptur funded,
hver ad er meire eñ Moyses og Samuel; Munt þu burtkasta hønum, DROtteñ, nær hañ
framber þad dyra Gialld, er hanns Frelsare lauk fyrer hann aa Trienu? Fiærre sie þad
þier, Brunnur Giædskunnar, sem ecke villt Syndarans Dauda; Þad sie laangt fraa þier,
Konungur alls Landzins, ad þu straffer hinn Gooda med þeim Vonda, sagde Abraham:
Enn eg em goodur vordenn, þegar Sonar þijns Blood er wtrunned i mitt Taara-Flood;
Þad er laangt fraa þier, sem eingann villt burtu-reka þann ed til þijn kiemur, ad þu later
mig ecke nioota hanns Bæna, sem þu burt rakst þegar hann kvalldest fyrer mijna Synder:
Eda munt þu taka Giølld af baadum ockur? Og þvi skyllda eg þa ei laata mig finna, nær
minn Hyrder leitar ad mier, þoott Synder mijnar væru stærre en Sodomæ og Gomorræ
Synder, þvi mun eg vantreista mier ad betra minn Lifnad, til ad filgia hønum epter, þar
eg megna alla Hlute med Paulo, fyrer hann sem mig Maattugann giører, Christum,
Phil. 4.

Phil. 4. Og er viſs um̃, ad hvors eg bid Fodurenn i hanns Nafne, þad mun hann veita mier, Joh. 15. Þegar eg kiem fyrer Mangarans Bord, þa em eg þo ecke viſs um̃, ad eg fare þad mig gyrner, jafnvel þott eg hafe noog fyrer ad giallda; Stundum ſkorter hann Voruna, ſtundum verda Menn ecke Kaupſaatter, og þad ber til, ad annar bijdur meira eñ eg, vid þvi ſem eg falq; Eñ þegar eg kiem fyrer þijnar Naadar Dyr, HErra miñ, þa er ecke hætt vid þvi, ad eg fare Eyrendislaus. Þeſs eru ecke Dæme, ad þær Bæner, ſem eru i Himeneñ ſendar, hafe toomar aptur komed: Eg kaupe þar med Skortenum; nær eg hefe eckert af ſiaalfum mier fram ad leggia, þa fæ eg alla Hlute fyrer alls eckert; Þar breſtur ecke þad hver gyrneſt, þvi þar eru Nægter Guds Hwſs; þar ſkal eingenn hlaupa i Kaup vid mig, þvi þar er noog fyrer alla, eins fyrer Manaſſen, ſvo ſem fyrer David, eins fyrer Ræningiann aa Kroſſenum, ſvo ſem fyrer Guds Moodur under Kroſſenum, eins fyrer þann ſem ecke hefur erfidad neina eina Stund, ſvo ſem hinn er bored hefur Hita og Þwnga Dagſens, Nær Menn biooda þad med Sundurknoſudum Anda og Trwudu Hiarta, ſem alleina fyrer Gude gyllder, þad er hañs Sonar Forþienuſta; J hverium honum vel þocknaſt. Honum med Fodur og Heilogum Anda ſie

Lof, Prijs, Rijke og Makt, Styrkleike og Dijrd,

Fraa þvi nu er og ad Eilijfu, AMEN.

# A Jons Meſſu Baptiſtæ.

Gudſpialled, Luc. 1. Cap.

OG þa ed ſa Tijme var komeñ, þad Elizabeth ſkyllde fæda, og hun fædde Son. Og er Naagrañar heñar og Frændur heyrdu þad, ad DRotteñ hafde miklad Myſkun ſijna vid hana, ſamglodduſt þeir heñe. Og þad ſkiede, ad þeir komu aa hinum Attunda Deige, ad umſkiera Sveineñ, og nefndu hañ ſijns Fodurs Nafne Zacharias. Eñ Mooder hañs ſvarade, og ſagde: Aungvañveigeñ, helldur ſkal hañ Johañes heita. Og þeir ſogdu til heñar: Þar er þo eingeñ i þiñe Ætt, ſem ad heiter þeſſu Nafne. Eñ þeir bendtu Fodur hañs, hvad hañ villde ad hañ hiete. Eñ hañ beiddeſt Knefa=Spiallds, ſkrifade og ſagde: Johañes er hañs Heite. Og þeir undruduſt aller. Eñ jafnſnart laukſt hañs Muñur upp, og Twnga hañs leidriettiſt, og hañ talade, lofande Gud. Og Otte kom yfer alla þeirra Naagraña, og um̃ allar Fiall Bygder i Judæa vijdfrægduſt oll þeſſe Ord. Og aller þeir ed þad heyrdu, ſettu þad ſier i Hiarta, og ſogdu: Hvør grunar þig ad þeſſe Sveirn verde? Þvi ad Hond DRotteñs var med honum. Og Zacharias Fader hañs

 fyllteſt

fylltist af Heilogum Anda, Spaadi og sagdi: Blessadur sie DRottin Gud Israels! Pviad han vitiadi og giordi Frelsan siinu Foolke. Og han uppreisti oss Eitt Hiaalpar=Horn, i Hwse Davids Pioons siins. So sem han hefur talad fyrir Muñ siña Heilagra Spaamaña, fraa Alldodle. Hañ frelsadi oss fraa Ovinum vorum, og af Hendi allra þeirra sem oss hata. Hañ giordi og Myskunsemd vid Fedur vora, og mintist aa siñ Heilaga Saattmaala. Og aa þad Saeri er hañ soor Fødur vorum Abraham, ad hañ giæfe oss þad. Ad vier leyster af Hendi Ovina vorra, þioonudum honum aan Otta, I Heilagleika og Riettlæti fyrir honum sialfum, alla vora Lijf=Daga. Og þu Sveirn munt kallast Spaamadur hins Hædsta, Pviad þu munt fyrir=rena Augliti DRottiñs, og tilbwa hañs Vegu, Ad giefa hañs Foolke Sk:lzing Saaluhiaalpariñar, I Fyrirgiefningu Synda þeirra, Fyrer Myskunar Ydur Guds vors, I hverium hañ vitiadi vor Upprune af Hædum; Ad lijsa þeim sem i Myrkrum og Daudans Skugga sitia, Til ad greida Fætur vora fraam aa Veg Fridarins.

### Exordium.

Sjaa, Eg mun senda minn Eingil fyrir mier, Sa er tilreidi Veiginn undañ mier, Segier DRottinn hiaa Malach: 3. Cap. Ad þesse Spaadoomur hlijdi uppaa hiñ Fyrsta Nija Testamentisins Spaamann, Johannem Skijrara (Hvers Miñing vier i Dag holldum), Þad er Audvitad af Vitnisburdi sialfs Frelsarans, er ritadur stendur hiaa Matth. Cap. 11. Hvar hañ berlega þijdir hiñ sama uppaa hañ; Þad er og lioost, ad eins og Morgun=Stiarnañ geingur undañ Sooluñe, Svo rañ þesse Guds Vinur undann siinum HErra, Lausnara Heimsins. Hann var aadur gietenn i Moodur=Kvidi, og aadur i Heiminn fæddur; Þvi lijser Eingillinn, er hañ bodade Moodur DRottiñs Gietnadinn, Luc. 1. Med þessum Ordum: Siaa þu, ad Elizabeth Frændkona þijn hefur og Barn gietid i Elli sinni, Og þesse er Siotte Maanudur hennar, Sem kollud var Obyria. DRottinn var i Heiminn fæddur af Hreiñi og Oflecktadri Meyu; og þoott þad væri hid mesta Furdu-Verk, sem Gud hefur nockurn Tijma giort i ollu Naatturunnar Rijki, Þa var og þad miog svo Undarlegt, ad Johañes var alenn med þeirri Konu, er svo miog var til Ara kominn. Johannes skijrde med Vatni til ad bwa Christo Veg, Sem epteraa kom og skijrde med H. Anda og Ellde, Matth. 3. Johannes hoof sinn Lærdoom med Ydrunar Predikun og Fyrirgiefningar Syndanna, Þar hann sagdi: Giorid Ydrañ, þvi Guds Rijki er nаalægt; Þetta var og Inntakid i ollum Christi Lærdoome, er sijdann aa epter fylgdi, og svo mun þad verda allt til Enda V:ralldarinnar; Þvi sagdi hann Fordum vid Lærisveinana, Luc. 24.

Svo

Svo er þad skrifad, Og svo byriadi Christo ad lijda, og upp aptur riisa a Pridia Deige, Og predikast lata i sijnu Nafni Yðran og Syndanna Fyrirgiefning hia ollum Þioodum; Hver Naadar Bodskapur ad eirinig er til vor komenn. Nu giefur Frelsarenn þessum sijnum Forgaungu Manni þan Vitnisburd hia Matth. Cap. 11. Ad han sie meiri en nockur Spamadur. Og mætti þad sijnast, ad DRottinns Alvijsa Forsia hafe sett þetta Stoora Lioos i ondverda Christs Kyrkiu, Það er, i Fordyre Nya Testamentisins, Til ad sijna ollum þeim, sem þar ine eru, Edur inngaanga vilia, hversu Veglegt ad sie Embætti Forlijkunarinnar, Sem Guds Þienurum er tiltrwad. Vil eg þvi a þessari Blessudu Hatijd taka mier fyrir Hendur ad yfervega: 1. Hversu Virdugleg ad þeirra Þioonusta eigi af ollum halldinn ad vera. 2. Hversu miog þeir eigi sialfa sig ad vanda. Hialpa oss hier til goode Gud, Fyrer JESUM Christum, AMEN.

## Utleggingen.

VOr Þu SVeinn Munt Kallast SPamadur Hins HÆrsta: Þetta Embætti var miog svo Veglegt a Dogum Gamla Testamentisins, Svo þad fylgde Kongdoominum a Stundum. Moyses var Spamadur, og þo Hofdinge yfer Guds Foolki, David var Konungur yfer ollum Israel, og þo Spamadur, Sem lioost er af hanns Psalmum: Þeir voru og miog svo Tignadir af Gudhrædduni Konungum; Svo var Nathan i Hævegum hia David, Hazaria hia Aza Konunge, Og Esajas hia Ezechia. Nu eru þad Guds Kieni-Menn i Nija Testamentinu, sem ædur voru Spamennirnir; Þvi þetta Ord, ad SPA, merkir ecki alltijd ad segia fyrer Okomna Hlute, Svo sem giordu þeir a Gamla Testamentisins Dogum, helldur i þvi, ad flytia Guds Eyrendi og vijdfrægia hanns Nafn. Hver mun giefa mier, ad allt þetta Foolk kyne ad spa, sagdi Moyses, Num. 11. Synir ydar og Dætur munu spa, sagdi Joel, Cap. 2. Það er: Gud dijrka, Losa og vegsama. Johannes Baptista verdur hier nefndur Spamadur ens Hærsta, og þo gietur ecki um þad ad han hafi fyrirsagt Oordna Hlute. DRottinn segier, Ad Han Sie Meiri Enn Nockur Spamadur: an Efa, medal annara, þess vegna, ad allir Spamenn spadu til Christum, En Johannes bendte til hans med Fijngrenum, og sijnde Monnum Guds Son Holldinu Iklæddan. Hanns Epterkomendur eru vorir Kieni-Fedur, þeir boda oss JEsum Christum daian fyrer vorar Synder, og uppprisen oss til Riettlætis, Þeir sijna oss hann i Rithingum fyrir Augnnum afmaaladan med ollum hans Astgiofum og Velgiorningum. Hver er sw Foorn Gamla Testamentisins, er jafnast meigi vid hanns dijrmæta Holld og Bleod, sem hans Þienarar wtdeila i Heilegu Altaresins Sacramento? Hvert er Valld svo mikid a Jordu svo sem ad leysa Syndena hia þeim Ydrandi, og ad bynda hana hia þeim, sem ecki vill ydrast nie af henni lata? Joh. 20. Sioaed þa, Brædur mijnir, hversu Veglegt ad er þetta Embætti, Sem þo af morgum Vaara verdur lijtils metid. Ecke took Spamanns Embættid svo mikla Virdingu af Valldstioorninne, Þoott eg fyrir skomu segdi, ad Gud

 hefdi

hefde sæmt hana med þvi, nær honum svo lijkade. Hverutveggiu eru hanns Umbods-
Menn aa Jordunne, og eiga honum þar inne ad þioona, epter þvi sem hann hefur hver-
ium boded, þar voru og flester af Gamla Testamentesins Spaamoñum, sem eingeñ mikel-
Menne voru fyrer Heimenum. Elisæus var fraa Ploognum tekeñ, Jeremias var Ung-
lijngur, þa hann var kalladur, Amos segier i sinnar Bookar Cap. 7. Ei var eg Spaa-
Madur og ecke Spaamanns Sonur, helldur var eg Nauta-Hyrder, og leitade epter
Morberjum. Þvi tekur þetta Veglega Embætte eingañ Myndugleika af nockurs Mañs
Persoonu, Ætt, Atgiörfe, Rijkdoome nie ødrum Veralldar Hlutum, þvi þar i er øll
Sæmdenn foolgenn, ad þeir eru DRottenns Þienarar; Allur Rijkdoomurenn, ad hañ
vill vera þeirra Arfur, Num. 18. Allur Myndugleikenn i þvi, ad þeir eru Raads-Meñ
hañs Leyndardooma: Og er þad ecke lijted, Børn mijn; Hver sem aalijtur þad Okom-
na meir enn þad Nærveranda. Eg þykest vita, ad þar er eingenn af ydur sa, er ei hall-
de Guds Son alls Heidurs verdugann. Enn hvad segier Christur vid Postulana?
Hver hann forsmaaer ydur, hann forsmaaer mig. Ad vijsu er þad satt, ad vorer Kieñe-
Fedur naa ei Taanum þaangad, sem þeir høfdu Hælana, svo sem vier plogum ad segia.
Miked skorter oss aa vid þeirra Hugprijde, Þolenmæde, Kiærleika, Bindinde, Rogg-
seme, og adrar Kiennemannlegar Dygder, þo eru þeir samt Christi Þienarar, og þeir ed
vaka yfer Saalum ydrum, nær þeir giora sitt Embætte, epter þeirre Naad, sem þeim
veitt er, med Kostgiæfne. Mun þvi Christur ecke hallda þañ Saklausañ, sem vanvird-
er hanns aumasta og veikasta Þienara, þvi hann stendur og fellur sijnum HErra. Eg
vil nu i þetta Sinn ecke faa mier til Orda, hversu vier eigum þaa ad elska og virda fyrer
þeirra eigenn Persoonu, þvi eg hefe einhveriu Sinne aadur um þad talad; Þeim er þad og
fyrer miñstu, ad þeir af ydur dæmder verde, edur af Mannlegum Deige, DRottenn er
sa sem dæmer þaa, 1. Cor 4. Þeirra Ovirding hiaa Mønnunum er þeim Heidur hiaa
Gude; Þad Hatur, sem Verølldenn leggur aa þaa, aflar þeim Elsku i Himnenum; Sa
Afdraattur, er þeim skier i sijnum Tekium, hann verdur Rijkdoomur i Guds Fie-Hyrd-
slu; Eiñ Penningur, sem þa vantar hier, aflar Hundrad Peninga þar: Eñ um hitt vil
eg nu tala, ad þier ecke forsmaaed þeirra Þioonustu, þoott þeir sieu lijtelmootleger i ydar
Augum sumra hverra, þad er Kieñingarnar og Ordsins Predikun, þvi ef þier svo gióred,
þa forsmaaed þier ecke þa, helldur þann sem þa sende; Og ef þier hated þa fyrer Sannleik-
ann, þa hated þier Saaler ydar, og stofned þeim i hiñ mesta Voda. Eg bid ydur Bræd-
ur, segier Paulus, 1. Thess. 5. Ad þier þecked þa sem erfida aa medal ydar, og standa fyrer
ydar Augliti og kienna ydur, ad þier hafed þaa yfermaata kiæra fyrer þeirra Verks Sa-
ker. Hvert er þad Verked? Christner Menn! Þad segier oss Zacharias hier i Gudspi-
allenu: Ad Tilbwa Hanns VEgu: Hvers þa? Hinns Allra Hæsta, Þess Drottn-
arans, nær hañ kiemur til sijns Musteris, sem er þitt Hiarta, þad er, nær hañ krefur þess
og hin Heilaga Guddoomsins Þrenning vill þar inngaanga og Vistarveru hiaa þier gio-
ra. Til þess eru Guds Þienarar setter. Seig mier: Eru þeir þa Ills verder fyrer
sitt

sitt Verk, nær þeir giora það trwlega, og vilia fa þier soddañ Gieste til Hysingar? Eñ þetta skilst ecke hiñe Vantrwudu Kynslood; Hun er eins og Skiækiann, sem Terentius getur uñ i Skrokfögunne, eins og hun sagde uñ hinn Dramblaata Strijds-Mann, ad ei hefde leyfst vid hann ad tala, nema þad sem hann hefde ædur fyrermællt. O ja, tales þad sem oss er þocknañlegt, epter þvi sem Eyrun klæa! Er ecke þad hid sama sem DRottenn segier hia Amos, Cap. 2. Þier hafed fyrerboded Spaamönnunum, segiande: Þier skulud ei spaa? Þesse Guds Madur maatte og af þvi segia, Amos 7. Þegar Amazia Jeroboams Prestur i Bethel sagde vid hann: Þu Siaande, far burt i Gydinga Land og et þar Braud, og spaa þar, enn hallt ecke æfram ad spaa i Bethel, þvi þad er Kongsins Helgedoomur, og hanns Hws. O þier Villudyr! Þegar Leoned Oskrar, hver mun ecke skielfast? Og þegar DRottenn skipar, hver mun ecke Predika? Amos. 3. Enn hann skipar svo opt, sem ad hanns Þienarar siaa, ad ydar Glæper og Ogudlegar Athafner taka Yferhønd; Enn hver af hanns Trwlyndum Þienurum mun skielfast fyrer ydar Opocka edur Reide-Svip, nær Menn eru vísser uñ hanns Vinaattu, J hvers Hende þier erud, eins og hid sama Spaamannsins Bellte, sem þo alldrei hafde i Vott komed? Eg skal giora mijn Ord i þijnum Munne svo sem Elld, enn þetta Foolk svo sem Trie, þau er hann eyder, seiger DRottenn fyrer Munn Jeremiæ, Cap. 5. Enn þad Orded, sem Gudhrædder DRottenns Þienarar hafa i Munnenum, þad er og hanns Ord. Eñ svo sem þad ad Jerusalem ecke strax uppbrañ vid Spaamañsins Ord, samt var Baal-Ellduren ecke laangt i burtu. Svo vite hinn Gudlause Heimur, sem ecke vill leysa þessum Ellde Inngang i Hiarta sitt, til ad brenna þar upp Sorp og Endeme Holldlegra Gyrnda, vite hann, segie eg, ad hinns Eilijfa Loga mun skamt ad bijda, sem uñ Allder mun breña þa, nema þeir ydrest af Hiarta. Aller laatunst vier til Kyrkiunnar koma, aller heyrum vier Orded, og brwkum Sacramentenn, og, svo sem ein Herme-Kraaka, giorum oss Læte i Christenndoomenum, enn nær vier þetta hvad mest giorum, þa giæfe Gud, ad ecke ætte heima hiaa sumum af oss, þad sem DRottenn segier uñ Juda fyrer Muñ Jeremjæ, Cap. 5. Þar byrtast Raangsnwner Menn a medal mijns Foolks, þeir sem liggia til Lagis, og setia Snørur fyrer Foolked ad veida þad, svo sem þad Fuglarenn giorer med sijnum Veide-Brellum, og þeirra Hws eru af Prettum full, eins og eitt Fugla-Bwr er fullt af Taal-Fuglum, þar wt af verda þeir mektuger og Rijker, Feiter og Frialsleger, þeir fara med Illsku-Þor, þeir hallda eingenn Riettinde, þeir framkvæma ecke Maalefne hinns Foodurlausa og þad luckast þeim. Og Almwgeñ er a Stundum ecke betre ad sijnu Leite. Þad er ad sonnu grætlegt til ad vita, ad heiler Safnader heyra svo margar Predikaner, svo margar Aminningar af Guds Orde, enn þegar Menn krefia ad þeir giore Grein a Trw siñe, þa er varla Tijunde hver, sem kuñe ad giora þad, svo sem Christnum Mañe byriar; Þad er eins og einn Okunnugur Hlutur fyrer þeim, og eins og Draumur Nebuchadnezars, Dan. 2. Er hann sagde: Ad Orded være horfed sier. O! Hversu lijted er þetta ad virda Embætte Forlijkunarennar? Þu segier, ad Orded sie horfed

þier,

Þier, þu gietur þvi ecke i Miñi halldid Med þessu dæmir þu sialfann þig, Barn mitt; Einginn er svo Minnisstoor, ad hann af svo morgum Predikunum, svo morgum Fortolum, hvar hid sama verdur optsiñis Itrekad, ad hann ei gieti svo mikid miñst, Ef hann vantar ecki Eptirtektina, sem ad duga meigi honum til Saaluhiaalpar, helldur vallda þvi Umsvif Verralldarinnar, og Holldlegir Þaankar, ad Menn ecki Itreka med sialfum sier, edr ur brijna fyrir sijnum Bornum og Hiwum þad sem sagt hefur verid: Þvi kiemur Diofullinn og stelur Ordenu wr Hiartanu, svo undir eins og þu flijgur wt wr Kyrkiuñi, svo flijgur þad wr Huga þier. Nær mun Tunglkomu Hatijdinn lijda, ad vier kunnum ad selia Fædsluna? Sogdu Gydingar fordum, Amos. 8. Eñ þess væri Oskandi, ad nockrir Gaarungar segdu ecki i Hiarta sijnu, nær þeir undir Guds Orda Heyrn sitia: Nær mun þesse Ord-Snaapur hætta; svo vier meigum fara ad skiemta oss med Mum Lijkum? Hversu vel verdur Predikunar Embættid virdt af svoddann Vitsfola voranneskium! Giætid þess, Christner Menn, ad þau Dijrinn voru i Gamla Testamentenu einasta hrein kollud, sem ad jortrudu; Siaa þu og til, ad þu Helgir Hvijldardaginn; enn hvernig verdur hann Helgadur? Ecki er einn Dagur af sialfum sier odrum helgare, helldur verda þeir svo eptir Guds og Yfervalldsins Bodi: Enn þu helgar hann, ef þu Helgar sialfann þig, ecki einasta med þvi, ad heyra Guds Ord, helldur og hinu, ad Itreka þad med sialfum þier, er þu heyrt hefur, og velltir þvi fyrir þier eins og Dijrinn Foodrinu i Maganum og Munnenum, og vilier þu til fulls hallda þvi og alldrei sleppa, þa breit eptir þvi i Lifnadinum. Laat þad vera hiaa þier svo sem eitt Moot, hvar i Giordir þijnar jafnann steyptar sieu; Þa mun þad vera svo sem Stafur saa sem aa Bookfell er ritadur, og þijnar Giorder munu hroosa þier, svo sem eitt Bijlæti wr Gulli steypt, og nær þu svo giorir, þa kalla eg, ad þu af Alvoru virdir og elskir þetta Heilaga Forlijkunarennar Embætti; Og hvad stodar þad Manninn, ad hañ Ordid heyri, Nema hann olldungis leggi þad uppaa Hiartad, og lifi þar eptir? Edur, mun þetta Heilaga Embætti vera Iñstiptad fyrir Sida-Sakir? Edur eiga Guds Þienarar ad vera ydur eins og Born, þau aa Strætum satu og kolludu til hinna: Vier hofum fyrir ydur i Pijpur blaased, og þier hafid ecki dansad, Vier þuldum ydur Harma vora, og þier hafed ecki graatid? Luc. 7. Þeir Guds Ord heyra Athugalaust, og ecki hyrda uñ ad færa Avoxt þar af, Þeir draga sialfa sig Magnlega aa Taalar, ecki einasta i þvi, ad þad mun rijsa upp i Doomenum aa mooti þeim aa sijdasta Deigi, Joh. 12. hvad þo er hid skielfilegasta, og vill giora þeirra Fordæmingu miklu hrædilegri enn Sodomæ og Gomorræ, Helldur eru þeir Dærliger i þvi, ad þeir liaa Eyru sijn til ad heyra þann Hlut, sem þeim er hinn mesti Leidi aa, alleina til ad hræsna fyrir Monnum, og hafa þess þo einginn Not i þessum Heimi, Sem et þeirra Himnarijki, enn eilijf Giolld Annars Heims, Svo sem eg fyrir skomu sagdi.

Giætid ad hvad þad er, sem Zacharias segier framveigis uñ þenna unga Svein: Og Til Ad Giefa Hanns Foolki Skilning Saaluhiaalparinnar Til Fyrirgiefningar Synda Þeirra. Til þess hins sama eru ydur og Kieñendurnir settir, Br. M. Ecki þad, ad

þeir

þeir giefe yður Skilningenn, helldur enn Johannes. Hann skijrde med Vatne alleinasta, so giora og þeir: Paall maa planta svo sem hañ vill, og Apollo vøkva, 1. Cor. 3. Enn þad er þo forgiefens, nema ad Gud Avøxtenn giefe: Enn samt fæda þeir Saaler ydar aa þvi heilnæma Lijfsins Orde, sem ad er Kraptur Guds til Saaluhiaalpar ollum þeim sem trwa, og þegar Guds Ande samteingest þvi i Riett-trwudu Hiarta, þa kann Manneskiann ecke ad fara aa mis vid þad, ad vaxa epter fullkomnum Mæler Christi Allders, sem Paulus að ordi kiemst, Eph. 4. Og þyker mier svo sem ad hann ecke miog elske Saalu sijna, sem ecke vill þad vinna til, ad henne hoolped verde, ad þyggia Naudsynlega Uppfræding af Preste sijnum, og heyra hann i Guds Stad talande, med hiñe mestu Athygle: Ecke liggia Syndernar miog þwngt aa honum, sem ad ecke med allre Saalar og Lijfs Audmykt og Christelegum Underbwninge framkiemur fyrer Gud i Skripta-Stoolenn, til ad þyggia af honum Kvittun Synda sinna fyrer Medalgaungu hanns Þienara; Enn Gud Naade! Ad þar er varla nockur Hlutur saa, ed sumer Menn hafe aa þvilijkañ Vidbiood, svo sem aa þessare Heilsusamlegu Þioonustu; Svo nær ed annadhvert Hræsnenn edur Ottenn dregur þa under Guds Orda Heyrn, þa er þad svo sem þeir ættu ad gaanga til Pijslar, adgiætande þad lijted, ad þeir eiga þar ad finna Saalum sijnum Foodur, so þeir meige umflya eilijfar Helvijtis Pijsler. Enn segied mier þo: Ef Cain, Achitophel, Judás og hinn rijke Sælgiætingur mættu eiga Kost aa ad hverfa wr Kvolunum, og sitia under einne Predikun, mundu þeir ecke kalla þad hinn stærsta Velgiorning, og Oska ad sw Predikun alldrei þrite? Hvilijkur Daaraskapur er þa ad fraasælast þad medañ Naadar-Tijmenn er, fyrer hvert Madur gietur kvittur vorded vid þær Oumrædelegu Hormungar, er þeir nu pijnast i. Hlijded þvi Raustu Hroopandans i Eydemorku; Giored Ydran, þviad Guds Rijke er nalægt; Þockum Gude, ad hann hefur ecke sendt oss Eingla af Himnum til ad fræda oss, hverra Naalægd vier mundum ei standast, helldur syndugа Menn, vora lijka; Þar fyrer, saa sem elskar Saalu sijna, hañ elske sinn Saalusorgara, og þigge hanns Þioonustu med allre Hoogværd og Undergiefne. Og er þad nu so um hid Fyrra wttalad.

Af Johanne hafa aller Christi Þienarar þad Fyrst ad læra, ad forsmaa Heimenn med ollu þvi sem i honum er, og sierdeilis Aud og Mannvirdingar. Johannes var noogu Ættstoor, Burder hanns voru til þess, ad hann kunne ad verda Rijkur Hofdinge medal sijns Foolks. Fader hanns var einn Kiennemadur, Jaa, ecke einn Almennelegur Kiennemadur, helldur af Rod Abiæ (svo sem Lucas hier um skrifar, Cap. 1.) Hver ed var hinn Attunde medal Nidia Eleazars Aarons Sonar Hofud-Prests, svo sem þar um maa lesa 1. Cronicu Bookarennar C. 24. Hañs Mooder Elizabeth var og af Aarons Dætrum, svo sem Lucas einnig vottar, hverium Ætt-Lid ad Kiennemanns-Skapurenn fylgde, sem var ein stoor Tign medal Gydinganna. Nu þoott hann være svo Ættgøfugur, sem sag er, þa wtvallde hann helldur ad þioona Gude i Eydemorku, helldur eñ ad bera Tign Fedra sijña; Ad vijsu er þad satt, Bræður mijner, ad eingeñ er skylldugur til þess, ad hafna



ollum Tijmannlegum Munum, eins og Johannes, þvi hañ var sier i Lagi kalladur til þess Embættis. Gud hefur breitt Vægdarsamlega vid oss, og leift oss ad bwa i Landinu medal Brædra vorra, og hafa þess Not, er hann og Konungurinn hafa oss wthlutad, eñ þo ecki ad seilast þar fram ÿfir. Johannes ÿfirgaf alla Hluti fyrir Christi Sakir, þad sama giordu og hañs Postular, svo sem Petur vottar, Matt. 19. Eñ þess væri ad Osk, ad ei finnust þeir aa medal vor, sem ÿfirgiefa Christum fyrir Veralldlega Hluti; Þessu vil eg til þeirra vikid hafa, er lijtid edur eckert hyrda um sitt Embætti, enn eru alliir socknir ofann i Fiaar-Ploog og Aura-Safn, brwkandi jafnvel sijns Embættis Myndugleika til sijns eiginn Abata, enn ecki Christs Kyrkiu til Eflingar; Svo hætt er vid, ad þar finnist eins margir Judæ Lijkar, þeir ed selie sinn Herra fyrir fææina Peninga, svo sem Petri Stallbrædur, þeir ed ÿfirgiefi alla Hluti hanns vegna, og ad þad meigi vid nockra segia, er DRottinn talar hiaa Micheam, Cap. 3. Nær þeir háfa ad tiggia med Tonnunum, þa hroopa þeir Fridinn, eñ þeim sem ecki lætur upp i Munn þeirra, boda þeir Strijd. Þeir eta Syndir mijns Foolks, segir DRottinn, fyrir Munn Hoseæ, Cap. 4. og þeir reysa Hug sinn vid þeirra Rangslæti. Med sama Mooti talar Drottiñ um þessa Leigulida og um Daglaunarann, Devt. 24. Er hann segir þeir reisi Hug siñ vid Launin: Og er þad nærsta vel sagt; þvi einn Hyrdulaus Kiennimadur, nær hañ hefur þad hañ eta skal, þaa skeitir hann lijtid um Foolksins Syndir, þvi reisir hann Hug sinn alleina aa mooti Laununum, eñ leggur ad litlu hañs Umboot edur Framfor, sem hañ þiggur Launinn af, og fagnar jafnvel af vondu Athæfi, ef Syndarinn vill þad leysa med nockru Prestsins Gagni, giorandi svo Bethel ad Bethaven, þad er, Guds Hws ad Hiegooma-Hwsi. Einginn brwki þad fyrir Afsokun, ad hann neydist til þvilijkt ad giora fyrir Van-Efna og Fatæktar Sakir; Hver er saa af ydur, ad hann læti aftur Dyrnar, fyrir eckert, edur kveiki aa mijnu Alltari fyrir eckert? Segir DRottinn vid Kiennimennina, Mal. 1. Svo maa og um oss segia; Einginn er saa ed þioni Christo Okeypis, þoott ei sieu margra Laun svo rijfleg, svo sem Kyrkiu-Þienaranna i Gamla Testamentinu, Og vanti hier nockud, mun þad Þusundfalldt afturgialldast i Upprisu Riettlaatra: Edur hvad mun vera af þeim Laununum, er þier ætlid ydur af Christo fyrir ydar Starf, ef þier takid þau fram fyrir Hendur aa honum i þessu Lijfi? Trwid mier til, ad þad mun ecki verda audvelldt, ad vera Judas hier, enn Petur þar, og er þa betra hier lijtid ad hafa, og þar fullrijkur ad vera, ef annadhvert vera skal; Fyrir þvi latum oss þad sagt vera, er Johannes sagdi Strijdsmonnunum, þeim er komu til hanns Skijrnar, og þad þess helldur, sem vier erum Christi Strijds-Menn; Giørid eingum Ofrijki, og prettid eingann, helldur verid aanægdir med ydar Maala, Luc. 3.

2. Þad Annad sem Guds Kiennimeñ eiga ad nema af Johanne, er hañs skynsamlegt Vandlæti i hanns Embætti. Þar komu til hañs Skijrnar Tollheimtumeñ, Luc. 3. Sem halldnir voru hid versta Foolk, þeim sagdi hann med Hægdæti, ad þeir skylldu eckert giora fram ÿfir þad sem bodid væri: Þar komu til hanns Strijdsmenn, þeim sagdi hañ og

med

med Spekt þad sama, er eg fyrir skömu umgat: Enn þar komu og til hanns Skijrnar Pharisæi, sem halldnir voru hinir Vijsustu, hinir Heiloguſtu, og Saducæi, hinir Riettlætuſtu, þessir voru eingir Smælingiar, þvi allt Foolkid hnie ad þessum Tvennum Flockum, voru og margir Hofdingiar Gydinga af þeim; Enn af þvi ad þeir voru Hræsnarar, þa vogadi þessi Guds Madur ad segia vid þa: Þier Nedru-Kyn, hver hefur kient ydur ad umflija tilkomandi Reidi? Giorid þvi verduga Avoxtu Idraninni, og segid ei med sialfum ydur, Abraham hofum vier fyrir Fodur: Hann vogadi ad segia hinum Gudlausa Herodi Konungi: Þier byriar ecki ad hafa þijns Brooders Egta-Kvinnu. Teliandi munu þeir nu vera medal vor, Brædur mijnir, sem so alvarlega tali til þeirra, er sig kalla Hofdingia a medal vor; Jafnvel þoott ad Missmijdinn sieu svo morg i Fari sumra þeirra, ad ecki þurfi Sioonhagann Mann til ad þeckia þau. O Gud veri oss Lijknsamur, og giæfi ad Menn villdu til þess hugsa, hversu Landid er fullt af Svijvirding! Agyrnd, Ranglæti, Gripdeildir, Foroktun Guds, Forsmaan hanns Orda, Lauslæti, Hatur til Naaungans, Lygar og Roogur ganga Skyunum hærra og hroopa i Himininn, svo ad nærri þvi sijnist liggia, ad hinn Almaattugi muni itreka þau Ord fyrir Eyrum vorum, er hann i Fyrstu taladi vid Ezechielem, Cap. 7. Haf Snoruna til Reidu, þvi Landid er fullt af Hofud-Giorningum, og sialf Borginn af Ofrijki. Og þetta verdur þo annadhvert ecki, edur med haangandi Hendi straffad, af þeim, sem þo eiga ad giora Reikning hinum Alvallda Doomara fyrir Saal hinns Ogudlega a sijdarsta Deigi, allra sijdst hia þeim, sem mektugir eru, jafnvel þoott þeir annadhvert sieu fremstir i Flocki, bædi ad æfa þvilijkt, edur og ad forsvara þa ed þad giora. Þier segid; þad gylldir ecki, ei ad sijdur heyra þeir oss eins og Dvergmaal Fiallanna. Enn hvad vitid þier af þvi, Brædur mijnir? Hafid þier til þess reynt? Hafid þier hlijdt Bodi Paals i þvi, ad kalla i Akafa og vægia ecki, ad Straffa, Ogna og Aminna i Tijma og Otijma, med allri Polinmædi? 2. Tim. 4. Nema þier svo giorid, þa vitid þier ecki hvad Gud kann fyrir ydar Þioonuſtu ad wtrietta. Ætlid ei til, ad þad sie noog ad leggia Hondina a Ploogin, enn lijta svo aftur til þess sem til Baka er; þeir ed svo giora, eru ei hæfir til ad leida sialfa sig nie adra til Himnarijkis. Gud vill ecki laata hætta vid sitt Verk þoott lijtid aorkist. Skodum Dæmi Eliæ, skodum Jonæ Dæmi! Gud vill laata sitt Ord Vondum og Goodum Predika, svo þad annadhvert Frelsi edur Fordæmi. Heyrid hvad hann segir vid Ezechielem, Cap. 2. Eg mun senda þig til þeirra, og ad þu segir þeim: Svo segir DRottinn, hvert helldur þeir heyra þad, edur þeir Mootstodu veita, þvi þeir eru eitt þverbrotid Hws; Ottast ecki, þoott þeir sieu mootvilliugir, og Þyrnum vaxnir, og ad þu bwir a millum Hoggorma. Enn Gud giæfi, ad Ottinn edur Fiegyrninn hielldi ecki Sverdi Andans i Skeidunum hia oss a Stundum! Svo Menn ecki Vanhelgudu Gud fyrir eiñ Hnefa Bygg Miols, og einn Bita Brauds, og saumudu svo Kodda undir hvern Armlegg, eins og hinar forsku Spaa-Konur giordu undir Jerusalems Eydileggingu, Ezech. 13. Til ad teikna þar med

Frid, hvar þo eingenn Fridur var. O! Brædur mijner, þvi skylldum vier þo hrædast þa riwkande Elldebranda, og ecke miklu framar hinn Lifanda Gud, hvers Umbod vier aa Hende hofum. Laatum oss heyra þad hann segier vid Jeremiam, Cap. 1. Vert ecke Ottasleigenn fyrer þeirra Augum, ad eg ei sundurmerie þigi þeirra Auglite. Hvert er þa nu betra, ad siaa Skaalkenn ygla sig, og hañ faae þo eingu til Vegar komed, ellegar ad mæta Guds Obliidu, og ad hann sundurmerie oss ad þeim aasiaaendum? Gud kann ad troda Andskotann under Fætur hinns minnsta Vesælings, sem honum treyster, og giorer Verk sinnar Kallanar i hañs Otta, auk helldur þa Sinaa-Pwkana, sem vier hofum ad beriast vid; Upphefium þvi vorar Radder sem adrar Baasunur, segium Israel til sinna Synda, og Jacob til sinna Misgiorda, svo ei verde þeirra Bloods af oss krafest aa hinum mikla Deige alls Hollds, nær hver einn mun hafa noog med sijnar Synder, þoott ei giore hann sig Hluttakande i Annarlegum.

3. J Þridia Maata hefur Johannes med sijnu Dæme kieñt oss, ad vier skulum vera Arvakrer og Kostgiæfner i Lærdoomenum. Hanns Kyrkia var Eydemorkenn, þvi Jerusalems Mustere hofdu þeir giort ad Ræningia-Bæle; hann foor i krijngum allt þad Land er laa vid Jordan, og predikade Skijrn Ydranarennar til Fyrergiefningar Syndanna, Luc. 1. Ut þaangad foor til hanns Jerusalem og allt Gydinga-Land, svo sem Matthæus vottar, Cap. 3. Þetta var stoor Sookn, Brædur mijner, fyrer eiñ Mañ, og skulum vier ecke meina, ad hanns Verk hafe einasta vered ad skijra; Þvi Lucas segier, svo sem eg strax aaminñtest, ad hann hafe predikad Ydranar-Skijrnena, þad skilst mier ad sie, ad hañ hafe wtlagt og wtlistad fyrer þeim, er komu til hañs Skijrnar, hvilijkur ad være saa Lærdoomur, uppaa hvern þeir skijrdust, og hverneg epter honum ætte ad lifa: Þad sijna þesse Ord af hañs Predikun: Giored Ydran, þviad Guds Rijke er naalægt; Item: Giored verduga Avoxtu Ydranenne. Svo er eg viss um̃, ad hann eingann hefur til sinnar Skijrnar teked, af þeim sem komner hafa vered til Vits og Ara, sem ecke hefur vered fullnuma i þessum Lærdoome; Nærsta Olijkur þeim af oss, sem sitia vid Bord DRottenns i Heilagre Kvoolldmaaltijd, ecke einasta Unglinga, helldur og Afgamlra aa Stundum, sem ecke kunna ad reina og proofa siaalfa sig, nie giora Skil aa Lijkama DRotteñs og añare Fædu. Stoor var þesse Sookn Johannis, Brædur M. Og gaf hann þo ollum i riettann Tijma hvad þeim byriade, annars munde DRottenn ecke sagt hafa, ad fraa hañs Dogum hefde Himnarijke lided Ofrijke, Matth. 11. Vorar Sookner eru laangtum minne, þo vantar þær aa Stundum hvad þær Naudsynlega vidþurfa. Þier segied, hvad vantar þær? Eg vil hier til svara, ecke ollum, enn þo morgum: Þær vantar sialldnast Sacramentenn, þo vita Menn, ad af þvi ber aa Stundum hiaa sumum hverium, eñ þa vantar Kostgiæfna Undervijsun, bæde um̃ Sacramenteñ og um̃ adrar Trwarennar Greiner, sem eru Omissande til Saaluhiaalpar. Zacharias spaaer um̃ sinn Son, Ad Hañ mune giefa Guds Foolke Skilning Saaluhiaalpareñar Til Fyrergiefningar Synda þeirra. Svo eigum vier ad giora, añars er Verkid Onijtt. Hvad gagnar þeim

Skijrnin

Skijrnenn, sem vier hǫfum veitt hana? Nema vier grandgiæfelega vtskijrum fyrer þeim hennar Krapt, nær þeir dragast aa Legg, Minnum þa aa hvad þeir hafa þar Gude lofad, kiennum þeim ad endurnya þann Gædskurijka Naadarennar Saattmaala Daglega med sijfelldre Ydran og Endurnyungu Lijferneſins. Hvad stodar þeim Holld og Blood DRottens? Nema vier fyrer hanns Aðstod Iklædum þa einu Brwdkaups Klæde, aadur enn þeir framkoma fyrer svo skielfelega Hættign: Kiennum þeim ad ydrast Syndana; Ad vita hvad þeir þar medtaka; Ad trwa þvi, og ad briota ecke framar Endurnyung sijns Skyrnar-Saattmaala Vijsvitande. Þetta, og annad þvilijkt, er ad giefa Guds Foolke Skilning Saaluhiaalparennar; Og nema vier þetta giorum, þa vanhelgum vier þessa dijru Dooma, svo ad þeir verda til Fordæmingar, bæde þeim, sem þa handtiera, og hinum, sem vidtaka. Þu villt kann skie segia: Eg em ecke fæddur med H. Anda eins og Johannes, þvi er ei Von, ad eg svo miklu af Stad kome. Eg jaata þad, þar heimtest og ecke svo miked af nockrum einum af oss, svo sem af honum, vier mundum og skamt komast med ad afkasta svo miklu; Samt hǫfum vier aller Heilagann Anda medteked, og aller hǫfum vier Vit og Skyn þeiged af Gude, oss hafa Forelldrar vorer til Menta sett, svo vier kynnum odrum ad kienna. Hefde Gud fyrerſied, ad til Mannanna Saaluhiaalpar þyrfte sier i Lage Andans Gaafur, eins og Johannes og Postularner hǫfdu, þa hefde sw Andans Gaafa jafnann Samfara vorded Christnenne; Enn hennar Meistare, sem best veit hvad þessare Byggingu hagar, hann vill nu laata sijna Þiooна nægiast med Almennelegar Naatturunnar-Gaafur, hveriar hann þo jafnann styrker med Krapte sijns Anda, þar sem Astundan og Arvekne er fyrer. Segied mier; Hver er saa af oss, et hann hefur einhvern kostgiæfenn Eyrendes Reka, ad eckelegge hann honum allt i Hendurnar, til ad framkvæma þad Eyrende? Vilium vier þa ætla, ad Brunnur Giædskunnar, sem svo miog elskade Saaluhiaalp Mannanna, ad hann gaf sinn Son i Daudann fyrer oss, hann mune laata sijna Þienara vanta sijna Adstod, nær hann sier þeirra Kostgiæfne? Enn þad er Græatlegt til ad vita, hversu Toomlaater ad sumer Menn eru i þessare Ydiu, og laata sier umm allt annad meira giefed vera, enn giora Guds Verk ad Hiaaverke. Jaa, þad er aumkunarverdur Hlutur; Svo Almwgenn, sem ad ecke veit Guds Riettinde, hann fær þau ecke ad heyra sumstadar af Faavijsum edur Hyrdulausum Ordsins Þienurum; Fare þeir villt, Þeir verda ei leidrietter; Syndge þeir, þar verdur ei adfunded; Forherdest þeir i Syndunum, þa verdur þo ecke þeirra forstockad Hiarta sundurmared med Guds Orde, hvert ad er einn Elldur og einn Hamar, segier hann fyrer Munn Spaamanns sins, sem ad Klettenn i sundurmolar, Jerem. 23. Dygdenn verdur a Stundum hǫtud, Lostunum hroosad, edur þeir verda afſakader, Sierdeilis sieu þeir giorder oss i Vil. Mun þad ei vera hid sama og DRottenn segier, Ezech. 13: Foolked bygger upp einn Vegg af Leyr, og þeir klijna hann med Onijtu Kalke; Vei þeim heimsku Spaamonnum, segier DRottenn, er gaanga epter sijnum Anda, þijner Spaamenn eru lijker Refum aa Eydemorku, O Jsrael! Segier hann. Gud giefe, ad þesse Pestilentia ecke dræ-

þi sier nidur hiaa oss! Þad maa kalla, ad þeir fylgi sijnum eiginn Anda, er tala hvad þeim i Hug kiemur, þad þeir alldrei i Ritningunni saau, edur jusu upp af Israels-Brunni, helldur þeirra eiginn Drauma; Og þo skammast þeir sijn ecki ad segia: DRottinn hefur sagt þad, þo DRottinn hafi þad alldrei talad, segir Ezechiel Spaamadur, Cap. 22. Svo kalla og þessir Guds Ord, hvad sem þeir Rugla, ef Munnurinn alleina fre-sdir, eins og aa Skeidmæddum Hesti. Refarnir eru solltnir i Eydimørkunni; Svo raasa og nockrir Kiennendur umm þurra Stadi, og finna ecki hvar med þeir kunni sitt edur annarra Lijf ad næra; Þeir snijkia wt wr Oþørfum og faavijsum Bookum, þad sem eingum er til Nota, Skrøk-Søgur, heimskulegar Samlijkingar, og raangar Utleggingar aa Stundum, til ad tefia af Tijmann, svo þad verdur ei varid, ad Menn meiga heyra þær sumar Predikanir, af hverium einginn er nockru nær i sijnu Saaluhiaalpar-Verki.

O Guds Menn! Laatid ydur þo Einhvern Tijma til Hugar koma, ad foostra Hiørd DRottinns, er hann afrekad hefur med sijnu eiginn Bloodi, og yfir hveria H. Andi hefur ydur Tilsioonar-Menn setta, Act. 20. Pharao villdi ecki giefa Israels Sonum Haalm edur Mwr-Stein til ad giora þad Verk, hann hafdi bodid þeim, og þo heimti hann Verkid af þeim; Eins virdast mier lyndir þeir Kiennimenn, er eckert hyrda umm Christi Arfleyfd, sem þeim er til Vøktunar feingenn; Þeir heimta af Foolkinu, ad þeir lifi Christilega, og giøri Kiærleikans Verk, enn ecki kienna þeir þeim Adferd slijkra Hluta, og ecki gaanga þeir undann ødrum i þvi, sem þeir biooda, Jaa, sumir jafnvel þvijnga af þeim, þad sem þeir kynni ad giøra Verk Kiærleikans med. Er þetta ad vera Christi og hanns Postula Eftirbreytari og Eftirkomari? Af hveriu vier þo stærum oss. Laatid ydur þad ecki helldur noog þykia, Brædur mijnir, þoott þier hafid þeigid goodar Gaafur til ad kienna, edur þoott ydar Kienningu sie hroosad af Mønnum; Þad er ad sønnu stoor Guds Astgiof, og hanns Þienurum miøg svo þørf, til ad uppbyggia hanns Kyrkiu. Enn laati Menn sier þad i Hug koma, er sagdi fordum hinn goodi Hyrdir vid sijna Lærisveina: Fagnid ei yfir þvi, ad Dioflarnir eru ydur undirgiefnir, helldur af þvi, ad ydar Nøfn eru skrifud aa Himnum, Luc. 10. Svo vil eg og segia i vijdlijkum Hlutum, þo ecki ølldungis hinum sømu; Fagnid ecki yfir þvi, ad Menn hroosa ydur; þvi ydur kynni ad henda hid sama og Herodem, hvern Eingillinn sloo, Af þvi hann gaf ei Gudi Dijrdina, Act. 12. Helldur fagnid af þvi, ef Safnadir ydar Leidriettast, Ef þier med Christilegu Dæmi og Røggsamri Kienningu leidid nockurn aa Guds Veg, So ad þier sieud visser umm, ad þeir med ydur, og þier med þeim, munud Guds Rijki erfa; Glediest af þessu, Þvi til þess erud þier settir, þar i eiga aller ydar Atburdir, allir Saalar og Lijkamans Kraftar ad reyna sig, og ecki til ad wtvega Hroos-Maal-Snyllinnar hiaa Mønnum; Þvi eigi gagnadi þad hinum vondu Phariseis, þoott Christus segdi, ad Menn skylldu giøra eftir øllu þvi sem þeir toludu; og ei ad sijdur voru þeir blindir, Blindra Leidtogarar, Hræsnarar, Eitur-Ormar og Nødru-Kyn. Þvi kalla eg ecki þann ad vera hinn besta Prest, sem hefur hid mesta Alþijdu-Lof af sinni Tals-

Gaafu,

Gæsku, helldur þann sem hefur hina bestu Tilheyrendur, og best til Himnarijkis uppfræda, sem elski Gud og Nauungann, og vardveiti sialfa sig Flecklausa fra Heimi þessum; Hann les sitt Festi-Bref fyrir Himnarijki, svo oft sem hann sier, ad hanns Tilheyrendur gaanga a Guds Veigi, og verka sijna Saaluhialp med Ugg og Otta. O þu mikli Hyrdir Saudanna! Bid þu þinn Himneska Fodur fyrir oss, ad bædi Kiennendur og Tilheyrendur mættu svo taka Vara a Saalu sinni hier i Lijfi, ad vier i Lambsins Brwdkaup til samans innleiddir verdum; Þad Bænheyri hiñ Nædugi Gud fyrir Sonarins Forþienustu, Amen.

# Fioorda Sunnudag eftir Trinitatis.

Gudspiallid, Luc. 6. Cap.

Og JEsus sagdi til sinna Lærisveina: Verid Myskunsamir, lijka sem ydar Fadir er Myskunsamur. Aungvañ skulud þier dæma, svo ad þier dæmist eigi; Fordæmid ecki, svo ad þier Fordæmist eigi. Fyrirgiefid, og þa mun ydur Fyrirgiefid verda. Giefid, og þa skal ydur giefast. Gooda, Samþryckta, Velskiekna og Yfirfliootañlega Mæling munu þeir giefa i ydar Skaut. Þvad med þeirri hiñi sømu Mælingu, hvørri þier mælid wt, mun ydur tñ aftur mælt verda. Og hañ sagdi þeim eina Eftirlijking: Hvert kañ nockud Blindur Blindañ ad leida? Falla þeir ecki baadir i Grøfina? Lærisveirniñ er eigi yfir sijnum Meistara, Eñ hver hellst sem Fullkomiñ er, hañ mun vera sem hañs Meistari. Hvad sier þu Ognina i þijns Broodurs Auga? Eñ ad þeim Biaalkanum, sem i þijnu Auga er, giætir þu eigi. Eda hvernig mattu segia Broodur þijnum: Broodir, Leif þu ad eg i burt dragi Ognina wr þijnu Auga, þar ed þu sier ecki sialfur Biaalkañ i þijnu Auga? Þu Hræsnari! drag fyrst wt Biaalkañ wr þijnu Auga, og sia þu þaa svo til, ad þu faair wtdreigid Ognina, sem er i þijns Broodurs Auga.

Exordium.

DÆmid rietta Dooma, segier Gud til sijns Foolks, hia Zachariam, Cap. 7. Hvernig segir þa DRottinn hier i Gudspiallinu? DÆMid Ei, Svo Þier Ei DÆMDir VERDid, FORdæmid Ei, Svo ÞJer VERDid Ei FORdæmdir. J þessu ber þad ad athuga, ad þegar DRottinn bijdur sijnu Foolki ad dæma rietta Dooma, þaa er audsied, ad hann giorir Raad fyrir þeim, sem raangir eru, og bannar þaa; Svo giorir og Frelsarinn hier i Gudspiallinu. Guds er Doomurinn, segir DRottinn. Þad hefur jafnann verid Hattur Andskotans, sijdann

hann

hann datt wr Heidrenum, ad apa epter Guds Hættign, og svo vill hann og setia sig a Doom-Stoolenn a Stundum, svo sem Gud situr a millum Gudanna i Doomunum, Ps. 82. Soo er ecke trwtt um̃, ad Fiandenn meige stelast þar inn; Eg vil ecke segia, ad hann gange þar Berlega, þoott ei verde hann siedur Lijkamlegum Augum; Samt meiga Menn þo sia hanns Verk, þegar svo ber vid, þvi af þeirra Avoxtum skulud þier þeckia þa, segier Lausnarenn: Og þetta ækst honum epter þvi, sem þeir eru Lynder til, sem Doomana sitia, og ad þvi Leite, sem þeir hafa Gud fyrer Augum sier, og Ottast hinn Alvallda Himens og Jardar Doomara. Doomurum er Missfared eins og ødrum Mønnum: Þar situr Moyses a Doom-Stoole, þar situr og Eli, þar sat Salomon, þar sat og Achab, þar sat Lycurgus, þar sat og Pilatus, og eru þau Doome Opriootande. Gud giæfe Menn hefdu færre af Eli, Achabs og Pilati Brædrum, enn hiner væru fleire! Þa mundum vier ecke svo Berlega sia þad Teikn hinns Sijdarsta Allsheriar Dooms, sem Lausnarenn segier oss fyrer, hia Matthæum, Cap. 24. Ad fyrer þvi, ad Ranglæted vex, þa koolne Kiærleike margra, svo sem þad nu sia ma af øllum þeim, sem ad þvi giæta, enn finna hvad mest af þeim, sem fyrer þvi verda. Þar eru og Doomar Ymisleger. 1. Er þar Doomara Embætte, sem tilheyrer Kyrkiunnar Þioonustu-Mønum, hverium alvarlega bannad verdur, ad segia hid Illa Gott, Esa. 5. Og skipad, ad þeir adgreine hid Laka fra þvi Dijrmæta, ad ei bode þeir Frid, hvar eingenn er, til ad villa Saalernar. Þanneg dæmde og fordæmde Lausnarenn Ozudlega Phariseos. 2. Er þad hinn Almennelege Laga-Riettur, hver af Gude er tilsettur, Mannkynenu til Gooda og Vidurhallds. 3. Eru þeir, ed Men̄ Almennelega kalla Dag-Dooma, hveria Frelsarenn sier i Lage bannar hier i Evangelio; Um̃ hveria eg vil nu i þetta Sinn nockud framar tala, epter þvi, sem Gud giefur Naad til. Enn þu alls Hollds Doomare, HErra JEsu Christe, styrk þu mig hier til med Naad þijns Anda, fyrer þijna Forþienustu, AMEN.

## Utleggingen̄.

Hesser skadligu Dag-Doomar verda med morgu Moote, og margra Orsaka vegna; 1. Fyrst þegar Menn nidra þvi, sem Naunganum er vel giefed, og meiga ei þola, ad þvi sie a Lopt hallded; Þetta Illgrese sprettur af þeirre fwlu Drambseme og Øfund, er liggur i Bloodenu hia oss Adams Sonum, sumum meir, en̄ sumum minna; Vel sie þeim, sem gieta dreped þetta Eitur med Þeckingu sijns eigenn Overdugleika, edur enn þad blæs upp Saalena, hønne til eilijfrar Glotunar, sem vijs er þeim ed hroka sier upp, og þyker ad eingen̄ stande sier jafnfætis; Þvi Gud mootstendur Drambsamum, segier Ritningen̄; og hvar vill sa Heimoon eiga, sem hefur Kønung Himnan̄a fyrer Ovin, nema med honum sem DRotten̄ steipte af Himne i eilijfar Pijsler, vegna hin̄ar Syrstu Drambseme. Heyr þu mier, Molld og Aska, þu vesæll Orma Seckur! er nockud annars Aþiæte þijn Nidran? Ef þu ert Kostum bwenn, a ecke Gud frialst ad giora annan Þier jafnan̄, edur fremre, ef han̄ vill? Þvi hræker þu þa Gude i Andlited, og smanar han̄s

Mynd-

Mynd, Sem er Dygdinn, med þinni saurugri og Ohlutvandri Twngu? Eñ munt þu ná þvi, sem þu eptir leitar, Kiæri, og ecki helldur tapa Virdingu þinni med Annars Nidran, hverri þu ella mundir halldid hafa? Ad vijsu. Ef Rafninn þegdi, þa miste hann ecki Braadena aa Stundum. Þegar eg heyri einn lasta þad sem vel er giort, þa flijgur mier strax i Hug; Hvad mun þesse Madur vilia losad hafa, fyrst hann lastar gooda Hluti? Eg giet ecki annad meint, eñ ad hann kunni ecki Grein Ills og Goods, Edur ad hann tali af Hatri, þar hann ecki añ Naaunga sijnum Saumælis, edur og i Þridia Lagi, ad hann uggir fyrir ad honum sie hroosad framar sier, og sie eg þa, ad hinn er fremre, Jafnvel ad sialfs hanns Doomi, Þoott ecki vilie hann Doominn uppsegia. Svo skierdir nu hanns Mælgi Virdingu hañs, ad minni Hyggiu, aa hveria Lund sem þetta teked er, Hvern eg ella hefdi kannskie fyrir goodann Mann halldid. Einginn leiti eptir þvi sem hanns er, helldur eptir þvi sem añars er, segier Paulus, 1. Cor. 10. Laangt eru þeir fraa þvi, Er vilia taka Sæmdina fraa odrum, til ad auka sijna med; Einn Þioofur er vidurstyggilegur i Mannaña Augum; Og verdur ei mooti þvi sagt, ad þetta er nockurskonar Þioofnadur i Guds Augliti, þvi hann sem nidrar odrum, Hann stelur Virdinguñe fraa Naaunga sijnum, og er þad svo miklu argari Þioofnadur, sem Heidurinn er Fiemu dijrmætari. Hann sem lastar þad sem vel er giort, Hann er Lygare, þvi hañ segier Hluteinn odruvijse enn hann er; Eñ hvad segier Syrach, Cap. 20. Betri er einn Þioofur eñ eiñ sijfelldur Lygari, Þo munu þeir badir Olucku na hreppa. Hafe hver añann sier i Virdingu Ædra, segier Paulus enn aptur: Vel giora þeir þad, sem verda nærri þvi siukir, ef adrer eru aagiættir jafnframt þeim! Þad er vel tilfundid aa vora Twngu, ad Menn giefa þvilijku Siwkdooms Nafn, Þvi Menn kalla þann Ofundsiwkann, sem plaagadur er af þessum Diofle. Eingu eru þeir betri, sem þeigia yfer þvi sem Lofs verdt er, þeir ræna eins Dygdina sijnum Launum, sem er Heidurinn; og væri hun ecki sijn eiginn Verdlaun, þa mundi hun verda eins og Verka-Madur sa, er leidist ad vinna Okeypis; Þad er Einslags Lagaleyse og Riettar Neitun, ad vilia ecki hroosa þvi sem Lofs vert er, og ecke skilur þetta Tvennt odruvijse, enn þad ad dæma raangt, og ad neyta Riettarens, og er hverttveggia Svijvirding bædi fyrir Gudi og Monnum, svo varla maa uppaa millum sia, hver Skomminn ad hærra situr i Fiandans Rijke.

2. J Odru Lagi eru þeir, sem drepa wt hinar minnstu Naaungans Avirdingar, og giora Ulfallda wr Mij-Flugunne, þad er, Stoor-Glæpi wr lijtille Yfersioon. Um þessa Naungsinwnu Dooma talar Frelsarinn hier i Gudspiallinu, Þar hann segier: Hvad Sier Þu ÞGnena J Þijns BRoodurs Auga, Enn Þañ BJaalkañ, Sem J Þinu Auga Er, Adgiæter Þu Ecki. Varla er nockur Lostur tijdari i Heiminum enn þesse; Meñ eru svo giefnir fyrir ad leita upp añarra Misgiordir, svo Grandskignir i ad sia þær, Soo Naalsmiallir i ad drepa þær wt, þar vier erum þo sialfer Lijtum hladnir. Ef vorar Hugsanir, Ord og Giordir ættu ad stikast aa hinn Riettvijsa Allsheriar Kvarda, edur hver er sa ed segia kuñe: Mitt Hiarta er hreint? Verda maa ad þu siert ecki svo laginn aa

H þaß

þañ Loſt, er þu ſo laſtar aa ødrum, enn elur kannſkie adra verri, og ſamſinnir þeim, ſem eru
þijnir Stall-Brædur i ſlijku. Þier þykir vænt um̃ þijna eiginn Klæki, eins og Apiniumi
um̃ Unga ſijna, þoott þeir ſieu allra Kvikinda liootaſtir (ef þad maa nockud liott kalla,
ſem DRottinn ſkapad hefur); og þo ecki ſie annad, þa er þetta Glæpur noogu ſtoor, ad þu
giorir þijns Naunga Avyrding ſvo ſtoora, enn aſſakar þijna eiginn, ſem kannſkie er miklu
ſtærri. Hinn Drambſaati lijtir hinn Agiarna, enn ſig kallar hann Hugprwdann; Hiñ
Agiarni laſtar hinn Eydſluſama, ſig nefnir hann forſiaalann; Hinn Eydſluſami bryxlar
hinum adſiaala, enn hañ vill Orlaatur heita: Og ſvo þykir hverium af oſs ſinn Fugl fagur,
og ecki einaſta þetta, helldur þad ſem vier erum ſiaalfir hvad meſt gieſnir fyrir, þad drepum
vier wt aa ødrum (ſem er ſtakt Blygdunarleyſi), jafnvel aa goodum Mønnum og Heid-
virdum, ef þa kann eitthvad þvilijkt ad henda, ſem vier ſiaalfir høfum giort ad Handver-
ki og Daglegri Idiu, til þeſs, ad giora þaa eins ſvarta og oſs, og ad þeirra Dæmi ſkuli
bera Skuggann aa vora Glæpi: Enn faair hyrda um̃ ad draga fyrſt wt Biaalkann wr
ſijnu Auga, ad þeir meigi ſijdann wtdraga Ognina wr ſijns Broodurs Auga; Þad er,
ad vanda og temia fyrſt ſiaalfann ſig, ad Madur ſijdann meigi aaminna ſinn Broodur
med þeſs meira Frelſi og Alverti. Hier um̃ talar Paulus Roggſamlega, Rom. 2. ſeg-
iandi: J þvi ad þu annann dæmir, þa fordæmir þu ſiaalfann þig, þvi þu giorir hid ſama,
ſem þu dæmir; Enn meinar þu, O Madur, ſierhver ſaa er dæmir þaa ed þvilijkt giora
(ſegir hann) og þu giorir hid ſama, ad þu munir um̃flija Guds Doom? Hvert ad er
ſamhlioda þvi ſem hier ſtendur i Gudſpiallinu: Dæmid Ecki, Svo Þier Verdid Ecki
Dæmdir; Og er þad merkilegt, ſem Poſtulinn ſegir hier: J þvi ad þu dæmir annañ
þa fordæmir þu ſiaalfann þig, þad er, med þvi ad þu giorir þig ad Doomara i annars
Avirdingu, i hverri þu þo ſiaalfur ſekur ert, þa aflar þu þier Fordæmingar, þvi Gud
vill þijnar Syndir dæma i Reidi ſinni, fyrir þeſſa Hlutſemi þijna, þar þu fellur inn i hañs
Embætti, ſem Doomurinn alleina tilheyrir, ſvo ſem Jacob vottar, ſegiandi, Cap. 4.
Einn er Log-Giafarinn, ſaa ed kann ad frelſa og Tortijna, enn hver ert þu, ſem añañ dæ-
mir? Og þetta ſkiedur oftaſt i þeim Hlutum, ſem oſs alldeilis ecki vidkoma. Eg kann
ecki ad ſegia, ad mier leyfiſt ei ad kalla þad illa giort, ſem mier er tilgiort, ef þad er illa giort,
þa vil eg helldur laata Løginn dæma milli mijn og mijns Mootſtødu-Manns, helldur enn
leggia ſiaalfur Doom aa hanns Tilgiørd, þvi hverki gylldir minn Doomur mikid, ne
ma ad giora mig ſekann fyrir Guds Doomi, ſvo og tek eg hann fram̃ fyrir Hendur aa
Valldſtioorninni, hver ad er ſett Goodum til Forſvars, enn Vondum til Hegningar; enn
hvad aa eg med, ad dæma um̃ þad mig ei ſnertir i enu minnſta? Hvad vardar mig um̃ ad
dæma þaa ſem fyrir utann eru? Segir Paulus um̃ Heidingiana, 1. Cor. 5. Syndgar
nockur, þaa ſyndgar hann mooti Gudi, og mooti ſiaalfum ſier, mooti ødrum, enn mier ecki.
Eg vil dæma hann ad ſvo miklu Leiti, ad eg variſt hanns Dæmi, og aaminna hañ, og leid-
rietta, ef eg fæ þvi vidkomid, þo ſvo ad eg dragi fyrſt wt Biaalkann wr mijnu Auga, enn
ecki vil eg wthroopa Synd hanns, og allra ſijſt giora hana ſtærri enn hun er; Hvar fraa
Gud

Gud vardveiti mig! Helldur affaka, ef hun er þannig ad hun verdur affokud: Og fa odruvijsi dæmir sinn Naunga, hann tekur Guds Riett fra honum, og giorir sig ad þess Herra sem hann dæmir, þar hann er þo ecki nema Samþioon. Merkilega talar Paulus hier um, segiandi, Rom. 14. Hver ertu sem fordæmir annarlegann Þioon? Hann stendur og fellur sijnum Drottni. Jacob segir, Cap. 2. um þaa sem fara i Mannvirdingar, ad þeir sieu vordnir vondra Hugsana Doomarar; enn eckert er Manngreinar Alitverra edur Heimskulegra en þad, ad kalla sig horskan og heilagan, Jafnvel þo vier aller hrosum i morgu, enn nijda sijna Brædur fyrer somu Lijte, sem vier leikum oss ad, eins og odru Table, edur kannskie odrum verre; Velldur þad þvi, ad Menn giora sier svo ant um ad hnijsa eftir Naungans Giordum og Athvirdingum, ad Menn faa ecki Toom til ad rannsaka synar eiginn, til hvers DRottinn bendir hier i Gudspiallinu, þvi ef Textans Meining er riett athugud, þaa heitir þad svo: Þu Starir aa Kvistinn, Sem Er i Þijns Broodurs Auga: Enn Þann Biaalkann, Sem J Þijnu Auga Er, Hugleidir Þu Ecki. Þad er; Oss verdur svo Starsijnt aa þad, sem vier lijtum siaaum aa vorum Naunga, og hofum svo mikid Omak fyrir ad giora þad enn þa lijtara aa Stundum, ad oss kiemur ecki i Hug ad eins, ad vier sieum i hinu sama valldir, svo langt er fraa þvi, ad vier rannsokum vorn Lifnad, edur leitum i Filsnum vors Hiarta eftir þvi, sem þar kynni fool gid ad vera, og fyrir þvi vier horfum riett aa fram, þaa siaaum vier ecki Skreppuna, sem aa Bakinu hangir (svo sem i hinum Griska Ordshætti segir): Velldur þessu hin Bolvada siaalfs Elska, er liggur i voru spilltu Bloodi; Og þessi Grein af Dag-Doomunum, er nu þess skadlegri, sem hun er almennari, og varla fyrir nockra Synd halldinn Manna aa medal. Menn koma samann til svoddann Dooma, svo sem til annars Giesta-Bods, og i siaalfum Giesta-Bodunum hygg eg ad þessi Riettur inn smacki hvad best aa Stundum; Enn þad er ad Ottast fyrir, ad Satan hafi tilbwid þeim einn Riett i Myrkra-Salnum, er skiemta sier ad þessu, þad er, ad þeir eti sijnar Twngur wt af Ofraun, Apoc. 16. Sem þær brwkad hafa til slijkra Rangsnwenna Dooma, nema þeir þecki Synd sijna, ydrist hennar, og laati af henni, aa medann enn þa er Tijmi til ad dæma siaalfann sig. Hlijdum þvi Raustu Jacobs, er hann segir, Cap. 4. Talid ecki hver aa mooti odrum; Saa ed talar aa mooti sijnum Broodur, og saa ed fordæmir Broodur sinn, hann talar aa mooti Logmaalinu, og fordæmir Logmaalid, enn ef þu fordæmir Logmaalid, þaa ert þu ecki Logmaalsins Geymari helldur Doomari.

3. J hinni Þridiu Rod eru þeir, sem lasta og wthroopa þaa Glæpi, sem bædi eru opinberir, og svo hrooplegir, ad þeirra Liootleik gietur ad sonnu einginn affakad, og einginn Heidvirdur Madur vill þeim hroosa, er slijkt adhafast, enn þad giora sumir ecki af þvi, ad þeir hati svoddann Lesti, edur til ad lagfæra þann, sem ad þeim fundinn verdur, edur odrum til Vidvorunar, helldur þess vegna, ad eitt illt Skap hefur Gaman og Jndæli af ad lasta, og fagnar hverri Orsok, er hann kann ad faa þar til; Svo langt er fraa þvi, ad hann Manninn elski, edur leidrietta vilie, edur og i Þridia Lagi, ad hann med þess

Fordæmingu, sem illa breitir, vill smiida sialfum sier nockurskonar Agiætis edur Afbrygdis Mynd i annarra Paunkum, svo hañ gieti sagt: Eg em ecki svo sem þesse Tollheimtu-Madur, Luc. 18. Svo langt er hañ fraa þvi, ad bera mikid af þeim, sem hañ dæmir uñ, þvi hann, sem þarf annarra Saurinda med til ad fegra sig, Hañ maa ecki vera miøg biartur sialfur. Þu Gudlaus Madur! Hafer þu Gaman af ad lasta Avirdingar þijns Naaunga, þo þær stoorar sieu, hvernig ert þu þa betre eñ hann? Þad hefur og Andskotinn, og er hann þo verri enn hiñ argasti Syndari. Saa sem drygt hefur eiñ Glæp, Hañ kañ ad ydrast, þvi maattugur er Gud ad reisa hañ, segier Paulus, Rom. 14. Þad sie eg af Dæme Manassis, Davids, Peturs, Hiñar Bersyndugu, og Hoor-Konunnar, er DRottinn afleysti i Musterinu. Eñ hvernig villt þu, Satans Eingill, umflya Guds Reidi og Fyrirdæminguna, þar þu hefur Skiemtan af annarra Lostum, þoott ei dryger þu sialfur þa? Hver verdur svo hneixladur, ad eg stikne ecki? Segier Paulus; Þad sagdi hann þess vegna ad hann hatadi Lestina, enn elskadi Mennina; Enn hver verdur svo Brotlegur, ad þu fagnir ecki? Þu elur Flugu Hatursins og Ofundarinnar aa Þreck annarra, og geingur þannig i Lid med Flugna-Hofdingianum Belzebub, og sver honum Trwnad, enn skytst undañ Merki þijns Frelsara (I hvers Holldi Gud Fordæmdi þijna Synd, sem Paulus vottar, Rom. 8.) med þvi ad þu fordæmir þinn Broodur, Hvern Gud hefur skipad þier ad aaminna og Leidrietta, enn alldrei fieck hann þier nockurn sooddan Doom edur Valld yfer honum. Jaa, þar eru þeir til, er svo rijkt Umbod hafa tekid af Fiandanum, ad þeir locka Naaungann fyrst til ad syndga, ad þeir siidann hafa meigi þad, þeir kunni ad lasta og dæma uñ: Þesse er Diofulsins Atferd; svo giordi hañ i Ondverdu vid vora Moodur Evu, enn siidañ hefur hann ei lætid af ad brixla Guds Her-Flockum, og aasaka þa: Soo klagadi hañ Job fyrir Gudi; Svo stood hann til Hægri Handar Josua hinum Ædsta Presti, til ad mootstanda honum, Zach. 3. Og þetta sparar hañ ecki enn nu i Dag, ad wtrietta fyrir sijna Umbods-Meñ, Vantrwarinnar Born, i hverium hann er kroptugur. Eñ Gud straffe þig Satan! Hann lifer eñ nu, sem Babylons Kong vog aa Vigt, Dan. 5. Maattugur er hann enn i Dag, ad þrijfa sijna Branda wt af hennar Elldi, eins og Josuam, enn troda þig undir Fætur vora, Hundurinn þiñ! og ad stockva þijnum Dalidar-Flocke. Svo er nu þesse Raangsnuna Dooma-Adferd eitt Satans Ydia, og þeir ed sier temia hana, meiga þar uñ visser vera, ad hann gielldur þeim i Skileyri, þad er, med eilijfum Brijxlum og eilijfre Smaan, nema þeir gaungi wr Þienustunni aa medann þar segiest enn þa i Dag, þvi annad hefur hann ecki sijnum Monnum i Maala ad giefa. Fleiri eru ad sonnu Greinir þessarra Dag-Dooma, enn eg vil hier med kyrt laata i þetta Sinn. Enn hvad skulu Menn þa hier til segia? Eiga Menn alla ad jafnu ad leggia, og eckert uñ þad hyrda, hvernig Naunginn skickar sier? Fiærri sie þvi. DRottinn JEsus giefur oss hier i Evangelio hin skijrustu Log, Eptir hverium Naungann aa og maa ad saklausu dæma, segiandi: Þu Hræsnare, Drag Fyrst Ut Bialkann Ur Þijnu Auga, Og Þa Munt Þu Siaa Til, Ad Utdraga Kvistinn Ur þijns Brodurs

urs Auga. Sem vikldi hann sagt hafa: Medann Kvisturinn er i þijnu Auga, þa ert þu ecki svo skarpsynn, ad þu gietir sied hvert þad er Biælke edur ei, Sem er i Auga Broodur þijns. Ecki bañar hann, Jæ, hann bijdur ad Madur skuli ætelia siñ Broodur, þegar hann syndgar, og aftelia hañ þeim Lostum, sem hann er giarn æ, og kañ ske þeckir ei siælfur, edur hyggur ecki svo lioota ad vera, þvi vier fyrirgiefum siælfum oss jafnann meira enn odrum, og þvi er þad Velgiorningur, og Gudi þægt Verk, ad vanda um vid sinn Broodur i styku, enn þo svo, ad Doomarinn byriest fyrst æ voru eiginn Hwsi; Og þvi segier hann: Drag Fyrst Ut Biælkann Ur þijnu Auga. Hvad mun einn, sem veikur er i einhveriu, Leidriettast vid þad, þoott eiñ Glæpa-Madur deili æ hañ? Mun hañ ecki længlum helldur giefa honum Orsok til, ad brijxla sier um sijnar eiginn Skamir? Hiñ Heil-Fætte spotti hinn skacka, og sæ sem hvijtur er, Blæmanniñ, segier hid Latinska Skalld. Hid sama er ad segia um þañ, sem odrum vill segia til Glæpa sinna: Þoott einginn af oss sie Heilagur, Og þar vanti mikid æ, þa skal hann ad sonnu Rææd-svinnari vera, sem añann vill æminna, helldur enn hinn, edur ad minnsta Kosti ecki i þeim Lesti fundiñ, sem hañ æ telur um, Annars mun hann bræadlega heyra: Læknir, Hiælpa siælfum þier, og Paulus segier honum beiskann Sannleika, Rom. 2. Þu kiennir odrum, segier hañ: Þu predikar, ad ei skuli stela, og þu stelur. Þu segier; Ei skuli Hoordoom drijg'a, og þu drygir Hoor; Þu hefur Andstygd æ Skwr-Godum, enn stelur Helgum Doomum; Þu hroosar þier af Logmaalinu, enn vanvirdir Gud med Logmaalsins Yfertrodslu. Af þessu siæum vier hversu Omissandi þad er, ad vanda siælfann sig, fyrir þann, sem vid añann vill um vanda, og giorir hann med þvi Tvo Hluti gooda, sem er, ad hann vardveitir sig Ostraffanligann, og ævinnur Gudi eina Saal til Himnarijkis, hveriu einginn er þægari Foorn honum, og ei þoott einn bitadi allar sijnar Eigur nidur fyrir Fætæka, 1. Cor. 13. Svo Naudsynleger og Gudi þeckir eru nu svoddann Doomar! Og hvad segier Logmaaled, Lev. 19. Þu skallt ecki vera einn Last-Munnur, Eda Baktalare medal þijns Foolks, og ei helldur skallt þu hata þinn Broodur i þijnu Hiarta, helldur skalltu ætelia þiñ Broodur, ad þu berir ecki Skulld hanns vegna. Hier sijnist mier ad hann, sem Rannsakar Nijrun, Kalli þad ad hata sinn Broodur i sijnu Hiarta, ad segia honum ecki til Vaña siña, ef Madur sier þa, og ad hver einn giori sig Hluttakandi i þeirri Synd, er hann sier ad strijdir æ Næungann, Enn vill þo ecki vara hann vid. Þessa bid eg þeir giæti, sem giora einn nærri þvi ad Gudi, medann hann heirir til, enn tala um hann allar Skamer, Jafnvel Liwgandi, nær hañ snijr vid Bakinu. Eñ hvernig sem þvi er vared, þa siæum vier, hversuvel ad þesse Logmaals Grein kiemur samann vid hid algiorda Nya Testamentisins Logmaal; þad hid fyrra, sem er Lastmælgi og Ohroodur, þad bannar DRottinn hier i Gudspiallinu med þessum Ordum: Fordæmid ecki, Svo Þier Verdid ecki Fordæmdir; Enn hid sijdara, þar hann segier: Drag Sijdann Kvistinn Ut Ur Þijns Broodurs Auga. Frelsarinn giefur oss Eitt Bodord, Matth. 18. segiandi: Ef þinn Broodir syndgar æ mooti þier, Þa far og ætel hann millum þijn og hañs, ef þinn Broodir heyrir þier, þa hefur

ur þu aunnid þinn Broodur. Ef nu DRottinn bijdur ad Menn skuli svo giora, nær Einn brijtur odrum aa mooti, hvad miklu helldur mun hann vilia þad skuli skie til ad leidrietta þann sem fer villuć Vegar, og oss giorir þo eckert aa mooti i þvi sem hañ syndgar? Þad er svo miklu meira Kiærleiks-Verk ollum odrum Kiærleiks-Verkum, sem ad Saalum, med Guds Sonar Bloodi Endurkeypt, er ollu odru dijrmætari.

Eina Vareigdarsemi hefi eg aa ad minnast, aadur enn eg skilst vid þetta Maal, sem er, ad hvad heilst sem vier i þessu giorum, þaa framkomi svoddann Doomar af Elskunni til Naungans Velferdar, og ad þeir beri hana eftir sier. Dæmum og ecki helldur eftir Alþijdu-Roomi, edur um þad sem vier ei skynium, helldur um þa Hluti sem oss alþecktir eru, og vier hofum Vitsmuni aa. Margur fer villt i þessu; Sumir aatelia Einn, af þvi þeir vilia taka sier til nockurskonar Valld yfer honum, og sijna þar med Stoormennsku sijna; Þad aflar opt Forsmaanar og Athlaaturs alleina: Nockrir eru beisklundadir og hardmælltir, iafnvel þoott þeir vilie vel; Enn þad skilur ecki hinn, sem vid aa ad taka: Menn verda ad fara med Einn villtann Syndara, þann sem ecki er forherdtur i Vondskunni, eins og med hraatt Egg, sierdeilis þaa sem Luckann hossar i Verolldiñi; erti Menn þeirra illt Skap med Beryrdum, þa verda þeir eins og Hws þad er hrynur, ad þad brotnar siaalft, enn brijtur i sundur allt þad sem undir þvi verdur. Þetta vil eg þeim sagt hafa, sem Gud hefur ecki sier i Lagi um̃bodid ad segia Jacob til sinna Synda, og Israel til sinna Misgiorda; Hinir, sem Guds Um̃bod er tiltrwad, þeir hafa Frelsi til ad Straffa, Ogna og Aminna, allrahellst hina þverbrotnu, og þegar Illskann og Ogudlegt Athæfi tekur til ad drottna i Landinu (og þo vill Paulus ad Guds Vandlæti skuli vera med Skynsemi, Rom. 12.) Þvi þeir giora slijkt i Guds Stad, enn ecki undir sinni Persoonu, og trwi eg ad einginn sie svo daarligur, ad hann þyckist vid Guds Ord, þoott þad væri framborid af einum aumasta Vesæling, nema saa, sem villdi Eingil fyrir Prest hafa, og giori einn Drottinns Madur þad ecki, þaa mun hann braadlega heyra med Jeremia; Þu skallt ecki hrædast fyrir þeirra Augliti, ella mun eg sundurmeria þig fyrir Augum þeirra: Og mun eg ollu helldur kioosa, ad siaa Skaalkinn ygla sig, enn ad Guds Reidi tortijni mier, ad honum aasiaaanda. Edur hvad segir Paulus, Gal. 1. Hefdi eg hijngad til Monnum þocknast, þa væri eg ecki Christi Þienari;: Enn hinum odrum, sem ecki hafa neinu þvilijku ad skifta vid annann, þeim vil eg giefa þad sama Raad, er gaf Fordum St. Paall þeim i Galatia, Cap. 6. segiandi: Brædur, ef nockur Madur verdur yfirstijginn af einhverri Hrosun, þier sem Andlegir erud, Leidriettid þann sama med hoogværum Anda: Giegni einn Veralldar Sonur þvi med Hofmood og Forsi, svo sem þeirra er Venia til, og segi eins og hinn Hebreski vid Moysen, Exod. 2. Hver hefur sett þig Doomara i millum ockar? þa vardar þad litlu, eg hefe samt frelsad Saalu mijna; enn hanns Blood er yfir hanns Hofdi, er ei villdi þola Heilsusamlega Aminning, Ezech. 33. Svo Hugleidid nu þetta, Christnir Menn, og laatid ydur Maal mitt i Eyrum loda! Allir erum vier syndugir, og einginn saa ed Gott giori og ecki einn, laatum þvi

Doominn byriast fyrst aa sialfum oss, og munum vier sijdur adra dæma, sie pad Endir vorrar Ydiu aa Kvolldum, og stondum upp til þess sama aa Morgna, Doomarinn stendur fyrir Dyrunum, hver mun standast fyrir hanns Doomi, ef hann vill i Doom ganga vid Þræla sijna, enn hann vill alla þa dæma i Brædi sinni, er sinn Broodur dæma, þvi segir hann: Dæmid ecki Svo Þier ecki Verdid Dæmdir: Annadhvert vill Gud dæma þa, er vier tokum oss Dooms-Valld yfir, ellegar hann vill þa ecki dæma; Vilie hann dæma nockurn, þa gylldir vor Doomur eckert, nema til ad fordæma sialfa oss, þvi hañs er Doomurinn; vilie hann ecke dæma, þa er þad hrædelegt ad vilia dæma þann, sem Gud helldur Saklausann, og honum er þad giorer, er Fordæmingenn svo vijs, sem hinum er Myskunean. Athugum þetta, enn gleimium þo ecke ad aaminnast innbyrdis med Hoogværum Anda, til Leidriettingar og Uppbyggingar, og Samvitskum vorum til Frelstingar, ad ei giorum vier oss Hluttakara i Annarlegum Syndum, edur hofum Samfelag med Ofrioossomum Verkum Myrkranna. Enn þu Stoore Allsheriar Doomare, þu sem dæmer Verolldena med Riettvijse, þu sem alleina munt Riettlaatur fundenn verda, nær þu dæmest! Gief þu ad vier svo dæmum sialfa oss, ad vier ecke verdum af þier Fordæmder, helldur iñgaungum fraa Daudanum til Lijfsins. Bænheyr þad, Myskunsame Gud, fyrer þijns Sonar, alls Hollds Doomara, Forþienustu, AMEN.

# A Vitiunar Dag Mariæ.

Gudspialled, Luc. 1. Cap.

I Þeim Dogum, stood Maria upp, og foor med Flijti til Fiall-Bygda i Borgina Juda, iñgieck i Hws Zachariæ, og heilsadi Elizabeth. Og þad skiedi so, þa er Elizabeth heyrdi Heilsun Mariu, ad Barnid spratt upp i heñar Kvidi. Og Elizabeth uppfylltist af Hellogum Anda, kalladi haarri Roddu, og sagdi: Blessud ertu aa medal Kveña, og Blessadur er Avoxtur Kvidar þijns. Og hvadañ kiemur mier þetta, ad Moodir DRottiñs mijns kiemur til mijn? Siaa þu, þa er Rodd þiñar Kvediu kom mier til Eyrna, spratt Barnid upp af Fognudi i mijnum Kvidi. Sæl er hun sem trwdi, þvi ad þad mun fullkomnast, hvad heñi var sagt af DRottni. Maria sagdi: Mijn Aund miklar DRottiñ, Og miñ Andi gladdist i Gudi Heilsugiafara mijnum. Þviad hañ leit aa Læging Ambaattar siñar. Siaa, af þvi munu mig hiedañ af, allar Ættir Sæla kalla. Þviad hañ giordi vid mig mikla Hluti, saa sem Maattugur er, og hañs Nafn er Heilagt. Og hañs Myskunsemi varir fraa eirni Kynslood, til Añ-

arar, Yfer øllum þeim sem hañ Ottast. Hañ framdi Makt med sijnum Armi. Sundurdreifdi hañ Dramblaatum i þeirra Hiartans Huxan. Vollduga setti hañ af Stoole, og upphoof Lijtillaata. Hrings-rada fyllti hañ Giædum, og hinum Rijku sleppti hañ Orbyrgum. Hañ Endurmiñtist Myskunar siñar, og medtook siñ Pioon Israel. So sem hañ taladi til Fedra vorra, Abrahams og hañs Afkvæmis ad Eilijfu. Og Maria var hiaa heñi so nær sem uñ Priaa Maanudi, Og foor sijdañ aptur til sijns Heimkyñis.

## Exordium.

Pad var Sidur aa Døgum Gamla Testamentisins medal Guds Foolks, ad þegar hann hafde giort eitthvert merkilegt Daasemdar Verk aa medal þeirra, Þa prijsudu þeir hann med Lof-Saungum, Til þess, ad Epterkomendurnir kynnu med þeim sømu ad tigna hanns Dijrdarfulla Nafn, þegar þeir mintust aa svoddann Guds Stoormerki. Þegar Moyses hafdi leidt allann Israel i giegnum Hafed Rauda, þurrum Footum, enn dreckt Pharaone og øllu hanns Lidi þar i, Þa prijsadi allur Israel Gud med Nijum Lof-Saung, og Maria Spaakona, Systir Aaronis, took sier Bumbu i Hond, og allar Konurnar geingu wt eptir henni med Bumbum og Hlioodpijpum, og hun saung fyrir þeim: Sijnged Lof DRottni, Þvi hann hefur stoorlega mikladsig, Hestinum og Riddaranum hefur hann i Siooinn nidurkastad, Exod. 15. Stoort var þetta Furdu-Verk DRottins, er hann giørdi vid Israel, Þo er þad miklu meira, Sem hin Blessada Mey og Moodir ad Christo, Jomfrw Maria, prijsar hier i þessu Heilaga Evangelio, med þeim Dijrdlega Lof-Saung, Er vier strax heyrdum i Gudspiallinu Moyses leiddi Israel wt af Ægyptalands Prældoomi. Guds Sonur hefur oss af Syndarinnar og Diøfulsins Prældoomi wt-leyst. Gud steypte Pharaoni og hanns Her-Mønnum ofann i Siooinn. Enn JEsus hefur hiñ Sterka Hervopnada Diøful afklædt sinni Hardneskiu, og trodid hann undir sinna Barna Fætur. Siooinn klaufst i sundur þegar Israel foor af Ægypto. Enn i Holldtekiu Guds Sonar eru Himin og Jørd Samteingd, og øllum Guds Børnum i honum tilbwinn einn nijr og Lifandi Vegur, Ecki inn i Canaan, helldur til Himna-Rijkis, aa þad Land Lifandi Manna, Hvar ad er Gnoott Fagnadarins og Gledilegt Lijferni til Fødursins Hægri Handar. Anna Elkanæ Hwss-Frw saung Gudi einn Packlætis Saung, fyrir þann Son er hun hafdi feingid med Bæn af Gudi. Enn Guds Moodir prijsar Nafn ens Allra Hæsta, fyrir þann Son, er hverki hun nie nockur syndugra Manna kunne um ad bidia. Lea Jacobs Hwss-Frw sagdi Fordum, Er Silpha: O! heñi Asser: Ny munu allar Konur mig sæla kalla. Enn Maria segier hier med ollu meira Rijkis: HEDann Af Munu Mig Allar ÆTTer SÆLA Kalla, Þvi hun bar þañ i sijnum Kvidi, J hverium allar Ættkvijslir Jardar blessadar erv. Og fyrir þvi,

Brædur

Brædur mijner, ad vier hofum einnig af hanns Fyllingu medteked, þa lætum oſs nu fagna med Moodur DRottenſ, og ſkoda aa þeſſu Stundarkorne hvad ægiætt þad ſie, ad mikla hann, og ad gledia ſig i Gude ſijnum Heilſugiafara. Hver Ord eg vil nu alleina hugleida i þetta Sinn. Styrk oſs hier til, O! Þu Bruñur alls Fridar og Fagnadar, med Naad þinnar Giædſku, J JESU Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

Dyrdeñ og Vegſemdeñ er ſvo ſtoor Hlutur, ad fleſter gyrnaſt hana framar ødrum Hlutum; Jafnvel þeir, ſem eckert Lofsverdt vinna, þeir vilia þo læta Tigna ſig; Og ſvo er Mañeſkiañ giefeñ fyrer Heidrenum, ad ſumer tapa hinum riettu Heidre, til ad wtvega ſier fænijtt Hroos, enn ſumer vilia læta ſier hrooſa, Jafnvel af Odigdunum: Svo er þo Ærugyrndenn rijk i vorre Molld og Oſku! Eñ eingenn af ollum þeim, er epter Vegſemdenne kieppaſt, er þo verdur heñar fyrer ſialfann ſig, ef Meñ ſkulu Sañleikann tala. Þier ber Dijrdeñ og Heidurenn, ſeger Spæmadureñ under allra Mañа Perſoonu, ad eingum fræſkildum, enn oſs ber Bligdan vors Andlitis; Þad er ad ſonnu ſkylldt, ad hrooſa Digdum og Mañkoſtum, eñ eingeñ aa þo ſialfum ſier i þvi Vegſemdar ad leita, helldur Fødur Lioſanna, fraa hverium ad kiemur oll Good og oll Fullkomeñ Giof, Jac. 1. Eingenn er meira Lofs verdur, eñ eiñ goodur Konungur, ſa ed Ottaſt Gud, og vel ſtioornar ſijnum Londum og Rijkium, enn allra hellſt Guds Kyrkiu; Um hann maa eg ſegia þad, ſem Paall ſagde Fordum uñ þaa Ollduugana, ſem vel forſtoodu, adur enn Guds Søfnuder høfdu Chriſtna Veralldar Hoſdingia, ad þeir ſieu Tvøfallds Heidurs verduger: Enn þo fellſt eg a þad, er ſagde hinn gamle Tobias: Leinda Dooma Konungſins er gott ad dylia, enn Guds Verk ad byrta og jaata, er Heidarlegt, Tob. 12. Konungaña Raad verdur ad dylia, þvi jafnvel þoott þeir ſieu ollum ødrum Moñum ædre, þa eiga þeir Jafningia, adra Konunga ſijna Lijka: Eñ Konungur Konunganna aa eingann ſier jafnann, og þarf þvi ecke ad dylia fyrer neinum hvad hann ætlar ad giora, ſvo hann vill ſegia til hinnar meſtu Heims Maktar, þad ſem hann ſagde Fordum til ſijns Foolks, Zac. 1. Þau Ord og Setningar, er eg umbaud Þienurum mijnum, Spæmoñunum, hafa þau ecke naad ydar Forfedrum, ſvo ad þegar þeir aptur ſneru, ſøgdu þeir: Svo ſem DRottenn huxade ad giøra oſs epter vorum Vegum, og epter vorum Athøfnum, ſvo hefur hann giørt. Hvern ſkylldum vier þa helldur prijſa enn hann, er ſvo Maattugur er og ſvo Alvalldur, ad hann ſitur i Himnenum og giører hvad hañ vill? Pſ. 115. Þvi hrooſar Mooder DRottenns hier i Gudſpiallenu, ſegiande: Hañ Giørde Vid Mig Mikla Hlute, Sem Ad Maattugur Er. J hveriu giørde hann þad? J þvi, Ad Hann Leit A Læging Ambaattar Sinnar. Þad þyker ecke miked, ad giøra miked af Miklu: Þad er ei ad undra, þoott ſa giete byggt mørg Hws, ſem aa marga Skooga, þo hañ brioote mørg Lond under ſig, ſem morgum hefur aa ad ſkipa; Eñ þad maa Guddoomlegt þykia, ſvo ſem þad og er, ad giøra allt af eingu, ſvo ſem Gud giørde i Ondverdu

J Skøp=

Skopunar, enn þoott þad sie eckert lijtid, sem ad hañ giorir, þaa var þad þo lijtid, svo stoort sem þad er, hiaa þvi, sem Maria prijsar Gud fyrir i þessum Lofsaung, þad er ad Gud vard Madur; Og fyrir þvi ad hinum Alvallda hafdi þocknast, ad laata þad skie i hennar Kvidi, sem var ein Umkomulaus Stwlka, þaa prijsar hun Gud med þessari Saung-Vijsu: Hann Giordi Vid Mig Mikla Hluti, Sem ad Maattugur Er; Þess hefur allt syndugt Mannkyn notid; Þad var verra enn eckert, eftir þad Madurinn hrapadi i Afgrunn Fordæmingarinnar, þvi betra var alldrei fæddur ad vera, enn eilijflega ad kveliast. Enn hann minutist finnar miklu Myskunsemdar, og i sijnum diwpu Myskunar Ydrum vitiadi hann vor, Uppruni af Hædum. Þessu er verdt ad hroosa fram yfir allar Astgiafir DRottinns; Jaa, þoott ad allar Eingla og Manna Twngur sieu skylldar ad vegsama þenna Ommælanlega Velgiorning Drottinns, þa er þad oss þo skylldugt framar morgum odrum, hverra Fedur ad voru Myrkur, enn vier, þeirra Synir, erum vordnir Lioos i DRottni, Eph. 5. allir þeir, sem gaanga vitia eins og Lioossens Bornum hæfir. Jomfrwinn sijngur hier i Gudspiallinu: Hanns Myskunsemi Varir Fraa Einni Kyn-Slood Til Annarar Yfir Ollum Þeim, Sem Hann Ottast. Þad maatti Israel jaata, er hanns Guddoomlega Trwfesti reynt hafdi aa Fedrum sijnum, allt fraa Heimsins Skopun, allt til þess JEsus kalladist JESUS, og svo æ sijdann, ecki einasta yfir Abrahams Sonum eftir Holldinu, helldur yfir ollum þeim, sem nu kallast hinn Andlegi Israel, hveria Gud hefur Abraham af Steinum uppvakid, þad er, af þeim, sem dijrkudu Stocka og Steina, og voru þeim sialfir lijkir, sem David vottar, Ps. 115. Oss, sem ad ei vorum hanns Foolk, enn hann hefur þaa kallad svo sem sitt, hverier ecki eiga Kyn sitt ad rekia til Israels. O! hversu meigum vier gladir undirtaka med hinni Sælu Guds Moodur; Þar hann hefur oss samannsafnad af Austri og Vestri, enn Rijkisins Synir eru wtreknir i hin ytstu Myrkur, svo ad vier jaata meigum, ad þad hafi aa oss sannast, sem David segir um Gud, Ps. 103. Ad hanns Myskunsemi vari ecki einasta fraa einni Kyn-Slood til annarar, svo sem Guds Moodir hier segir, helldur fraa einni Olld til annarar, yfir ollum þeim sem hann Ottast. Þyki ydur nu nockud koma til þessara Gledilegu Umskifta, jaa, þyki ydur svo sem Himin og Jord, jaa, allar Eingla og Manna Twngur sieu of smaar til þess, ad fullþacka DRottni fyrir svo Haaleitann Velgiorning, þaa laatum oss þykia þad Gledilegt ad þacka DRottni, og Lof sijngia þijnu Nafni, þu hinn Allra Hæsti; Þvi þad er þad einasta, sem hann af oss krefur, ad vier dijrkum hanns Nafn med Ordi og Verki. Veralldlegir Konungar skilia sier wr sijnum Londum og Rijkium þaa Hluti, sem eru Fægiætir, og nockrar Mætur eru aa, er vier kollum Regalia, edur Konungs Giersemar, og er þad ecki um Eign þeirra, sem Dag og Noott hafa Umhyggiu fyrir svo margri Saalu, og þar ad auki eru prijdder med nockurskonar Lijkingu Guds Haatignar; Enn Kynungur Konunganna hefur sier alleina Dijrdina skilid; Hans Þegnskyllda var einginn onnur af Israel, enn ad þeir skylldu Ottast hann og Elska, Devt. 10. Og svo er hun enn i Dag af hinum Andlega, þvi med soddan Mooti verdur honum rietti-

lega

lega Dijrdinn giefinn. Allt hvad Vegsamlegt er a Himni og Jordu, þad er hanns vegna veglegt, sem er sialf Dijrdiñ, og eckert utañ Dijrd og Vegsemd: Hiñ Vijsi hroosi sier ecki af sijnum Vijsdoomi, og ecki hinn Vollduge af sijnu Valldi, og hinn Rijki hroosi sier ecki af sijnum Rijkdoomi, helldur hver sem vill hroosa sier, hann hroosi sier af þvi hann skilie og þecki mig, ad eg sie Jehova, sa ed fremie Goodgyrnina, Riettinn og Riettvijsina a Jordu, þviad þar i hefi eg Velþocknan, segir DRottinn, Jer. 9. Hver vill þa eiga Tilrolu til nockurrar Vegsemdar fyrir utann hañ, fyrst þeir meiga ecki hroosa sier, sem ad eru hvad Vegsamlegastir kalladir hier a Jordu? Þessari Vegsemd, þessari Goodgyrni, og þessari Riettvijsi hinns gooda Guds, hroosar Maria i Lofkvædinu, er hun segir: Dramblaatum Hratt Hann Af Stooli, Enn Upphoof Lijtilaata. Skodid hier ydur i Speigli, O þier Stolltu Giædingar Verralldar þessarar! og hversu fanijtir þier erud, nær þier vilied troda Lijtilmagnann undir Footum, þann sem Gudi treystir. Vitid þier ecki, ad þier færid Her DRottni a Hendur? Biooda ecki Log vor, ad einn Fiarhallds Madur skuli veria Sok Omaga sijns, og sækia, ef vidþarf? Ætlid þier, ad Guds Fyrirheit muni binda hann minna helldur enn Logiñ Skulldbinda ydur, hver þier tiwosid, nær sem ydur bijdur svo vid ad horfa, fyrir Haturs edur Avinnings Sakir? Enn hversu oft lofar nu DRottinn i sijnu Ordi, ad hann vilie vera Forsvar hinns Munadarlausa? Svo ad allir Undirþrycktir, allir þeir ed Rangindinn lijda, þeir eru Omagar DRottinns. Er þar nockur Limur a vorum Lijkama, er oss sie vidkvæmari enn Auguñ? Og þo sagdi Gud um sijna Vesælinga, sem stundu under Ofrijki Heidingianna i Babylon, sem er Lijking ydar Foostur-Moodur Veralldarinnar: Hver ed snertir ydur, hann snertir Siaalldur mijns Auga, Zach. 2. Hugleidid nu med ydur, O þier hin Skynlausu Borninn! vid hvern þier eigid ad skifta; Ecki vid hann, sem þurfi ad setia sig nidur og reikna, hvert hann med Tiju Þusundum gieti mætt þeim, sem kiemur a mooti honum med Tuttugu Þusund, Luc. 14. Þviad allar Saalir eru hanns; Helldur vid hann, vid hvers einasta Bendingu ad Sodoma brann til Osku, Jericho hrapadi, Jerusalem vard ad Stein-Hrwgu, Tyrus hrundi i Grunn nidur; Hver ed drecti Pharaoni med hanns Lidi i Hafinu Rauda, hver ed droo hanns Eptirkomara wt wr sijnu Flooti, med ollum þeim Fiskunum sem loddu i hanns Hreistri, Ezech. 29. Hver ed setti sinn Krook i Senacheribs brennandi Nasir, hver ed hanns Eptirkomara, Konungana af Assyria, þeir ed voru eins og einn kostulegur Vijn-Vidur, svo ad allar Eykurnar i Gardinum Heden ofundudu hann, hver ed þa, segi eg, upprætti a einni Stundu; hver ed sedur Fugla Loftsins og Dijr Merkurinnar med Holldi Ovina sinna, og uppfyllir Dalina og Vatnsfollinn med þeirra Bloodi, Ezech. 32. Og þoott þier ætla kunnid, ad þetta ei muni fram vid ydur koma, þa maa ydur þad alkunnigt vera, ad hann er sa, sem Valld hefur til ad kasta Lijfi og Saalu i Eilijfann Elld, sem ber svo langt af þeirra Hormungum, sem þier nidurdrepid med Ofrijki ydar, svo sem Guds Barna Sæla, sem þeim er ætlud, ber af allri ydar Fullsælu. O! hversu erud þier þa faavijsir, nær

 þier

þier hefied Orlog aa mooti slijkum Herra? Vei ydur, þier munud Ofra og Ylfra, þier munud eta ydar Tungur wt af Ofraun, Apoc. 16. Nær hinir munu skijna svo sem Sool i Rijki sijns Fodur. O, hversu gott væri ydur þaa, ad Lijkamir ydar, hveria þier svo Kappsamlega alid hafid aa Bloodi hinns Volada, ad þeir, seigi eg, alldrei upprisi til Doomsins! Enn nu er þvi ei svo varid; Þvi Gud segir fyrir Munn Ezechielis, Cap. 32. Ad ydar Raanglæti liggi i ydar Beinum eftir Daudann. Heyrid þvi Ord DRottinns, þier sem meinid ad þier hafid bwid ydur Hreidur i Skyunum, Heyrid, segi eg, Ord DRottinns af Davids Munni, sem var miklu mektugri enn þier, og þo miklu Lijtilaatari: Giefid DRottni Dijrdena, þier Synir hinna sterku, Giefid DRottni Dijrdina og Prijsinn, Giefid DRottni Dijrdina hanns Nafns, bugtid ydur, segiandi: DRottni sie Heidur i Prijdinni sijns Helgidooms, Jaa, giori svo oll Verolldinn, Haair og Laagir! Hinn Lijtilmootlegi Broodir hroosi sier i sinni Upphefd, þad er, i þvi, ad Gud hafi hann þess virdt, ad lijkia hañ Syni sijnum, hver ed giordist Faatækur þar hann var þo Rijkur, segir Postuliñ, 2. Cor. 8. Enn saa hiñ Rijki i Audmijkt sinni: Þvi eins og Bloomstur Grassins mun hann forgaanga, segir Jacob. Og þanniggiefum vier best DRottni Dijrdina, Christnir Menn. Ecki er þad noog ad sijngia honum Lof med Munninum, enn afneita honum med Verkunum. Eg elska Riettinn, segir DRottinn; Eg hata Raanid, þad sem teingist vid Brennifoornina, Esa. 61. Einginn af oss, sem vill Hlut sinn Vanda, hann skeitir miog um þad, ad honum sie hroosad af Einhverium Oraadvondum; Og hvad mun Gud þaa dijrkadur verda af Skaalkinum, ef hann þylur honum eina Saung-Vijsu, kannskie sialfum sier til Gamans, og til ad skiemta sier med Raustinni, sem eg hygg, þvi verr, ad oft muni henda, jafnvel þa, sem ecki miog vondir eru, enn Hiartad er þo ecke alltijd bwed til Guds Dijrdar. Lof sijng þu Ond mijn DRottni, og allt hvad i mier er hanns Heilaga Nafni, segir David: Þad er; allt hvad oss fylgir, og Gud hefur oss giefid, þad aa ad prijsa Gud; Hiartad med Elskunni, Munnurinn med Ordunum og Raustinni, hinir adrir Limirnir med wtvortis Utriettingum, svo ad allt hvad vier giorum med Ord og Verk, þad giorum vier i Nafni JEsu Christi, og þockum Fodurnum fyrir hann. Jafnvel hinir ungu Hrafnarnir aakalla DRottinn, segir David, Ps. 147. af þvi hañ hefur skapad þa: Oss munum vier þa ecki vera margra Hrafns-Unga Virdi, sem ecki einasta vorum eftir Guds Mynd i Fyrstu skapadir, og eigum Kost aa ad Endurnijast eftir hanni, helldur og med hanns Sonar Dauda fraa Helvijti Endurkeyptir? A þessa Skylldu vora minnir oss Paall segiandi: 1. Cor. 6. Þier erud Verdi keyptir, dijrkid þvi Gud i ydrum Lijkama, og i ydrum Anda, hveriet ad eru Guds: Nu þar vier erum Guds Eign, bædi eftir Rietti Skopunarinnar og Endurlausnarinnar, þa erum vier hinir mestu Drottinns Svikarar, ef vier ecki af fremsta Megni Kostgiæfum ad fylla þessa Skylldu vora: Eñ hvad er þa ad dijrka Gud i sijnum Lijkama? Þad segir hann oss, Col. 3. Deydid ydar Jardneska Limu, Saurlijfi, Ohreinleika, vonda Gyrnd og Agyrni, sem er Skurgoda

goda Dyrkan; Og i einu Orde ad segia, ad Menn stijnge wt þad Augad, og afsnijde þa Hond edur Foot, sem hneixlar, þad er ad deyda fyrer Andann Holldsins Gyrnder. Hvad er ad dyrka Gud i sijnum Anda? Hier meinar Postulenn Saalena, þvi hun maa fyrst og sijdarst heita Verde keypt, hennar Dijrkun skilur Gud sier hvad mesta; þvi seger hin Heilaga Mey: Mijn Aund Miklar DRottenn. Hun giorde og svo bæde med Orde og Verke; þvi nema svo vered hefde, þa munde ecke hinn alskigne Gud hafa valed hennar Lijkama Syne sijnum til Bwstadar. Hun segier: Þvi Hanns Nafn Er Heilagt. Jhugan þessara Orda gagnar oss til Tveggia Hluta, sem baader eru Christnum Manne Omissande. Þad er vitannlegt, ad med þessum Gudoomsins Haatignar Eiginnlegleika, Heilagleikanum, wtmaalar Ritningenn optlega hanns Yferburde yfer allar hanns Skiepnur: Þar fyrer kallast hann saa Heilage i Jsrael; Þess vegna eru aller Hluter, sem honum vid koma edur eignader eru, Heilager kallader, svo sem er hanns Ord, hanns Kyrkia, hanns Frumburder i Gamla Testamentenu, þad er alltsamann Heilagt kallad. Gudbs Dijrdarfullu Herskarar, sem þar uppe eru, þeir hafa eingann Lofsaung, sem vier afvitum, Fegre enn þenna: Heilagur, Heilagur, Heilagur ert þu DRotten Gud, Esa. 6. Nu, þar hann er svo Heilagur, ad syndugra Manna Skynseme fær þad ei griped, þa aa þesse Jhugan ad gagna oss til ad dyrka hanns Haatign med Bligdan vors Andlitis, og af þvo Daglega vorn Saurugleika med Taarum Jdrunar vorrar, þar vier Daglega framkoma skulum med vorar Bænar Foorner fyrer þenna Fortærandа Elld, vid hvern eckert Saurugt maa bwa. Og i audru Lage, þar hann svo Heilagur er, sem aadur er sagt, þa meigum vier kannast vid Skylldu vora, ad oss byriar af fremsta Megne ad burtkasta ollum Ohreinleika, ef vier vilium hanns Þioonar vera, sem svo Yfermaata Hreinn og Heilagur er, og ad vier lifum Hoofsamlega, Riettvijslega og Gudrækilega i Heime þessum, Tit. 2. Hann Endurminntest Myskunar Sinnar, Og Medtook Sinn Þioon Jsrael; segier Guds Mooder. Þad giorde saa Blessade HErra, þegar hann sende sinn Son i Heimenn til ad frelsa þad sem tapad var, til ad giora hina Blindu heilskigna, til ad lækna hina Holltu, hreinsa hina Lijkþraau, til ad giefa Daufum Heyrn, og til ad uppreisa hina Daudu, enn allra hellst til ad predika Faatækum Evangelium. Laatum nu og siaa til, ad vier minnunst vorra Heit-Orda, er vier giordum i Skijrnar Saattmaalanum, ad trwa aa hina Heilogu Guddoomsins Þrenningu, enn afneita Dioflenum og ollum hanns Svikum og Vielum. Ef vier nu þetta med allre Kostgiæfne og Alvoru holldum, ad svo miklu Leite, sem vier afkastad faaum fyrer Adstod H. Anda, þa vegsomum vier Drotten riettelega i vorum Lijkama og i vorum Anda, og eigum fulla Von aa, med Jomfru Mariu, ad gledia oss i Gude vorum Heilsugiafara, hvar um framveigis er nockud ad tala.

Minn Ande Gledst J Gude Heilsugiafara Mijnum: Þetta er Saalarennar Glede, Born mijn, enn ecke Lijkamans Sælgiæte, þad er i Gude, segier hin Blessada Mey, hver ad er Brunnur og Uppspretta allrar Sælu, og siaalfur alleina Sæll; Þvi kalla eg þann alleina fullsælann, enn eingann annann, sem smackad hefur hvad sætur ad hann er.

Hvad eru nu vorar Offer i Heimenum? Margar eru þær, og flestallar Heimskulegar, Skadsamar, fullar af Sorg og Armædu, enn allar lwta þær þangad, ad vier bidium um þa Hlute, sem oss epterlaungar. Enn hvad segier David? Haf þijna Unadsemd i DRottne, og mun hann giefa þier hvad þitt Hiarta gyrnest. Hvad er þad, Born mijn? Eckert anad en han sialfur: Þvi so sem Holldlegar Gyrnder verda alldrei sadd ar, Fyllenu aflar þeim, er þær elska, Æ meira Hwngurs; Svo er og Laungunenn epter DRottne þvert a moote sijn eigenn Sadning: Og þeir ed vellta sier i Holldlegum Mun ade, þeir gyrnast nu þetta, nu hitt; þegar Sadningenn ablar þeim Leida a einum Hlut, so laungar þa i annann; Enn sa sem er i Gude gladur, og til fulls hefur smackad Krapt epterkomande Alldar, Hebr. 6. Han gyrnest ecke anad en Gud, hans Matur og Dryck yr er ad giora hans Vilia, sem hann elskar umfram alla Hlute, þvi þar er allur sem une, segier Ordshattur gamall. Verolldenn kallar Aud, Metord, Sælgiæte, og anad þvi lijkt, hina mestu Sælu, enn eg hefe adur nockrum Sinnum med Rokum synt, ad i þessu er eingenn riettkollud Sæla, helldur blondud med Angre, Erfide, Hugsijke, Otta, Þrældoo me, og jafnvel hin mesta Saalar-Hætska vidteingslud. En hvad segier David? Psalm. 1. Sæll er sa Madur sem hefur sijna Lyst i Logmaale DRottens, og talar um hans Vegu Daga og Nætur. Hvar fyrer, Brædur mijner? Þvi hann sem ad Guds Ord og hanns Riettinde svo miog Idkar, og svo miog kiær hefur, hann gietur ecke fared a Mis vid þad ad elska Gud, hia hveriu allur annar Fognudur og Gladvære er Sorg og Armæda ad reikna; Þvi sa er þessu Hlutskipte nad hefur, þeim heiter Lausnarenn, ad hann og hanns Fader vilie til hanns koma, og Vistarveru hia honum giora, Joh. 14. O! Hverneg maa þar vanta alla Gnoogt Fagnadarens, hvar þvilijker Giester eru ad Heimbode, Jafnvel þoott einhver være i Daniels Lioona Grof. Þeir Hebresku Sveinar Chananja, Misael og Hazaria, hverier ad Leyfe Stallarans i hinu Babylonis ska Hofe neyttu allcina Jardar Avarta, svo ad ecke brutu þeir a moote sijns Guds Log maale, þeir urdu þo Sællegre og Fegre Jlits enn adrer, Dan. 1. Svo eru og þeir, sem i Hiarta sijnu lijta Guds Asioonu, yfer hverra innra Man hun fegur skijn, enn nock ur Dreyndur kann nærre ad gieta, Jafnvel þo þa vante Epterlæte Heims þessa, og sijnest Aumer og Sorgbitner, samt bwa þeir vid hinn mesta Fognud og Rooseme Hiartans, sem eingenn maa af þeim taka. Þegar DRottenn Gud sætte Mannkyned vid sialfan sig i annad Sinn, þa tilbioo hann sinn Boga i Skyenu, til eins Saattmaals a mille sijn og Jardarennar, Gen. 9. Þader, allra þeirra, sem a Jordu bwa. Ezechiel segier, Cap. 1. Ad Lijking Dijrdar DRottenns, er hann sa vid Flooted Chebar, hafe vered eins og Bogesa, sem verdur i Skyunum þegar rigner. Dijrdleg var þesse Openberan, er Spamadurenn sa, en miklu er siv Veglegre, Ædre, og Indælle, sem byrtest i Christ enns Mans Hiarta, nær han sier Gud Nadugan, nær han gledur sig i þeim Saattmaale anum, sem giordur er a millum hanns og DRottens i Guds Eingietnum Syne; hvers Bwninge Johannes Regnboganum samlijker, Apoc. 10. Hver ed giorer han þess fullor

ugган,

uggann, ad hanns Syndir sieu hönum fyrirgiefnar. DRottinn segir, Gen. 9. Ad hañ vilie minnast sijns Sattmaala, þegar Boginn siest i Skyinu; Enn hversu feiginn mun Syndarinn verda, DRottinn minn, þegar hañs Augu rigna Taarum Ydranariñar, og hinn Naadar Sattmaali myndast i þessu Skye fyrir Verkan H. Anda, sem ber hanns Anda Vitni uñ, ad hann sie Guds Barn, sem kallar Abba, þad er Fadir, sem hroopar, Vert þu Hughraustur, Sonur, Þier eru þijnar Syndir fyrirgiefnar! Þegar Guds Menn saau þessar Dijrdlegu Sioonir, þaa urdu þeir Maatt-Þrota, svo þar var ei Megn i þeim framar, svo sem Daniel uñ sig talar i hanns Maala-Bookar 10. Cap. Enn þegar Guds Naadar Lioomi skijn i Ydrandi Manns Hiarta, þaa fær hann nijann Dug, þad geingur hönum eins og þad gieck Ezechiel, er hann saa þessa miklu Syn, er eg fyrir komu uñgat, ad hann lifnadi vid aftur, og stood uppaa sijnar Fætur, þegar Drottinn baud hönum; Eins bregdur sannydrandi Mañi vid Guds Anda Blijdlætis Avarp, nær hann telur hönum Trw uñ, ad hvar sem ad Syndinn yfirgnæfir, þar yfirgnæfi þo Naadinn miklu framar. Hinn Nye Madur sprettur upp af Fognudi i hanns Hiarta, eins og Johannes i Moodur-Kvidi, nær hönum til Eyrna kiemur þessi Kvedia, og kann einginn Jardneskur Fognudur ad komast i nockurn Samjofnud vid þessa Himnesku Gledi; Eg maa vel kalla hana Himneska, ecki einasta þess vegna, ad hun fraa Himnum kiemur, helldur og hinus, ad meiri Gledi er i Himninum yfir einum Syndara sem Ydran giorir, helldur enn yfir Niju og Nijutyu Riettlaatum.

Moodir DRottinns segir hier Orsokina til þessa Guddoomlega Fagnadar: Þvi Hann Leit A LÆging Ambaattar Sinnar. Stoora Orsok hafdi hun til þessa, þvi margar munu hafa gofugri og meiri-haattar verid eñ hun, sem ecki var meir metinn af Heiminum enn svo, ad hun ei feck annad Rwm i Giesta-Herberginu, helldur enn Einn Stall, til ad leggia i Himins og Jardar Skapara; Hun maatti segia eins og Gedeon Fordum sagdi vid Eingilinn: Jud. 6. Hvernig skal eg frelsa Jsrael, þar mijn Ætt er hin minnsta i Manasse Kyni, og eg hinn minnsti i Hwsi mijns Fodur. Ecki er þad Offogum sagt uñ hinn Maattuga Gud, sem Petur segir, ad Dramblaatum mootstendur hann, enn upphefur Lijtilaata. Hversu morg Dæmi hofum vier þar uppaa, ad hann hefur wtvalid þad, sem eckert er fyrir Heimenum; svo sem hann valdi Gedeon, til ad frelsa Jsrael af Hendi Madianitanna, sem var hinn minnsti medal sijns Foolks, svo kiori hann og þessa orsnauda og faaraada Stulku til Moodur allrar Veralldarinnar Frelsara, og var þvi oll Von, ad hun fagnadi slijkri Upphefd, hiaa hverri allrar Veralldarinnar Hofdingskapur er Þrældoomur ad reikna. Eñ hvernig sem þessu er varid, þaa hugsa med þier, syndugur Madur, hversu audvirdileg ad sie Saala þijn i Guds Augliti, þegar þu giorir hana ad Þræl Andskotans med Jdkun verstu Glæpa og Misgiorda, sem upptendra Guds Riettferduga Reidi. Gud naadi! ad hun gietur ei sagt, eins og Maria vid Eingilinn sagdi: Eg Em Ambaatt DRottinns, Verdi Mier Epter Ordi þijnu! Helldur verdur hun ad jaata; Eg hefi verid Fridla Satans, og

drygt

drygt Hvoraner med morgum Elſkuga, ſtraffa mig ecke i Reide þinne, og typta mig ecke i þinne Bræde. Seig mier, hver er þa ſvo laag ſem Saal þijn, og hver hefur meire Uppreiſt hloted enn hun, nær hann ſegier til hennar? Kom þu aptur til mijn, þoott ad Synder þijnar ſieu raudar ſem Blood, þa ſkal eg giora þær hvijtar ſem Snioo, og þoott þær ſieu Purpuraraudar, ſkal eg þær Ull-hvijtar giora, Eſa. 1. O hverſu miklu meire Orſök hefur þu þa til ad glediaſt i Hiarta þijnu, helldur eñ Guds Mooder, af þvi ad hun var hanns Lijkamleg Mooder! Hun var alltijd Guds Barn, þu hefur optlega giort þig ad Dioſulſins Barne; Hañ var heñar Holldgieteñ Sonur, enn hann bijdur þier, ef þu villt laata af Illu, og læra gott ad giora, ad hann vilie myndaſt i þier aptur ad nyu, ſem Paulus ad Orde kiemſt, Gal. 4. Svo þu verder hañs Andleg Mooder; Og er þeſſe Fognudur ædre ollum Skilninge, ef þu kannt vid ad taka og med ad fara ſvo ſem Guds Barn; Þetta vottar hann ſiaalfur, er hann ſagde Fordum vid Konuna, er prijſade Sælu Moodur hañs: Hvad um þad? Sæler eru þeir ſem heyra Guds Ord og vardveita þau. Nu ſvo ſem þeſſe Fognudur i Gude er ſvo gott Hlutſkipte, ad eckert er þvilijkt, þa er þad ecke i hvers Manns Hiarta ad finna, þvi Trwenn er ecke allra, ſeiger Paulus, 2. Theſſ. 3. Jafnvel þoott þad ſtande ollum til Boda, ſem vilia þad til þeſs viña, ad hafna Glede Veralldarennar, og ecke ſelia þeſſa Sælu fyrer ſtundlegt Epterlæte Syndarennar. Þad er ecke noog, Chriſtner Menn, ad vilia naa þeſſum Fognude: Miked ſkal til Mikels vinna, ſegier hinn forne Ordskvidur. Kieppiſt vid ad gaanga iñ um hid þraungva Hlided, ſegier Frelſarenn, Luc. 13. Þvi eg ſegie ydur; marger vilia þar iñgaanga, og faa þad ei komeſt. O! hverſu miog ſyndgum vier, Jafnvel i voru Gudræknis Verke, margur hver! Ef ad Gud veiter oſs einhvern Lijkamlegann Velgiorning, ſem hann Daglega giorer, þa elſka þeir hann kann ſkie, og þacka honum þar fyrer, ſem Gudhrædder vera vilia, og er þad ſkylldugt ad ſonnu; Eñ þau Himneſku Daaſemdarverkenn, ſvo ſem Utſending hanns Sonar, Aſtgiafer Heilags Anda, Fyrergiefning Syndanna, þetta allt, ſegie eg, ſvo miked ſem þad er, ſem þo er yfer allann Maata miked, þad orkar ecke ſvo mikels hiaa oſs, ad vier fyrer hanns Skulld, er oſs allt þetta hefur giefens veitt, vilium forſmaa alla Veralldar Mune. Hvad ætle þier ad hiñ Alſkygne, hvad ætle þier ad Hiartnaña og Nyrnanna Rannſakare mune dæma um ſvoddann Gudrækne? Eg vil ſegia þad eg meina, ad hann vill ſegia vid þaa, ſem alleina finnſt til þeſs ſem Kroppnum gagnar, og duger til ad lifa vel og rijkmañlega i þeſſum Heime, eñ meta lijtels þad ſem þar uppe er, þau Stoor merke Guddoomlegrar Elſku, ſem ei maatte afreka nema med hanns Sonar Dauda, Vid þaa vill hann ſegia, ſegie eg, eins og vid Phariſæos ædur, Matth. 23. Vei ydur Skriftlærdum og Phariſæis, þier Hræſnarar, þier ed Tijunded Myntu, Anis og Cumen, enn gleimed þvi ſem meira er i Logmaalenu, Trwnne, Doomnum og Myſkunſemenne, þetta byriar ad giora, enn hitt ecke epter ad ſkilia. Svo eigum vier Gude ad þacka, hann ad elſka og dyrka fyrer Lijkamlega Hlute, og þad af allre Alwd, eñ þo laangtum framar ad mikla hann, elſka, heydra, og gledia oſs i honum fyrer þau dijru Stoor-

Merk-

Merke hans Fodurlegrar Giædsku, fyrer hver hañ hefur þrised Sæler vorar wt af Andskotans Vallde. Heyred hvad DRottenn segier fyrer Munn Hoseæ, Cap. 7. Þeir aakalla mig ecke af Hiarta; þegar þeir emia i Svefn-Hwsum sijnum, fyrer Korned og Mustena samannsafnast þeir, enn eru mier þo Ohlijduger: Hid sama er ad segia um alla adra Guds Þionustu, er vier lautunst veita honum, alleina fyrer Tijmannlega Mune; svo blanda Menn samann Guds Þionustu og Mammonæ, Vatne og Vidsmiore, sem alldrei kunna ad þijdast hvert añad. Meñ sveria vid Nafn DRotteñs, og þo under eins Malcom, eins og Judar, og dijrkum Gud i hanns Kyrkiu, enn sierhver færer Foorner sijnu Skwrgode aa Hædunum, eins og þeir, þad er sierhverium þeim Hlut, er hann metur meir edur jafnt vid Gud. Svoddann Christenndoomur er lijkur Footunum aa Nebuchadnezars Lijkneskiu, er sumpart var af Leyr, og sumpart af Jaarne.

DRotteñ sagde vid Ezechiel, Cap. 44. Þessar Dyr (hañ meinte hiñs Allra Helgasta) skulu læstar vera, eingeñ gaange iñ um þær, þviad DRotteñ Israels Gud hefur þar um ingeinged. Þu skallt og miñast þess, sem ert eiñ Andlegur Israels Madur, hvad Gud lofad hefur um sinnar Kyrkiu Vijgslu, sem er þitt Hiarta; Eg skal giefa ydur nijtt Hiarta, og einn nijann Anda skal eg setia medal ydar. Þetta ender Gud ad vijsu vid alla þaa sem honum eru helgader i Skijrnenne, og ecke saurga aptur hanns Mustere med Ydrunarlausu Framferde; Enn sijdann þu hefur hanns Hæsæte, og Stad hanns Foota, Ezech. 43. Þad er Guds Rijke, iñe hiaa þier, þa lwk þeim Dyrum aptur, hvar hañ iñgieck, og leyf eingum þar iñ ad koma til Gistingar, nema honum og hañs Christe, sem er hiñ ædste Prestur, og hañs Umbods-Moñum (þvi hinum ypparsta Preste, og hañs Umbods-Manne, leyfdest inn ad gaanga i þad Allra Helgasta): Laat þar þvi iñkoma Gudækelegar Amiñingar, og holla Lærdooma Guds Ords Þienara, og añarra Gudhræddra Manna: Med þvilijkum Giestum maa hañ giarna Sess eiga. Þu munt kañskie segia: Hverneg maa eg fraa þvi vidkomed, ad huxa eckert annad enn um Gud, aa medañ eg ber epter mier þetta veika Holld? Hallt kyrru um Stund, Barn mitt. I Jerusalems Mustere voru Stader Heydingiunum ætlader, fyrer utann þann Mid-Veggenn, er DRottenn nidurbraut, þegar hann kom til sijns Musteris, þar var og Stadur fyrer þaa, sem Gydingar hofdu giorst, fyrer Foolked, og fyrer Levitana og Kienne-Menneна, sem voru af hinne lægre Rod, enn hinn ypparste Prestur, edur og hanns Umbods-Madur, gieck alleina inn i þad Allra-Helgasta; Þar eru og i Guds Mustere, sem er þitt Hiarta, margar Verur: Þar kañ ad vera fyrer Hiegooma Veralldarennar, er þu daglega heyrer; Laat hañ alldrei komast inn fyrer Mid-Veggenn, helldur hallt hañ fyrer einn Heidingia, sem ei meige saurga Guds Mustere; Þar er og Stadur fyrer Naudsynlega Umhygg iu þessa fallvallta Lijfs, fyrer Naaunganum, og fyrer Embættis Utrettingum vorum, enn hid innsta af Hiarta þijnu skallt þu DRottne helga, þad skallt þu daglega hreinsa med sannre Ydran, þad skallt þu uppfylla med Reykelse Bænarennar, þad skallt þu prijda med Skarte Dygdarennar, Trwarennar, Kiærleikans; Enn um

alla Hluti fraũ med Eiſkunni til hanns, þa vill hann til þijn koma, og Viſtarveru hiaa þier giora, þár munt þu ſiaa hanns Dijrd, ſvo ſem i nockurskonar Skugg-Siaa þar mun hann laata þig ſmacka hvad ſætur hann er; og þar mun hann jafnvel i hinu meſta Volæde kienna þier, ad Mootlætingar þeſſara Tijma ſieu ecki verdar þeirrar Dijrdar, ſem vid oſs mun framkoma i eilijfu Lijfe; Hverrar niootandi ad verda, Oſs unni og veiti hinn Naaduge Konungur eilijfrar Dijrdar, Fyrir JESUM CHRJSTUM, AMEN.

# Fimta Sunnudag eptir Trinitatis.

Gudſpiallid, Luc. 5. Cap.

J Þañ Tijma. Og þad ſkiedi, þa ed Foolkid flyckteſt ad honum til ad heyra Guds Ord, Og hañ ſiaalfur ſtood vid Stooñ Genezareth, og hañ leit Tvø Skip ſtanda vid Sioodeñ: Eñ Fiſkararnir voru ſtignir af Skipunum og þvodu Neteñ. Hañ ſtie þaa uppaa añad Skiped, þad ſem var Simonar, og bad hañ ad draga nockud fraa Landi. Og hañ ſat og kiendi Foolkenu af Skipinu. Og ſem hañ gaf upp ad kieña, Sagdi hañ til Simonar: Drag þu wt aa Diwpid, og leyſed upp ydar Net til Fiſkidraattar. Simon ſvaradi, og ſagdi til hañs: Meiſtare, J alla Noott høfum vier erfidad, og feingum eckert; Eñ i þijnu Ordi mun eg Netenu wtkaſta. Og þa er þeir høfdu þetta giort, iñilucktu þeir mikla Mergd Fiſka, ſo ad þeirra Net rifnudu. Og þeir bendtu ſijnum Fielogum, ſem voru aa hinu ødru Skipinu, þad þeir kiæmu þar, og hiaalpudu þeim. Og þeir komu og hlodu bædi Skipiñ full, ſo ad þau ſucku ad meſtu. Þa ed Simon Petur ſaa þetta, fiell hañ til Knia aña JEſu, og ſagde: Gack fraa mier, Laavardur, þviad eg em Madur Syndugur; af þvi ad Felmtur var yfer hañ komiñ, Og alla þa ſem med hønum voru, af þeim Fiſkidrætti er þeir feingu til ſamans, Lijka og einniñ yfer Jacobum og Johañem, Sonu Zebedæi, Sem ad voru Lags-Meñ Simonar. Og JEſus ſagdi til Simonar: Ottaſt þu eigi, Þviad hiedañ i fraa ſkalltu Meñ veida. Og þeir droou ſijn Skip ad Landi, Yfergaafu alltſamañ, Og fylgdu hønum eptir.

## Exordium.

BLeſſan DRottins giorir Rijkañ fyrir utann Mædu, ſegier Salomon, Prov. 10. Ecki meinti hinn Vijſe Konungur þad, ad ei ſkylldu Syndugir Menn hafa Omak og Erfidi fyrir Næringu ſinni; Þad var ecki hanns, ad raſka þvi Logmaale,

le, Er hinn Alvallde Konungur setti strax eptir Synda-Falled, ad med Erfidi. skyllde Madurinn sig af Jordunni næra, Og i Sveita sijns Andlitis Brauds sijns neyta, Gen. 3. Hitt er hanns Meining, ad hvert sem hinn goodi Gud lætur einum Aud edur Armood tilfalla, þa sie hann samt Rijkur, Ef hann Ottast DRottinn; leitar hanns Blessunar, og Næringar sinnar i hanns Nafni; Hinn Rijki ad sonnu, Þvi þoott honum Audur hlotnist, þa festir hann ecki Hiarta sitt þar vid, Svo sem David bijdur, Ps. 62. Ef hañ er Guds Barn, helldur stundar eptir ad vera Rijkur i goodum Verkum, Svo sem Paulus fyrirmælir, 1. Tim. 6. Og etur svo Braud sitt med Gledi, og goodri Samvitsku, Hanns Erfide fellur honum liett, og hann þiggur Blessan DRottinns med Audmykt og Þacklæti, af hanns Orlætis Hendi: Svo giordi Abraham, Isaac og Jacob Forfedur, og margir af þeirra Nidium hafa fetad i þeirra Spor. Eins er hinum Fatæka varid, ef hann elskar Gud; Hann stundar ad verda i honum Rijkur; þegar hann hefur DRottinn, þa skeitir hann hverki um Himin nie Jord, Honum þykir sier borgid vera, þegar hann hefur eignast hann, Sem alla Verolldina hefur ad Erfdum tekid, Christum, Ps. 2. Þvi temur hann sier med Paulo, bædi Hæar og Lægur ad vera, bæde Noog ad hafa, og Skort ad lijda: Þannig hroosar hinn Audvirdilegi Broodir sier i Upphefd sinni, Og hinn Rijki i sinni Nidurlægingu, Jac. 1. Dæmi uppa svoddann Rijkdoom og Fatækt hofum vier i þessa Dags H. Evangelio, a St. Petri og hanns Fielogum; Þar þeir hofdu alla Noottina Erfidad, og eckert feingid, Enn sijdann innilucktu þeir mikla Mergd Fiska. Hier wt af vil eg Tvennt athuga i þetta Siñ. 1. Ad oss byrie Þolinnmoodum ad vera i Orbyrgdiñe. 2. Þacklaatum og Audmiwkum i Velgeingninni. Hiaalpa oss til ad Hugleida þetta so sem ber, Þu alleina Rijke Konungur, og Skapari Himins og Jardar, Fyrir JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingin.

Alla Noott Hofum Vier Erfidad, Og Feingum Eckert, segier Petur. Textinn brwkar hier þad Ord, sem merkir ad erfida sig þreittann, Og fyrir þvi hefur Guds Madur hier nockra Assokun, og villdi svo sem hafa sig undañ-þeigiñ ad reina til framar, nema DRottinn hefdi honum þad bodid. Vidlijk Freistni hendir jafnvel margann þann, sem vill Ottast og elska Gud, Þegar hañs Erfidi og Athafnir luckast ecki. Hann þeinkir med sier: Eg vinn Baki brotnu, Eg bid Gud mier til Hiaalpar, Eg slæ einginn Vind-Hogg i mijnum Atburdum, svo eg skyniad faai, og er fraasneiddur allri Oraadvendni, ad eg vilie taka mijns Naaunga Braud fraa hanns Munni, edur eta mitt Braud i annarra Sveita, Þo Luckast ecki mitt Verk; Enn añarra, sem midur bera sig ad, hefur goodann Framgang, og þeim aaorkast þoott þeir yrki ecke, og hiñ Almaattugi han elur þa sofandi; Gud mun mier aan Efa reidur vera, og hann setur mijnar Heimugleg ar Syndir fyrir sitt Augliti. Þvilijkt kañ Monum i Hug ad fliwga, Jafnvel þoott Guds Winir sieu, þegar ecki verdur Framgeingt, þad þeir hyggia sier til bestu Nota. Eñ læred þad af Dæme Peturs, Christnir Meñ, og hañs Verkanauta, ad þier ei laatid slijka Þaan-

ka koma i ydar Hiortu. J Odrum af þessum Fiske-Baatum var Petur og Brooder hañs Andreas, eñ i odrum þeir Zebedæi Syner, Frændur DRottens, Marc, 1. Hversu daatt hann hafe elskad þessa Fiskara, þad gaf sijdar Raun Vitne um, og, medal annara, þegar hann þvode Fætur þeirra, þegar hann talade fyrer þeim hina Hiartnæmu Predikun, sem ritud stendur, Joh. 14. 15. 16. Cap. Epter Kvolldmaaltijdena, þegar hann leyfde þeim ad sofa og hvijlast, þa hann sveittest Bloodenu under þeirra og allra Manna Syndum, þegar hann bad þeim Odlofs wr Mordingia Hondunum, þegar hañ leitade ad þeim, upprisenn af Dauda, er hañ þo skomu ædur yfergiefed hofdu, og sierdeilis Petre, er mest hafde tiluñed; Þo lætur hann þaa hier alla Noottena Forgiefens erfida. Og ef hann breitte svo vid þaa, þvi meigum vier þa kunna hiñ Alvijsa fyrer þad, ad hañ sijner oss somu Naad, sem hinum kiærustu Vinum sijnum, hverra Skoo-Þveinge vier erum ei verduger upp ad leisa, edur ad þurka af Dupt Foota þeirra! Ætle þvi eingenn, ad sa mune vera hinn beste Guds Vinur, sem hann lænar mest af Verralldar Munum, eñ ad hann hafe skot[illegible]hinum fraa sier, er hann lætur þa vanta; Annars badade Nabal i Guds Skaute, eñ Davi[illegible]n nærre þvi foor a Vonar-Vol med Sveit sinne fyrer Ofrijke Sauls Konungs, hann [illegible]ære wtrekenn fraa hanns Auglite, Lazarus være burtkastadur, eñ hiñ Rijke Sælkiere iñtekeñ i Guds Vinaattu. Dæmum þvi ecke epter Holldenu, Joh. 8. Christner Meñ, helldur lærum af þessum Guds Hetium ad varpa allre vorre Ahyggiu uppaa hann, þvi hann mun þvi vel til Vegar koma, Ps. 37. Hvad sem hann lætur oss til Handa bera. Þad hiaalpar ecke til ad hlaupa, ad vera skiootur, ecke til Bardaga, ad vera Sterkur; svo hiaalpar þad og ecke til Rijkdooms, ad vera Ahyggiusamur; Þvi þad er satt sem Syrach segier, Cap. 11. Ad Lucka og Olucka, Lijf og Daude kome af DRottne, og hann giefur þad hveriùm hann vill. Hver vill segia vid hann: Hvad giorer þu? MEistare, J Þijnu NAfne Mun Eg NEtenu Utkasta; stendur i Gudspiallenu: Þetta Ord, MEJSTARE, þijder Verkstioora, epter Textanum, edur og Hofdingia, edur Forraada Mann: Ef hañ er Herrann, maa þa banna honum ad skipa mier ad erfida, jafnvel Forgiefens, ef honum svo lijkar? Eg aa ecke meira af Idiu miñe, helldur eñ hañ mier skamta vill, svo sem odrum Verk-Þræl, enn eg veit ad hañ er trwr, og frestar einkis yfer Megn fram, og ecke maa eg svo vid hañ breita, svo sem sumer af vorum Verka-Monnum vid Hwss-Bændur sijna; Nær þeir þykiast þreytter vera, vilia þeir eckert Verk framar viña: Ecke maa eg helldur svo Raangeygdur vera, ad siaa Ossioonum yfer þvi, ad hann lienar odrum meire Hamingiu i sijnu Erfide, þvi hañ took þad ecke af mijnu, sem hañ gaf honum frekar enn mier, Sierdeilis þar eg veit ecke hañs Tilgaang; Hañ hefur Tijma og Hentugleika sett i sijnu Valde, Act. 1. enn ecke mijnu; Hver hefur nockurn Tijma hanns Raadgiafe vered? Rom. 9. Hitt sie eg af Dæmunum, bæde Fornum og Nyum, ad Gud lienar Audenn sumum Monum, Til þess, ad hañs Þoleñmæde og Giædska drage þaa til Ydranar; Eñ nockrum, þad er þeim Feitingium, sem upp hafa fyllt Mæler Syndanna, til Straffs og Hegningar, svo sem Menn ala einn Uxa til Slaaturs. Apt-

Ur

ur maa þad þeckia, ad Gud svipter sijn Born þessum Veralldar Hiegooma, til þess ad deyda þar med Holldsins Gyrnder, til þess, ad reina Stodugleik Trwar þeirra, eins og Jobs; Ecke fyrer þvi, ad hann þecke hann ecke sialfur best, helldur ad þeir sem hann elskar, lære ad þeckia sialfa sig, og treysta ecke ofmiog Mætte sijnum i Andlegum Efnum, og lære ad segia med Paulo: Þa eg em Veikur, þa em eg Mattugur. Þad gior: er sa blessade HErra og so til þess, ad venia oss af Briostum hinnar slæmadu Skiæk: iu Veralldarennar, og ad Menn þecke, ad allt þad sem i Heiminenum er, þad er ecke añad enn Fysn Holldsins, Lysting Augnanna, og Drambsamt Lijferne, 1. Joh. 2. Og læ: ra ad skynia þad sem þar uppe er, og ad vor Borgar-Riettur er aa Himnum, hvadann vier væntum Frelsarans JEsu Christi, Phil. 3. Hver þott hann være Rijkur, segier Postulenn, giordest hañ Fatækur, svo ad vier fyrer hañs Fatækt rijker yrdum, 2. Cor. 8. Þvi skyllda eg mogla aa moote honum, sem ad veit alla Hlute, aller eru þeir opner og nakter fyrer honum, segier Postulenn; Eru ecke þetta Guds Sonar Ord, hia Matth. 6. Ydar Himneskur Fader veit ad þier hafed alls þessa Þorf? Og ecke einasta veit hann þad, helldur og skorter hann ecke Matt til ad hialpa; Er hañs Hond nockud stutt ordeñ, svo hañ ei hialpa kunne? Esa. 59. Jordeñ er hañs og allt hvad þar i er, Jard: ar-Kriinglann, og aller þeir ed aa henne bwa, Ps. 24. Nær hañ talar, so skiedur þad, nær hann bijdur, verdur þad, Ps. 33. Edur mun hañ Giædskuna bresta til ad vilia hial: pa? Hafe hañ skapad Saal og Lijf, og furdulega þeim vidhallded allt til þessa Dags, og giefed oss þad besta er hann atte, sinn Eingietenn Son, til ad frelsa oss wr Kvolunum, sinn H. Anda til ad helga oss, ad hann sie Pantur vorrar Arfleysdar og eilijfs Lijfs; Mun hañ þa ecke giefa oss þad vier vidþurfum til þessa Lijfs Næringar, þott hañ laate Stund: um Misbrest aa þvi verda, þeirra Orsaka vegna, er hann sialfur veit, enn vier f[illegible]ar Mañeskiur skynium ecke? Eda segier ecke Postuleñ berlega: Hañ sem gaf oss Son[illegible], mun hann ecke giefa oss alla Hlute med honum? Hann hefur sialfur laated oss b[illegible], þann Kost er hann vill, er oss skapad, endurleyst og Helgad hefur. Ef hañ ny[illegible] Fuglana under Himnenum, svo ad einn Titlingur af þeim sellur ecke aa Jordu an har[illegible]s Vilia; ef hann prijder Grased, þad i Dag er aa Akre, framar enn Salomon i allre [illegible] Dijrd, og verdur þo aa Morgun i Ofn kastad, Matth. 6. Munde hanns Giæd[illegible] þa neita oss þess, er vier skulum neyta og klædast med, oss sem fyrer hanns Sonar [illegible] Blood og saaru Kvol, erum hanns Born ordner? Munde hann, segie eg, neita oss þessara Hluta, nema ad hann visse ad oss gagnade aa Stundum ad missa þa, og jafnvel þott hann tæke Lijfed af oss, med hveriu moote sem honum þocknast, þa verum þess fullorugger, ad hañ giorer þad til þess, ad vier skulum finna þad eilijflega, þvi þad skal skie, ad hver hann trwer aa Sonenn, þott hann deye, þa skal hann samt lifa, Joh. 11. Og hofum þad fyrer vijst, ad hverke Lijf nie Daude, hverke Einglar nie Hofdingia-Dæme, hverke hid Nalæga nie hid Epterkomanda, hverke Hæd nie Dypt, nie nockur añar skapadur Hlut: ur mune fa oss skiled vid Kiærleika Guds, sem ad er i Christo JEsu DRottne vorum,

 Rom. 8.

Rom. 8. Hversu Ovænlega sem oss horfa þykir; Enn þo ad Gudi þocknist ad lata vort Erfidi og Aztundan misfalla, Christnir Menn, þa letiunst ecki i þvi, ad hvad vier giorum, Þad giorum vier i Nafni JEsu Christi, og þockum Fodurnum fyrir hann.

Þvott Petur hefdi ecki fiskad alla Noottina, nie hanns Fielagar, og voru svo afstigner Skipunum, Urkala Vonar um frekari Fiski-Veidar i þad Sinn; Samt heyrdu þeir Guds Ord, og hina algiætu DRottinns Predikun. Breitum og þannig! Þo vort Erfide Luckist ecki æ Stundum, þa gleymum ecki Gudi, þvi eitt er Naudsynlegt, Leitum þar fyrir hanns Rijkis, og hanns Rietlætis, þa mun oss allt annad tilleggiast, Matth. 6. Ef ecki svo sem vier viliumm, Þa svo sem hann vill, Hvers Vilie ad vier Daglega bidium ad verda skuli, og giorum Verk vorrar Kallanar i Otta DRottinns eptir hanns Bodi; Svo giordi Petur: J Þijnu Ordi, Þad er, Eptir Skipan þinni, Vil Eg Netenu Utkasta. Mattugur var JEsus ad lata Fiskana hlaupa ufandi upp i Skipid, Ecki sijdur enn ad lata Petur finna Peninginn i Fiskiarins Munni, Matth. 17. Þo skipadi hann honum ad draga wt æ Diwpid, eptir þad hann hafdi hlijdt Guds Ordi. Tvennt er hier ad læra: Eitt þad sem eg fyrir skommu aminntist, ad Menn byrie oll sijn Verk i Guds Nafni, og ad honum med sier tilkolludum; Svo giordi Petur, þvi æ Virkum Deigi hefur þetta vered, Annars hefdu þeir ecki farid til Fiski-Veida: Hitt Annad, ad Menn brwki þau Medol, sem Gud hefur kiennt og bodid, J Utvegum Næringar sinnar, enn grijpe ecki til Oleifelegra Hluta, þegar ecki vill avorkast. J Þijnu Ordi Vil Eg Netenu Utkasta. Net þijder marga Hluti i H. Ritningu: Þad merkir Svikrædi og Vielar Orædvandra og Gudlausra Manna, Þeir ed Stela, Liwga, Svijkia, Ræna, Kwga, Hræsna og æ Tælar draga Einfalldar Saalir, til Abata sier: Þesser kasta Netinu wt i Andskotans Nafni, og þo þad meigi Luckast um Stund, Þa munu þeir um sijder Oluckuna veida. Um suma af þeim talar Salomon, Prov. 29. Sa sem Hræsnar fyrir Vin sinum, Hann breidir Net fyrir hanns Gang. Enn David segier hver Utforenn muni verda, Ps. 9. J þvi Neti, er þeir falid hafa, Er þo Footur þeirra fanginn. Þad merkir og Ofbelldi þeirra, Er draga alla Hlute til sijn, med Valldi og Ofrijki; So segier Ritningin um Konunginn af Babilon, Habac. 1. Ad hann hafe fært Footnir fyrir Neti sijnu; Þad er, hann hafe þackad Makt sinni og Atburdum allann sinn Sigur, Og þad Valld er hann feingid hafdi yfer odrum Konga-Rijkium, hver ed hann droo til sijn, svo sem þegar Fiskar veiddir eru. Þesser kasta Netenu wt i sijnu eiginn Nafni, og eru hinum forri eingu betri, Þvi þeir gleima Gudi Himnanna, Fraa hverium ad Sigurenn kiemur, Enn treysta æ Maatt sinn og Meiginn. Þetta Ord þijdir og Guds bræda Hefnd, yfer hinum stolltu Verralldar-Sonum, Hver ed yfer þa kemur æ Stundum, Nær þeir minnst hyggia, svo sem Net yfer Fiskinn, svo sem Jood-Soott yfer Olietta Konu, 1. Thess. 5. Þetta Net er vijst ollum þeim er upphefia sig æ mooti Gudi, og ecki giefa honum Dijrdina, Þess gietur hiaa Ezech. 17. Þar ed segier: Eg skal wtþenia mitt Net yfer hann, og hann skal i mijnu Neti fanginn verda. Þvi vil eg nu i hinum sijdari Partenum

inum med færstu Ordum Hugleida, Hversu ad vier eigum i Medlætinu audmiwkir og Packlaatir ad vera.

Gudspiallid segier: Ad þegar þeir feingu þenna mikla Fiski-Draatt, þa hafe Petur Kropid Ad Kniaam JEsu. Þetta var Packlætis-Merki hanns; Añad hafdi hann ecki Guds Syni ad giallda, Aññars krefur hann ecki helldur af neinum, þvi hañ er einkis Purfe: Þad sijndi hann optlega, Jafnvel i hanns Lægingar-Standi, þegar hañ villdi brwka Valld sitt, og þad ecki sijdst med þessari Dijrdlegu Jardteikn. Svo sem þad Gud segier fyrir Davids Munn, Ps. 50. Ad hann vilie ecki segia Mañeskiuñi til ef hann hwngrar; Þviad allt Silfur og Gull sie hanns, og øll Trien aa Mørkinni og øll Dijrinn aa Skoognum: Svo er af þessu Dæmi lioost, ad DRottinn JEsus hefur, eptir Manndoominum, þeged af sijnum Fødur Valld yfer ollum Skiepnum Guds, og allt hvad vier medtøkum af Guds Hendi, þad veitist oss fyrir hanns Skulld: A honum þar fyrir skylldugar Packir ad giallda, og i hanns Nafni ad bidia um allt þad vier þyggia þurfum af hanns Almaattugu Hendi; þar fyrir segier Paulus, 1. Thess. 5. Bidied Oaflaatanlega, og giorid Packir i ollum Hlutum, þvi þad er Vilie Guds fyrir Christum JEsum i ollu vid ydur. Petur var svo packlaatur vid DRottinn fyrir einn Fiske-Draatt; Enn hvad marga høfum vier nu þeigid? Satt er þad, ad hinn Stoori Allsheriar DRottinn hefur laated eitt edur Tvø Ar aa Stundum vorar Fiski-Veidar misfalla (Eins og Peturs i þetta Sinn, um Noottina fyrir þetta mikla Happ), Eñ sijdañ hefur hann yfersliootannlega aa mørgum Arum uppfyllt oss med Blesson sinni af Sioonum, svo ad hefdum vier haft Framsyne Josephs, og safnad aa þeim goodu Tiimunum, þad oss og Naunganum hefde kunnad ad hiaalpa aa þeim vondu, er vier svo køllum; Þa hefdu ecki þær hinar møgru Kyrnar uppetid þær feitu: Enn hvert Packlæti høfum vier nu golldid Gudi þar fyrir? Þad finnur hver einn, þegar hann athugar grandgiæfilega med siaalfum sier, hversu lijtt honum hafe vered hugad um, ad Offra DRottni Lofgiordinni, þegar hann hvad mesta Blessan hefur af hanns Hendi medtekid, Jafnvel þoott ad allir Christnir Menn viti, ad þeir sieu skylldugir til ad packa honum, eins vel fyrir Mootlæti sem Medlæti. Segied mier: Er hann nockrum nockud skylldugur? Hver hefur honum giefed? Hver hefur honum laanad ad Fyrra Bragdi? Og hvad segie eg: ad Fyrra Bragdi; hver hefur honum nockud nockurn Tijma giefed? Þvi þad er vier laatunst wtilaata vid þa er hann skipad hefur, þad tøkum vier þo ecki af voru, helldur af hanns, sem bædi aa oss, og allt þad vier køllum vort. Hvilijk er þaa su Faasinna, ad vier ecki Daglega skulum ad Guds Kniaam kriwpa, til ad Offra honum Packlætinu, fyrir þær Ometanlegu Velgiørdir; er vier aa hverri Stundu þyggium af hanns Orlætis Hendi, Ecki einungis Lijkamlegar, er oss þikir mest tilkoma, helldur og Andlegar, sem eru miklu dijrari, ef vier hefdum Rækt edur Vitsmuni mooti ad taka?

Ecki þockti DRottni svo mikils verdt um þeña Fiski-Afla, þvi hiet hañ Petri ødru sem var miklu aagiætara, er hann sagdi: Hier eptir skalltu Meñ Veida. Eg skal giora

ydkur

yckur ad Manna Fiskurum, sagde hañ skomu sijdar vid þa Zebedei Sonu, þad er, ad heilgr
Fyllda bæde sig og sijna Tilheyrendur hoolpna giora, svo sem Paulus sagde vid Timo-
theum, 1. Tim. 1. Þessa høfum vier adnoted, þar Hlioomur þeirra er og oss til Eyrna
komenn: Vier, sem bwum hier aa Utskiækle Veralldareñar, Utlæger, svo ad segia, fraa
ødrum Løndum. Og þar fyrer eigum vier hinum gooda Gude hvad mestar Þacker ad
giallda, og ecke einasta ad heidra hann fyrer Korned og Mustena, þad er fyrer Mat og
Dryck, epter hveriu ad leita Heidnar-Þiooder, Matth. 6. Hellldur fyrer þad Lijfsins
Braud, sem er af Himnum ofannkomed, og fyrer þad Vatn, epter hvert ad eingañ mun
þyrsta, þann sem af þvi dreckur, Joh. 4. Þad er sialfur JEsus, sem Gaafur hefur
Mønnunum giefed, uppfarenn i Hædernar. Eñ þad er ecke noog ad laatast þacka Gude
med Munnenum alleina, Hiartad aa ad filgia med, og hin mesta Audmykt, og Under-
giefne Andans. Þegar þeir Petur høfdu feinged þenna mikla Fiske-Draatt, þa stend-
ur i Gudspiallenu, ad hann hafe sagt vid JEsum: Vijk Fraa Mier, Lavardur. Mun-
de hann nockud kvedia honum Bygd, svo sem Gadareni, Matth. 8. Edur yfergiefa hañ,
svo sem Capernaums Borgar-Menn, Joh. 6. Edur wthijsa honum, svo sem hiner Sam-
arisku, er hann ferdadest til Jerusalem giegnum Bygd þeirra? Fiærri er þvi. Hin me-
sta Hiartans Audmykt og Þecking sijns Overdugleika hefur þrijst honum til ad tala þesse
Ord; Þad er audsært af Orsøkenne, er hann færer hier til: Þvi Ad Eg Em Madur
Syndugur. Svo er nu Mannleg Naattura veik, ad hun stendst ecke Guddoomsins
Naalægd: Hun aalijtur helldur i fyrstu siñ Overdugleika, helldur eñ Lausnarans For-
þienustu. J heillt Ar hafde Petur þeckt JEsum, og heyrt hañs Kieñingar, þegar þesse
dijra Jardteikn var gior, og þo var hier svo sem hann mistreyste i Fyrstuñe hanns Naad,
er honum þo skomu aadur hafde svo Naadugur vered. Þu ert iñgeingeñ til mijn, Guds-
Madur, sagde Eckiann i Sarepta, til ad minnast Raanglætinga minna, og deyda Son
minn, 1. Reg. 17. Hvar fyrer? Þviad hun talde sig Overduga, vegna Synda siña,
og þooktest ecke svo lifad hafa, sem hæfde Guds Sendeboda.* Manoah sagde vid Hws-
freyu sijna, Jud. 13. Vid munum vissulega deya, þvi vid høfum sied DRottenn.
Hvad velldur þessu? Þviad Samvitskann, nær hun er skielfd og aangrud vegna Synd-
aña, þa gleimer hun Forþienustu Medalgaangarans, enn hugleider Gud alleina, svo sem
straangann Doomara og Hegnara Raanglætesins: Svo meinte og Petur i þetta Siñ,
ad Riettlaater einir mættu bwa med Christo, hinum ødrum være hann eirn fortærande
Elldur, Jafnvel þoott hann være i Heimenn komenn til ad kalla Synduga, og ecke Riett-
laata, til Ydranar. Þetta verkar nu Umþeinking Syndanna og Riettlætesins i Fyrst-
unne hiaa Guds Børnum; Og þoott ad i slijku sie Veikleiki nockur, þa þienar hann,
svo sem allt annad, þeim til Gooda sem Ottast Gud. Fyrer þvi, nær þu framkiemur i
þinn Bæna-Stad, til ad þacka Gude fyrer Velgiorder sijnar, edur ad bidia nockurs af
honum, þa ber samann hanns Haatign og þitt Volæde, hañs Giædsku, og þijna Vond-
sku, hanns Riettlæte, og þijnar morgu Synder, hanns Poleñmæde og þijna Þvermood-
sku!

sku, Hanns Almætti og þinn Vanmætt, og nun brædlega, Felmtur yfer þig koma, ecki sijdur eñ þa Petur, og þitt Hiarta smellta i þier, so sem annad Vax, af Tilfinningu Guds Reidi yfer Syndunum og Helvijtis Kvala, sem þær hafa uñid til, og nær þu þañig staddur ert æ millum Vonar og Otta þa muntu heira med Petri, af Guds Alsu; Ottast ecki, Jaa, Vertu Hughraustur Sonur, þier eru þijnar Syndir fyrirgiefnar. O vor Gud! Nær hin kallda og bitra Daudans Stund oss ad Hondum ber, og Samvitskann tekur ad æklaga oss, Minning Syndanna ofbijdur oss, Diofulliñ hrellir oss, med þeirra Minningu, Og giorir hvad mest wr þeim, enn lijtid wr þijns Sonar Verdskulldan, sem þo er ollu meiri, þaa laat þinn H. Anda mæla þessi Fogru Ord i Hiarta voru, og bera vorum Anda Vitnisburd þar um, ad vier sieum Guds Born. Bænheyr þad, Himneski Fadir, fyrir JEsu Blessada Forþienustu, Amen.

# Siotta Sunnudag eptir Trinitatis.

Gudspiallid, Matth. 5. Cap.

Y þañ Tijma. JEsus sagdi til siña Lærisveina: Eg segie ydur, Nema svo sie, Ad ydvart Riettlæti yfirgnæfi meir eñ þad hiña Skriftlærdu og Phariseaña, Þa munud þier eigi iñgæanga i Himnarijki. Þier hafid heirt hvad sagt er til þeirra Gomlu: Eigi skalltu Mañ vega. Eñ hvør hañ vegur Mañ, sa verdur Dooms sekur. Eñ eg segie ydur þad, Hver hañ reidist Broodur sijnum, sa verdur Dooms sekur. Eñ hvør sem ad segier til Broodur sijns, Raka, hañ verdur Raads sekur. Eñ hvør sem ad segier: Þu Afglapi, hañ verdur sekur Helvijtis Ellds. Þar fyrir nær ed þu Offrar þijna Gaafu fyrir Altarinu, og þier kiemur þar til Hugar, þad þiñ Broodir hafe nockud æ mooti þier, þaa laattu þar þijna Gaafu fyrir Altarenu, og far ædur ad sætta þig vid Broodur þiñ, og kom þa ad Offra þijna Gaafu. Vertu snarlega Samþyckur þijnum Mootstodu-Mañe, æ medañ þu ert eñ æ Veigi med honum; So ad eige selie þig þiñ Mootstodu-Madur Doomaranum, Doomariñ selie þig Þienaranum, og verdir so i Dyblissu kastadur. Sañlega segie eg þier: Ad eigi muntu þadañ wt fara, þaangad til þu hefur borgad hiñ Sijdasta Pening.

Exordium.

Þier Villist, þar þier vitid ecki Ritningarnar, Sagdi DRottinn vid Saducæos, Matth. 22. Med vidlijku Mooti ævarpadi hann Phariseos, Marc. 7. Þier Onijtid Guds Bodord, svo ad þier halldid Setninga ydar: Og þad giorir hann Satt, Bædi i greindum Capitula Marci, og svo hinum 23. Matthæi

Þad er hveriu Ordi sannara, sem Paall skrifar, ad Holldlegur Madur skynie ecki hvad Guds Anda er, og þad sie honum Heimska, 1. Cor. 2. Þad er lioost af Dæmi hinna Skriftlærdu, er kolludu sig ad hafa Lykil Vitskunnar, enn wtlogdu þo Ritninguna eftir sijnum eiginn Þootta. Þad auglijsir hinn Stoori Biskup med þa Vellærdu Twinguna i þessa Heil. Dags Evangelio, þar hann sialfur wtleggur Logmaalid laangtum odruvijs enn Gydinganna Vitrijngar hielldu: Hver hanns Utskijring ad mestu Leiti er vidtekinn af flestum þeim er Christnir kallast, þo er þar i ein Grein, sem ecki kiemur ollum samann um, þad er þessi: VERtu SNARlega SAMþyckur ÞIINum MOotstodu MAnni, aa MEDann Þu Ert Enn aa VEIgi Med HONum, Svo Ad Eigi Selie Þig Þinn MOOTstodu MAdur DOOMaranum, Og DOOMarinn SELie Þig Þienaranum, Og VErdir Þu Svo I DYblissu KAstadur. Ut af þessum Ordum DRottinns hafa Einþyckir og Skynhelgir Menn þad spunnid, ad ei leyfist Christnum Monnum ad eigast Log vid fyrir sijnu Yfirvalldi, Og, þvi verr, ad i Landi voru eru þeir, er leggia þad wt aa hinn versta Veg, ef nockur er Vandlætingasamur i þvi, ad sækia Guds og Konungsins Riett, ad forsvara Virdingu sijna og Fiaar-Hluti fyrir Asælni vondra Manna, ad styrkia Maalefni Eckiunnar, og hinns Fodurlausa, og kalla, ad þad komi ecki einum vid, og jafnvel þoott ad Lograeningurinn sie honum Vandabundinn, og nefna slijkt Orooa og Fridar Spillir. Enn eg mun med faam Ordum sijna, ad ei sie þad Lausnarans Meining, ad banna Christnum Monnum ad sækia Riett sinn, og þar hiaa, ad vor Riettargaangur eigi ad vera aan alls Haturs og Reidi. Þu Riettlaati Fridarins Gud, gief oss Naad þijns Anda þar til, ad þetta Eyrende vel luckast meigi, fyrir JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingiñ.

HOtt ad ecki væri adrar Roksemdir til þess, ad Lausnariñ ei tali hier um Veralldlegann Riett, helldur um þad Riettlæti, sem fyrir Gudi gylldir, þa er sw noog, ad hañ segir i Ondverdu Gudspiallinu: Nema Ad Ydar Riettlæti Yfirgnæfi Framar Enn Hinna Skriftlærdu og Phariseanna, Þa Kunnid Þier ecki Iñ ad Gaanga i Guds Rijki. Vitannlegt er þad af Gudspialls Sogunum, ad ecki hofdust þessir Skynhelgu Menn þaa Hluti ad, sem Veralldar Riettur kynni ad fella þa fyrir; eñ fyrir þvi, ad Guds Doomar eru ecki eins og Mannaña Doomar, þeir dæma eftir Gognum og Vitnum, enn hann ecki eptir þvi sem hanns Auga sier, edur hañs Eyra heyrir, helldur rannsakar hann Hiortunn og Nyrunn, Ps. 7. Fyrir þvi, segi eg, tekur Lausnarinn til ad wtskijra hid Fimta Bodord fyrst, og sijnir, ad ecki einasta Manndraap edur wtwortis Misþyrmingar sieu fyrir Gudi Saknæmar, helldur og Reidinn i Hiartanu, og Ovirdingar Ord þau, er framkoma af Munninum. Ef Menn nu þetta fyrir satt hallda, sem eg hygg ad allir giora muni, sem þessa Ritningu vel rannsaka; Hver vill þa segia, ad Frelsarinn meini i þessum Capitula fyrr edur sijdar, Veralldlegann Riettar-Gaang? Ad þessu lijtur þad, er sijdar stendur i Gudspiallinu; Nær Þu Offrar Þijna Gaafu Fyrir Altarinu,

Altarinu, Og Þier Kiemur Þar Til Hugar, Þad Þinn Broodir Hafi Nockud A Mooti Þier, Þa Laattu Þar Þijna Gaafu Fyrir Alltarinu, Og Far Adur Ad Sætta Þig Vid Broodur Þinn, Og Kom Þa Ad Offra Þijna Gaafu. Segid mier: Hver aa ad þyggia Offrid, Gud edur Sijslumadurinn? Hvada Doomari mun þaa meintur i þessum Ordum: Ad Ecki Ofurselie Hann Þig DOOmaranum? Eg meina Gud; þvi aa Myskunsemi hefur hann Þocknan, og ecki aa Offri, Hos. 6. Enn Veralldar Hofdingiar, þvi verr, þeir hafa margur-hver Þocknan aa Offri, enn ecki aa Myskun, nær þeir taka Fie til ad Riettlæta hinn Raanglaata, enn fordæma hiñ Saklausa aah allrar Vægdar og Myskunar. Og so sem þad DRottni ecki þocknadist Offur hinna Heimsku, Eccl. 5. oodruvijsi eñ svo, hañ segir, Esa. 66. Ad hver hañ slaatrar Nauti, þad er sem hañ slæi Mañ i Hel; Hver hann loogar Saud, þad er sem hann afhøfdadi einn Hund; Hver hañ færir Foorn, so sem offradi hann Svijns-Bloodi; Sa ed Reykelsi breñir, so sem hañ giæfi þad Skurgodi: So vill og Frelsarinn segia, ad øll Guds Þioonusta þess, sem er missaattur vid sinn Naunga; þann er hann hefur afgiørt vid, hun sie Andstygd fyrir Gudi, ef hañ maa annars Saattum naa, og þvi ælyktar hann med þessari Grein: Vert snarlega Samþyckur Þijnum Mootstodu Manni, A Medann Þu Ert Enn A Veigi Med Honum, Svo Ad Eigi Selie Þig Þinn Mootstodu Madur DOOmaranum, etc. Ad Doomarinn sie Gud, Allsheriar Konungur, þar er eingiñ Efi aa; hañ eiñ aa Valld aa ad kasta þeim hann fordæmer, i þad Faangelsid, hvadann ecki er Endurlausn, sem er Helvijti; Og ad þad sie hier meint, vottar Eftirlijkinginn uṁ hinn vonda Þioon, er ritud stendur, Matth. 18. Hann aa og alleina Himnarijkis Valld. Fyrir hvers Riettlæti vier inngaungum i Guds Rijki, er alkunnigt; Ecki Phariseanna, ecki vort eigid, edur Heilagra Manna; helldur hanns, sem er Jehova vort Riettlæti, Christus, enn hanns Riettlæti maa einginn naa fyrir utañ þad, ad hann sie vid siñ Broodur saattur i sijnu Hiarta, ad minnsta Kosti, og vilie ofgiørt hafa þad afgiørt var. Nu er eingiñ Heilvita Madur saa, ad ef hann hefur Misgiørt vid nockurn, ad hann ecki helldur leiti Saatta til hanns, helldur enn ad mæta fyrir Doomaranum, hver ed, auk Þegnsins Riettar, fellir aa hann Konungsins Sok, sierdeilis þar Konungarnir hafa eftirlaatid slijkar Saattir, nær Maalum er svo haattad, ad ecki snertir Guds Æru, nie Tign þeirra. Nu hygg eg sw sie Meining DRottinns i þessari Grein: Þad sem Framsijni þykir i Veralldlegum Maalum, þvi skylldi þad ei þykia i Efni Saaluhiaalpar ydar? Fraa Veralldlegum Doomi maa komast aa einhvern Haatt; Einhver kann ad gaanga i Borgun fyrir mig, mier kann Arfur til ad falla, svo eg gieti lokid Skulld mijna; Vinir og Naaungar gieta Fridstillt minn Mootstodu-Mann: Enn fraa Guds Doomi eingañveigiñ, nema eg verdi saattur vid miñ Mootstodu Mann, aa medann eg er enn þa aa Veigi med honum, þad er, aa medañ eg lifi, adur enn eg kiem fyrir hinn straanga Allsheriar Doom, og verd i Myrkvastofu kastadur, hvadann eg mun ecki utfara, þaangad til eg hefi borgad hinn sijdarsta Pening; Þad er, alldrei, þvi vor Helvijti er einginn Endurlausn. Þar fyrir er einsætt ad sættast vid Naa-

ungann medann Tijminn er, ſierdeilis þar eg veit ecki hvad mikid er eptir Vegarins; Gud rædur mijnum ſijdarſta Nætur-Stad, og ecki ſiaalfur eg; Og hier af hygg eg þad audſært, ad ei tali Frelſarinn i þeſſum Stad um Veralldlegann Riett. Veit eg ad DRottinn ſegier i þeſſum ſama Capitula: Ef nockur vill vid þig Løg þreita, og þijna Yferhøfn af þier taka, Laat hønum og þinn Kyrtil eptir. Eg vil nu ei faa mier þad til Orda, ad margir Lærdir Menn leggia þetta ſvo wt: Vilie nockur kieppa vid þig um Yferhøfn þijna, þad er, ad taka hana af þier med Ofbelldi; Eg vil laata hitt ſtanda, Samt hefur þo DRottinn ecki i þeſſum Ordum Laga-Riettinn fyrirbodid; Þad var ecki hans ad banna Mønnum Løg og Riett, Sem ad er Høfundur Riettar og Laga, Hvers ad er Doomurenn, Hver og er medal Doomaranna i Doomunum, Ad Vitni Joſaphats Konungs, 2. Chron. 19. Helldur þeirra, ſem neita Mønnum riettra Laga, Tradka Maalum Manna med Flækium og Raangſleitni, Spilla Løglegum Vitnum og Stefnum ad Raunarlauſu, Hveria Drottinn vill ſijdann Dæma.

Enn eg vil aptur taka til hinns Fyrra Maals. Eingum bannar DRottinn i þeſſari Grein ad beidaſt Riettar ſijns: Þad er alkunnugt, ad Frelſarinn talar i Ordskvidum og Eptirlijkingum þraalega i Kienningum ſijnum (Hann ſamlijkir Chriſtnina Vijn-Garde, Akri, Brwdkaupi; Þo er Chriſtninn hverki Vijn-Gardur, Akur nie Brwdkaup. Hann kallar Herodem Ref, mundi hann þar fyrir Refur vera? Þaa Johannem og Jacobum Þrumu-Syni, Mundu þeir þa ecki vera Zebedæi Synir? Hann ſegier ad hægra ſie Ulfalldanum ad gaanga i giegnum Naalar-Augad, helldur enn Rijkum Manne inn i Himna Rijki, Matth. 19. Nu er þad Omøgulegt; Hvar munu þa Abraham, Iſaac og Jacob vera? J þeſſum ſama Capitula Matthæi ſegier hann: Ef þijn Hønd edur Footur hneixlar þig, Þa ſnijd þau af, og ſnara þeim fraa þier: Mun hann þa villa ad Menn ſkuli meida ſig edur vana eins og Baals Preſtar? Og ecki miklu helldur, ad þeir ſkuli Kroſsfeſta ſitt Holld, og deyda ſijna Jardneſka Lunu, Svo ſem Paulus ad Ordi kiemſt, Col. 3. Hann ſegier i ſama Capitula: Ef nockur ſlær þig aa þijna Hægri Kynn, þa ſnw ad hønum hinni Annari; Enn ef hann ſlær aa hina Vinſtri fyrſt, þa hefur þu ecki adra vinſtri Kynn ad biooda, ſegier Auguſtinus, Og Lucas gietur hverki um hægri nie vinſtri Kynn): Þvi meiga Menn ecki alltijd haanga i Ordum Ritningarinnar, helldur leita ad Meiningunni, hver ad i þeſſum Ordum er einginn ønnur enn ſw, Ad Menn ei ſkuli hefna ſiaalfer ſijn, helldur lijda Oriettinn med Þolinmædi, og Haturslauſt; Þad vil eg ſatt giøra med Frelſarans eiginn Dæmi, Hver þegar hann var Kynn-Heſti ſleginn, Joh. 18. Ei þa baud hann ecki hina Adra Kynn, Helldur aataldi med Hoogværd þann er hann ſloo; Ei helldur St. Paall, Nær Preſta-Høfdinginn baud ad ſlaa hann fyrir Doomi, helldur beitti hann Løgum fyrir ſig, og ſagdi: Gud ſtraffe þig þu forfaagadi Veggur, þu ſitur og dæmir mig eptir Løgunum, Og bijdur ad ſlaa mig aa mooti Løgmaalinu, Act. 23. Sama vil eg nu ſegia um þad, ad laata þeim ſinn Kyrtel eptir, er vill þraatta vid nockurn um hanns Yferhøfn, Þeirra Orda er einginn Meining ønnur enn ſw, ad minni Hyggiu, ad nær

Madur

Madur lijdur nockurn Oriett, skuli hañ ecki hefna sijn sialfur, helldur skuli vera svo Skapi farinn, ad hañ sie bwiñ til ad þola añann stærri, Reidi og Haturslaust, ef hañ nær ecki Rietti hia Valldstioorninni, þviad af Sialfs-Hefndinni kiemur Tijdum stærre Olucka. Elldurinn verdur ecki med Elldi slocktur, helldur med Vatni; Svo er þad einginn Lækning Oriettàrins, ad giallda Illu Illt, helldur ad leita Valldstiettariñar, Hveria Gud hefur sett hinum Froomu til Forsvars, enn Ranglaatum til Hegningar, enn þo Reidilaust, Þvi Madur aa ad snwa Vaanganum i Hiartanu, og ecki aa Hofdinu: Fyrer þvi bannar Freisarinn i þessari Grein Ecki Loglegann Riettargaang, helldur enn Paulus, þoott hann segie, 1. Cor. 6. Vogar nockur af ydur, Sa ad aa Sok vid einhvern, ad eiga Doom undir Ranglaatum, og ecki undir Heilogum? Ad sonnu er Brestur hiaa ydur, ad þier hafed Dooma medal ydar, þvi lijdid þier ecki helldur Oriettinn, þvi taki þier ei helldur Skada? Ecki bannar Paulus hier Riettar-Gaangenn, helldur ad eiga Sok fyrir Ranglaatum (svo kallar hann Heidingia, enn Heilaga nefnir hann hier Christna Menn, eins og vijdar), Svo vill hann þa ecki allanu Riettar-Gaang bannad hafa, helldur ad eiga Maal fyrir Heidingum; Hvar fyrir? Svo ad eingum giæfu þeir neina Hneyxlan, ad Þioonustu giordinn ei lostud yrdi, 2. Cor. 6. Og þeirra Hoogværd kuñug ollum Moñum, Phil. 4. Enn Vitni til þess, ad hann ecki villdi hafa Riettar-Gaanginn afmaadañ, er þad, ad hann ei bannar ad eigast Log vid fyrir Christnum, og sijnist laata þad eptir, ef vid þarf, þar hann segier: Er einginn saa aa medal ydar sem Vitid hefur, saa ed kunni ad dæma millum Brædra sinna? Og fyrir þvi, ad Christnir hofdu þa eckert Valld til ad dæma Opennberlega uñ Veralldar-Maal, þa sijnist, ad hañ vilie ad þeir nefni Menn af sialfum sier, til ad dæma Maal sijn, helldur enn ad bera þau undir Vantrwada; Edur þola Oriettinn ella, helldur enn ad giora Prætur sijnar Augliooosar þeim, er hofudu Christinndoominn, og logdu þeim allt til Lijta, er þa Trw og Þioonustu tekid hofdu: Og svo sem Frelsarinn segier hier i Gudspiallinu: Nema Ydar Riettlæti Yfergnæfe Meir Enn Þinna Skriptlærdu Og Phariseanna, Þa Kuñid Þier Ecki Iñ Ad Gaanga I Guds Rijki; Svo vill og Paall, ad hinir Christnu skijna skuli svo sem Lioos aa milli Rangsnwennar Heidingiaña Kynsloodar. Þesse sami Guds Madur segier i odrum Stad: Laatid ei sigrast af hinu Illa, helldur yfervinnid hid Illa med Goodu, Rom. 12. Enn hver vogar ad kalla Skipan hinns Almaattuga vonda? Edur er Valldstioorninn ecki af Gudi sett? Er hun nockud svo sem annad Bijlæti innsett i Christs Kyrkiu, til Prijdis alleina? Laangt er fraa þvi; Helldur til ad skipa Riettindum Manna. Fyrir þvi kalla eg þañ sigra hid Vonda med Goodu, sem nær Rietti sijnum fyrir Loglegum Doomi, enn þoler aan Haturs og Moglunar, þoott af þvi beri. DRottinn segier i Logmaalinu, Exod. 21. Auga fyrir Auga, Tonn fyrir Toñ: þar fyrir hefur hann þo ecki leift þeim er Augad miste, ad stijnga wt Augad aa honum er stack, ecki helldur hefur hann tekid Sverded af Doomaranum, Þoott hann banni þad Pegnenum. Eckert nijtt Logmaal hefur Christur sett i þessum Greinum; Þvi Sialfs-Hefndinn er bonnud i Logmaalinu; saa sem sagdi

Doomaranum, Deut. 19. Þitt Auga skal ecki þyrma hønum, Lijf fyrir Lijf, Auga fyrir Auga, Tonn fyrir Tonn, Hond fyrir Hond, Foot fyrir Foot: Hann hefur og sagt hverium einum þar fyrir utann, Lev. 19. Þu skallt ecki sækia eftir Hefndinni, og ecki vera minnugur Oriettarins. Hann ed segir i greindum Capitula Deut. Um hinn falska Vott: Þier skulud aldeilis giora hønum so sem hann leitadist vid ad giora sijnum Broodur: Hinn sami hefur talad fyrir Munn Salomonis, Prov. 20. Þessi Ord, um alla þa sem ecki hafa Guds Umbod i Doomara-Sæti: Þu skallt ecki segia; Eg skal Endurgialda Illt, bijd eftir DRottni, hann mun frelsa þig. Þessu er Paull samþyckur, er hann segir, Rom. 12. Þier eigid ecki ad hefna sialfir ydar, þvi skrifad er: Mijn er Hefndinn, eg vil Endurgiallda: Enn þegar Valldstiettinn hegnir vondra Verka a þeim, sem giort hefur a annars Hlut, þa frelsar Gud hinn Saklausa, þvi hun er hanns Þienari til Hegningar, þeim er Illt adhafast, Rom. 13. Hvervetna þar sem hinn stoori Allsheriar Doomari hefur Valldstioorninni Riettinn i Hendur feingid, þar hefur hann med þad sama leyft sierhverium, sem vanhalldinn er, ad sækia Riett sinn fyrir henni, þvi hun ber ecki Sverdid forgiefins, segir Paulus: Og Petur bijdur ad Menn sieu undirgiefnir Stioornendunum, svo sem þeim af Konunginum eru sendir, til Straffs hinum Glæpafullu, enn til Lofs hinum sem Gott adhafast, 1. Pet. 2. Mun nu ecki þessa vidþurfa, Christnir Menn? Edur er Verolldinn svo Einlit, ad ecki finnist i henni bædi Svart og Hvijtt? svo heilög, ad ei finnist bædi Vondir og Goodir? Þvi er einsætt fyrir þa sem Rangindinn þola, ad leita Forsvars hia Valldstiettinni; Edur mundi ecki Paulus leita Lids i Lögunum, þegar Lysias villdi hafa refst hønum? Act. 22. Mundi hann ecki skioota sier undir Keysarans Doom, þegar hann Ottadist Ofbelldi Gydinga? Eg þori framar ad tala: Þad er ecki Gudi þægt, og gagnar ecki til hanns Dijrdar, Ad Menn alltijd giefi Riett sinn eftir; þvi þad giorir Ohlutvanda Menn oftast þess verri og ansælnari, so ad þad maa sijnast, ad saa efli Illsku þeirra, sem lætur Hlut sinn fyrir þeim, ef hann maa na hønum med Lögum og Rietti: Saa sem vill taka fraa mier Æru mijna og gott Mannord, mun þad Gudi a mooti, ad eg forsvari mig Löglega fyrir A-austri hanns? Hann lijgur uppa mig Lijtum og Skömum, sem eg aldeilis ecki er valldur af; Mun mier ei Leifilegt ad bera Hond fyrir Höfud mier, þar so astendur? Einhver rænir mig Fiarhlutum mijnum, Odolum og Arfa-Gotzi, edur ödru þvi, sem eg er vel ad kominn, og þad anadhvert med Ofrijki, edur Yfirvarpi Laga og Riettinda, svo eg lijd Skort a Forsorgun minni, og þeirra sem mier eru Vandabundnir, Konu, Barna og Hiwa, hefi ecki þad eg meigi Fatækum giefa, og biarga Naudstöddum med, enn hann brwkar Feinu til Ohoofs og Ofmetnadar, þvi svo giora þeir oftast er lata Þienara sina stockva yfir hvern Þröskulld, til ad fylla Hws DRottna sinna med Raani og Svikum, Zoph. 1. Mun Gud banna mier ad veria mitt med Lögum a mooti slijkum Ofstopa? Fiærri sie þvi: Annars hefdi hann ecki gyrdt i kring um Frelsi mitt, og Eigur mijnar med Laganna Mwr. Ecki sie eg ad Ritninginn leggi þad Nabot til Lijta, þoott hann neitadi Achab um sinn Vijn-

gard

ard; Enn saa giørir hid sama, sem ver sig med riettum Løgum. Gud hefur bodid mi-
er, ad eg skuli elska minn Naunga sem sialfann mig, enn ecki framar. Oskandi være,
ad Menn giætu þad vel halldid! Þad heyrir Gudi einum til, ad elska hann framar øllum
Hlutum, og jafnvel Lijfinu, þad aa og ad giøra vid Brædurnar, segir Johannes, hanns
vegna, 1. Pist. 3. Enn su Elska er i þvi foolginn, ad hiaalpa honum og forsvara fyrir
Omilldum Mønnum, enn ecki i þvi, ad laata Skaalkiñ ræna sig og Fefletta, ef eg maa Lag-
anna niota; þad er eingu betra, eñ ad forsmaa Guds Gaafur, er hañ veitir mier til Upp-
helldis, enn eg vil þad ecki nijta: Eg veit og, ad eg er skylldugur ad styrkia Maal Eckiunn-
ar og þiuns Fødurlausa, Mun eg þa ei meiga gaanga i Riett fyrir þau, kunni þeim þar
med hoolpid ad vera, ef mier þad Løginn leifa?

Af øllu þessu hygg eg nu audsært vera, ad þad ecki einasta er Leifilegt, helldur og
gott Verk aa Stundum, ad leita Laga og Riettar, aa mooti Araasum vondra Mañа;
Eñ þad aa ad skie med allri Hoogværd, aan Haturs og Reidi, svo sem aadur er sagt; Þvi
hann sem Riettinn sett hefur, hañ hefur og sagt: Elskid Ovini ydar, Matth. 5. Og nær
þad ecki sijdur til Riettargaangsins, helldur enn til hvers annars Vidskiftis vors, og Um-
geingnis i Heiminum. Saa sem elskar Ovin sinn, hann elskar sialfañ sig, þvi undir eins
og hann fyrirgiefur sijnum Broodur hanns Misgiørdir, þaa auglijsir hann sig þar med
ad vera Barn sijns Fødur, sem aa Himnum er; hann tekur undir eins Aflaat og Kvitt-
un af Gudi fyrir sijnar eiginn Syndir, ef hann giørir þad af Hiarta, Marc. 11.
DRottinn hefur ecki bannad sialfann Hlutinn, helldur raanga Atferd Hlutarins, þad
er, ad brwka Riettiñ til ad hefna sijn, eñ ecki, til ad naa Rietti sijnum: Ad bera Fe i Doo-
ma, ad wtvega folsk Vitni, ad brwka Laga-Krooka, og adskiliannlega Raangs-Leitni,
Ad erta upp illt Skap med Brixlum og Skwt-Yrdum, jafnvel i riettu Maali, til þess, ad
saa meiri Hefnd yfir sijnum Mootstødu Manni, enn hann i fyrstu hafdi tilunnid; allt sv-
oddann er af hinum Vonda, þad hefur Gud og alldrei leift i neinum Riettar-Gaangi ad
brwka, helldur streingilega bannad, enn allra hellst ad hatast vid sinn Mootstødu-Mañ, og
saa þad giørir, hann verdur eins sekur fyrir Gudi, svo sem hinn, þoott alldrei eigi hann svo
gott Maal; Og hvad hefi eg þa gott af þvi, ad eg spilli Myskun Guds yfir mier, til ad hat-
ast vid hann, er vid mig afgiørdi, þvi Gud kann ad Myskuna honum, ef hann ydrast, enn
eg aa eingrar Vægdar Von, so leingi sem eg el Hatur til hanns. Drottinn segir og ad
sønnu hier i Gudspiallinu, ad saa sem hefur giørt aa annars Hlut, hann skuli sættast vid
Broodur sinn, aadur hann offrar Gaafu sijna; Eñ um hinn sem misgiørt er vid, segir hañ
med aalijka Mooti, Marc. 11. Og þegar þier standid bwnir til ad bidiast fyrir (þad er
ad offra Gudi Bæn sinni) þa tilgiefid, ef þier hafid nockud aa mooti einhverium, svo ad
ydar Fadir, sem aa Himnum er, forlaati ydur ydar Misgiørdir; Skyllda eg þa be-
ra Hatur til hanns, sem eg aa Maal-Stad vid, þoott alldrei ætti eg um svo sært ad bin-
da! Þad væri ærs Manns Ædi, og ecki þess, sem Heilvita er i sijnum Christinndoomi,
þar eg aa Daglega ad bidia þessa Bæn; Fyrirgief Oss Vorar Skullдir, Svo Sem

Vier

Vier Fyrirgiefum Vorum Skulldunautum, og veit, ad eg ecki fæ Kvittun Synda minna, aa medann eg hondla ecki Reidilaust vid minn Naunga, hvert þad er i Riettar-Gaangi, edur utann Riettar-Gaangs: Þad er vijst, ad vor beste Riettur er einginn Riettur fyrir Gudi, Ef hann vill dæma epter sijnu Riettlæti; Svo segier Job, Cap. 9. Eg veit vel, ad einginn Manneskia kann Riettlaat ad standast fyrir Gudi: Og þvi skyllda eg þa hata Ovin minn, Fyrst hann hefur skipad mier ad elska hann, sem aa svo mikil Raad aa mier, ad hann gietur fordæmt mig, nær hann vill. Þess er og ad giæta, ad ecki hlaupe Menn til Doomarans um hvern Hiegooma; Þad kienir Agyrni og Oroa, ad vilia þrætta um Smaamuni, og sæmir ecki þeim, Sem vill laata sig Hugprwdann kalla, auk helldur Riett-Christnum Manni, Hverium ad byriar ad vera liwfum aa ad sættast, Jafnvel med nockrum Skada sijnum, helldur enn ad draga sinn Moot-Part fyrir Doomarann, honum til meiri Skada, og Hneisu þeirrar, er hinn hefur ecki Gagn af, þoott ei hafe Menn allstijd halldinn Hlut, Sierdeilis ef ad kieppa er um þa Hluti, sem Lijfs-Næringu ei vidvijkia, Hveria Paulus sijnist ei vilia hafa undir Doom Heidingianna, 1. Cor. 6. Einkum þar Frelsarinn hefur bannad oss ad syrgia fyrir henni, Luc. 21. Og brwkar þad sama Ord i þeim Stad, sem Postulinn hier, og þvi aaminnir hann alla Christna Menn med þessum Ordum, Col. 3. Iklædist, svo sem Utvalldir Guds, Heilagir og Elskanlegir, Hiartgrooenni Myskunsemi, Lijtillætinu, Hoogværdinni, Polinnmædinni, Umberandi hver annan, og fyrirgiefandi hver odrum, Ef nockur hefur aa mooti einhverium Akiæru; Svo sem Christur hefur ydur fyrir giefed, Svo giorid og þier. Gud giefe ollum sijnum Bornum þetta Hiartalag ad stunda, og þvi fast ad hallda, þar til vier komum fyrir þinn Stoora Allsheriar-Doom, Hvar vorir stærstu Ovinir, Synd, Daudi, Diofull og Helvijte skulu oss eckert Mein giora, auk helldur nockur Veralldar-Magt; Þvi hver vill færa Kiæru-Maal i giegn Utvolldum Guds? Þar Gud er sa sem Riettlætir, Christur er sa sem Daainn er, Jaa, enn framar, Upprisenn, hvor og er aa hægri Hond Gudi, Hvor og er Medalgaangari fyrir oss, Rom. 8. Þessa Hlutskiptis unn þu oss ad niota eilijfe Koningur Dijrdarinnar, Fyrir hanns Forþienustu, sem er alls Hollds Doomari, JEsus Christus, Amen.

# Siounda Sunnudag eptir Trinitatis.

Gudspialllid, Marc. 8. Cap.

A Þeim Dogum. Þa þar var enn margt Foolk komid saman, og hafdi ecki til Matar, Kalladi JEsus sijna Lærisveina til sijn, og sagdi til þeirra; Mig aumkar yfer Foolkid, þvi ad i þria Daga hafa þeir hiaa mier verid, og eckert til Matar haft. Og ef eg læt þa Fastandi heim til sijn fara, þa vanmegnast þeir a Leidinni: Þvi ad sumir voru laangt ad komnir. Og hanns Lærisveinar svorudu honum: Hvadan faaum vier þau Braud, hier aa Eydimorku, So ad

ad vier faaum þa Mettad? Og hañ spurde þa ad: Hversu mørg Braud hafed þier? Þeir sogdu hønum Sio. Og hañ skipade Foolkenu nidur ad setiast aa Jordena: Og took þau Sio Brauden, þackade, braut, og fieck sijnum Læresveinum, ad þeir legdu þau fram. Og þeir legdu þau fram fyrer Foolked. Þeir høfdu og fææina Smaa Fiska, og þa hina somu blessade hañ, og baud fram ad leggia. Eñ þeir neyttu og urdu Metter. Og þeir tooku upp þad yfer var, Sio Karfer med Afgaangs Leyfar. Eñ þeir, sem neytt høfdu, voru nær Fiooꝛar Þusunder, og hañ liet þa i burt fara.

## Exordium.

MAdurenn mun ecke lifa af Einusamann Braude, helldur af sierhveriu Orde, sem framgeingur af Guds Munne, sagde Moyses vid Jsrael Fordum, Devt. 8. Þessum somu Ordum kastade Frelsarenn Andskotanum i [illegible], þegar hann freistade hanns, til ad giora Steina ad Braudum, Matth. 4. Þad [illegible] og sõn, svo sem aller adrer Guds Vitnisburder; Þvi þad maa ei Lijf kalla, sem er aan Guds Orda, Jafnvel þoott einn hafe Holld og Hamsa, og lijte noogu Sællega wt. Christi Ord eru Lijf og Ande, og aan þeirra er Madureñ, eins og Paall segier um Eckiuna, þa i Gyrndum lifer, hann er Lifande Daudur, Þo hefur Gud giefed Mannenum Fæduna, svo sem annad Medal, til ad lifa af, þar fyrer stendur hier: Ecke af Einusamann Braude. Vitanlegt er þad, ad Gude er ecke um Megn ad hallda Lijkomunum vid aan Matar og Dryckiar; þad sijna oss Dæme Moysis, Dæme Eliæ, Lausnarans, er fastadu i heila 40. Daga, og maa sijnast, ad þeir Moyses og Elias hafe vered DRottenns Fyrermyndan i þessu: Og þvi skyllde hañ ei kunna ad ala Mannenn aan Fædslunnar, sem ad i Eydemorku sadde 5000. Manns med Fim̃ Bygg-Braudum og Tveim Fiskum, Joh. 6. Og i þessa Dags H. Evangelio heyrum vier, ad hanns mikla Almættis Hond mettar 4000. med eins litlum Koste. Ut af þvi Fyrsta Krapta-Verkenu hefe eg nockud aadur talad i þessare Book, um̃ þad, hverneg vier i Guds Otta eigum ad leita Næringar vorrar, hvad eg Oska ad finne goodann Stad i Hiortum þeirra sem lesa edur heyra! Enn nu vil eg wt af þessu H. Gudspialle alleina þar um̃ tala, hvad oss eige ad styrkia i Trwnne til ad treysta Gude, og varpa allre vorre Ahyggiu uppaa hann, nær oss vantar þessarar Veralldar Mune. Hiaalpa oss til þessa, DRottenn minn, fyrer þitt dijra Nafn og Sonarens Forþienustu, AMEN.

## Utleggingeñ.

ÞAd er Grætlegt til ad vita, hversu ad Nattura Mannsins epter Spillinguna er baag til ad treysta Gude, þegar þad er ecke fyrer Augunum sem eta skal. Moyses sloo aa Kletteñ i Horeb, og þar flaut Vatn wt af, svo ad allur Jsrael drack, Exod. 17.

17. Enn er Gud baud hønum i Eydemørku Zin ad giøra hid sama i Annad Sinn, þa efadest hann og sloo Tvisvar a Biarged, Num. 20. Hann saa daglega, ad Gud fædde þaa med Manna af Himnum ofann; Enn er Foolked møglade, og beidde um Kiot, enn hann bar þad fyrer Gud, sem hiet ad giefa þeim Kiot ad eta allt til Leidinda, þa var þo ecke Trwinsterkare hia sialfum Moyse, enn svo, ad hann sagde, Num. 11. Þetta Foolk er Sex Hundrud Þusund Manns, og þu segier: Eg skal giefa þeim Kiot, svo þeir ete i heilann Maanud. Læresveinarner høfdu sied þad mikla Krapta-Verk, er JEsus hafde giort skomu adur enn þesse Jardteikn skiedi, nærre þvi i þessum sama Stad, er hann sadde 5000. Manns med Fimm Bygg-Braudum og Tveim Fiskum, Joh. 6. Þa talde Philippus Tormerke a Spurningu DRottenns, og sagde: Braud fyrer 200. Peninga næger þeim ecke. Enn hier foor ecke betur, nema midur være. Hvadann Faaum Vier Þau Braud Hier A Eyde-Mørku, Ad Vier Faaum Þaa Mettad? Og epter þad þeir høfdu sied bæde þesse Krapta-Verk, og mørg ønnur fleire, þa ætludu þeir hann munde Brauds Þurfe vera, er hann took þeim Vara fyrer Swr-Deige Herodis og Phariseanna a Skipenu, svo sem lesa maa i þessum sama 8. Cap. Marci; Af hverium og raada maa, ad þad hafe skied strax epter þessa Dijrdlegu Jardteikn. Gud betre! Ad þad hender oss a Stundum Christna Menn, sem Lausnarenn segier umm Heidingiana, Matth. 6. Hvad eigum vier ad eta? Eda hvad eigum vier ad drecka? Edur hveriu eigum vier ad klædast? Enn þar til verdur ei betur svarad, enn sialfur hann svarad hefur; Er ecke Lijfed meir enn Fædslann, og Lijkamenn meir enn Klædnadurenn? Seig þu mier, Guds Barn! Skoop hann þig ecke daasamlega i Moodur-Lijfe? Gaf hann þier ecke Saal og Lijkama? Endurleyste hann þig ecke med sijns Sonar dijra Bloode? Hefur hann ecke Endurgieted þig daudann i Syndunum? Hefur hann ecke foostrad þig med sijnu H. Orde? Hefur hann ecke aled þig a sijns Sonar Hollde og Bloode? Helldur hann ecke øllu þessu vid Makt enn nu daasamlega, og Undrunarsamlega a Stundum? Eg vil taka til þess sem dijrast og daasamlegast er. Hafe hann giefed oss Sonenn, þvi mun hann þa ecke giefa oss alla Hlute med hønum? Og ef hann giefur oss alla Hlute, þa giefur hann oss einnig Forsorgun Lijkamanna. Hafe hann aled Onn fyrer oss, bæde i Moodur-Lijfe, og allt upp þadann, i Andlegann og Lijkamlegann Maata, mun hann þa Onijta sitt eiged Verk? Nema ad Manneskiann giørde Guds Almætte Vanmaattugt a sier med Trwarleysunne; Eins og Læresveinarner, er þeir gaatu ecke læknad hinn Twngl-Siwka. Þu segier: Eg finn opt Brest a Atvinnu minne: Hwngur og Dijrtijd meiga Menn Stundum þola, hvad velldur þvi? Spyr Ezechiel ad; hann mun svara þier Ordum DRottenns: Ef eitt Land syndgar mi og a moote mier, þa vil eg wtrietta mijna Hønd yfer þad sama, og i burt svipta Brauds Nægtunum, og eg vil senda þaangad Hallære, og upprickia þar inne bæde Mønnum og Fienade, Ezech. 14. Mun þad nockud raska Sannsøgle DRottenns, þoott Menn giøre sig hanns Orlætis Overduga? Þegar ad allra Handa Læster og Klæker, Guds Ords Forøgtun, Vanbrwkun hanns Hvilldar-Dags, Raanglæte, Meinsære, Lygar,

Pioof-

Þioosnadur, Agyrne, Drambseme, Ofbellde, Agg, Reide, Præta, Svik og Underferle, og annad þessu Lijkt: Þegar allt þetta geingur Fioellunum hærra i Landenu, er þa ad furda, þoott hann apturlyke sinne milldu Hond aa Stundum? Eda segier ecke Paulus: Ad fyrer þess haattar Glæpe kome Guds Reide yfer Born Vantrwareñar, Col. 3. Hver vill þa skyllda hann til, ad hann skule Naadugur vera? Leitum þvi DRottenns aa medann hann er ad finna, Kollum aa hann aa medann hañ er nælægur; Sa hinn Oguðlege laate af sijnum Veige, og Illvirkeñ af siñe Hugan, og snwe sier til DRottens, þa mun hann myskuna honum, og til Guds vors, þviad hiaa honum er mikel Fyrergiefning, Esa. 55. Eg skal endurgiallda ydur þau Arenn, sem Gras-Hoppann, Kaal-Ormurenn, Tre-Madkurenn og Gras-Madkurenn hafa fraa ydur teked, segier DRottenn, Joel. 2. O miñ Gud! Hver hefur þier nockurn Tijma giefed? Hver hefur þier laanad, þad þu skyllder honum endurgiallda? Þad meigum vier jaata i þessu faatæka Lande, ad hafe Gud einhveriu Siñe straffad Synder vorar med Oaaran nockurre, þa hefur hañs Millde ofs þad endurgollded med mikelle Ar-Giædsku, bæde til Sioos og Lands. Enn hvad filger aa epter hiaa Spaamannenum i sama Capitula? Nær þier eted Oaflaatannlega, og erud metter, þa munud þier lofa Nafn DRottenns Guds ydar. Enn siaaum til, hvert Fader Myskunseindanna mune ecke hafa funded Skort aa þessu hiaa morgum af ofs, og hvert þad mune ecke miklu helldur eiga heima hiaa sumum, er stendur hiaa Hoseam, Cap. 13. Under eins og þeir metter urdu, þa er Hiarta þeirra upphafed, og hafa gleimt mier?

Einhver vill segia: Eg finn ecke þessa Glæpe hiaa mier: Eg Ottast Gud og elska, svo sem mier er mogulegt, og giore honum Þacker, samt maa eg og mijner þola Hungur og Þorsta, Kullda og Klædleyse. Heyr mier um Stund, Barn mitt. Muntu vera sa einaste af Guds Bornum, sem hann leggur þvilijkt uppaa? Maattu ecke þeir Abraham, Isaac og Jacob verda Land-Flootta fyrer Hungurs-Saker? Gen. 12. 26. og 46. Maatte ecke Elias fasta 140. Daga? 1. Reg. 19. Hvad margt segiest Paall hafa maatt Illt þola fyrer Evangelium? Enn þetta maattu þeir lijda til þess, ad þeir vissu, Hvad þeir væru, sem er, syndugar Manneskiur; Hvar þeir væru, þad er i Heimenum, J Utlegdenne, og ecke i Fodur-Landenu; Hvernenn þeir vera skylldu, sem er, stoduger i Trwnne, Þolennmooder i Hormungenne, og Glader i Vonenne: Sama giorer hañ vid þig, þvi ecke er hiaa honum Mañgreinar Alit, Act. 10. Þykest þu nu betre eñ svo, ad þier sie fullgott ad hafa lijkañ Kost med þessum Guds Koppum, þvi angrar sig þa Saala þijn, og þvi er hun Oroolegi þier? Vona þu aa DRottenn, þvi þu munt eñ nu prijsa hañ, Ps. 42. Edur villtu ecke helldur hafa Þvijngan med Guds Foolke, eins og Moyses, helldur enn lifa i allskins Sælu med Heimenum, og fyrerfarast med honum? Hversu betra er þier, ad þu gyrnest ad sediast af Molum þeim, er detta af Bordum hinns Rijka hier i Heimenum, eñ ad þig lange epter einum Vatns-Dropa af Fijngre Lazari i Helvijte og Kvolunum? Og hvad veitstu, hversu leinge DRottenñ vill laata þenna þinn Skort vara? Hann er einn Stoor Konungur, ecke er hann leingur Rijkañ eñ Faatækañ

ad giora. Jacob foor med einn Staf wt af ſijns Fodurs-Hwſe, Gen. 32. Enn hvad
mikenn Fiollda Nauta og Sauda, Geita, Aſna, Þræla og Ambætta kom hann heim
aptur med! Dæme þeſſa Foolks mæ furdannlegt þykia nu æ þeſſare Kolldu og Van-
trwudu Olld; þeir fylgdu Chriſto epter æ Eydemorku, til ad heyra Kienningar hanns,
jafnvel Heidingiar af Tyro og Sidon, og eckert tooku þeir med ſier ad neita, ſvo ſem ſiaſt
mæ af Evangelio. Einhver mun ſegia, ad þeir hafe ſei byrgt vid ſvo længre Dvøl æ
Eydemorkunne; Þo ſannſt eingenn ſem aptur ſnere, ſvo Menn vite, og ad vijſu voru hier
er 4000. Mañs, ſem neyttu; Þad mæ ſijnaſt, ad DRottens Ord hafe ſo vel ſmackaſt
þeim i Hiartanu, ad þeir hafe ei funded til Hwngurs i Maganum, og valla gietur þad
odruviiſe vered, enn ad þeir hafe treyſt þvi, ad JEſus munde æ einhvern Hatt ſiæ þeim
Farborda; Þar til heſur æn Efa hiælpad hid Fyrra Krapta-Verked, ſem enn þa hef-
ur ollum i ferſku Minne vered; Enn i þvi gietur Johannes ecke um Tijmaleingdena; Hier
er af kalla eg þad ſatt, er David ſegier, Pſ. 32. Augu DRottens lijta til þeirra, ſem hañ
elſka og vona æ hañs Giædſku: Og þo finnaſt þeir, æ þvi verr! æ medal Chriſtena Mañ-
ſem vidlijkt eru lynder og Hofuds-Madurenn i Samaria, er ſagde: Þo ad DRottenn
giore Glugga æ Himenenn, þa kann þetta ecke ad ſkie, 2. Reg. 7. Añars mundu Menn
bijda epter DRottne, enn ecke hlaupa til ad ræna, ſtela, liwga, ſvijkia, hriſſa Braud-
ed wt af Næungans Munne, og brwka adſkiliannlega Rængſleitne i Kaupum og Sol-
um, og annare Vidhondlan.

Mig Aumkar Yfer Foolked, ſegier DRotteñ: Þvi J Þriæ Daga Hafa Þeir Hia
Mier Vered, Og Ecke Til Matar Haft. Margur faſtar ſkiemur, æd hañ verdur Opol-
eñmoodur. Mig Aumkar Yfer Foolked, ſegier hin Eilijfa Giædſka: hañs Myſkunar Yf-
ur komuſt vid i honum, ſvo ſem i Hofud-Sprokenu ſtendr, ſvo hañ hlaut þeim Nædugur
ad vera: Þad ſegier ecke hier, ad þeir hafe kvartad um Hwngr, hañ viſſe vel, ad þeir hofdu
þeſſa Þorf: Eñ ſegied mier nu, Born mijn; Munu Ydur hñs Myſkunar umbreitt vera?
Mun hin rijka Orlætis Hond ſtutt vordeñ? Fiærre ſie þvi, ſamur er Gud og hañ heſr ver-
ed; Eñ ef vier vilium ſoma Medaumkunar niota, þa lærum Tveñt hier af: Eitt af Fool-
kenu, Añad af Lauſnaranum. Af Foolkenu, ad heyra Guds Ord liwflega, meta þad ollu
Tijmannlegu framar, og ad treyſta Gude, og þacka honum nidt i Skortenum og Or-
byrgdeñe. Af Frelſaranum, ad ſiæ Aumur æ hinum Volada og Naudþurftuga; Ad
briota Hwngrudum vort Braud; Ecke af Fordilld, edur ad wtvega oſs Nafn þar med,
ſvo ſem Hræſnarar, þeir ed giora Olmuſur ſijnar fyrer Moñum, helldur af Trwñe, af
Chriſtelegre Medaumkan, af Elſkuñe til Guds og Næungans. Breyte nu nockur þañ
veg, ad hañ heyrer Guds Ord, og vardveiter þau, treyſter Gude i ollum ſijnum Vand-
rædum, og leitar Næringar ſiñar i Guds Otta, þa vil eg þad ſegia, ad fyrr munu Eingl-
arner færa honum Braud af Himnum ofañ, fyrr munu Hrafnarner bera honum Fæd-
ſlu, fyrr munu Steinar ad Braudum verda, og Fiſkarner flytia honum Gull og Silf-
ur i Muñenum; Jaa, Chriſtur mæ fyrr afneita ſiaalfum ſier, hvad Paulus kallar O-

mogulegt, helldur enn ad hañ læte Saal hiñs Riettlaata Hrongur þola, Prov. 10. Nema hañ vilie reyna hañ þar med, og siaæ honum þad fyrer einhveriu Goodu verda. Miñ Matur og Dryckur er, ad giora hanns Vilia, er mig sende, sagde Frelsarenn, Joh. 4. Enn ef þad er hanns Vilie, ad þu lijder um Hrijd Skort a Næringu þinne, þa vert eins Lyndur og þiñ Lausnare var, og ætla þig ecke yfergiefenn, þoott þu meiger ad Guds Vilia nockud Jllt lijda, er vier svo kollum; Enn þad er alldrei Jllt, sem Gott af sier giefur. Ecke verda Vijn-Berenn samannlesenn af Þyrnunum, edur Fijkiurnar af Þistlunum, Luc. 6. Giæt ad Dæmum Heilagra. Hversu saarlega klagar Job i sijnum Mann-Raunum, er hañ segier, Job. 30. Þu ert vordeñ Hardwdigur a moote mier, epter Styrkleika Handar þinnar brwkar þu grimt Hatur i giegn mier. Munde Gud þar fyrer hafa yfergiefed hann? Fiærre var þvi. Hinn Fertugaste og Fyrste Capitule somu Bookar, hann ber þar uñ liooſast Vitne, og sialfur Guds Madur jaatar Veikleika sinn og Faavitsku i þvi, ad þeckia Guds Raad, nær hann Endurvitkadest, og kom til sialfs sijns aptur; med þessum Ordum, Job. 42. Eg auglijse, ad eg skyllda þad ecke, þad var furdanlega haatt fyrer ofann mig, svo eg gat ecke þeckt þad, þvi ydrar mig i Molld og Osku. Eins var David Lyndur, þvi segier hann, Ps. 77. Mun DRottenn þa Eilijflega burtkasta, og einga Naad framar audsyna? Enn nockru þar epter vegsamar hann Gud med Fagnade, segiande: Ps. 103. Hann hefur frelsad mitt Lijf wt af Fordiorfunenne, og mig med Naad og Myskunseme Coronad. Þvi skyllde eingenn Orvænta uñ Guds Vinaattu, þott ei leike allt i Lynde, þar vier siaaum hier, ad hanns bestu Viner hafa maatt þvilijkt reina. Edur meined þier, Christner Menn, ad Faderenn hafe minna elskad sinn Son, þegar hann hroopade a Krossenum: Gud minn, Gud minn, þvi hefur þu yfergiefed mig; helldur enn þegar Christur stood a Jordanar Bockum, og Roddenn af Himne sagde: Þesse er minn elskulegur Sonur i hverium mier velþocknast? Matth. 3. Nei, Brædur mijner, þa hafde hann i honum hvad mesta Velþocknan sijna, er hann a Gaalganum hieck, þvi fyrer hanns Dauda erum vier vid Gud forlijkter, segier Paulus, Rom. 5. Fyrer hanns saaru Kvol og bitrann Dauda, hefur hann elskad oss i sijnum Elskulega, Eph. 1. Gud hafde Velþocknan a sijnum Syne fraa Upphafe Vega sinna, og i ollum Christo, fraa hinu fyrsta Augnablike Gietnadarens fyrer Einingu Guddooms og Manndooms; Enn fyrer Christi Dauda a ollum þeim, sem a hanns Nafn trwa, hverium hann hefur og Makt giefed Guds Bornum ad verda, segier Joh. Cap. 1. Og fyrst hann hefur nu þannveg yfergiefed hann uñ Stundarsaker, enn sijdann aptur med Dijrd og Heidre Coronad; Vilied þier þa laata ydur þad undra, þoott hann breite med sama Hætte vid ydur, sem i honum, og þo fyrer hann erud Arfleidder til eilijfs Lijfs? Nei, Christner Menn, ecke þoott ad Mootlæted og Skorturenn ætte ad vara alla Æfe vora: Þvi hun er so lijted ad reikna hiaa Eilijfdenne, og þad vier lijdum hier ad Guds Vilia, þad verdur oss endurgollded med Omælañlegrar Dijrdar eilijfre Þijngd, 2. Cor. 4. Mootlætingar þessara Tijma eru ei verdar þeirrar Vegsemdar, sem vid oss mun framkoma i Eilijfu Lijfe. Þad

er vijſt, ad hinn Nꜳduge Gud ſpenner alldrei ſijn Børn fyrer ſijns Sonar Ok, neina til
þeſs, ad þau drage þad ꜳ þa Leid, ſem til Himnarijkis liggur; þeſs meiga og øll hanns
Børn fullørugg vera, ad annadhvert burt-tekur hann Mootlætid, edur linar þvi, edur
giefur oſs Krapta til ad bera þad, þvi hann er Trwr, og freiſtar einkis yfer Megn fram,
1. Cor. 10. Segied mier; Er hann þa Amælis verdur fyrer þad, ad hann ſnijr eilijfre
Fyrerdæmingu i Tijmannlegann Kroſsburd, til ad afreka oſs Eilijfa Glede? Einn Fad-
er ſender Son ſinn i eitt Framande Land; Ein Mooder lætur Barn ſitt i Skoola, til ad
lijda Jllt, ſvo þad verde ad Manne; Munu þau þar fyrer hafa gleimt þeim? Kann nock-
ud Mooderenn ad gleyma Barne ſijnu, Avexte ſijns Kvidar? Og þo hun gleyme, þa
ſkal eg ſamt þier ecke gleyma, ſegier Afgrunn Myſkunarennar, hiꜳ Eſajam, Cap. 49.
Gull-Smidurenn kaſtar Maalmenum i Elldeñ, ſvo hann hreinſadur verde, og giører þar
af ſijdann hinar koſtuleguſtu Gerſemar; Svo breyter Gud vid ſijn Børn: Hann ſitur og
bræder, og Silfred hreinſar, og hrein giører Børn Levi, Mal. 3. Þad er, hinn And-
lega Kieñemannſkap, ſo ad Reynſla Trwar vorrar miklu dijrmætare funden̄ verde Gull-
ſens Reynſlu, hvert ed forgeingur, og verdur þo med Elldenum reint, til Lofs og Dijrd-
ar og Heidurs, nær JEſus Chriſtus opennberaſt, 1. Pet. 1. Þetta er nu ſvo talad til
Huggunar þeim, er lijda Skort ꜳ Atvinnu ſinne, og meina ſig þar fyrer vera af Gude yf-
ergiefna, vegna Synda ſinna og Overdugleika. Eñ þar eru nockrer, ſem ecke eru ꜳnægd-
er þar med, ad þeir hafa þad þeir ſkulu eta og drecka, og þad þeir meiga klædaſt med,
hvad þo Paulus bijdur Chriſtnum Manne, ad hann ſkule lꜳta ſier nægia, 1. Tim. 6.
Vid þeſſa vil eg fꜳtt eitt talad hafa.

Þad er ſatt ſem hinn vijſe Syrach ſkrifar i 11. Cap. Ad Audlegd og Fꜳtækt kome
af DRottne; Ef þau koma af Gude, hver vill þa ſegia vid hann, Hvad giører þu?
Segier nockud Leyr-Kiered til Smidſins, þvi giørder þu mig ſvo? Rom. 9. Vill nock-
ur efaſt um̄ Vitſku hanns, ad hann ei ſkynie, hvad hanns Børnum er haglegaſt, edur
klaga yfer hanns Riettſyne, þad hann giøre einum Oriett? Viſſe Gud þad, ad þier gag-
nade Rijkdoomurenn betur enn Fꜳtæktenn, þa munde hann þig audugann giørt hafa.
Rañſaka Skap þitt, hvert þu munder hæfare vera til Guds Rijkis, þoott þu hefder mei-
ra eñ Daglegt Braud? Gud giørde vel, ad hañ gaf ecke Ægum Uxa Horn, ſegier i Ord-
hættenum; Margur munde brwka Audenn til Ofmetnadar, Ofrijkis, Ohoofs, til ad
hefna ſijn, og brioota adra under ſig, ef hann rijkur være, ſem ad lætur hægt, af þvi hañ er
Fꜳtækur. Enn þoott ad Gud giefe Audenn vondum Mønnum ꜳ Stundum, hvad ki-
emur þad vid þig? Fylg þu Chriſto epter, hver, þoott hann rijkur være, giørdiſt hañ Fꜳ-
tækur, 2. Cor. 8. Villtu viña þad til Audſins, ad vera ſvo ſem einn af þeim? Viſſe Gud
ad þier Audur gagnade, ſegie eg enn aptur, mundi hann ecke giefa þier hañ, Sem hefur
giefed þier þad ſem er lꜳngtum betra? Einn Nꜳdugur Gud, good Samvitſka, Heil-
vita Saal, Otte DRotteñs med þvi Hugarfare, ſem lætur ſier ſijna Luckunægia, er þad
ecke noogu ſtoor Audlegd? Adrer Ottaſt fyrer þvi, ad þeir kuñe ad miſſa Fiꜳr-Hluti ſij-
na

na; Enn kynne nockur þessar Guds Gaafur af mier ad taka, þa villda eg fyrst graata, þa villda eg bera mig Hormulega, þvi aa medann eg þad hefe, þa hefe eg allt, og nær eg misse þad, þa misse eg allt, jafnvel i Allsnægtum, þvi segier David, Ps. 34. Hina Rijku brast, og þeir sulltu, enn þa sem ad DRottne leita mun eckert Gott vanta. Laate Gud mig ecki eta hvern Dag skynande Kraaser, þa er eg þo Osollteñ, eg une betur vid Daglega Fædu, helldur enn Sælkierenn vid hanns ovtvolldu Riette. Skorturenn giorer mier aa Stundum Matenn sætann, eg þarf ecke ad kaupa hann dijrt: Enn Fylleñ giorer honum þad leidt, sem hann kostade til dijrum Doomum. Vefie Gud mig ecke i Pell og Purpura, þa er mier eins heitt i minne Klæda-Vod, svo sem honum i sijnu Skarlate: Faatæktenn hefur stoor Fyrerheit i Guds Orde; Er saa ecke noogu riikur, sem hefur Gud fyrer Fiaarhallds-Mann? Enn hvad segier David, Ps. 9. Hann er Forsvar hinna Faatæku, Forsvar i Neydenne, hann gleymer ecki Hroope hinns Faatæka. Hvad segier hañ enn þa aptur? Hann mun frelsa hinn Faatæka nær hann kallar, og hinn Auma, þañ er eingañ Hiaalpar-Mann hefur, Ps. 72. Og svo segier siaalfur DRottenn, Ps. 132. Eg vil blessa Fædslu þeirra, og þeirra Faatækum aanægianlegt Braud giefa. Gud giæfe, ad Menn villdu skilia, hvad Mikill Skattur ad er ein Ærleg Faatækt, þeim sem una vel vid þann Kost, er DRottenn lætur þeim hlotnast; Hun varnar vid morgum Syndum, Drambseme, Ohoofe, Siaalfhælni, Reide, Ofrijke, og siaalfre Agyrndenne, þvi alldrei verdur hinn Rijke saddur, saa ed fest hefur Hiarta sitt vid Audenn, vid Bwksorg og Ahyggiu, sem draga Mannenn fraa Gude i Snorur Diofulsins, og þyngia Hiarta hanns med Ottanum ad missa Eigur sijnar, þvi saa griet alldrei fyrer Gull, sem ecki aatte þad; Hun giorer Reikningskapenn audvelldare fyrer hinum ædsta og straanga Doomara, þvi jafnvel þoott ad ollum verde hann noogu Torvelldur, þa ecke þeim þo sijdst, sem hafa gleimt Gude og Naunganum i Velmakt sinne, enn sett Gull-Hnottenn fyrer sitt Athvarf. O þu eilijfe Gud, Dijrdarennar Konungur! Hiaalpa oss aa þeirre straungu Tijd, Laat oss ei þyngia Hiarta vort med Sorgum þessarar Næringar, metta oss med þeim Molum, er detta af þijnu Haa-Borde, Dryckia oss med Sætleik epterkomande Allðar, svo ad ei vanmegnunst vier aa Veigenum til Fodur-Landsins, og nær vier erum ad Þrotum komner, og tokum hin sijdurstu Andvorp, þa dreip þu aa vora Ormæddu Saal med þvi Vatnenu, epter hvert eingann mun þyrsta ad eilijfu. Bænheyr þad, naaduge Fader, fyrer Lausnarans JEsu Christi Skulld,

AMEN.

# Attunda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 7. Cap.

A Þañ Tijma. JEsus sagde til sinna Læresveina. Vakted ydur fyrer Fals Spaamoñum, sem koma til ydar i Sauda=Klædum, eñ hid Jñra eru þeir glepsande Vargar. Ut af þeirra Avextum meiged þier þeckia þaa. Verda nockud Vijn-Bereñ samañleseñ af Þyrnunum, eda Fijkiurnar af Þystlunum? So ber og hvørt gott Trie goodañ Avoxt, eñ hvørt roted Trie vondañ Avoxt. Gott Trie gietur ecke fært vondañ Avoxt, og ei helldur gietur roted Trie fært goodañ Avoxt. Og hvørt þad Trie, sem ecke giører goodañ Avoxt, skal ur hgøggvast og i Elld kastast. Þar fyrer meiged þier vit af þeirra Avoxtum þeckia þaa. Þeir munu ei aller, sem til mijn segia: DRotteñ, DRotteñ! Jñgaanga i Guds Rijke, helldur þeir sem giora Villia mijns Fødur, þess aa Himnum er. Marger munu til mijn segia aa þeim Deige: HErra, HErra! Høfum vier ecke spaad i þijnu Nafne, høfum vier ecke i þijnu Nafne Diøfla wtreked, og giørdum i þijnu Nafne mørg Krapta=Verk? Og eg mun þa jaata þeim, ad alldrei þeckta eg ydur: Fared fraa mier aller Illgiørda Meñ.

Exordium.

Spaamadur nefnest i H. Ritningu, ecke einasta sa, sem ad Ovordna Hlute fyrersegier, helldur og sierhver eirn, sa ed kienner riettann Lærdoom: Svo sagde Gud vid Abimelech um Abraham: Hann skal bidia fyrer þier, þvi hann er Spaamadur, Gen. 20. Sa er spaaer, hann talar fyrer Mońnunum til Uppbyggingar, til Aminningar og Huggunar, segier Paulus, 1. Cor. 14. Þeirra Apar voru Fals=Spaamennerner, hveria Frelsarenn bijdur ad Menn varast skule hier i Gudspiallenu, þvi þeir kome i Sauda=Klædum, enn hid Innra sieu þeir gleypsande Vargar; Og er eingenn Efe aa þvi, ad Skriftlærder og Phariseæi hafa ad nockru Leyte att Sneid þessa, enn þo ecke ad øllu, þvi ecke voru þeir af Christi Sauda Hwse, helldur meinar og DRottenn hier med þaa, er sijdar uppkomu, og spilltu Kienningu Guds i Christenndoomenum, þaa nefner Paulus falska Brædur, 2. Cor. 11. Og til Galat. Cap. 2. talar hann um Heimuglega innsmogna falska Brædur, sem ad villdu reyna Frelse þad, er þeir Truwudu høfdu i JEsu Christo, svo ad þeir hneypptu þaa i Þrældoom. Soddann Illgrese saade Fiandmadurenn nidur medal Hveitesins i Christi Akre fram epter Olldunum, svo sem af Christenndooms Søgunum lioost er, og saaer enn nu vijda i Heimenum; Enn þar fyrer faaum vier alldrei Gude Fullþackad, ad vier vitum ecke af slijku ad segia. Eingenn er sa, ad leitest vid ad spilla riettre Truu i Lande voru; þad er stoor Velgiorningur DRottenns, ad hann hefur unnt oss ad verka Saaluhiaalp vora i Einfalldleika vors Hiarta, þvi vil eg ecke hier um framar tala i þetta Sinn, helldur taka

mier

mier fyrir Hendur, ad wtskijra þa Grein af Evangelio, sem ollum ætti Hugfost ad vera, sem er þessi: ÞEir Munu Ecki Allir, Sem Til Mijn Segia, HErra, HErra, JNNGANGA J GUds Rijki; Helldur Þeir, Sem Giora Vilia Mijns Fodur, ÞEss A Himnum Er: Og af henni Tvennt Hugleida. 1. Hvad þad merki ad kalla, HERRA, HERRA. 2. Hvad þad sie ad giora Guds Vilia.

Styrk oss hier til, minn Gud, fyrir JEsum Christum, med Naad Heilags Anda, AMEN.

## Utleggingin.

HAd er ægiætt, sem ad Bernhardus Lærifadir segir i einum Stad: Christnir hafa af Christo Nafn feingid; Þad være mikils verdt, ad svo sem þeir eru Erfingiar Nafnsins, svo være þeir og Heilagleikans. Einginn Nafnboot er fegri, einginn stærri, enn ad heita Christinn, ef nockur ber hana riettilega. Christinn og Heilagur var sama Nafn, æ medann Christinndoomurinn var enn þa i Blooma sijnum; Heilsid ollum Heilogum, segir Paulus, þad er, ollum Christnum: Enn ef einginn Renta fylgir þessu veglega Nafni, þa er sæ ecki heilagri sem þad ber, helldur enn Vijnid edur Vidsmiorid, edur einhver Matur, vard heilagur, af þvi i Gamla Testamentinu, þoott ad einhver snerti þad, sa ed bar helgad Kiot i Kiool-Lafi sijnu, Hagg. 2. Sæ sem ecki hefur Christi Anda, segir Paulus, hann er ecki hanns, Rom. 8. Hver ed prijdir sig med hinu fagra Christinndooms Nafni, enn lifir þo ecki Christilegu Lijferni, hann er lijkur Eik þeirri, er hefur græn Blod og frijd, enn Avexti einga; Þvi segir Lausnarinn i Gudspiallinu: Af þeirra Avoxtum Skulud Þier Þeckia Þæ. Og svo sem DRottinn formællti Trienu, þvi er eingar voru Fijkiur æ, og ecki nema Blodinn toom, Matth. 21. Svo vill hann og til hinna segia, er Rænglætid æfa, æ hinum Effsta Degi: Alldrei þeckta eg ydur, Svo sem hier stendur i Gudspiallinu. Þeir Munu Ecki Allir Sem Til Mijn Segia, HErra, HErra, JNNGaanga i Guds Rijki, segir DRottinn. Þegar ad Ritningin tvijtekur eitt Ord, þa vill hun lææta skiliast eitthvad merkilegt þar med. Þeir segia: HErra, HErra! Svo eru þeir ækafir i hinni wtvortis Þioonustu. Ecki vantadi Gud nie hanns Christ fagra Titla hiaa Gydingum; Þeir nefndu Fodur hanns sinn Gud, enn þecktu hann þo ecki, þeir kolludu Drottinn Rabbi, edur Meistara sinn, enn sooktu þo eftir ad Lijflææta hann, þeir tijdkudu læængar Bænir i Samkundunum, og æ Gatna-Mootum, enn undir Hylmingu þeirra wtsugu þeir Hws Eckna og Fodurlausra, Matth. 23. Þad verdur valla med Ordum sagt, hversu ad Hræsninn giorir alla Guds Þioonkan Onijta i hanns Augliti; Þeir fostudu Tvisvar i Viku, og gææfu Tijundir af ollu þvi þeir ættu, enn lietu þad þo Ogiort, sem þijngra var i Logmaalinu, Doominn, Myskunsemi og Trwna, Matth. 23. Þad olli þvi, ad svo sem þeir afmyndudu Asiænir sijnar, nær þeir fostudu, til þess, ad lææta siææ, ad þeir være fastandi; Svo afmyndadi Hræsninn þeirra bestu Verk fyrir Gudi, svo ad Frelsarinn segir: Ad þeir hafe sijn Laun i burtu tekid, Matth. 6. Þad er, ad þeir Hlutir, er i sjaalfum sier goodir voru, og hofdu

Fyrirheit goodra Launa hiaa Gudi, ef þeir af Trwnni giordir være, þeir skylldu til eingra Launa vinna, Hræsninnar og Yfirdrepskaparins vegna, miklu helldur afla þeim Dooms Afellis, er vanvirda þannveg hinn alskygna Gud, med toomri wtvortis Hegdan og Laatædi, svo sem Von er aa; Þviad oll Hræsni er Lijgi; Enn Gud er sialfur Sannleikurinn, kann honum þvi eckert svo gagnstædt ad vera; Edur hvad segir Drottinn um þessa Hræsnara? Matth. 23. Þar fyrir munud þier faa þess þijngri Fordæmingu. Nu hofum vier heyrt Doominn yfir Gydingum, Christnir Menn, af alls Hollds Doomara; Enn ef þvilijkt og skyllde finnast aa medal vor, mun vor Doomur liettare verda enn þeirra? Fiærre sie þvi; Ef Gud þyrmde ecke hinum Naatturlegu Kvistunum, mun hann þa oss þyrma, Rom. 11. Ef vier uppfyllum þeirra Mæling? Eingenn er Von aa þvi. Hvad giora þeir þa, ed gaanga i Guds Hws, og heyra hanns Ord, forsooma valla nockra Predikun, og hafa þad i Munne, og tala um hanns Vegu? Allt þetta er gott i sialfu sier; Enn hvar eru nu Avexterner, þegar þeirra leitad verdur, hiaa allmorgum? Þegar hinn Volade Naud lijdur, byrgia Menn sitt Andlit fyrer honum; Þegar Menn siaa Eitthvad gyrnelegt, hætta sumer ecke fyrr enn þeir hafa svælt þad under sig; Þegar einhver liooslar upp Ohroodre um Naaungann, þa taka Menn i þann Streingenn; Sie nockrum af Yfirbodurunum, edur Forelldrunum eitthvad boded, hversu moglunarsamer, hversu treger eru Menn i ad hlijda þvi? Hvad Toomlaater eru Forelldrarner sumer hverier i þvi, ad færa Bornenn til JEsum? Til Kyrkiunnar koma þau ad sonnu, þar i er ei svo mikill Brestur; Enn hversu sumum sie umgiefid, ad brijna fyrir þeim þad, er þau heyrdu i Kyrkiunni, þar ber Raun Vitni um, nær þau eiga ad giora Grein aa sijnum Christinndoomi. Oskandi være, ad ei findust þeir, er valla hafa nockud annad fyrir þeim, enn skammarleg Ord og Fiblslegt Hial, sem sialfir þeir eru vanir til. Eingillinn sagdi vid Abraham, er hann ætladi ad Offra Syni sijnum: Halt þinni Hendi fraa Sveininum, þvi nu veit eg ad þu Ottast Gud, ad þu þyrmdir ecki þijnum eigin Syni; Enn Andskotinn gietur og sagt vid marga hveria, sem ecki þyrma Afkvæmi sijnu vid eilijfum Pijslum, helldur laata þad uppalast i hanns Skoola: Nu sie eg ad þu elskar mig, þar eg sie ad þu svo uppelur Son þinn, ad hann gieti ordid einhvern Tijma mijn Fourn, hallt þvi ecki Hendinni fraa Sveininum, þar til hann verdur fullur og feitur, og hæfur til ad Offra. Menn blessa Gud og laatast lofa hann og dijrka, enn giora þo ecki þad hann bodid hefur, enn Andskotanum formæla Menn, og atyrda hann, enn giora þo hanns Verk: Er ecki þetta ad segia, Herra, Herra, enn giora þo ecki Fodursins Vilia? Er þad ecki ad kalla Gud sinn Fodur, enn ræna hann þo Heidre sijnum? Menn gaanga til Heilags Altarisins Sacramentis Prisvar, Fioorum sinnum aa Ari hveriu; Þar ætlumst vier til, ad forlijka oss vid Gud, og taka Saatt af honum fyrir Afbrot vor, og bioodum honum i Sektina Guds Sonar Dauda, og hanns Forþienustu; Enn þess er vel ad giæta, ad Menn taki ecki þaangad med sier Giesti þa, er hann ecki maa eiga Sess med, allra sijst Hatur til Naaungans; enn ad þad hendi þa suma, er audsied af þvi Hatri og Ulfbwd, er tijdkast Manna aa medal aa Stundum, ecki

laungu

laungu eftir þad Menn hafa minnst vid Christ; Er ecki slijkt ad kalla: HErra, HErra! enn gleyma hanns Bodi, er hann sagdi hiaa Marcum, Cap. 11. Þegar þier standid bidnir til ad bidiast fyrir, þa tilgiefid, ef þier hafed nockud aa mooti einhverium, svo ad ydar Fadir, sem aa Himnum er, forlaati ydur ydar Misgiørdir; Er þad ecki, segi eg, ad bidia um̃ Frid med reiddu Sverdi? Er þad ecki ad sijdurstu, ad segia: Heill vertu Rabbi! enn hafa Bak vid sig Sverd og Staangir? Mun þad nu noog, Christnir Meñ, ad kalla, Herra, HErra, þad er, ad laatast Gudi þiena, enn fremia þo allt þetta Vondskunnar Athæfi? Þar eru eingiñ Ber aa þessum Vijn-Vidi, eingar Fijkiur aa þessu Fijkiu-Trie, jafnvel siaalf Blødinn eru nidurdottinn, allt hvad eg legg vid þau, er forgiefins, segir DRottinn, Jer. 8. Hvad mørg Ar hefur þu komid, DRottinn minn, og leitad Avaxtar af oss, og aungvann fundid! Hversu krøftuglega hefur Sonur þinn fyrir oss bedid, ad vier mættum enn þa eitt Ar standa! Fyrir hañs Arnan er þad skied, ad vier ecki med øllu erum upprættir: Þar fyrir, Christnir Meñ, takid Vara aa ydar Vitiunar Tijma; Giørid Ydran medann Guds Rijki er naalægt, Oxinn er sett til Rootar Triaanna, hvert þad Trie sem ecki ber Avøxt, skal upphøggvast, og i Elld kastast, Matth. 3. Bijdum ecki eftir Jerusalems Hegningu, um̃ hveria Gud sagdi vid Spaamanninn: Þu skallt ecki bidia fyrir þessu Foolki, og ecki upphefia Raust edur Bæn, edur forþijda fyrir þaa, þvi eg mundi aungvannveiginn Bænheyra þig, Jer. 7. Med mikilli Alvøru og Gaumgiæfni byriar Manni ad rannsaka siaalfañ sig, hvert ad hann hefur Vitnisburd Heilags Anda, ad hann sie Guds Barn, edur ad hann leidist af falskri Innbyrlingu, um̃ Arfa-Riett Guds Barna, hvad margann hendt hefur, sem Gud naadi! Og er þad audsært, ecki einasta af Dæmi Phariseaanna, og hiña Skriftlærdu, um̃ hveria siaalfur Frelsarinn vitnar, hvad fiarlægir þeir verid hafi Guds Rijki, helldur margra annarra, sem ad eckert éfast um̃ Guds Naad, enn lifa þo hvergi nærri svo sem Christnum ber, jafnvel þoott ad ei sieu þeir verstu Klækium hladnir, hverium eckert er betra Raad, eñ þad sem Paulus giefur, er hann segir, 2. Cor. 13. Reynid, hvert þier erud i Trwnni; Hvad ei gietur med betra Mooti skied, helldur enn ef vier rannsøkum vora Lijfernis Haattu: Þvi Trwinn er alldrei Avaxtarlaus, helldur verkar hun fyrir Kiærleikann; Allar Christilegar Dygdir hefur hun i sier foolgnar: Hvar um̃ eg vil nockud framar tala i sijdari Greininni, enn laata um̃ hid fyrra wt-talad ad svo støddu.

St. Petur sagdi, ad hiaa Gudi væri ecki Manngreinar Alit, helldur aa øllu Foolki, af sierhverri Þiood, sem giørir hañs Vilia, hefdi hann Velþocknan, Act. 10. Nu er þad Omøgulegt syndugu Holldi, ad giøra Guds Vilia ad fullu, þvi þad er hid sama og ad uppfylla Løgmaalid, enn þad er oss um̃ Megn, sem ad i Syndinni erum gietnir, hverrar Spilling ad Daglega brijtur sig wt um̃ þenna Daudlega Lijkama, svo ad þegar vier viliũm giøra hid Gooda, þa lodir hid Vonda vid oss; þad jaatar Paulus um̃ sig, Rom. 7. med mikilli Harma-Kløgun; og mun aungvum af oss betur varid. Nu heyri eg DRottinn tala aa þa Leid hier i Gudspiallinu, ad saa meigi eingiñ iñ i Guds Rijki koma,

sem ei giörir Fodursins Vilia; Enn hver mun þa hoolpinn verda? Giæt þess nu, Barn mitt, er Paulus segier, Rom. 8. Hann sami Paulus er taldt Vankvædi sijn aa, ad uppfylla Logmaalid, hann segir: Pad sem Logmaalinu var Omøgulegt, af þvi þad veikist fyrir Holldid, þad hefur Gud giört, sendandi sinn Son i Lijkingu syndugs Hollds, og fyrir Syndina fordæmt Syndina i Holldinu; Til þessarar Riettar-Bootar vijsar DRottinn oss sialfur hiaa Johannem, Cap. 6. Pad er Vilie hanns er mig sendi ad hver saa ed sier Soninn og trwir aa hann, hañ hafi eilijft Lijf; Sem er þad sama, og ad iñgaanga i Himnarijki. Guds Vilia er Omøgulegt ad giöra, svo hønum lijki; þoott þier giördud allt þad þier ættud ad giöra, segir Frelsarinn, þaa jaatid samt, Onijtir Pioonar erum vier, Luc. 17. Enn hversu mikid oss bresti aa þad, til þess finna allir þeir, ed rannsaka sinn Lifnad, og bera hann samann vid Guds H. Logmaal, jafnvel hinir Riettlaatu, er vier svo kollum. Noe, Abraham, Isaac, Jacob, Elias, Samuel, Job, Daniel, meiga Forlaats bidia, þegar Gud helldur Doominn, i hvers Augum þad Himnanna Himnar ecki hreinir eru. Trwinn aa Guds Son er þad alleina, sem oss Riettlætir; Þvi sagdi Petur Fordum, ad þar væri eckert annad Nafn undir Himninum Monnunum giefid, i hveriu oss byriadi Saaluhoolpnum ad verda. Væru ecki allir af-fallnir, og allur Heimurinn Sakfallinn fyrir Gudi, Rom. 3. Þa væri ecki hanns Sonur i Heiminn kominn, ad kalla Synduga og ecki Riettlaata til Ydranar; Enn alla hefur hañ kallad, øllum segia laatid fyrir Johannem: Giörid Ydran, þviad Guds Rijki er naalægt, Matth. 3. Ollum hefur hann i sijnu Nafni Predika laatid Ydran og Syndanna Fyrirgiefning, er þann Hlioom heyrt hafa, sem wt er geinginn um̃ alla Heims-Bygdina; øllum hefur hann boda laatid, Giörid Ydran, og trwid Evangelio, Marc. 1. Þessi er minn Elskulegur Sonur i hverium mier Velþocknast, sagdi Guds Fødurs Raust af Himnum vid Aana Jordan, Matth. 3. Þar fyrir er sierhver saa Velþockadur hiaa hønum, sem trwir aa Nafn Eingietins Sonar Guds, og hann kiemur ecki til Doomsins, Joh. 5. Pad er, hann verdur ecki fordæmdur, þvi hann hefur elskad oss i hinum Elskulega, og þessi er Logmaalsins Uppfylling: Þessi er saa Guds Vilie, er Frelsarinn talar um̃ i Gudspiallinu, ad trwa aa hann: Eñ med hvilijkri Trw, Christnir Meñ? Ecki hanns, sem trwir ad Gud er til alleina, þvi trwa og Dioflarnir, og skielfast þar af; Ecki hanns, sem kallar sig trwa aa Gud, enn nær hann sier Broodur edur Systur Skort lijda, giefur hann þeim þo ecki þad sem Lijkamanum gagnar, Jac. 2. jafnvel þoott hann hafi Audlegd Heims þessa; Þvi saa sem segist elska Gud, enn hatar sinn Broodur, segir Johannes, hann er Lygari, þvi ef hann ecki sinn Broodur elskar, þañ er hañ sier, hvernig maa hann Gud elska, þann er hañ sier ecki, 1. Joh. 4. Saa sami dregur sig aa Taalar, er hañ meinar sig ad trwa aa Gud, eñ sijnir einga Trwariñar Avexti. Paall segir, ad i Christo gylldi hverki Um̃skurn nie Yfirhwd, helldur Trw sw, sem verkar fyrir Kiærleikann, enn Kiærleikurinn er Logmaalsins Uppfylling, Rom. 13. Pad er, hann iñibindur i sier allt þad, sem i Logmaalinu bodid er, enn þoott hañ sie Ofullkomiñ hiaa oss, þa verkar Trwiñ

iñ þad i honum, ad hann gylldir i hanns Auglitl, sem hefur sett JEsum Christum til eins Naadar-Stools i hanns Bloodi, til ad auglijsa sitt Riettlæti, ad hann sialfur sie Riett-laatur, og Riettlætandi þann, sem er af Trwnni JEsu Christi, Rom. 3. Þad er, sialfur Riettlaatur, i þvi ad taka eckert Ofullkomid fyrir gylldt, eñ Riettlætandi þo Ranglaatañ fyrir Trwna a Christum, og giorandi þau Verkinn gylld, sem af henni framkoma, og i Gudi giord eru; Og maa hier af sia, hvilijkri þeirri Trw byriar ad vera, sem er eftir Guds Vilia. J Einu Ordi ad segia: Synid mier Lioos fyrir utann Byrte, Sool fyr-ir utann Liooma, og eina Manneskiu, fyrir utann Saal, og skal eg sijna ydur rietta Trw fyrir utann Avexti. Tvofallt er Embætti Trwarinnar; Eitt er þad, ad trwa þvi, ad Gud sie Hegnari vondra Verka; Annad, ad forlaata sig þar uppa, ad Gud muni Syndirnar fyrirgiefa; Enn þad er valla mogulegt, ad saa trwi hinu Fyrra, Sem ad framfer i Glæpunum Ydrunarlaust: Þvi segier David, ad hinn Heimski segie i Hiarta sijnu, þar er eingiñ Gud, Ps. 14. Og hann trwir Forgiefins, ad sier verdi Syndirnar uppgiefnar, sem liggur i þeim Vijsvitandi, Hafandi einga Vidleitni edur Atburdi til ad Krossfesta sitt Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum; Ofttraust er þad Guds Naadar, Enn ecki su Trw, er Manniñ hoolpinn giorir. Þu segier: Mijn Trw er veik, Þvi velldur Fiolldi Synda minna, ad eg er ecki aldeilis Fulltrwa um, Ad Gud muni sijns Riettlætis vegna gieta fyrirgiefid mier þær, enn eg er ecki einasta Ofullkominn, hell-dur Ostodugur i mijnu Apturhvarfe, og i þvi, ad giora Guds Vilia. Heyr mier Barn! Er Lausnarinn þa kominn til ad kalla Riettlaata og ecki Synduga til Ydrunar? Þijnar Syndir eru Diosulsins Verk: Mun ei Guds Sonur kominn til ad nidurbrioota þau? 1. Joh. 3. Þetta Mistraust er eitt af þeim, þad mun Guds Sonur fyrir hvern Mun i burt taka, þvi hann veit, ad a þvi rijdur Saaluhiaalp þijn, ad trwa a Gud, og þañ er hann sendi JEsum Christum; Mun ecki Naadinn yfirgnæfa þar, sem Syndinn yf-irgnæfir? Rom. 5. Hefur ecki Gud alla undir Ohlijdninni innilukt, (Þad er, undir Þeckingu Syndarinnar) Uppa þad hann myskunadi ollum? Rom. 11. Ef þu nu þeck-ir Synd þijna, og villt hana af Hiarta ofgiort hafa, hverninn kanntu þa ad efast um Guds Myskunsemi, edur Fyrirgiefningu Syndanna? Þar Gud vill ecki, ad nockur Madur tapist, Helldur komist til Sannleiksins Vidurkienningar; 1. Tim. 2. Enn þo ad Trwinn sie veik, þa er þad þo Trw; Eirn Neysti er eins vel Elldur, Svo sem mikid Baal; Einn Dropi er eins vel Vatn, svo sem allur Siooriñ: Svo var og Trw Fodur hinns Tunglsiwka eins vel Trw, svo sem hinnar Canaanisku, svo sem hinnar Bloodfallssiw-ku, svo sem Hundrads Hofdingians. Bid med Lærisveinunum: HErra, auk þu oss Trwna, Luc. 17. Og med Fodur hinns Twnglsiwka, er eg strax umgat: Eg trwi ad soñu, HErra, enn hiaalpa þu Vantrw minni, Marc. 9. Enn þoott ei bregdi strax vid, sem þu bidur, þa laat þier a medañ nægiast Guds Naad med Paulo, þvi hañs Kraftur fullkom-nast i Breiskleikanum, 2. Cor. 12. Og vissi Gud, ad þier ecki nægdi um Sinn þad lijtid, sem þu hafa þykist, þa mundi hann, aan Efa, ad Skyndingu vidauka; Þvi aan Trwar-

ennar er Omøgulegt Gudi ad þocknast. Trwinn er Verk H. Anda, en̄ ecki þitt: Kalla þad alldrei lijtid, sem Gud hefur giort. Giæt þess og, Barn mitt, ad hin̄ Naadugi Gud heimtir þad ecki af syndugum Manni i Evangelio, sem honum er um̄ Megn. Þad er einginn af Adams Nidium, sem ad fullu hefur Guds Vilia giort, nema hinn Annar Adam, sem er Gud af Himnum, saa ed i Heiminn er kominn, ad giora hanns Vilia; Han̄ er ænægdur med Gudrækni Hiartans, og alvarlega Vidleitni, til ad lifa eftir sijnum Vilia, þvi þeir, sem eru i Christo JEsu, þeir eru ecki undir Logmaalinu, Rom. 6. Og eckl er Fordæming i þeim, Rom. 8. Gud hondlar vid þa svo sem Born, og ei svo sem Þræla, þvi hann veit hvada Verkefni vier erum, og þeinkir aa þad vier erum Molld, Ps. 103. Sagdi ecki Eingillin̄ vid Abraham; Eg veit ad þu Ottast Gud; þo hafdi hann sijna Bresti, er hann Tvisvar Sinnum missagdi um̄ Konu sijna, ad hun være hanns Systir; Jacob, er han̄ droo aa Taalar sinn blinda Fodur. Og hversu mieg kvartar Paulus um̄ þa Synd, sem i honum bioo, Rom. 7. Þessi Dæmi hefur Andi DRottinns uppteikna laatid til Huggunar þeim, sem af Efaseminni freistadir verda, af þvi þeir finna Skort aa þeirri Hroosan, sem fyrir Gudi gylldir. Vier høfum i Christo þann Hofud-Prest, sem kann ad sampijnast Veikleika vorum, Heb. 5. Hann er Brun̄ur þess Vatns, sem ad uppvellur til Eilijfs Lijfs, Joh. 4. Af hanns Fyllingu høfum vier allir medtekid Naad fyrir Naad, Joh. 1. J honum fin̄ur hin̄ straangi Allsheriar Doomari allt þad hann brestur hiaa oss. Hann er oss af Gudi giefinn til Riettlætis, til Helgunar, og til Endurlausnar. Honum, med Fodur og Heilogum Anda, sie Velldi og Kraptur, Rijki og Maattur, Dijrd og Heidur, fraa einni Eilijfd til annarar, AMEN.

# Nijunda Sunnudag eftir Trinitatis.

Gudspiallid, Luc. 16. Cap.

Þeim Tijma, JEsus sagdi til sin̄a Lærisveina: Nockur Madur Audugur var þar, saa ed hafdi ein̄ Naadsmann, Saa sami var Ofrægdur vid han̄, svo sem hefdi hann eydt han̄s Gotze. Og han̄ kalladi þan̄ sama til sijn, og sagdi til han̄s: Hvad heyri eg þetta af þier? Giør þu Reikningskap af þin̄i Naadsmenskú. Þviad þu maatt eigi leingur Naadsmen̄sku hafa. En̄ Naadsmadurin̄ sagdi med siaalfum sier: Hvad skal eg tilgiora, min̄ Herra svyptir af mier Naadsmen̄skun̄i? Eg dugi ecki til ad grafa, en̄ skam̄ast mijn ad bidia. Eg veit hvad eg skal giora, nær ed eg verd settur af Naadsmen̄skun̄i, svo ad þeir medtaki mig i sijn Hws. Þar fyrir saman̄kalladi han̄ Eirn og Sierhvern Skullda-Man̄ sijns Herra, og sagdi til hin̄s Fyrsta: Hversu mikid ertu

ertu skulldugur mijnum Herra? Enn hann sagdi: Hundrad Tunnur Vidsmiørs. Og hann sagdi þa til hans: Tak þitt Bref og setst nidur, og skrifa snarlega Fimtijger. Eftir þad sagdi hann til hins Annars: Enn hversu mikid ertu skylldugur? Saa sagdi: Hundrad Mæli-Kiørlld Hveitis. Þa sagdi hann til hans: Tak þitt Bref og skrifa Attatijge. Og Herrann lofadi þann Raanglaata Raadsmann, þad hann hafdi giørt svo Forsiaalega; Þvi þessa Heims Børn eru kiænari Sonum Liooßins i þeirra Kynslood. Og eg segi ydur: Giørid ydur Vini af þeim Raanglætis Mammona, so ad nær ydur þrijtur, ad þeir medtaki ydur i Eillijfar Tialldbwdir.

## Exordium.

MArta, Marta, þu ert Ahyggiusom, og mædist i morgu, enn eins er Þorf, Maria hefur utvalid þad Gooda Hlutskiftid, sem ecki skal fraa henni takast; sagdi Lausnarinn Fordum, Luc. 10. Þad eru stoor Vanheilindi Saalarinnar hiaa oss Daudlegum Monnum, ad hun syrgir so miog fyrir Lijkamanum, enn lijtid fyrir sialfri sier; Og verdur þvi ecki aa mooti sagt, ad hun velltist nærsta miog wr Tign sinni, þegar svo ber vid: Þvi hvad er Kroppurinn hiaa henni ad reikna? Hann er Molld og Aska, hun er einn lifandi Andi, hann skyniar eckert af sialfum sier, hun er full Raads og Skilnings, hann deyr og rotnar i Grofinni, þar liggur hann til þess hun vitiar hanns aptur eftir Guds Alvijsu Raadstofun, og sijdann skulu þau bædi þess Not edur Giolld hafa, sem hun hefur sied fyrir sialfri sier og honum, aa medann þau voru bædi samann i Lijfinu. Enn Frelsarinn segir hiaa Matth. 16. Cap. Hvad gagnar þad Manninum, ad hann eignist allann Heiminn, og lijdi Topun aa Saalu sinni? Þetta skilst ecki sumum Monnum; Svo eru þeir Ahyggiusamir um þad Naalæga, enn syrgia lijtt fyrir hinu Eptirkomanda, og jafnvel finnst þessi Brestur hiaa þeim, sem Gud vilia Ottast, hveria og Frelsarinn kallar Liooßins Børn i þessa Dags Evangelio; af þvi þeir eru i Skijrninni Guds Børn vordnir, hver ad er Fadir Liooßanna, Jac. 1. Christi Brædur eftir Endurgietningunni, hver ad er Lioos Heimsins, og upplijsir alla Menn, sem koma i þenn ann Heim, Joh. 1. Og upplijstir af H. Anda, sem er Liooßins Andi, og ecki Myrkursins: Enn Toomlæti þeirra og Oframsijni straffar DRottinn hier i Gudspiallinu, med Eptirlijkingunni um hinn Raanglaata Raadsmann, um hveria margur hefur mar-gt talad, og fært hana heim uppaa oss, sem aa Stundum erum Otrwir Raadsmenn, yfir þvi Pundi, sem Gud hefur oss til Medferdar feingid, og er þad ad sonnu vel til fundid, enn Asetningur Frelsarans er, ad kienna Børnum sijnum Gudrækilega Framsijni i þeirra Saaluhiaalpar Efnum; Þad sijna oss þau Ord er sijdarst standa: Og Eg Segie Ydur: GJørid Ydur VJni Af Þeim RAnglætis MAMMONA, Svo Ad Nær Ydur Þrijtur, Ad Þeir Medtaki Ydur J EJlijfar TJALLDBUD-

ER,

ER. Þessi Ord vil eg nockud giør yfirvega i þetta Sinn. Hvar til hinn gœdi Gud virdist ad hiaalpa med Styrk siins Anda, J JESU Nafni, Amen.

## Utleggingiñ.

Hier stendur medal annars i Gudspiallinu, Ad Herrann Hafi Lofad hiñ Raangláata Raadsmann, Þad Hann Hafi Svo Forsiaallega Giørt. Ecki er þad Meiningin, ad Christur hroosi þessum Ohlutvanda Manni, helldur segir hañ fraa þvi i Eftirlijkinguñi, ad hanns Laanar-DRottiñ hafi prijsad, ecki Raangsleitni hañs eda Prettu, þvi eingiñ af oss hroosar slijku aa siinum Þienara, helldur Slægvitsku hanns i þvi, ad siaa sier Farborda, nær hann væri assettur Raadsmennskuñi, so hverki þyrfti hañ ad erfida, nie fara aa Vonar-Vol, og þetta Dæmi brwkar Frelsarinn til ad eggia siina Þienara aa Christilega Framsijni i siinu Gudræknis Eyrendi, ad lijka svo sem þessi Veralldar Sonur var forsiaall i þvi, ad bwa uñ Tijmanlega Atvinnu siina, svo skuli þeir og vera i þvi, ad siaa sier borgid i Andlegum Efnum; Þvi fylgir Eftirlijkingunni nockurskonar Umkvortun, er svo hlioodar: Þessa Heims Born Eru Kiænari Sonum Lioossins J Þeirra Kynslood; og þar aa eftir Bodord Frelsarans, hvernig þeir breita skulli, sem vilia eiga Vist med Gudi, og ollum Heilogum i eilijfum Tialldbwdum: Gierid Ydur Vini Af Þeim Raanglætis Mamona, segir Frelsarinn: Svo kallar hann Audlegd Heims þessa: Þad ber til þess, ad valla er nockurt þad Raanglæti i Heiminum, sem ad Audurinn sie ecki vidridinn med einhveriu Mooti; Hvada Raanglæti hafa Menn ecki vid i þvi, ad afla hanns i Kaupum og Solum, med Yfirvarpi Laga og Riettinda, til ad svæla undir sig Eigur annarra med Fleburdi i Dooma, med Raani og Stulldi, med Ofrijki og Asælni, med Lygum og Prettvijsi? Enn svo sem þad er ecki minna vert, ad giæta feingins Fiaar enn afla þess, svo skiedur og ecki minna Raanglæti i Medferd Audsins, helldur enn i Safninu; Edur hvad giøra þeir, ed brwka hann til Ofmetnadar, stæra sig þar af, þacka siaalfum sier fyrir sitt Lucku-Laan, færa Foornir fyrir siinu eiginn Neti, Brwka Fie sitt til ad nidurdrepa honum sem Raangindinn lijdur, til ad Riettlæta hinn Raangláata, enn fella Raangláatann Doom yfer hinu Saklausa, til Ohoofs i Mat og Dryck, og annars Bijlijfes, Eñ laata hiñ Fatæka og Nakta Þorsta og Hwngur lijda, Innihallda laanudu Fie og svijkia Daglaunarann, og þañ sem sleigid hefur Lond hinns Rijka, uñ sitt Verdkaup, Svo ad þeirra Hroop er inngeingid i Eyru DRottinns Zebaoth? Jac. 5. Eru þad þa Undur, Þoott hann nefnist Raanglætis Mamona? Og þoott ecki æfe aller allt af þessu, þa er hver Partur þar af noogur til ad fordæma þann ed þad fremur; Þvi hvert ad einn tapar Lijfinu fyrir Lauslæti, eins og hann er samlagadi sig Skiækiunni af Moabs Bornum, Num. 25. Edur fyrir Agyrni og Nijdsku; Eins og Nabal, edur fyrir Asna-Leitina, eins og Simei, Edur Frumgietningu sinni med Laungunenni eptir hinum sæta Rietti, eins og Esau, edur Himnarijki fyrir Myskunarleysi og Hardydgi; þaa maa einu gyllda; Litlu vardar, uñ hvorn Veg ad einn steypir sier til Helvijtis. Nu er svo aastatt uñ Audinn, sem eg sagt hefe, Ecki þad, ad hann sie illur i siaalfum

uin

um sier; Guds Blessan er hann, og næsta þarfur þeim, er vel vita med hann ad fara, og brwka hann Gude til Dijrdar, og Naunganum til Gagns, og til þess ad vera rijkur i goodum Verkum; Annars er hann skadlegur, sokum Vanbrwkunarennar: Og þvi segier Paulus, ad þeir ed Rijker vera villa falle i Diofulsins Snorur; Þar fyrer sogdu og hiner Gomlu, ad hinn Rijke være añadhvert Raangláatur edur Raangláats Arfe. Nu gietur þad ecke ad ollu Leite satt vered, þvi ei veit eg hversu stoor-rijkur ad Abraham var, þegar hann foor wt af Ur i Caldæa Lande aadur enn hañ kom til Haran, Gen. 11. Ecke var Jacob rijkur, þegar hann kom med einsamlann Gaungu-Staf sinn til Labans, og ecki var David Fiolskrwdugur, þegar hañ foor Land-Flootta fyrer Ofrijke Sauls, og mætt-est til Matar-Verdar fyrer sig og Foolk sitt af Nabal, 1. Sam. 25. Svo kunna og marger ad vera enn nu i Dag, sem vel eru komner ad Fie sijnu, svo sem þeir ed audgast af Orlæte Kouunga siña, og añarra Hofdingia, ef þeir ei vanbrwka Gunst þeirra odrum til Skada, þeir ed med Bindinde og Sparsemi Audlegd safna, svo framt ad hañ sie ecke Opocke Fiaar sijns, edur neite hinum Þurfanda um̃ þad, sem Gud hefur honum boded ad giefa. Margur verdur audugur af Embættis-Launuñum og Kunnáttu siñe; Verie hann þar til Ydiu siñe og Astundan, og take ei framar enn Gud og Yfervallded boded hef-ur, þa maa hañ eiga sitt med goodri Samvitsku. Margur græder af Hand-Afla sijnum, og brwkar Naatturuna, sem er rijk, til Utvega siña; þad er saklaus Groodi, ef allt er añad riett.

Enn fyrer þvi, ad i ollu þessu er Hoofed vandhitt, svo ad eingenn er ad fullu viss þar um̃, ad eckert sie Raangfeinged i Bwe hanns, þar Audurenn er fagur, enn Menn ery ecke alltijd adgiætner i slijku, og fyrergiefa sialfum sier miked, þa kalla eg þad stoora Raad fyrer alla, ad Menn eiga Kost aa, ad giora sier Vine af þessum Raanglætis Mam̃-ona. Tveir liggia Veiger til þess sierdeilis: Saa eine er, ad giallda aptur þad sem Einhver af odrum Raanglega droo; Annar, ad giefa Olmusur Fáatækum: Baada kienner oss Zachæus Tollheimtu-Madur, er hann sagde vid DRottenn, Luc. 19. Helmingenn af Eigum mijnum gief eg Fáatækum, og hafe eg prettad nockurn, gief eg Ferfalldt aptur. Gud hiaalpe oss vel! Lijtell var þesse Tollheimtu-Madur Vexte, enn morgum stoorum Manne mun hann kienna meiga Adferd Christelegs Apturhvarfs. DRottenn gaf hon-um þann Vitnisburd, ad hann være Abrahams Sonur; Lijkast er ad hann hafe svo ver-ed ad Burdum, þad sijner Nafned, og marger Gydingar voru Tollheimtu-Menn Rom-veria, eñ hañ hafde tapad Abrahams Barna Riette med Tollheimtuñe, þvi Heidingia og þa leggur Frelsarenn ad jofnu, Matth. 18. Eñ þvi olle Audmijkt hañs og Avexter Trw-arennar, ad DRottenn kallar hann Abrahams Son. Eg segie enn nu, ad þetta Smaa-Menne gietur kiennt morgu Stoor-Menne sannann Veg Ydranarennar; Hann dæm-de sialfañ sig i Þioofs-Bætur, þvi svo segia Moysis Log, Exod. 22. Ad Þioofureñ skule giallda Fioora Saude fyrer eiñ, sem stoliñ er. Nu er þo Straffed herdt af Christnu Yfer-vallde, epter þvi sem Glæperner vaxed hafa; Enn þess være Oskande, ad hiner Stooru Þioofarner lietu ei heingia þa Smaau, eins og Hvalfiskarner gleppa litlu Fiskana; Ef

O oll

øll þvilijk Varmeñe ætte under Gaalgann ad draga, þa munde Bødla vanta, þa munde Snørulaust verda, svo ad Gaungu-Madurenn feinge valla þad hann kynne ad vefia um Totur sijn: Enn hier er þo ecke svo miøg hætt vid; Hiñ Riettlaate Doomare hefur sied þvi lijkum Mønnum bæde fyrer Bødle og Snøru, þar ed hver heinger annañ aa Stundum; Stundum kvelur einn giaalijfur Sonur, ein Lauslaat Dootter sijns Fødurs Hiarta; Stundum plaaga þa opennberer Þioofar; Ødrum sender hann Elld og Vatn, Vind og Ovedur, til ad tugta þa. Eñ fyrer þvi, ad þesser Fie-Pwkar ecke taka þvi so sem af Drottenns Hende komnu, annachvert fyrer hanns Lydun edur Tiihlutan, þa kyrker Bwksorgeñ þa, og Aura-Elskañ, jafnvel midt i Daudanum; Nema þeir aadur sieu Afhuga Heimenum, og hafe gollded þad aptur aa einhvern Haatt, er þeir med Raungu fraa odrum tookn. Svo fyrerfarast þesser Aumingiar, og verda heingder, jafnvel fyrer utañ Bødul og Snøru! Og i Sannleika, Christner Menn, þa er þad einsætt hverium einum, ed erfa vill Himnarijke, ad giallda þad aptur, er hann hefur svælt under sig fraa ødrum, þvi jafnvel hinn minnste Peningur, er hann veit sig med Oriettu hallda, hann er Pantur Andskotans uppaa hanns Saalu, sem giefur honum Riett til hennar, svo fliott sem hun skreppur wt af Kroppnum, nema hinn hafe aadur bætt fyrer sig, ef hann maa þvi vidkoma. Og fyrer þvi ad eingeñ veit, hvad mikel Umsvif ad Daudeñ lætur honum epter, þa er ei Raad nema i Tijma sie teked; Gud hefur alldrei heited þeim Kvittun Syndaña, sem ecke lætur af Illu, og lærer gott ad giøra, Esa. 1. Saa ed stoled hefur hañ stele ecke meir, segier Paulus, Eph. 4. Tak ecke svo Ord hanns, ad hann banne alleina ad stela framveigis, eñ leife ad fela þad sem allareidu stoled er; Þvi Gud bijdur, ecke alleina ad laata af Illu, helldur og ad giøra hid Gooda, og skyllde þad vera fyrst af Goodgiørdunum, ef svo maa kalla, ad giefa þad aptur sem eirn raanglega iñehelldur, og saa sem ecke hefur Leida aa Syndeñe, hann gietur valla ætlad til Fyrergiefningar; Enn hann sem ecke hefur Andstygd aa þvi Fe, er hann raanglega took, hann hefur og ecke helldur Leida aa hinum Raanglaata Giørninge. Menn villia segia, ad þad sie Omøgulegt, ad giallda øllum aptur, þad sem med Oriettu teked var: Hann er daudur er þu tookst fraa, þa lifa þo kannskie Erfingiar hañs, gialld þeim slijkt er þu varst honum skylldugur, añars ertu eingu betre enn hañ, ed svæler under sig annars Arf: Vera maa þu viter ei hvar hann er ad finna, edur Arfa hañs, þa høfum vier þo Faatæka jafnañ hiaa oss, þeir taka vid Arfinum, þegar eingeñ er Erfingeñ. Þu manst ecke hvad morgum, edur um hvad miked sierhverium þu hefur Oriett giørt; Þetta er Lijklegt, sierdeilis hafer þu til margra Ara samann safnad, þetta er lijklegt, segie eg, þvi vier skrifum þad ecke svo aa Miñis-Tobluna, sem vier tøkum fraa odrum, enn þad sem fraa oss kann teked ad vera, þvi gleimum vier ecke svo braadlega: Enn aattu þar fyrer ad vera Hyggiulaus hier um? Nei, Barn mitt, þess meira sem þu hefur fraa ødrum raanglega teked, þess fleirum sem þu hefur Oriett tilgiørt, þess meire Hug skalltu leggia aa Maal þitt, þad er og ecke Omøgulegt ad giøra nockurn Jøfnud i slijku; Til Dæmis; Þu veitst hversu frekt þu hefur bygt Lønd þijn, hvad miked þu hefur dreged af

af Verkamønnum þijnum, hversu ofmikenn Abata þu hast hefur aa þvi þu selldet og keypter, gior so smaasmugglegañ Reikning vid siaalfann þig hier uñ, sem þu kañt, annars vill Gud reiknast vid þig, dæmer þu ecke siaalfann þig, þa verdur þu af hønum dæmdur, 1. Cor. 11. Hañ hefur ecke gleymt þo þu gleymer, og nær þu hefur svo giort, þa kasta nockru frañ yfer, og þo meira eñ miña, svo þu siert viss uñ, ad Satan hafe ecke eina Klauf epter i Bwe þijnu, hellдur enn Israel aa Egyptalande; Sie þa nockud ofgollded, þa er þvi ecke spillt, þad verdur ad Fiesiood aa Himnum, þad verdur ad Ølmusu, og þad er riett, Ad Giora Sier Vine Af Hinum Raanglaata Mañon. Ecke einasta gallt Zachæus aptur þad hann raanglega teked hafde, hellдur og gaf hann Helming Eigu sinnar Faatækum; Pad giediadest Freisaranum svo vel, ad hann sagde: A þessum Deige er Hwse þessu Heilsa skien. Hallt Saalu þijna svo Dijrmæta, Barn mitt, ad þu siaaer ecke epter nockrum forgeingelegum Alnum, til ad niota somu Blessunar; Þvi jafnvel þoott ecke vinne vorar Ølmusur edur ønnur Verk til neins hiaa Gude, þar vier giorum eckert frañ yfer þad, sem vier eigum ad giora, þa eru þær Gude þo hvad kiærastar af øllu þvi vier bioodum hønum, nær þær af Trwnne frañkoma, og af Kiærleikanum, añars gyllda þær ecke, þvi þoott eg bitade allar Eigur mijnar nidur fyrer Faatæka, og hefde ecke Kiærleikann, þa være eg eckert, segier Paall, 1. Cor. 13.

Þar fyrer siae Menn til, hverneg Menn Ølmusur giefa, ef þeir vilia ad þeir take þa i Eilijfar Tialldbwder, sem þær þiggia: Ecke til Fordilldar sier eins og Pharisæi; Pad heiter ad laata blaasa i Baasunur fyrer sier, ad giefa Ølmusur til ad taka Vyrding af Mønnum, og sierdeilis þeir er wtsiwga Hws Eckna og Fodurlausra, meinande þo ad afþvo allt svoddann med nockrum Ølmusugiørdum; Þoott þad sie best wr Vondu ad raada, ad giefa af þvi, sem illa er feinged, eins og Zachæus giørde, og laata svo af Raanglætenu eins og hann, þa ætla ecke ad þijnar Ølmusur mune gyllda mikid, ef þu helldur aafrañ i Prettunum. Laat þier uñhugad vera, ad þad sie vel feinged, sem þu giefur af: Eg elska Riettenn og hata Raaned, þad er samteingest vid Brennefoornena, segier DRottenn hiaa Esajam, Cap. 61. Hier af kunna Menn ad siaa, hvad þær Ølmusur gyllda mune i Auglite DRottenns, sem einn ætlar ad betala siaalfum sier aptur med Fe-Raane af Naaunganum; Þær eru eingu betre enn Hunds Verd edur Skiækiu, sem Gud villde ecke laata bera inn i Helgedoomenn aa Tijmum Gamla-Testamentesins, Devt. 23. Þar fyrer, nær þu Ølmusu giefur, þa siaa til ad hun sie i Gudegiørd. Siertu Rijkur, þa gief Rijkuglega, og giæt þess, af hverium þu Aud þinn feinged hefur, þo svo, ad þijn Vinstre Hond vite ecke hvad hin Hægre gaf. Giæt og þess, ad þu giefer ecke ofliijted ef þu maatt vel; Pad er stoor Synd ad hafa alls Nægter, enn laata hinn Volada svo fraa sier fara, ad hann hafe valla Magann fullann, auk helldur til næsta Maals. Þier sundurmeried Andlit hinna Faatæku, segier DRottenn, Esa. 3. Þoott þad sie talad i annare Meiningu i þessum Stad, þa heiter þad riett, ad sundurmola Andlit hinns Volada, ad laata hann horfa aa Audlegd sijna, enn skamta hønum svo naumt, ad hañ sie litlu nær; ecke

O 2 gierde

giörde þad DRotteñ, er hann sadde 5000. Mañs i Eydemörku, þvi Gudspiallamadur-
enn segier, hann hafe giefed svo sem hver villde hafa, Joh. 6. Ef þu villt segia þad Myd-
skuñe til Umbootar, ad hann hafe haft betre Raad enn þu, þa vil eg segia; Gietur þu ecki
trwad hönum, er þad giörde, ad hann kunne ad giefa þier Tijufalldt aptur, vid þad sem þu
gafst Vesælingnum? Siertu Faatækur, þa gief þo af Faatækt þinne, slijkt er þu af maatt
leggia, og laat þad vera af Gnægd Hiarta þijns, þvi Gud aalijtur Hiartad. Lausnar-
enn sagde: Ad Eckiann sw, er lagde Tvo Smaa-Peninga i Guds Kistuna, hun hefde
meira lagt enn aller hiner Rijku, þvi hun gaf af Leifum sijnum alla Lijfs-Næringu sijna,
Marc. 12. Vit þvi, ad þad lijted, er þu gafst, þad er Gude eins þægt, og hid mikla,
er hiñ Rijke gaf, þvi baada yckur giörde Gud; eñ hvernig sem þier haattad er, þa gief med
goodu Skape, þvi hijrann Giafara hefur Gud kiærann, segier Salomon: Paulus bijd-
ur þad skule giörast, ecke med Naudung, helldur med fwsum Huga; Saa sem med illu
Gedi wtilætur þad hann giefur, hann hefur bæde tapad þvi er hann gaf, og svo þeim Lou-
num, er hañ kuñe ad vænta af Gude: Gief strax ef þu giefur, þvi hañ sem fliootti giefur,
hañ giefur Tvisvar; Seig þu ecki Naaunga þijnum: Far burt og kom aptur, þvi aa Morg-
un skal eg giefa þier, ef þu hefur þad, Prov. 3. Þad giörer Vesælingenn Laangeygd-
añ epter Giöfeñi, sierdeilis ef Þorf hañs er braad, og Gud kañ ad laata þig bijda eins lein-
ge epter Hiaalpeñe, nær þier aaliggur; Þvi med þeim sama Mæler, er þier mæled, mun yd-
ur aptur mællt verda, segier Frelsareñ, Matth. 7. Ölmusur hafa stoora Raad i Guds
Auglite: Bæner þijnar og Ölmusugiörder eru uppstignar fyrer Gud til Miñis, sagde Ein-
gilleñn vid Cornelium, Act. 10. Bænenn er Offur þad, sem vier eigum daglega Gude
ad færa, þad eru Kaalfar Vara vorra, Hos. 14. sem koma i Stadenn Fornfæringa
Gamla Testamentisins, Ölmusurnar eiga þeim ad fylgia, ei sijdur nu eñ þa; Ölmusann
blijdkar Gud meir eñ Foornenn, þvi aa Myskunseme hefur hann Þocknan, eñ ecke aa Off-
re. Haf Raad mitt Konungur, sagde Daniel vid Nebuchadnezar: Gior Synder þijnar
ad Riettlæte, og Raanglæte þitt ad Myskunseme vid hina Aumu, Dan. 4. Lijklegt er,
ad hann hafe þad giört, og kannskie ecke apturhorfed wr Vargs-Hamnum til Mannleg-
rar Rænu og Skickunar ella. Ad Endingu vil eg minnast aa þad, er hier sijdarst stend-
ur i Gudspiallenu: Svo Ad Nær Ydur Þrijtur, Þa Medtake Þeir Ydur J Eylijfar
TJALLDbwder. Hverier þa? Guds Volader Sauder: Nær þrijtur oss? Þegar
vier forum nakter burt wr Heimenum, eins og vier i hann komum: Nær medtaka þeir
oss? Veigenn leggia þeir til þess hier i Heime, med Bænum sijnum og Andvorpunum
til Guds, ad þad meige oss endurgollded verda i Upprisu Riettlaatra, er Menn gaafu i
Guds Nafne. Johannes saa i Opennberanenne einn Eingel standa frañe fyrer Altar-
enu, hann hafde Reykelsis Kier af Gulle i Hende sier, og var giefed Reykelse miked, ad
hann offrade þvi med Bænum Heilagra, Apoc. 8. Eg efast ecke um, ad hier med eru
og teiknadar Bæner Voladra Þurfa-Manna, sem eru rietter Christi Limer: Þetta
Reykelse skylldu Menn dijrum Doomum kaupa, þvi þad gagnar meir enn morg Þusund

Stycke Gulls og Silfurs, Nauta og Sauda: Enn um̃ ſijder munu Þeir medtaka oſs i Eilijfar Tialldbwder, þegar Konungurenn ſegier aa eſſta Doome til þeirra, ſem eru a Hægra Veg: Þad ſem þier giorduð Einum af þeſſum mijnum minſtu Brædrum, þad giorduð þier mier: Komed þier hiner bleſſudu mijns Fodur, og eigneſt þad Rijke, ſem ydur er fyrerbwed fra Upphafe Veralldar. Þeſs niootande ad verda, un̄ þu oſs eilijfur Gud og alleina Rijkur, fyrer hann ſem vor vegna Fataekur giørdeſt, JEſum Chriſtum vorn Frelſara, AMEN.

# Tijunda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudſpialled, Luc. 19. Cap.

Um þan̄ Tijma. Og þa ed JEſus kom nær, ad han̄ ſaa Borgena, griet han̄ yfer heñe, og ſagde: Ef ad þu viſſer hvad til þijns Fridar heyrde, þa munder þu aa þeſſum þijnum Tijma þar Baktan aa hafa, en̄ nu er þad huled fyrer þijnum Augum. Þviad þeir Dagar munu koma yfer þig, þad þijner Ovíner munu byggia Hervirke i kríngum þig, og um̄kríngia þig, og aa alla Vegu ad þier þreyngia, og nidur i Grun̄ kollkaſta, og þijnum Børnum med þier, og ecke munu þeir i þier laata Stein yfer Steine vera, af þvi þu þeckter ecke þin̄ Vitiunar Tijma. Og han̄ gieck in̄ i Muſtered, og took til ad reka wt þaa, ſem ſelldu og keyptu þar in̄e, og ſagde til þeirra: Skrifad er, ad mitt Hws ſie Bæna Hws, en̄ þier hafed giort þad ſem an̄ad Spillvirkia In̄e. Og hvern Dag kiende han̄ i Muſterenu. En̄ Kleñemañа Høfdingiar og Skriftlærder og þeir Ypparſtu Lydſins leitudu faſt epter, ad fyrerkoma honum, og gaatu þad ecke fundeð, hvad þeir ſkylldu giora honum. Þviad allt Folked hnie ad honum, og hlijdde han̄s Ordum.

Exordium.

Nu Ei wtmaalar H. Paulus þad Skrijmſle Agyrndena, er hann ſegier, 1. Tim. 6. Þeir ſem ad Rijker vilia verda, þeir falla i Freiſtne og Snorur, og i margar Gyrnder Vitlauſar og Skadlegar, hveriar ad ſteipa Mannenum i Topun og Fordiorfun: Þetta er Deigenum liooſara; Þvi under þenna Skap-Loſt þienar ſvo mikeð Illþijde an̄arra Laſta, ad valla er nockur ſw Odigd, ad i þurfe hun Lid af ad þyggia, nær hun er mognud: Eins og einn Stoor Herra þarf margra Þienara, ſvo er og Ovættur þeſſe; Hun tekur heila Sveit af ſinne Kynſlood i Lid med ſier; Lijge, Roogur, Bakmælge, Meinſære, Flaattſkapur, Underhyggia, Ofrijke, og jafnvel Mord og Manndraap eru hennar Forunautar, þad vottar Poſtulenn ſkom̄u ſijdar i þeſſum ſama

Capitula, er hann segier: Ad Agyrndenn sie Root alls Ills, J hveria þegar nockrer fyrst
hafa, þa hafe þeir villst fraa Trwnne, og sialfa sig i giegnum lagt med Harmkvælum
morgum. Hinn Agiarne hefur Otal Veidebrellur til Utvega sinna, enn ecke hefur Di-
ofulenn færre Snorur, til ad veida hann: Hvad drap Achan? Jos. 7. Hvad rænte
Achab Rijke og Fiore? Hvad saalgade Judæ? Matth. 27. Allt samann giorde þetta
Fe-Gyrndenn, og Otal fleira sem ei verdur uppreiknad, og kunnugra er, enn med morg-
um Ordum segia þurfe. Nu eru þo marger Veiger til ad verda Rijkur, Sumer Leyfeleg-
er, Sumer Oleyfeleger: Hiner Fyrre eru Blessan DRottenns, Astundan i sijnu Em-
bætte, og Christeleg Fyrerhyggia, og annad þvilijkt, sem eg hefe nockud dreped aa i nærst
Fyrerfarande Predikun; Hiner Oleyfelegu eru svo marger sem Agyrndenn fær upp-
diktad: Enn med þeim hættustu er Oraadvond Kauphondlan, hverrar vegna ad DRott-
enn kallar, Ad Guds Hws sie orded ad Ræningia-Bæle, hier i Gudspiallenu, þvi seg-
ier Syrach, Cap. 27. Einn Kaup-Madur gietur valla vared sig Oriette, nie einn Kram-
are fyrer Syndenne. Nu fyrer þvi, ad eg hefe ecke til Forna i Book þessare neitt
Merkelegt umm þenna Hlut ritad, sem þo er harla Naudsynlegt ad vita nockud umm, þa
vil eg taka mier Orsok af Vandlæte DRottens, til ad Hugleida Tvent hier af, sem er:
1. Hver ad sie Leyfeleg Kaup-Hondlan. 2. Hver ad sie Oleyfeleg. Hiaalpa
oss goode Gud til þessa Verks, fyrer JEsum, vorn DRottenn, AMEN.

## Utleggingenn.

Þad er vijst, ad ecke gietur Verolld þesse stadest aan Kaup-Hondlunar. Mismunn
hefur hinn Alvijse Skapare giort bæde Landanna og Mannanna, enn eingum hefur
hann giefed allt, þvi hann ætlade sialfum sier allt; Rijkur og Fatækur mættu hver
odrum, segier Salomon, enn Gud hefur giort þaa baida, Prov. 22. Hann meinar Rijk-
ann, Rijkann, enn Fatækann, Fatækann, þvi hveru tveggia kiemur af honum: Hvar fyr-
er mun nu hinn Almaattuge svo giort hafa? Gat hann ecke alla fullrijka giort, sem aa alla
Jordena, og þad sem þar inne bygger? Ad vijsu gat hann. Hvar fyrer er þad svo skied þa?
Eingenn hefur ad sonnu hanns Raadgiafe vered, enn þo maa þad skilia, ad hann hefur gi-
ort þennann Mismun til ad laata dijrka sig af baadum; Af þeim sem noog hafa, med Kiær-
leikans Verkum; Af hinum sem Skortenn lijda, med Þolennmæde; Enn þo ecke sijdst til
ad laata daudlega Menn æfa sig i Riettvijsenne og Kiærleikans Verkum, i allre Hond-
lan og Vidskiptum, þar eingenn er sialfum sier Fullnoogur umm allt, ad ei sie hann ann-
ars Þurfe i einhveriu. Brwke þvi nockur Kaupmannskap, þa æfer hann eingann illann Hlut,
helldur naudsynlegann: Gud hefur ecke fyrerboded sialfann Hlutenn; Helldur Van-
brwkun Hlutarens: Vigt og Mæler eru þeir Hluter, sem Kaup-Hondlan maa ecke aan
vera, þad hefur Gud ecke bannad, enn raanga Vigt og Mæler hefur hann fyrerboded,
Lev. 19. Og þetta er ecke sijdst ad taka Vara aa i Vidskiptum Manna: Riett er og hver-
ium Manne ad kaupa þaa Hlute, er hann vidþarf, til þessa Lijfs Næringar, edur skickan-
legrar Brwkunar, sem Gud hefur ecke i sijnu Heilaga Orde fyrerboded: Svo keypte
Abra

Abraham Landed af Hephron til ad grafa Kvinnu sijna, Gen. 23. Jacob keypte Land under Bw sitt af Sonum Hemors, Gen. 33. Joseph keypte Fie hinna Egyptsku til Handa Pharao fyrer Atvinu, Gen. 47. Jeremias Akurenn af Chanameele Syne Fodurbroodur sijns, og giorde Giorning þar um̃, Jer. 32. Og Lamuel samlijker forsiaalle Konu og ydiñe vid Kaupskip, þvi ad hun sækie Fædslu sijna langt ad, Prov. 31. Fyrer þvi er þad saklaust ad brwka Kaup-Hoondlan um̃ þvilijka Hlute. Aller þesser Menn, er eg strax upptalde, voru Guds Viner, og kunna Menn ecke annad um̃ þaa ad ætla, eñ ad þesse Hegdan þeirra hafe Leyfeleg vered; Enn ef þeim var saklaust ad kaupa, þa var og hinum syndlaust ad giora þad falt, er þeir seldu, þvi ecke er Kaupande nema Seliande sie. Lydia, sw er Paulus skyrde i Borg þeirra Thyatirorum, Act. 16. Hun selde Purpura, og heyrest ecke ad Postulenn hafe bannad henne Hondlan sijna, og var þetta þo ecke soo miog naudsynlegur Hlutur til Lijfs-Næringar, sem hun hafde med ad fara. Sa ed selur Handa-Verk sijn, hveriu Nafne sem heita, hann brwkar saklausann Kaupmannskap; Þvi hann neyter Brauds sijns i Sveita sijns Andlitis, ef hann ecke falsar Verkefned, edur brwkar i þvi adra Raangsleitne: Fyrer þvilijku mun hier epter Raad giort verda i sijdare Partenum. Hann ed selur þad, er hann missa kann vor Bwe sijnu, þeim ed vidþurfa, hann giorer goodann Hlut, sierdeils ef hann ecke innehelldur þvi, er hann maa aan vera, nær hinn er naudstaddur: Svo giorde Joseph, þegar Gud sende Hrongur i Egyptaland; Og þoott ad Herodes Konungur Aschalonita være hinn verste Madur, þa var þad þo Lofs verdt af honum, sem Joseph Sagna-Meistare skrifar, ad hann hafe selt jafnvel Gersemar sijnar fyrer Atvinnu handa Þegnum sijnum. Þeirra Adferd er og Saklaus, sem hafa Fe i Hondum, og kaupa naudsynlega Hlute, a medañ Nægter eru af þeim, til ad selia odrum, sem faatækare eru, og ei hofdu Raad til ad kaupa til margra Ara, og þoott þeir aabatest nockud þar af fyrer Omak sitt, þa er þad ecke Synd, nær þad skiedur med Jofnude og aan Okurs, og þad hygg eg ad sie hid sama, sem Paulus bijdur, 1. Cor. 7. Ad þeir sem kaupa, sieu so sem ad ecke eige þeir; Þad ræd eg af þvi, er hann segier strax epter; Ad Menn skule brwka soo Heimeñ, ad Meñ ecke vanbrwke hañ; Þad skil eg svo, ad Meñ fære sier i Nyt þaa Hlute, er Gud hefur laanad, þo svo, ad þad ei verde med Asælne vid Naungann, til ad giora sig rijkañ eñ hañ Faatækañ, sierdeilis þar hann i þessum Stad er ad tala um̃ þa Stuttu Tijd, er Meñ eiga ad faast vid þetta Tijmannlega. Þeirra Atburder eru og riettvijser, og nærsta þarfer, er færa þa Vöru yfer Hafed, sem eitt Land maa ecke aan vera, nær þeir giæta þess, er St. Paall biidur, 1. Thess. 4. Eingiñ yferstijge edur asælest siñ Broodur i nockurre Hondlan, þvi Gud er Hegnare alls þessa. Enn nær þeir giora þad til ad hafa þar af sitt Erlegt Upphellde, eñ ecke til þess alleina ad verda rijker af Þorfañarra, þa er þeirra Verk eingañvegeñ lastande; Og maa um̃ þaa segia eins og um̃ hvern annañ, sem ver Erfide og Ydiu sinne til ad hiaalpa Naunganum ad verdur er Verka-Madureñ Launa siña: Fyrer þvi aa ecke Kaupandeñ ad siaa Offiðonum yfer þvi, þoott þeir aabatest, ef þeir giora hañ ecke ad Logræninge,

Sier-

Stiet, eins þar hann vogar Lijfe og Gotze til ad siaa hinum borged; Þvi hverttveggia þetta eru dijrmæter Hluter, og Lijfed ad vijsu hinn Kostulegaste af Veralldar Munum, Jafnvel ad Vitne Satans, er hann sagde, Job. 2. Hwd fyrer Hwd, og allt hvad Madurenn aa, mun hann giefa fyrer siaalfann sig: Þvi aa ecke ad misunna þeim nockurs Agooda, er svo miked leggia i Sølurnar: Þad kann og til ad bera, ad þesshaattar Kaup-Madur giøre þeim eingann Oriett, er hann selur Voru sijna frekt, ef hann maa hana annarstadar kaupa dijrum Doomum, og þad kiemur eitthvad aa mille, sem hindrar Asetning hanns; þvi þad er eins og hvert aññad Tilfelle i Utriettingum vorum, og er þad margt sem Kaupande kann ecke ad vera so froodur uñ, ad hann vite hvort hinn giøre Oriett edur ei, maa hañ þvi ei strax vijta hinn þar fyrer; Og þoott hann visse sier Oriett giordann, þa giører hañ siaalfann sig eins sekann, ef hann vill rietta Hlut sinn med ødrum Oriette, þvi þad heiter ad giallda Illu Illt, hvad Gud hefur bannad. Þetta er nu svo sagt uñ þa Kaup-Høndlan, sem Leyfeleg er, epter þvi sem i stuttu Maale sagt verdur, hvert þo betur skiliast mun, af þvi er i hinne Sijdare Greinenne talad verdur, uñ þad sem Oleyfelegt er i nockurre Kaup-Hondlan.

Þier erud eins og Snara i Mizpa og wtþaned Net yfer Tabor, segier Gud vid Israel, Hos. 5. Af þessum DRottenns Doome aattu Kiennemennerner ecke hinn minnsta Hlut, vegna Agyrne sinnar, svo sem raada maa af Textanum; Enn ecke voru þeir Raadvandare, þegar sa DRottnarenn kom til sijns Musteris, sem rak wt þadann Seliendur og Kaupendur, svo sem i Gudspiallenu stendur; Þad verdur sannad med Ordum Hieronymi Lærefødur, hverra-Meiningu eg vil setia hier ad nedann, til Froodleiks þeim, er epter taka vilia, enn øllum til Vidvørunar, þvi sierhvør Christenn Madur aa ad vera Guds Kiennemadur i Hiarta sijnu, sem er Mustere Heilags Anda; Hañ skrifar aa þa Leyd i sinne Utskijringu yfer Matthæi 21. Capitula: Kiennemennerner uppþeinktu hvernenn þeir giætu aabatast af Almwganum, og selldu allann Fienad þann er þurfte til Foornanna, svo ad þeir sellduþeim er ecke høfdu, og tækiu siaalfer aptur þad þeir sellt høfdu: Enn þenna Prett þeirra hindrade Faatækt margra, sem ecke einasta ei høfdu þad þeir kynnu ad offra, helldur og ecke þad þeir mættu kaupa med, þvi tilsettu þeir þaa ed laanudu Peninga. En fyrer þvi ad i Løgmaalenu var bañad ad taka Rentu, og laanad Fie kuñe ecke ad gagna fyrer utann Avøxt, þa uppþeinktu þeir annad Bragd, ad þeir tilsettu þaa, er i Stadenn fyrer Peninga-Rentu, tækiu adskiliañlega Avexte, svo ad þad sem ei leyfdest ad taka i Peningum, þa tækiu þeir i þeim Hlutum, sem med Peningum keypter eru. Fyrer Raangsleitne þessa og Hreckvijse rak DRottenn wt þa, ed med þessu Moote sellduog keyptu i Musterenu, af hverium flester voru Þienarar Kiennemannanna, edur þeim aahaangande. Hugleided nu, Christner Menn, hvad miklu Gofugre og Dijrdlegre ad er Guds Kyrkia medal vor, helldur enn Jerusalems Mustere, þar hun er bygd uppaa Grundvøll Spaamannanna og Postulanna, hvar siaalfur JEsus Christur er Hyrningar-Steirnenñ, Eph. 2. Siaae þvi til hver og eirn, ad ecke verde hañ wtrekenn wr hinne soñu og Osynelegu Guds Kyrk-

Kyrkiu, fyrir ſvoddann rangſnwinn Kaupmannſkap. Eñ þvi er æ verr og midur, ad eg hygg ad margur temie ſier þeſſa Ohlutvendni, ſem ætlar ſig vel Chriſtiñ. Gydingum vard þeirra Hws i Eydileatid, fyrir þeſſa og adra Glæpi; Enn væru þeir allir wtreknir wr Guds Kyrkiu, ſem þvilijkt adhafaſt nu i Heiminum, þaa uggir mig ad verda mundi þunnſkipad þar inni; Edur hvad er þad, Chriſtnir Menn, þegar einn ſelur ſijnum Naunga einn Hlut, enn dylur þa Leſti er hañ hefur? Jaa, hrooſar honum i meſta Maata, þo liwgandi, og aa Stundum ſver vid Guds ſkielfilega Haatign, ad þad ſie ſvo ſem hann ſeger; Og hverſu margir Klækir eru þaa ſamannkomnir, til ad ſteipa eins Syndara Veſælli Saalu i Helvijtis Afgrunn? Hier er Piooſnadur, hier er Lijgi, hier er Meinſæri ef til vill. Minna nægir! Sierhvert af þeſſu er noog til ad fordæma Syndarann. Hefur ei Gud bannad ad Stela, ad Liwga, ad leggia Nafn ſitt vid Hiegooma? Pier ſkulud alldungis ecki ſveria, ſegir Lauſnarinn, enn ydar Ræda ſie Jaa, Jaa, Nei, Nei, Matth. 5. Hvad vill þad þa verda, ad leggia þad vid Svik og Prettu? Svo þad er nærſta undarlegt, ad nockur ſkuli meta Saal ſijna ſvo lijtils, og voga henni fyrir ſvo lijtinn Hiegooma, og nærri þvi fyrir eckert aa Stundum: Ad ei tali eg þar um, ad hann ſem veit ad Gud er til, ſkuli ſvo berlega forſmaa hanns Stooru Haatign fyrir einkis verdann Hlut. Eingu betri er hann, ſem gyllir vonda Voru med einhveriu Taali; Þvi jafnvel þoott ecki liwgi hann ſiaalfur, þa lætur hann Hlutinn liwga, enn Piooſnadurinn er allur hiñ ſami. Þeſſu er þad lijkt, ef nockur ſelur einhverium þad hann þeckir ecki, og hefur ei Vit aa ad dæma um, hvert þad er Jllt edur Gott, þad eru bañvæn Svik; Þvi ſaa þad giorir, hañ ſelur ödrum Heimſku ſijna, og veidir hañ i Neti Faakiænſku ſiñar: Þetta er altijtt þeim, er leyna þvi ſem gagnlegt er fyrir hinum Einfallda, enn biooda þeim hid Onijta? Og af þeſſum Prett vaxa Tvær adrar Stoor-Skamir, ſem er; ad hann, er þvilijkt æfir, ſagnar i Hiarta ſijnu, hverſu forſiaall hann verid hafe, og þackar Abatañ Sviñu ſiñi, enn hinns Oſviñu forſmaair hann, og ſkamaſt ſijn ecki ad hrooſa þeſſu fyrir ſijnum Lijkum, leggur ſvo Drambſeminnar og Siaalfhælninnar Synd til Piooſnadarins, og er þaa ecki Von aa ödru verra, nær Dioſullinn hefur ſvo blindad Einn, ad hann ſtærir ſig af Klækiunum, eins og Lamech, er hann hrooſadi ſier af Fyolſkunni vid Kvinnur ſijnar, Gen. 4. Med þeſſum eiga þeir Seſs i Andſkotans Rijke, ſem brwka falſka Vigt og Mæler, um hveria eg heſe noog ſagt, þegar eg ſegie þad med Salomons Ordum: Ad þvilijkt ſie Andſtigd fyrer Gude; ſaa þad giorer, hann uppſkier hvar hann ecke ſaade, og ſelur einum þad hañ alldrei ſieck. Þeir ed ſetia Voruna of-dijrt, og miklu hærra, enn ad ſvarar þeim Abata er þeir med riettu hafa meiga, fyrir Omak ſitt og Umhyggiu fyrir ſijnum Kaupmannſkap; Þeir meina ad ſoñu ad vera ſaklauſir, og helga ſig giarna þar med, ad eingañ bidie þeir ad kaupa ad ſier, og Vara þeirra ſie Oſvikinn: Enn hier i er þo margt athugaverdt: Sie ſvo ad eg hafi einhvern Hlut, þann eg maa ecki miſſa aan mijns Skada, enn hañ ætladi ſier mikinn Hagnad af, er kaupir, þaa er þad ad ſonnu Riettvijſt, ad eg ſelie hañ nockru dijrara enn eg keypti; Enn ef eg hefi þann ſama Hlut til Sölu og vil hann falann laata, þegar

mier lijkar Andvirdid, enn Broodir edur Systir eru Naudstodd, svo þau gieta eii ...
hanns verid, og eg brwka Neyd þeirra Voru minni til Gylldis, þa er þad stoor Synd,
og eingu betra enn þad, sem aadur er upptalid, þvi þad heitir ad selia einum Þorf sijna;
Enn hvernig kann hann ad giora Hlutinn betri edur dijrmætari J sialfum sier, helldur
enn hann væri þar fyrir utann? Kann nockud Hwngur Naaungans ad giora þiñ Mat-
betri, og ef ecki betri, þa ecki helldur dijrmætari, edur hanns Verleiki, þad Fat, er þu selur
honum, kostulegra? Þetta er nockurskonar Hæglætis-Ofrijki, og Ulfur undir Saudar-
Giæru; Þvi hvert eg svijk Fie wt af einhverium, sem ecki maa ræna mig þvi sem honum
aaliggur, edur og ræni hann Fie sijnu, þvi er eg hefi eingann Riett til, þad er allur hiñ sa-
mi Oriettur i Guds Augliti. J þessum Flocki vada þeir, ed kaupa upp alla Voru, þa
sem hinn Fatæki maa ecki aan vera, nær þeir hafa noog i Hondunum, enn selia hana so dij-
rt aptur, sem sialfir vilia þeir, nær Neydinn þreyngir; Og þo eru hinir hvad verstir, sem
hafa aa Bodaangi gyrnilega Hluti, og þo aldeilis Oþarfa, enn laata þa svo dijrt, sem
Agyrndinn bijdur, Nær Daarinn sparar ecki fyrir ad giefa, Til þess ad slockva Gyrndina
um Stundar-Sakir, enn svelltur sijdann. Þetta er ad selia einum Synd sijna, Sem er
hinn versti Kaupmannsskapur: Þetta er ein Andskotans Svipa, af morgum Streing-
ium, morgum Syndum flettud, þvi fyrst kaupir hann þesshaattar Voru til ad leggia
Taal-Beitu fyrir hinn Heimska, Sijdann flettir hann Fie sijnu, og eptir aa hædir ad
honum, enn prijsar sialfañ sig og Kiænsku sijna, og þad er ecki ollu betra eñ Bileams Raad,
hver ed liet Jsraels Sonu glæpast aa Moabitanna Konum, Num. 31. Allir Heilvita
Menn, sem þetta Lesa edur Heyra, þeir munu nærri gieta, hvar um eg tala, og er, allt of-
margt af þessu Jllþijdi i Landi voru. Þetta er nu svo talad um hann ed selur, enn þoott
ad Kaupandi og Seliandi sieu nærri þvi hid sama, þar einginn selur nema hann kaupi,
og einginn kaupir nema hann selie, þa giora Menn þo Mismun þann i Daglegu Maali, ad
saa heitir Seliandi, er hefur Voru til Kaups, enn hinn Kaupandi, er ad honum kaupir,
og þvi hefur hann og nockurs ad giæta. Einhver kann aa Stundum ad selia þad hañ ecki
veit hvad kostar, og er þeim þa vant, sem ad honum kaupir, ad ecki aasælist hañ siñ Naa-
unga i sinni Hondlan; Jaa i Sannleika, Giefi hann miña fyrir Hlutiñ, eñ ad hañ verdur
er, Þa er hann eins sekur i Guds Augliti, svo sem hinn, er selldi þeim ofdijrt nockurn Hlut,
Er ei veit hvad hann kaupir. Eirn neydist til ad selia Eigu sijna fyrir Hwngurs-Sak-
ir, edur einhvern Atvinnu-Brest, svo hann gietur ecki bedid eptir þeirri Tijd, sem hañ ku-
nni ad faa Lijfs-Næringu med odru mooti. Faai hann ecki Josnud af þeim er kaupir,
þa giorir Kaupmadurinn stoora Synd, og er eins sekur, og hinn er selur odrum Þorf sij-
na: Vaagt er allt þvilijkt upp ad telia i stuttu Maali; Enn giæti Menn þess, er DRottinn
sagdi Fordum: Hvad þier vilied ad Mennirnir giori ydur, þad sama giorid þeim einn-
ig, Luc. 6. Svo og þess Syrach skrifar, Cap. 27. Eins og Fleigurinn klemist aa mill-
um Mwr-Steina, Svo þreingist Syndinn aa millum Kaups og Sals. Fyrir þvi er þeim
einsætt, er giort hafa slijka Hondlan ad Handverki, Kannskie leingur enn skiemur, Sumir-
hver-

hverier, þeim er einsætt, segie eg, ad rannsaka nockud Atferd sijna i þessu, Og ef þeir finna Ranglæti hiaa sier, ad bæta þad med sannri Ydran, Eñ hun er alldrei af Alvoru, Nema Menn giefi þad aptur, sem Ranglega var tekid; Hvar um̃ eg hefi nockud talad i nærst fyrirfarandi Predikun, og vil þad ecki hier aptur Itreka: Alleina vil eg Rannsaka Tvennslags Afsakanir, sem Menn plaga ad giora sialfum sier i þvilijkum Tilfellum.

Ein er su, ad nockrir læataſt giefa Olmusur af þessu Rangfeingna Gotzi, og þurfi þvi ecki aptur ad leggia: Eñ giæt þess, ad þad sem Fatækum er giefid, þad kallast Gudi Lanad, Eñ Gud vill ecki Þiofs Nautur vera, þad sem honum er giefid, maa velfeingid vera, ef þad a honum ad lijka: þvi er þad riett er Syrach skrifar, Cap. 34. Saa sem færir Fforn af Eigu hinns Fatæka, þad er svo sem hann slatri Syninum i Augsyn Fodursins: Braud hins Þurftuga er Lijf hins Fatæka: Saa ed svijkur hann, sa er Bloodgiirugur. Olympias, Moodir hins Stoora Alexandri, hun helgadi Af-Gudi sijnum þad Sverd, Er Madur hennar Philippus Konungur var drepinn med. Alexander Phereus giordi hid sama vid Lensuna, med hverri hann vo Fodur-Broodur sinn Polyphronem, og somu Atferd hafdi Keysarinn Antonius Caracalla, Er hann Lijfliet Broodur sinn Getam. Aller menn kalla þetta illa giert; Eñ ecki mun vera svo stoor Munur a þessum Odaada-Verkum i Guds Augliti, og hinu, ad svijkia Naungans Braud wt af hanns Munni i Kaupum og Solum, Eñ læataſt giefa Gudi þar af aptur, edur hañs Veſælingum, svo mikid sem þeim sialfum lijkar. Þad geingur nærst þvi, ad kasta Bloods-Verdinu inn i Kyrkiuna med Juda; Enn þo vil eg segia þad sem eg hefe aadur sagt, ad ef Madur fær ecki aptur skilad þeim sama, er nockur hefur Oriett tilgiort, Þa er ecki annad Raad, enn ad giefa svo mikid Fatækum, sem Einn meinar sig, eptir smaasmuglegt Rannsak Samvitsku sinnar, ad hafa med Orietti tekid. Dylist og einginn vid þad, ad Syndinn verdur ecki tilgiefinn, nema aptur sie golldid hid Rangfeingna; Þvi svo segier DRottinn fyrir Munn Ezechiels, Cap. 33. Ef hinn Ogudlegi giefur Pantinn aptur, og lætur Raanid af Hendi, og geingur eptir Lijfsins Bodordi, og giorir eckert Oriettvijst, Þa skal hann lifa og ecki deya: Med þessum Skilmaalum hefur Gud Syndaranum Vægdinni heitid, enn annars ecki. Hier um̃ hefur Augustinus Lærifadir vel talad i einum Stad: Ef ad annars Fie (Af hveriu Syndinn kiemur) kañ aptur ad gialldast, enn verdur þo ecki golldid, Þa er þad ecki sonn Ydran, helldur Læti hennar; Syndinn verdur ecki fyrirgiefiñ, ef ei er aptur fært þad burt var tekid.

Onnur er þeirra Afbotun er segia, ad ei meigi þeir aptur læata, þad þeir med Raungu tekid hafa, Søkum Ovirdingar þeirrar, er af þvi fylgir, og ad Fiaar-Hlutir sieu minna verdir, enn gott Mann-Ord: Enn þesse er og svo nærsta Ogylld. Fyrst er þad, ad slijkt verdur alldrei af nockrum Ærlegum nie Gudhræddum Manni misvyrdt, Enn Doom hiña Oraadvondu maa sa ad litlu hafa, sem ætlar sier Guds Barn ad verda; Hann maa segia med Paali: Þad er mier fyrir minnstu, ad eg af ydur dæmdur verdi, edur af Mannlegum Deigi, DRottinn er sa sem dæmir mig, 1. Cor. 4. Þar ad auki, eru svo margir

Weigir til ad bæta þeim er Rangindinn lidid hafa, svo ei verdi þad Heyrum kunnugt: Og hvernig sem þessu er varid, þaa er betra ad missa Virdingu sijna hier i Tijmanum, helldur enn Eilijflega. Þegar Drottinn rak wt Seliendur og Kaupendur wr Musterinu i Fyrra Sinni, Joh. 2. Þa giørdi hann Svipur af Streingium, er hann brwkadi til þessa Vandlætis: Hann vantar enn nu ecki Svipur til ad reka wt þaa, er med svoddan Hætti kaupa og selia i hanns Kyrkiu aa medal vor: Þar er Svipa Løgmaalsins, er seger: Þu skallt ecki stela; A henni er eirn Hnwtur ridinn med þessum Hætti: Bølvadur sie saa ed ecki helldur allt þad i Løgmaalinu ritad stendur, Devt. 27. Þar er ein Svipa jafnvel i Evangelio, er slær med þessu Høggi: Giørid Ydran, þvi Guds Rijki er nalægt, hvert þad Trie sem ecki ber goodann Avoxt, skal upphøggvast og i Elld kastast, Matth. 3. Þar er hin skarpa Svipa hanns Hegningar, sem er tilbwinn þeim ed eria aa Hrygg hinns Vesæla og Naudstadda, og eta Ranglætisins Braud i hanns Sveita. Eg segie enn þa aftur, DRottinn rak wt wr Musterinu þa er selldu og keyptu: Þad var Stundlegt Vandlæti, margur af þeim sømu mun sijdann hafa aa hann trwad sier til Myskunar; Enn ad vera wtrekinn wr þeirri Himnesku Jerusalem, þad er eitt Straff øllu þijngra, þad er eilijf Smaan, og Obætannlegur Skadi; Fraa hverium oss og alla Christna Menn vardveiti hinn goodi Gud fyrir Sonarins Forþienustu, og giefi oss svo ad rækia þetta Jardneska, ad vier ecki afrækium þad Himneska, helldur stundum eftir hinu gooda Hlutskiftinu, sem einginn maa af oss taka; þess giefi oss nióotandi ad verda hinn Myskunsami Gud, fyrir JEsum Christum, Amen.

# Ellefta Sunnudag eptir Trinitatis.

Gudspiallid, Luc. 18. Cap.

Á Þeim Døgum. JEsus sagdi til nockra þeirra sem treystu uppaa siaalfa sig, lijka sem mundu þeir Riettlaatir vera og forsmaadu adra, þessa Eftirlijking: Tveir Meñ geingu upp i Musterid ad bidiast fyrir, eirn var Phariseus, eñ Añar Tollheimtu Madur. Phariseariñ stood og badst nu þañiñ fyrir med siaalfum sier: Gud, eg þacka þier, þad eg em eigi so sem adrir Meñ, Ræningiar, Oriettvijsir, Hoordooms=Meñ, eda so sem þessi Tollheimtu=Madur. Eg fasta Tvisvar i Viku, og eg gief Tijundir af øllu þvi eg aa. Og Tollheimtu=Madurinñ stood laangt i burtu fraa, Og villdi ecki upplypta sijnum Augum til Himins, helldur bardi hañ sier aa Brioost, og sagdi: Gud vertu mier Syndugum Lijknsamur. Sannlega, segi eg ydur: Þessi foor Riettlaatur framar hinum i sitt Hws. Þviad hvør saa sem sig siaalfañ Upphefur, hañ skal Nidurlægiast; Og hvør sem sig siaalfañ Nidurlægir, hañ mun Upphafiñ verda.

Exordium

## Exordium.

EInginn Hlutur er svo Vidurstyggilegur i Guds Augliti, svo sem Dramblaatt Hiarta, og einginn svo þægur honum, svo sem Audmiwkur Andi. Dramblaatum hratt hann af Stooli, enn upphoof Lijtilaata, segir Guds Moodir i Lofkvædini, Luc. 1. Gudi alleina tilheyrir Tigninn, hann hefur sinn Stool aa Himnum settann, enn Jordinn er hanns Foot-Skor, þar situr hann uppi, og sier aa þad Laga, Jehova er hanns Heiti, og sijna Dijrd vill hann eingum giefa, Esa. 42. Allt hvad Vyrdugleget er, hvad Gott er, hvad Agiætt er, hvad Prijdilegt er, hvad Heilagt er, þad kiemur allt fraa honum: Enn vilie nockur tileinka sialfum sier nockud af þessu, svo sem sialfum sier, þad er, sem villdi hann ræna Gud sijnu, þad er riett ad stela Helgum Doomum, og þad er Afguda-Dijrkan; Þvi valla veit eg hvert þad er meiri Synd i Guds Augliti, ad falla fram fyrir Trie-Stobbanum, helldur enn ad giora sialfann sig ad Gudi, og segia med Pharao: Hvør er Jehova, þad eg skuli Ottast hann? Exod. 5. Edur med hinum blindu Judum: Gudi skeitum vier ecki, og hvad villdi oss Konungurinn giora? Menn hallda sumir, ad þad hafi verid Svijvirding Foreydslunnar, sem DRottinn talar um, Matth. 24. Ad Bijlæti hinns Romverska Keysara hafi sett verid inn i Jerusalems Musteri; Enn þad er Svijvirding Foreydslunnar riett kollud, þegar Madurinn setur sitt eigid Bijlæti inn i Guds Kyrkiu, sem ætti ad vera hanns Hiarta, eins og Pharisæus þessi: Svoddann Manni er Glotuninn bwin, nema hann audmyki sig braadlega undir Vollduga Guds Hond, þvi Gud mootstendur Dramblaatum, og þarf sa ecki ad vænta sier annars verra, sem hefur Konung Himnanna fyrir Ovin. DRottinn taladi Eftirlijkingu þessa, segir Lucas, Til Nockurra Þeirra, Er Treystu aa Sialfa Sig, Enn Forsmaadu Adra: Svo sem eckert er Vidurstyggilegra i Guds Augliti, enn Hofmoodurinn, svo er honum valla nockurt þægra, enn Audmiwkur Andi; þad sijna oss Dæmi Ephraims, Dæmi Manassis, og ecki sijdst Davids Konungs, allvijda i hanns Psalma Book. Eg jaatadi DRottni Synd mijna, og þa fyrirgafstu mier þad, segir hann, Ps. 32. Og enn aftur: DRottinn vardveitir Lijtilmagnana, eg audmykti mig, og þa vard eg frelsadur: Og þad sijnir oss Dæmi Tollheimtu-Mannsins, hvern Lausnarinn sijnist fram setia hier i Eftirlijkingunni, ollum Sorgbitnum Afbrota-Mønnum til Huggunar. Vilium vier þvi Tvennt af Gudspiallinu Hugleida. 1. Eirn Skynhelgann Hræsnara. 2. Eirn Ydrandi Syndara.

Styrk oss hier til, DRottinn minn, i JEsu Nafni, AMEN.

## Utleggingin.

INNgangur til þessa Maals hiaa Gudspialla-Manninum, er þannveg. Ed hann Taladi Til Nockurra, Er Treystu Uppaa Sialfa Sig, Ad Þeir Væru Riettlaatir, Enn Forsmaadu Adra, Þessa Eftirlijking. An alls Efa eru hier med Pharisæi meintir, þar fyrir setur DRottinn eirn Pharisæum i Eftirlijkingunni, svo sem Dæmi

eins Siaalfbyrgings, er ei þyrfti mikid af Gudi ad þyggia; Þess vegna eru þeir i Grein þessari med sijnum eiginn Lit afmaaladir: Þeir villdu vera fraaskilldir ødrum Mønnum; Þad sijnir þeirra Nafn, Phariseus, þad merkir Adgreindann edur Fraaskilinn. J miørgu var þetta foolgid, sem ecki er Naudsynlegt hier upp ad telia, enn þo var þad hellsta, ad þeir þoottust ødrum Heilagri; Þad dylur ecki þesse þeirra Broodir, er hann segier: Eg Þacka Þier GUD, Ad Eg Em Ecki Eins Og Adrir MEnn! Þvi kølludu þeir Almwgann Jardarinnar Foolk, enn siaalfir þoottust þeir Himneskir vera, og Borgar-Menn Heilagra, svo sem Paulus nefnir Christna Menn. Edur hvad var þad þeir søgdu i Raadinu Fordum, þegar Nicodemus villdi hafa mællt Frelsaranum Lids-Yrdi? Joh. 7. Trwir nockur af Høfdingiunum aa hann, Edur af Phariseis? Enn þetta Foolk, sem ecki veit Løgmaalid, þad er bølvad. Þeir villdu ecki, Samneiti eiga med Tollheimtu Mønnum og Syndurum, Þvi lostudu þeir Frelsarann, ad hann giordi svo, Matth. 9. Jaa, Þeir meintu ad þeir saurgudust, er snertu þaa. Svo sagdi Hræsnarinn Simon Fordum, þegar hin Bersynduga sat Graatandi vid Fætur DRottins, Luc. 7. Ef þessi væri Spaa-Madur, þa mundi hann vita hver og hvijlijk ad þessi væri, er hann snertir, þvi hun er syndug. Um þvilijka Drambsemi, Þvilijka Skynhelgi, talar Esajas undir svoddann Manna Persoonu, Cap. 65. Kom ecki nærri mier, og snert mig ecki, Þvi eg em þier Heilagri. O minn JEsu! Er ecki þetta ad giøra sig Gudilijkann, Nærri hverium eckert Saurugt maa koma? Ecki breittir þu svo, DRottinn minn, þegar þu aatst og drackst med Tollheimtu-Mønnum og Syndugum i Hwsi Matthæi, Matth. 9. Þegar þu giørdir hann jafnvel ad þijnum Lærisveini, þegar þu mælltist ad Fyrrabragdi til Dag-Verdar af Zachæo, þegar allir Tollheimtu-Menn og Bersyndugir flycktust ad þier, til ad heira þig, og þu maattir lijda Brixl Phariseanna þar fyrir, Luc. 15. Þu varst Guds Mynd, sem er einn fortærandi Eildur, Devt. 4. Þo hiellstu þad ei fyrir Raan, ad þu Gudi jafn varst, helldur Lijtillæckadir siaalfann þig, tookst aa þig Þræls Mynd, vordinn Mønnum lijkur, Philipp. 2.

Tveir MEnn geingu Upp i MUsterid Ad Bidiast Fyrir, Einn var Phariseus, Enn Annar Tollheimtu-Madur. Vier vilium fyrst Hugleida Phariseans Bæn (Af þvi hann þoottist vera Madurinn meiri), og hvad hann taldi sier til gylldis fyrir Gudi. Hann Stood Ut Af Fyrir Sig: Þess var og øll Von, ad hann mundi vilia ødrum fraasneiddur vera i þessu, sem øllu ødru. Hvernig badst hann þa fyrir? Eg Þacka Þier GUD, Ad Eg Em Ecki Eins Og Adrir MEnn. Hvilijkur var hann þa? Ad vijsu betri mørgum ødrum i wtvortis Lijfernis Haattum; Enn hid Jnnra mørgum verri i Guds Augliti: Þad sannaeg med Ordum Frelsarans, er hann sagdi, Matth. 21. Tollheimtu-Menn og Skiækiur munu fyrr inngaanga i Guds Rijki enn þier, þvi Johannes kom til ydar med Veg Riettlætisins, og þier trwdud honum ecki, enn Tollheimtu-Menn og Skiækiur trwdu honum. Þetta er Dagsanna, þvi Tollheimtu Mønnum sagdi Johannes, Luc. 3. Er þeir komu til hanns Skijrnar: Takid eckert framar enn þad sem bodid er; Enn vid Phariseos sagdi hann: Þier Nødru-Kyn, Hver hefur sijnt ydur ad umflija tilkomandi Reidi?

di? Fyrir þvi, Giorid verduga Avortu Ydraninni, Matth. 3. Eñ þad giordu fæstir af þeim. Svo var Hug-Þoottinn rijkur i Giedi þeirra! Hvad er nu framar? Hann segist ecki vera Eins Og Ræningiar: Ecki talar Frelsarinn um̃ einn, helldur enn añañ i þessu Maali, helldur er einn settur til Dæmis fyrir marga, svo sem i hverri annare Epirlijkingu; Munu þvi allir hafa aatt Oskilid Maal af þessum Flocke. Enn hvad er þad þa, sem Frelsarinn segier, Matth. 23. Ad þeir wtsiwgi Hws Eckna og Fodurlausra, undir Hylmingu laangra Bæna? Er þad ecki hid versta Raan? Hvad er þad hann aptur segier: Ad hid Iñra hiaa þeim sie allt fullt af Raani og Ohoofe? Verda maa ad sumir af þeim hafe ei verid svo miog sekir i þessu, enn faair af þeim munu hafa skyrrst vid ad segia Naudstoddum Forelldrum: Þad er Corban, Edur Gaafa, sem eg kynni ad hiaalpa þier med, Marc. 7. Eins og ad honum, Sem eingum vill segia til, ef hann hiwngrar, hafi þægari verid Gaafa þeirra, helldur enn Hlijdni hanns Bodords, ad heidra Fodur og Moodur. Hann segiest ecki vera eins og Oriettvijsir; Þad kann ad vera: Enn hversu Riettvijsir voru þeir, þa er þeir fordæmdu Guds Son allir, Aflijfudu Hertoga Dijrdarinnar, Þegar þeir grijttu Stephanum i Hel, Act. 7. Og villdu Paal hafa af Dogum raadid? Ecki segiest hann vera eins og Hoordooms-Menn. Verda maa ad hann hafi i Verknadinum Saklaus verid; Enn mun hann alldrei hafa litid eina Konu til ad gyrnast hana? Matth. 5. Edur hvad var þad, ad þeir skom̃udust sijn, og geingu i burtu, Þegar DRottinn afleysti Hoor-konuna i Musterinu, og sagdi vid þaa: Hver ydar sem er aan Syndar, Hann kasti fyrstur Steini aa hana, Joh. 8. Þesse Oslaatungur sagdist ecki vera svo sem Tollheimtu Madur þessi: Þad er satt, þvi miklu var hann verri ad Doomi sialfs Guds Sonar, sem sijdar mun sagt verda: Tollheimtu-Menn voru halldnir hid versta Foolk medal Gydinga, og ecki munu þeir Raadvandir verid hafa, þvi DRottinn tekur þaa samann vid Heidingia; Enn alldrei var þeim um̃ þad kiennt, ad þeir færu i krijng Land og Sioo, og giordu einn ad Gydingi, enn sijdann ad Helvijtis Barni, Ei helldur ad þeir bonnudu Monnunum inn i Himna-Rijki, Matth. 23. Nu þoott ad allt þad hefdi satt verid, sem Phariseus þessi taldi til Gylldis sier, þa var þo einn Losturiñ, sem spillti ollum Kostunum, þad var Drambseminn og Sialfhælninn i Guds Augliti; Svo hafdi hun blindad þenna vijsa Mann, ad hun hafdi giort hann ad Ovita, og lijkann Smaa-Bornunum, Hver ed plaga ad rijfa þad i sundur, er þeim vænt um̃ þykir. Þvi vilium vier nu skoda i hvoriu honum aafaatt verid hafi. Hañ þoottist vera Logspakur, Treystandi þvi ad hann væri Leidtogi Blindra, Og Lioos þeim sem i Myrkrunum eru, Typtunar-Madur Faafroodra, Læri-Meistari Heimskra, Hafandi Form Skynseminnar og Sañleikans i Logmaalinu, og kiendi svo odrum, enn sialfum sier kiendi hann ecki, þvi hann vantadi þad sem mest aa reid i Undirbwningi Riettlætingarinnar, sem var, ad þeckia Gud og sialfañ sig. Ecki þeckti hann Gud, þvi audsært er, ad hann ætlad hefur, ad hann mundi aanægdur vera med hina wtvortis Helgi, Fostur og Tijunda giordir: Eñ þad þeckti hann ecki ad Gud rañsakar Hiartad, Ps. 7. Ecki helldur þad, hann hefur allt undir Ohlijdninni

inniluckt (þad er undir Þeckingu Syndarinnar) svo ad hann Myskunadi øllum, Rom. 11. Og ad hann finnur jafnvel Brest hiaa Einglum sijnum, Job. 4. Siaalfann sig þeckte hann ecki, þvi jafnvel þoott hann væri froodur i Ritningunni, þa hafdi hañ gleymt þessum Ordskvid Salomonis, er ritadur stendur i 21. Capitula: Manninum þykia sijnir Veigir riettir, enn DRottinn vegur Hiartad; Edur þess ed David segir: Ad fyrir Gudi sie einginn Manna Riettlaatur, allir sieu þeir af-fallnir, þar sie einginn saa sem Gott giori, og ecki einn, Rom. 3. Mun þessi Hræsnari hafa þockst vera undannskilinn þessum Davids Doomi? Hann var fraaskilinn ødrum Mønnum til ad æfa sig i Løgmaalsins Skilningi, og þess Utskijringu; Eñ mióg svo vard honum aa i þvi, ad hann hlioop yfir þessar Greinir, og adrar miklu fleiri i Gamla Testamentisins Bookum, er Sakfella allann Heiminn fyrir Gudi, Rom. 3. Og þar ad auki forsmaadi hann, Jaa, hann fordæmdi sinn Naaunga. Edur Svo Sem Þessi Tollheimtu Madur, segir Hræsnarinn: HErra Gud! Hvad mundi hinn Gamli Paall hafa sagt, hefdi hann þetta heyrt, nundi hann ecki hafa brotist wt med þessum Ordum, Rom. 2. Meinar þu, O Madur! Er dæmir þaa er þvilijkt giora og giorir þad þo, ad þu munir Guds Doom umflija; J þvi þu annann dæmir, þaa fordæmir þu siaalfann þig; Hver ert þu sem añarlegann Þioon dæmir? Hann stendur og fellur sijnum Herra. Eg Fasta Tvisvar J Viku, segir Pharisæus þessi. Ecki hafdi Gud bodid þad ad soñu: Einn Føstudag hafdi Gud bodid aa Ari i Løgmaalinu, þad var hinn Tijundi Dagur hinns Siounda Maanadar; Þo kunna Menn ecki ad neita þvi ad þetta var vel giort, hefdi þad framkomid af Trwñi, þvi Fastann er Gudi kiær, og maa mikid hiaa honum; Þvi sagdi Frelsarinn: Þetta Diofla-Kyn verdur ecki wtrekid, nema med Føstu og Bænahalldi; og hiaa Zachariam, Cap. 8. Er gietid um Føstu aa hinum Fioorda, aa hinum Fimta, Siounda og Tijunda Maanudi, sem Drottinn spaair ad skuli umbreitast i Gladværdar Haatijdir, enn þo bijdur hann þar jafnframt, ad þeir skuli Sannleikann og Fridinn elska; Þvi segir hañ hiaa Esaiam, Cap. 58. Hver ad sie su Fastañ sem hañ wtvelur, sem er, ad Menn wthluti hinum Hwngradа Braudi sijnu, og leidi hina Faatæku, sem wtreknir eru, i Hws sitt, ad Menn klædi hinn Nakta, þaa Menn siaa hann og byrgi sig ecki fyrir Holldi sijnu: Enn hvert ad Pharisæi edur þeirra Lijkar hafa giætt þessa, þad sijnir Vitnisburdur Christi, er hann segir, ad þeir wtsiwgi Hws Eckna og Fødurlausra, Matth. 23. Hann segir: Eg Gielld Tijundir Af Ølu Þvi Eg A. Ei hafdi DRottinn helldur þetta bodid j Løgmaalinu; Hann baud ad giallda Tijundir af Korni; Vijni og Vidsmiori, Af Nautum, Saudum og Eplum, Devt. 12. Eñ ecki af ødru þvi ed Ox i Alldingordum; Þetta var þo i siaalfu sier vel giort, ad þeir Tijundudu allt hvad þeir aattu, hefdu þeir ecki viliad reikna til Skulldar hiaa Gudi þar fyrir; Eñ þegar fara aa betur eñ vel, þa fer oft verr eñ illa, segir Maaltækid, þvi segir Frelsariñ, Matth. 23. Vei ydur Skriftlærdum og Pharisæis, þier Hræsnarar, sem Tijundid Myntu, Anis og Cumen, enn undañfellid þad sem þijngra er i Løgmaalinu, Trwna Doominn, og Myskunsemina, þetta byriar ad giøra, enn hitt

ecki

[illegible]epter ad ſkila; Vakte þeir ſig, hverra Gudhrædſla ad er alleina þar i foolgenn, ad gaanga i Kyrkiu, ad tala margt um̃ Gud, og hanns Ord, og Chriſtelegar Dygder, enn under Skyne þeſſu fremia þeir aa mooteSamvitſkunne og Ydrunarlauſt marga þa Hlu-te, ſem Gud bannad hefur. Enn lærum nu af þeſſum Sialfbyrging, Chriſtner Menn, ad þegar vier giorum vort Ydrunar Verk, þa berum oſs ecke ſamann vid adra, ſem oſs verre þykia, epter vorum Doome, þvi hver einn mun ſijna Byrde bera, ſegier Poſtulenn: Mun nockud annars Glæper þvo mijna af, edur Ranglæte hanns riettlæta mig, þoott eg være ecke ſvo morgum Lijtum hladenn? Fiærre ſie þvi, og allra ſijdſt ef eg forſmaade hann hiaa mier; Þvi Maattugur er Gud ad reiſa hann: þad er eins og ad ſkoda ſig i Ohrei-num Speigle, ad v[illegible]a ſiaa Mynd ſinna Athafna i añarra Giordum; Guds Ord og hañs Logmaal eru ſu Skuggſia, er vier eigum ad ſkoda oſs i, þad er Lioos aa vorum Vegum, og Lampe Foota vorra. Þeſs er og ad giæta, Born mijn, ad ef þeſſe Madur var for-dæmdur vegna þeſs, ad hann hrooſade ſier af Goodverkum ſijnum, hvad mun þa um̃ hi-na verda, ſem hrooſa ſier af Klækiunum, og þyker vænt um̃ þa? Ef hinn Riettlaate verd-ur naumaſt Saaluhoolpenn, hvar mun þa hiñ Ogudlege og Syndareñ byrtaſt, ſegier Pe-tur, 1. Piſt. 4. Þar eru ecke marger, ſem gieta ſtært ſig af miklum Foſtum og Bind-inde, hiner eru fleire, ſem gledia ſig i Ofaate og Ofdryckiu ſinne, edur ad miñſta Koſte þyk-er þad lijtel Synd vera, Jafnvel þoott Paulus ſegie, ad þeir ed ſlijkt adhafaſt erfe ecke Guds Rijke, 1. Cor. 6. Ecke ætla eg Menn þurfe ad hrooſa ſier miog af Tijundargiord-um i Lande voru, laangtum helldur er þad forullt ſumum Monnum, ad ſvijkia Gud og hanns Volada, og Konungenn, ſvo vel ſem Guds og hanns Þienara, med raangre Tij-und; Og þykeſt ſaa goodu bættur, ſem hvad meſtu gietur undannſkoted, jafnvel þoott valla ſie meire Betvan vid nockra Synd logd i Guds Logmaale, enn vid þeſſa; Eg vil ei faa mier til Orda, hvad margur Daare od hrooſar ſier af þvi, ad hañ hafe Feflett añañ, edur unned Sigur aa honum med raungum Doome, Laga-Flækium, og folſkum Riett-argaange, þviijker Snaapar eru fleire enn telia meige, um̃ hveria David ſijneſt talad ha-fa, er hann ſegir: Pſ. 52. Hvad ſtærer þu þig af Illſku þiñe, ſem mektugur ert i Raang-lætenu. Ei vil eg helldur margt tala um̃ þa Gaarunga, er ſtæra ſig af Lauslæte ſijnu, þad er, hrooſa Synd ſinne eins og Sodoma, Eſa. 3. Og jafnvel liuga aa ſig Skom̃-unum til ad vanvirda adra. Hafe Phariſæinn giort oll ſijn Good-Verk Ogylld med Hrooſenu, þa vite þeſſer Gudlauſu Menn, ad þeirra Fordæming er vijs, nema þeir ydreſt af Hiarta, og ad Ydranenn verde þeim ſvo beiſk, ſem aadur var þeim Syndenn ſkiemte-leg. Þykeſt nu nockur vera ſekur i þeſſu, og vill þad Ofgiort hafa, hann lære ſannann Veg Ydranarennar af Tollheimtumannenum, og gaange hann, ef hañ vill hoolpeñ ver-da: Og vil eg ſvo nockud þar um̃ tala i hinne ſijdare Greinenne.

Þeſſe Tollheimtu-Madur gieck i Muſtered, ſvo ſem Textenn vottar, ecke fyrer Sida-Saker, ecke til ad laata ſkoda ſig edur ſkoda adra, nie ad ſijna þar Fordilld ſijna i Klæda-burde, ſvo ſem kanñſkie nockrer giora medal vor; Ecki er þad alltijd Gude edur Helgenne

til Virdingar giört, ad Menn bwa sig hvad mest i Skart aa þeim Døgum, edur til ad minna oss aa þad, ad vier eigum ad klædast einum nijum Manni. Hvert var hañs Eyrendi þa? Til Ad Bidiast Fyrir, segir Textinn: Ecki eins og Phariseinn, til ad hroosa sier i Bæninni; Þad sijna oss Ord hanns og Atvik, sem hier uppteiknud standa. Hañ hefur adgiætt Løgmaals-Toblurnar, sem hiengu i Musterinu, og yfirvegad þær ødruvijsi enn Skriftlærdir og Pharisæi, sem hiengu i Bookstafnum, og løgdu hann wt eftir eiginn Þootta sijnum; Þar fyrir Onijttu þeir Løgmaalid fyrir Setninga sijna, svo sem DRottinn segir. Spaamennirnir voru lesnir hvern Sabbatsdag i Musterinu, svo sem Paulus vottar, er hann flutti Guds Eyrendi til þeirra i Antiochia, Act. 13. Þar hefur hann maatt heyra Utskijringu Løgmaalsins ad miklu Leiti; Og er hann þar af berlega sied hefur, ad Gud fordæmir Okur, Raangindi, Undirferli, Raangsleitni, Gripdeilldir, Hardydgi og Myskunarleysi, og hann vissi sig i øllu þessu sekann; þa hefur hønum ofbodid Stærd Syndanna, og Guds Heyptar-Reidi, Jaa, hønum hefur Ognad hvad mørg volud Saal ad mundi hroopa i Himininn yfir sier, og Ottast ad þeirra Hroop mundi inngeingid vera i Eyru DRottinns Zebaoth, þessi þwnga Byrdi hefur aa hanns Hiarta leigid, sem er Bruñur allrar Illsku og Ogudlegs Athæfis, Matth. 15. Þvi ber hann sier aa Brioost, svo sem villdi hann þad straffad hafa, sem mest hafdi tilunnid, og mest klagadi sijna eiginn Vondsku, med Slogum og Biti Samvitskunnar. Illa var varid þessum Vesælingi i sialfum sier: Enn Gud giæfi, ad vier, sem betri þykiunst, ad vier, segie eg, geingium med sama Hiartalagi i Guds Hws, og sætum undir hanns Orda Heyrn eins og hann! Þa mundum vier ecki svo kalldir vera i voru Ydrunar-Verki, svo sem berlega maa siaa ad margur er. Hann Stood Laangt Fraa, segir Textinn: An Efa þess vegna, ad hann hefur reiknad sig verri enn adra Menn, og Overdugañ ad koma nærri þessum heilaga Phariseo, hann hefur skolfid af Kvijda vid Guds Reidi, er hann hugleiddi sinn Overdugleik, og hanns Løgmaals straungu Hootanir; Ecki sijdur enn Israel þegar ad dunadi i Horeb, nær hid sama Løgmaal var wtgiefid, Exod. 19. Hvad giora þeir þa, sem jafnvel i Guds Hwsi kieppast eftir hinum fremstu Sætum, og wtvelia sier þau? Enn þoott ei rijdi svo miøg aa þessu wtvortis Haattalagi, þa giætum þess, ad i Kyrkiunni byrtunst allir vier fyrir Guds Augliti; Þar er saa mestur Madurinn, sem minnstur er i sijnum Paanka, saa er best bwinn, sem sundurrijfur Hiarta sitt med Tollheimtu-Manninum; Einginn er svo heilagur, ad ecki skilie hanns Syndir milli Guds og hanns, ef hañ vill þær tilreikna. Og hversu eigum vier þa ad audmykia oss undir Vollduga Guds Hond, nær vier inngaungum i hanns Helgidoom, til ad Fridmælast vid hans Guddoomlegu Haatign, fyrir hverri øll Verølldinn leikur aa Reidiskiaalfi! Enn vier erum Dupt og Aska, og, hvad meira er, allir svo sem hinn Ohreini, og jafnvel Riettlæti vort svo sem Nidlags-Fat; Svo ad allt Høfudid er siwkt, allt Hiartad veikt, fraa Hvirfli, og allt til Ilia, er þar ecki nema Saar, Kaun, Beniar og Proti: Og þessa vora Siwkdooma hefur Guds Sonur borid; Þessum Orkumslum hefur hann aa sig hladid, svo ad vi-

er

er fyrir hanns Benlar Heilbrygdir yrdum, Esa. 53. Eñ vier hofum lætid oss þad lijtid til Hiarta ganga; Ecki hafa þeir Naglarnir, er i giegnum groofu hanns Hendur og Fætur, ecki hafa þeir enn nu til fulls Krossfest hinn gamla Adam i oss, og ecki su Lensann, er opnadi hanns Sijdu, vid Hiarta vort svo miog snortid, ad vier hofum lætid Portinn vijdopinn fyrir Konungi Dijrdarinnar, þegar sa Drottnarinn hefur vitiad sijns Mysteris, miklu helldur hefur oftlega vid þvi leigid, ad vier mundum Hertoga Dijrdarinnar ad nyju Krossfesta. Æ minn Gud! Æ minn Frelsari! Hver af oss er þa svo Heilagur, svo fullnoogur sialfum sier, ad ei skylldi hann bera sier a Briooft med Tollheimtu-Manni þessum, og segia: GUD VERTU MIER SYNDUGUM LIKNSAMUR; Og med hinum tapada Syni: Fadir, eg hefe syndgast i Himininn og fyrir þier? Nu þoott ad Vesælingur þessi væri svo lijtt staddur, þa orvæntir hann ecki: Ei grijpur hann til Knijfsins, eins og Saal til Sverdsins; Ecki til Snorunnar med Juda, og ecki ofbiooda honum svo miog Syndirnar, ad hann orvænti sier Guds Myskunar: Ad vijsu skamadist hann sijn ad lijta Augum sijnum til Himins, þvi hann hafdi styggt hann svo mootþrooannlega, sem i Himninum bijr, enn þo rædur hann þad af, ad leita Lyknar hia honum, af hvors Giædsku ad oll Jordiñ full er, og meinar sig vesælañ Orm ecki fraaskilinn vera, eins og Phariseiñ, odrum Moñum. Gior hid sama, Barn mitt! nær þier, med David, ofbiooda Syndir þijnar, svo þu hefur ecki Frid i Beinum þijnum fyrir þeim, þa vit þo þad og treyst þvi, ad Syndinn kann alldrei ad vera so stoor i Illskunni, ad Gud sie ei meiri i Giædskunni; Þad vottar Johannes, er hann segir, 1. Pist. 3. Ef vort Hiarta fordæmir oss, þa er þo Gud meiri Hiarta voru: Og Paulus hefur oss eftirlætid eina dijrmæta Huggun, dijrmætari enn Verolldinn er, þar hann segir, Rom. 5. Hvar sem ad Syndinn yfirgnæfir, þar yfirgnæfir þo Naadinn miklu framar. Christur er Forlijkun fyrir allar Veralldarinnar Syndir, þvi mun hann ecki og svo vera fyrir þijnar, nema þu siert fyrir utann Verolldina? J honum hefur Fadirinn alleina Velþocknan. Ef Paulus þordi ad segia vid Philemonem um Onesimum: Hafi hann þier nockurn Skada giort, edur sie þier skylldugur, þa reikna mier þad til; Eg Paall hefi skrifad þad med minni Hendi, eg skal betala. Hvad miklu meiri Riett hefur Guds Sonur til ad tala þannig oss til Fridar vid sinn Himneska Fodur, ja, vid sialfann sig, ad honum skuli tilreiknast sa Skadinn, sem vier hofum giort, su Skulldinn, er vier lofa attum. Þu, miñ Herra, þu hefur neglt þa Handskriftena a Krossinn, sem mooti oss var, Col. 2. Hver vill þa aklaga Guds Utvallda? Þu ert sa sem daiñ er, Rom. 8. Þu hefur eina Kvittan giefid i Umbodi allrar Guddoomsins Þrenningar, er svo hlioodar: Hver sem trwir a Soninn, hann kiemur ecki til Doomsins, Joh. 3. Ja, sendt oss eitt Aflaat med Þienara þijnum Paulo, skrifad med Guds Fijngri, sem er Heilagur Andi, ad einginn Fordæming sie hia þeim, sem eru i Christo JEsu, Rom. 8. Þu hefur betalad þad þu rændir ecki, Ps. 69. Þvi skylldi þa einn Raans-Madur kvijda fyrir þeim Betaling, sem þu hefur lokid? Þvi mun eg þaa mistreysta Gudi? Er hann ecki Trw-

faſtur? Kunna hanns Ord ad forgaanga, þoott Himen og Jord forgaange? Honum ſie Dijrd og Heidur um̃ Allder, Amen.

Nu hafed þier heyrt af Tollheimtu-Mañenum hiñ rietta Veg Apturhvarfſins fraa Vondſkuñe, hver ſem hañ geingur, ſaa mun med honum Riettlaatur verda. Eg Segie Ydur, Ad Þeſſe Foor Riettlaatur Framar Hinum J Sitt Hws; Segier Frelſarenn i Textanum: Hver Ord ecki þañeg ſkiliaſt eiga, ſvo ſem ad Phariſæiñ hafe ad ſoñu Riettlaatur heim aptur fared, eñ Tollheimtu-Maduriñ þo Riettlaatari, helldur var ſaa Munur Riettlætiſins, ad Phariſæus þeſſe var Riettlaatur i ſijnum Þaanka, og fyrer Moñunum (um̃ hvert Riettlæte DRotteñ ſegier, Matth. 5. Nema ydar Riettlæte yfergnæfi meir eñ hiña Skriftlærdu og Phariſæaña, þa kuñid þier ecki iñ ad gaanga i Guds Rijke); Eñ Tollheimtu-Madurenn, ſem jaatade Synder ſijnar, og afneitade ſijnum Verdugleik, eñ beidde um̃ Myſkun, hann vard Riettlaatur fyrer Gude, med þvi Riettlæte, ſem Paulus ſegier, ad ſie af Trwnne; Og þvi var hañ framar Riettlaatur, ad hañ hafde þad Riettlæte, ſem fyrer Gude gylldte, eñ hiñ fyrer Moñunum. Heim aptur i ſitt Hws; Stendur i Textanum: Nockrer meina ad hañ hafe yfergiefed Tollheimtuna, þar hann foor ecke til Tollbwdarennar, helldur heim i ſitt Hws: Eñ ecki er þad vijſt, ad hañ hafe laated Syſlan ſijna, þeſs var og ecke Þorf, þvi hun var Riettvijs i ſiaalfre ſier; Ef þad er Riettvijſt fyrer Yfervallded ad taka Skatta og Tolla, ſvo ſem þad i allann Maata riett er, þvi Paulus ſegier, Rom. 13. Gialldid ollum hvad þier ſkyllldugir erud, þeim Toll er Tollur heyrer; þa er þad ecke Oriettvijſt fyrer Þienara þeirra ad ſafna Tekiunum: Ecke bannade helldur Johannes þeſſum Monnum Tollheimtuna, alleina, ad ei ſkylldu þeir taka meir enn boded være, Luc. 3. Giæte þeir þeſs, er ſlijkt Starf aa hende hafa, þvi hvad ſem þar er fram̃ yfer, þad er af hinum Vonda. Enn hvernig ſem þeſſu er vared, þa er þad vijſt, ad Kvittun Syndanna Einuſiñe feingenn, hun er Onijt, nema Syndarenn laate af Jllu og lære Gott ad giora, og hier til heyrer þad, ad bæta þad Oriett var giort, ef bæta maa: Hvar um̃ eg hefe nockud talad i Tveimur næſt fyrerfarande Predikunum, enn minneſt enn nu a þad hier i þridia Sinn, af þvi, ad ſvo mikid rijdur aa þeſſum Hlut; Þvi ſie þad ecke giort, þa er Jdranenn alldeilis Onijt. Þad er ei noog, ad ſtijnga aa einu Meine, nema hinn vonde Veſſe, ſem i þvi er ſamanndreigenn, hann verde wtdreigenn; ſvo er þad ei helldur noog, ad Monnum ſvijde Einuſiñe af Brodde Logmaalſins, nema þvi Jlla ſie fraa ſier kaſtad: Drecke nockur Eitur iñ, þa er honum einſætt ad æla þvi upp aptur, eñ eingeñ Olijſian er ſo banvæn Kroppnum, ſvo ſem Raangfeingner Muner Saaluñe; Þvi er þad Omiſſande, ad ſkilia ſig af med þa, aadur eñ þeir ſaalga heñe i Daudanum, þegar Meñ ſkulu þo vid þa ſkilia og þeir vid oſs hvert ſem er, eñ eingeñ veit nær hañ ber ad Dyrum; og hvad hefur þu þa þeſs, Madur, er þu hefur med Ahyggiu og Oriette ſafnad? DRottenn minn, kienn þu oſs ad hugſa þad vier hlootum ad deya, laat oſs ecke deya med Mamona, helldur med vorn Frelſara i Hiartanu; gief oſs ad hafa Feſiood aa Himnenum ſafnad, framar enn i Heimenum, ſvo þegar hin forgeingelega Tialldbwd vors Lijkama i ſundur-glidnar, ad vier þa hofum ſvo

fyrer

fyrer oss giort i Tijmanum, ad þeir medtake oss i Eilijfar Tialldbwder; Bænheyr þad DRottenn minn og Gud minn, fyrer JEsu sāru Kvol og blessadar Under, AMEN.

# Toolfta Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Marc. 7. Cap.

Og þa JEsus gieck i burt aptur wr Landsaalfunn Tyri og Sidonis, kom hañ til Siaafarens i Galilæa, i midiar Bygder þeirra Tiju Stadaña. Og þeir leiddu til hañs þañ Mañ, sem Daufur og Maalhalltur var, og bædu ad hañ legde Hendur yfer hañ. Og hañ veik honum Affsijdis fraa Foolkenu, liet sijna Fijngur i hañs Eyru, hrækte wt, og aahrærde hañs Twngu, leit upp til Himens, andvarpade og sagde til hañs: Hephata, þad er, opna þig. Og iafnsnart upplukust hañs Eyru, þa uppleystest og eirneñ Fiotur hañs Twngu, so ad hañ talade riett. Og hañ skipade, ad þeir segdu þad eige neinum; Eñ þvi meir sem hañ fyrerbaud þeim þad, þess meir þa vijdfrægdu þeir þad wt, og þa siaalfa undrade þetta nærsta miøg, segiande: Allt giorde hañ vel, þviad Daufa lætur hañ heyra, og Maallausa tala.

## Exordium.

Margt aa vid morgu, segier i Fornkvednum Ords-Hætte: Þóott ad DRotteñ hafe straffad Syndena epter Falled med adskiliañlegum Siwkdoomum, til ad aga vort giaalijfa Holld, þa hefur þo hanns Giædska lagt þa Lijkn med Þraut þessare, ad Nattwrann er rijk af þeim Hlutum, sem bætt gieta Mein Manna, þegar þar med er Skynsamlega hondlad; Þvi segier Syrach, Cap. 38. Ad hinn hærste hafe framleidt Læknisdoomenn af Iordune: Og um Læknerenn segier hann i sama Capitula: Heidra þu Læknarann fyrer Naudþurftarennar Saker, þvi DRottenn er hanns Hofunduur, þvi aller Læknisdoomar koma af hinum Hærsta. Nu misfellur þo þetta aa Stundum, þvi jafnvel þott Læknerenn kunne margt og miked ad giora, og hanns Verk siegott, þa er þo ecke Heilsa nie Vanheilinde, Lijf edur Daude i hanns Hende, helldur Guds, sem er allra Meina Grædare, og sa DRottenn DRottenn, sem fraa Daudanum frelsar. Enn Guds Sonur aa sijnum Hollds-Vistar Dogum, hann auglijste þad ollum Heimi, ad hann sannur Gud være, med þvi ad hañ læknade allrahanda Mein og Kraankleika, ecke med Natturunnar Medolum, þvi hann var Natturunnar HErra, helldur med einu Orde aa Stundum. Kona, mikel er þijn Trwa, sagde hañ vid hina Cananaisku: Vert Hughraust mijn Dootter, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar;

vid hina Bloodfallssiwku: Far þu, Sonur þinn lifir; Vid Konungs-Manniñ: Verdi þier eftir Trw þinni; Vid Hundrads Høfdingiann: Eg Vil, Vertu Hreirn; Vid hinn Lijkþraa: Farid og sijnid ydur Kiennimonnunum; vid þaa Tiju. Og er þessi Dæmi nærsta morg ad lesa i Gudspialls-Sogunum. A Stundum brwkadi hañ nockurskonar Ceremoniur til ad lækna hina Siwku, svo sem hier i Gudspiallinu verdur fraa sagt, hveriar þo ecki munu Forgiefins uppteiknadar, þvi allt hvad skrifad er, þad er skrifad oss til Lærdooms, Rom. 15. Helldur til ad þijda þær uppaa vor Andleg Vanheilindi, og þeirra Lækningu: Enn nu vil eg i þetta Sinn Einungis Hugleida þenna auma Mañ, og svo vort Haattalag i Andlegum Efnum, sem ecki erum betur aa oss komnir ad þvi Leiti, helldur enn hann, margur hver. Send oss þijna Naad og Adstod til þessa Eyrendis, vor Gud, fyrir Lausnarans Forþienustu, AMEN.

## Utleggingiñ.

OG Þeir Leiddu Til Hanns Þann Mann Sem Daufur Og Maalhalltur. Var þessi Manneskia hefur þwnglega halldinn verid. Þegar David wtmaalar Mootgaang siñ, þa segist hann heyra sijna Mootstodu Menn, svo sem Daufur, og svo sem einn Maalleysingur ecki uppliwka Munni sijnum, Ps. 38. Eins og hefdi hañ valla nockurn lakari Kost vid ad jafna. Illa er hinum Daufa farid i morgum Hlutum: Einn Daufingi er nærri þvi eins i Verolldinni, og wtlægur Madur i framandi Landi, hvar hann einkis Maal skilur; hañ hefur eckert Gagn edur Skiemtun af þvi ed adrir tala, Varir þeirra sier hann bærast ad sonnu, enn þad maa vera stoor Hugraun ad siaa þad, eñ hafa þess þo einginn Not, sem Gud hefur giort til ad vidhallda Selskap Mañaña i Heiminum; Gaangi nockud ad honum, þa gietur einginn huggad hann, eñ þo tekur þad yfir, ad þeir ei gieta Guds Ord heyrt til Saaluhiaalpar sier, þvi fyrir Heyrn Guds Orda kiemur Trwinn, segir Postuliñ, enn aan heñar er Omogulegt Gudi ad þocknast, Hebr. 11. Og hversu er honum þaa illa varid fyrir Mañaña Sioonum, er hefur Brest aa þessu Skilningar Viti! Nu eru þeir þo med Tveñu Mooti er þenna Skort meiga lijda. Sumum fellur þad til, nær þeir komnir eru til Vits og Ara, þeir meiga þess Not hafa ad sonnu, er þeir numdu aa medann þeir hofdu Hlustir heilar, bædi i Daglegri Umgeingni, og, hvad mest aarijdur, i Verki Saaluhiaalpar siñar; og satt er þad, ad ei glepur fyrir þeim Bullduran Heimsins, þeir hafa valla ad skiemta sier nema vid Gud sinn, ef þeir eru Lundlagnir þar aa, og bera sinn Harm i Hlioodi; Og Reyndar, þa er betra Daufur ad vera, enn ad heyra margañ þañ Oþarfa, sem taladur er i Heiminum, sierdeilis skamarlig Ord og Fiblslegt Hial, sem Christnum soomir ecki. Adrir eru þeir, ed Daufir eru bornir, þvi þar aa eftirfylgir Maalleysid: Hvernig kann saa ad nema Manna Maal, sem ei gietur heyrt aa Tal þeirra? Og hafa Menn þess Dæmi nockur hiaa oss: Þad maa og marka, ad þessi aumi Madur, sem hier talar um i Gudspiallinu, hann hefur aan Efa heyrt einhvern Tijma; þvi jafnvel þott hann Maalhalltur være, þa hefur hann þo nockud talad: Þessara Kostur sijnist miklu þijngri ad vera, enn hinna i slioodu Aliti, þvi saa sem Daufur er, enn hefur

þo

þo Mælid, hann gietur sagt til þess er hann vardar um, og lofad Gud med Trwgunni, hafi hann nockud af Guds Ordi numid, enn hinn ecki; Þo er þad hier aftur ad segia, ad eingann langar til þess sem hañ þeckir ecki, svo kañ og ei helldur þeim ad leingiast svo miog eftir ad heyra aa Tal Manna, sem þad alldrei heyrt hefur. Enn hvad Saalarinnar Efnum vidvijkur, þa hygg eg ad einginn kunni ad fordæma þessa Guds Vesælinga, jaa, kañ vera ad þeir sieu miklu nær Guds Rijki enn hinir sem eingann Brest hafa aa Skilningar-Vitunum, enn brwka þau Fiandanum til Þioonustu, og Naunganum til Ogagns: Gud er Riettlaatur, og þo undir eins Myskunsamur, þad er ecki lijkt honum, Fodur Giædskunnar, ad hann muni heimta Reikningskap af þvi Pundi, er hann ecki feck einum i Hendur; og hver vill efast um Maatt hañs edur Vijsdoom? Hañ sem gat laatid Johañem fagna Tilkomu sinni i Moodur-Lijfi, Luc. 1. Mun hann og ecki gieta verkad undarlega Hluti i þesshaattar Manneskium? Satt er þad, ad aan Trwarinnar er Omogulegt Gudi ad þocknast, Hebr. 11. Enn hann sem gietur innplantad Trwna i Hiortum Smaabarnanna, mun hañ ecki med Orannsakañlegum Hætti gieta tilbwid hana i þessara Hiortum? Þad sem ecki er af Trwñi, þad er Synd; eñ af Muñi Smaa-Barnaña og Brioost-Mylkingaña hefur hañ sier Lofid tilreidt; Þvi mun hañ og ecki gieta opnad Skilning þessara Skiepna sinna, svo þær þecki hann til Myskunar sier? Er nockurt Ord fyrir honum Omaattugt? Luc. 1. Kann hann ecki alla Hluti framar ad giora, eñ vier kuñum ad hugsa edur mæla? Eg vil hier um segia, þad sem Christur sagdi vid Lærisveinana, er þeir sogdu: Hver mun þa hoolpinn verda? Þad sem Omogulegt er fyrir Monnum, þad er mogulegt fyrir Gudi, Matth. 19. Nu Sokum þess, ad fyrir hinum Dausa verdur ecki talad, Gud verdur siaalfur fyrir honum ad predika i hanns Hiarta, Og er einginn slijkur, þa tala eg þetta til Huggunar þeim, sem aangrast þar af, ad Born þeirra edur kiærustu Naungar hafa slijkann Brest, og efast kannske um Velferd þeirra, og þar ad auki leida sier i Hug, ad þetta komi fram vid þaa vegna Synda sinna. Til hinns Fyrra hefi eg ad nockru Leiti allareidu svarad, enn þo vil eg þessu vid auka sem eftirfylgir: Gud hefur skapad Afkvæmi þitt i Moodur-Lijfi, Job. 10. Edur þijns Naunga: Hver hefur Mañinum Munniñ giefid? Hver hefur giort hinn Maallausa edur Dausa? Edur hinn Siaaanda, edur Blinda? Hefe eg þad ecki siaalfur giort? Segir DRottinn vid Moysen, Exod. 4. Og fyrst hann hefur þetta siaalfur giort; Mun þa ecki hañ, sem vill ad allir Menn verdi Saaluhoolpnir, mun hann ecki siaa þeim Faarborda til Himnarijkis, sem ecki hafa Skulld i þvi, ad þeir gieta ecki Guds Ord heyrt? Hann Sem Giordi Allt Vel, Þvi Dausa Liet Hann Heyra Og Maallausa Tala, A Dogum Hollds-Vistar Siñar, muñ honum vera afturfarid sijdann hann setstur er til Kraftarins Hægri Handar? Hañ er uppfarinn i Hædirnar, og hefur Moñum Gaafur giefid, Eph. 4. Mun hañ þa ecki giefid gieta Barni þijnu Heyrn og Maal, nema ad hañ giæfi Saalu þess Heyrn, og giordi þad vel talandi fyrir siaalfum sier, med þvi Mooti sem ecki skilur þu, eda nockur annar? Barn þitt er i Skijrninni inntekid i Guds Saattmaala; Hver sem trwir og verdur

skijrdur

skijrdur hann skal hoolpenn verda, segier Christur. Hier stendur; Hver sem trwer, enn ecke: Hver sem heyrer og talar. Mun hann þa kálla afbrugdeid Sættmælanum fyrer þessa Orsök, er Vesælingenn siælfur giorde, og gietur þo Trwna i honum verkad? Gud læte oss alldrei meir afbregda, sem Mæl og Heyrn hofum! Seig þvi med David: Eg vil þeigia og Munne mijnum ecke upplwka, af þvi þu giorder þad; Og hallt Barn þitt ad vera einn Lim æ Christi Lijkama, Mustere H. Anda, og Erfingia Himna-Rijkis, ef ecke ert annad i Vege stendur, enn þesse Brestur, sem Skaparenn alleina, og eingenn annar, lækna ad gietur. Enn hvad þvi vidvijkur, ad margur freistast af, ad Vanheilinde Barnanna orsakest af Syndum Forelldranna; Þa verdur þvi ad sonnu ecke neitad, ad allt Mootlæte er Verdlaun Syndarennar; svo sem Daudenn er, svo er og allur sæ Her, sem under hann þioonar: Enn þad heiter ecke svo Straff, svo sem Reinsla hiæ Guds Bornum, hverre Jacob Postule skipar oss ad taka feigens Hende, Jac. 1. Þvi Orsakast þetta ecke af þvi, ad Forelldrar þessara Vesælinga sieu verre i Guds Auglite enn adrer Menn; Þar fyrer svarade Endurlausnarenn Fordum Læresveinunum, er þeir frettu hann ad, hvert þesse hefde syndgad edur Fader hanns? Hverke syndgade þesse nie Fader hanns (sagde hann); Helldur svo, ad Guds Dijrd yrde openber, Joh. 9. Og vidlijkt skiedur i þessu: Gud setur oss þesse Dæme fyrer Siooner, oss sem hann giefed hefur heilbrigda Sæl i heilum Lijkama; Til ad sijna oss, hvada Valld hann hafe yfer Manneskiunne; Til þess, ad þacka sier og lofa sig þar fyrer, ad oss og vorum Bornum og Næungum er betur vared i Lijkamans Hættalage; Til ad minna oss þar æ, ad ei brwkum vier Skilnijngu vora til þeirra Hluta, sem Gude til Stygdar eru, miklu helldur til Vegsemdar honum, og Næunganum til Þarfa. Enn Gud næde, ad wt af þessu ber nærsta miog æ Stundum! Og þad er nu hin andlega Deyfa, sem er miklu hættare, miklu skadsamlegre, og þo miklu almennare, enn sw sem æ Lijkamanum er, yfer hverre ad David klagar, er hann seger, Ps. 58. ad þeir tilbyrgi Eyru sijn, eins og Hoggormurinn fyrir Raustu Særinga Mannsins. Margfalldt er þetta Heyrnarleyse, og i morgu foolged; Enn Rootenn til alls er þad, ad Menn daufheyrast vid Guds Orde, svo þad fær ecke Rwm i þeim, helldur enn Tal Christi i Pharisæis. Aller Menn lasta þæ fyrer þetta, sem verdugt er: Enn þoott ad einginn Madur talad hafe, edur enn nu tale, svo sem hann, jafnvel ad Vitne þeirra, sem voru Utsendarar hanns Fiandmanna, þa eru þad þo Guds Ord, er hanns Þienarar tala i hanns Umbode, nær þeir byggia Mæl sitt æ Ordum hanns Spæmanna og Postula, yfer hverra Grundvoll ad hanns Christne er bygd: Þvi segier DRottenn vid Jeremiam, Cap. 1. Eg hefe lagt mijn Ord i þinn Munn; Og vid Esajam, Cap. 59. Minn Ande sem i þier er, og mijn Ord, er eg hefe sett i þinn Munn, þau skulu ecke wr þijnum Munne vijkia. Nu þoott ad ecke sie Andans Gæfa svo rijk hiæ oss, sem hun var hiæ Spæmonnunum og Postulunum, þa eru þad þo Guds Ord, sem hanns Þienarar tala, nær þad er af þeirra Toga riett spunned, og þeir tala eckert aan Ritningarennar: Guds Ord elldest ecke, þad blijfur eilijflega, seger Esajas, Cap. 40. Þvi er þad eins gott i Munne hinns vesælasta JEsu Christi

Christi Þienara, Nær þad er hanns Ord, svo sem i Munni Peturs, edur Paals: Þvi vil eg hier um segia þad hid sama, sem Paulus sagdi vid þaa i Thessalonica, ad þeir hafi medtekid þad Guds Ord, er þeir heyrdu af honum, Ecki svo sem Ord Mannanna, helldur, svo sem þad var, eins og Guds Ord, 1. Thess. 2. Eñ ef þad Guds er, Hvern forsmaaid þier þa, Þier hinir Dausu Veralldar Synir (Nær þier þad ecki heyra vilied af hanns Þienara Munni, Nie laata undirviisa ydur og Bornum ydar i Christinndoominum, Ecki laata straffa ydar Syndir, og ecki lifa eftir þvi, Er ydur af Guds Alfu bodid verdur), Hvern forsmaaid þier þa, segie eg, Gud edur Mennina? Segier hañ ecki, Luc. 10. Hver hann forsmaair ydur, hañ forsmaair mig, hver hañ heyrir ydur, hann heyrir mier? Svoddann er riett skielfilegt Heyrnarleysi! Munu þessi Frelsarans Ord naa alleinasta til Postulanna, edur þeirra er lifdu aa þeim Dogum, og ecki til vor sem nu lifum? Mun hann ecki hafa lofad ad vera hiaa oss, allt til Veralldarinnar Enda? Matth. 28. Hvernneg er hann þa hiaa oss? Med siinum H. Anda i Ordinu og Sacramentunum.

Nu, ef Menn vilia niota Naadargdar hanns, þvi laata Menn þa svo tregt vid ad heyra hanns Ord? J Ordinu talar Gud vid oss, Vid hann tolum vier i Bænum vorum, eñ saa sem ecki vill heyra hann talanda, Þann vill hann ecki heyra Bidianda, þvi hver sem forsmaair mig, Þann vil eg forsmaa, segier hann 1. Sam. 2. Eg em gladur af þvi, Segier David, ad til miin verdur sagt: Vier skulum gaanga i Hws DRottinns, Ps. 122. Þetta sagdi hann, sem i Ritningunni er nefndur Madur eptir Guds Hiarta. Enn margur Gaarungur, margur Sælkieri, margur Fie-Pwki, sem er Madur eptir siinu Hiarta, Hann verdur þeirri Stundu fegnastur, ad hann þurfi ecki i Guds Hws ad gaanga, edur hanns Ord ad heyra, og hvott þeir gaangi edur heyri, þa geingur Ordinu eins og Sædinu, þvi er Frelsarinn talar um hiaa Lucam, i 8. Cap. Hvert ed fiell utann hiaa Veiginum, ad þad verdur Footum trodid, og Fuglar Himinsins aatu þad; Diofullinn tekur þad i burtu wr Hiortum þeirra, svo þeir ecki trwa skuli, og verda hoolpnir. Hvar fyrir? Þvi þeir hyrdtu ecki um ad taka aa sig Guds Alvepni, til ad mootstanda Prettum Andskotans, Eph. 6. Guds Ord skal til þess hafa, ad vardveita Guds Ord, Enn þeir gleymdu Sverdi Andans, sem ad er hid sama Ord, ad þeir kynnu ad beita þvi fyrir sig, nær Ovinurinn ad Gardi gieck, til ad ræna þa Diirgrip þessum. Oskandi væri, ad ei hugsudu þeir hid sama, er Judar sogdu Fordum vid Jeremiam: Vier skulum ecki heyra þvi Ordi, er þu sagdir oss i Nafni DRottinns, Helldur skulum vier giora eptir sierhveriu Ordi, Er framkiemur af vorum Munni, Jer. 44. J svoddann Gylldi er DRottinns Ord hiaa sumum Monnum! Munu þeir þa ecki nærsta Þyckheyrdir vera? Heyr mier þo um Stund, Barnid gott; Þu ert Oskiertur aa Hlustum þiinum, Og enn nu ert þu svo i Dag: Þar fyrir, J Dag, J Dag, Ef þu heirir Roddu hañs, þa forherd ecki Hiarta þitt, Heb. 3. Seig mier; Hefur þu Brief fraa Gudi, ad hann lijdi þijn Skilningar-Vit til Morguns, Meir eñ þessi Dausi og Maalhallti Madur? Gud steypti hinni Vantrwudu Verolld um Koll i Einu. J Einu dreckti hann Pharao med

R ollu

øllu hanns Lide. J Einu fargade hañ Canaanitum fyrer Hønd Josuæ. J Einu Augnablike sloo hann þa med Blindne, er faalmudu epter Hwse Loths, Gen. 19. J Einu Augnablike stack hann Augunn wt aa Elimas, sem mootstood Paulo, er hann foor med Christne-Boded, Act. 13. Mun hann ei kunna ad giøra hid sama vid þig, ef þu mootstendur hanns Þienurum og villt ei heyra þeim, nær þeir tala Guds Eyrende og ecke sitt? Eda, hvad villtu giøra, nema þu hafer eitthvad þier til Saalar-Gagns numed af Orde DRottenns, aa medann þu hafder Eyrunn heil, ef hañ kynne ad laata þier tilfalla þvilijkañ Brest? Eg vil þad i stuttu Maale segia: Þu hefder eckert til ad kienna þier ad þeckia Syndena, eckert til ad faa Boot heñar, og eckert til ad hugga þig i þessu Volæde. Og fyrer þvi, ad þu alldrei hafder smackad hid gooda Guds Ord, svo sem þad er, þa gietur ecki aa þier sannast Maalshaattur saa, ad eingenn vite hvad hann aatt hefur fyrr enn hañ miste. Einhver vill segia: Eg giet lesed Guds Ord þoott ecke heyre eg þad; Þvi er verr, ad þeir eru svo faaer, sem lesa kunna, Jaa, þoott siaalfer kunne, þa hyrda sumer ecke um ad kieña þad Børnum sijnum, og ek þad Gudlaust Ræktarleyse; Enn hvernig sem þvi er vared, Hvad veitstu nema Gud take under eins fraa þier Sioonena og Heyrnena? Og hvar stendur þu þa, ef þu hefur forsmaad Rijkdoom hanns Laanglundargieds, Rom. 2. J þvi, ad vilia ecke hañs Ord heyra þier til Saaluhiaalpar? Og þoott Gud spare Eyru þijn allt fram i Daudann, þa vita Meñ, ad ecke siaa þa Augun leingur, og ecke heyra þa Eyrun leingur, Hiartad verdur þa ad tala vid Gud, og Heilagur Ande ad vera vor Prestur i sijnu Mustere; Eñ ef Meñ hafa styggt hann med Vanrækt Guds Orda, og slockt hann med Forøgtun þeirra, hvar i aa hann þa ad lifa, ef eckert var numed sem hañ kunne ad lifa i? Og er þetta eitt skadlegt Heyrnarleyse. Margur leggur þad ad litlu, ad gaanga i Guds Hws, og helldur þad fyrer Eintoomis Ceremoniu; Þvi er verr! Kañskie þad sie og svo hiaa allmørgum, sem þar byrtast, alleina fyrer Sida Saker: Eñ giæte Meñ þess, ad fyrer utann þad, ad Gud hefur Skulldbunded sig til ad vera midt aa millum Tveggia edur Þriggia, sem eru samannsafnader i hanns Nafne, Matth. 18. Þa er þad ei svo miøg vijda i Lande voru, ad Almenningur faae Guds Ord heyrt nema i Kyrkiunne; O! Hvad miklu Goodu fyrrer saa Madur sig, er byrger Eyrun fyrer Guds Orde! Þau eru Lijf og Ande, segier Frelsarenn, Joh. 6. Þvi er hann andlega daudur sem aan þeirra er. Vier trwum, ad fyrer Trwna verde Madurenn hoolpenn aan Verkanna, segier Paulus: Eñ Trwenn er af Heyrnenne, enn Heyrnenn af Guds Orde, segier hann, Rom. 10. Hvar vill hann lenda þa, sem er Trwarlaus, nema i eilijfre Glotun? Utañ hann betre sig. Mijnar Sauder heyra mijna Raust, segier Frelsarenn, Joh. 10. Enn hvers munu þeir vera, sem ei vilia heyra Roddu hanns? Munu þeir ecke setter verda med Hafrunum aa Vinstre Hlid, og þa um sijder heyra hina skielfilegu Raust alls Hollds Doomara; Fared fraa mier bølvader i eilijfann Elld, sem fyrerbwenn er Diøflenum, og øllum hanns Arum? Matth. 25. Saa sem er af Gude, hann heyrer Guds Ord, segier Lausnareñ, Joh. 10. Eñ þeir, sem þad ecke heyra vilia, og þo heyra kunna, af hverium eru þeir? Af Fødur þeirra

ka Andskotanum; svo sem DRottenn sagde vid Gydinga Fordum. Ut af þessare Deysu fædest margfalldur Eyrna-Dose. Hvad giora þeir, ed heyra Vein hinns Naudstadda og Volada, enn byrgia sig þo fyrer sijnu eigenn Hollde, þad er, fyrer þeim, sem ad eru somu Naatturu og vier, og giefa þeim eckert, jafnvel þoott sumer hafe Audlegd Heims þessa? Eingeñ hefur uñ Allder sitt eiged Holld hatad, segier Guds Ande, helldur fooſtrar hann þad og nærer; Og hvad er þad þa, ad eg skule sia mitt eiged Holld, einn Guds Vesæling, minn Broodur i Christo, ad eg skule sia hann friooſa edur svellta i Hel, þar eg hefe þo noog, jafnvel til ad kosta uppaa Munade mijna? Þetta er stakt Heyrnarleyse. Sa sem Oskunda og Oriettenn lijdur, hann flijr til Doomarans, og bidur uñ Adstod, enn hann sem af Gude og Konungenum er settur til ad skipa Riettendum Manna, hann stijngur Fingrenum i bæde Eyrun, og vill ei heyra Kvein Log-Næningsins, Annadhvert fyrer Gete, fyrer Vinaattu, fyrer Hrædslu edur Agyrnes Saker, svo hinn fer jafnnær fraa honum: Verr er honum fared enn hinum Naanglaata Doomara, er Frelsareñ talar uñ i Epterlijkingunne, hiaa Luc. 18. Hver þoott hann Ottadest hverke Gud nie Meñ, þa liet hañ sig þo samt leida af Þraa-Beidne Eckiunnar, til ad aalijta Maal hennar. Eingomul Kona beidde Augustum Keysara Eitt Sinn, ad heyra Maal-sitt; Enn hann kvadst ecke Toom hafa; Hun svarade: Svo legg þa af Stioornena; Vid þesse Sannyrde braa svo þeim vijsa Hofdingia, ad hann leit strax aa Maal hennar, og dæmde þad. Eñ þad være Raadlegt, ad þesse Varmenne, sem aadur er uñtalad, ad þeir legdu af sier þetta Starf, þar þeir valla eru hæfare til þess, enn Asnenn til Horpu-Slaattar. Meñ nema þañ Lim i burtu af Kroppnum, sem er daudur, og lijklegur til ad spille odrum; Sæmra være og þeim, er svo Þyckheyrder eru, sem nu hefe eg sagt, ad Eyru þeirra være afskoreñ, helldur enn þau stædu þeim til Vanheidurs, enn eingum til Gagns, aa Hofdenu. Þar er eingenn kiendur sem hann kiemur ecke: Ef þier blinder værud, þa hefdud þier ecke Synd, enn nu segied þier: Vier siaaum, þar fyrer blijfur Synd ydar, sagde Lausnareñ vid Phariseos, Joh. 9. Svo være og hinum betra, ad Hluster þeirra byrgdar væru, helldur eñ ad hafa Eyru og heyra ecke, eins og onnur Lijkneskia. Margt mætte hier uñ fleira tala, þo læt eg þetta duga ad svo stoddu.

Eñ þad eg hefi ad framañ talad uñ Heyrnar-Skortiñ, þad sama vil eg uñ Maal-Helltena tala; Ad soñu er hun stoor Vanse Lijkamans; Margur Ohlutvandur forsmaaer þañ, sem er svo Maali fariñ, þeir hæda ad honum, herma epter þeim, og laata miklu verr optast, eñ hiner sem þeir epter herma: Þetta heiter ad lasta Skaparañ, þvi hañ hefur Mañenum Maaled giefid, og sa ed fremur þvilijkt Gudleyse, hañ er nærsta illa talande i hañs Eyrum, sem allt heyrer, hañ giorir Maal-Snille sijna Þusundsiñum argare eñ Brest hiñs Maalhallta. Ecki helldur bañar Twngu-Hafted nockrum ad gaanga frañ fyrir Naadar-Stooliñ, sem Gud hefur sett i hañs Bloodi; Hañ sem ecke upplauk sijnum Muñe, helldur eñ eitt Lamb til Slaatrunar leidt, hañ gietur vorkient þessum sijnum Vesælingum, er hañ sialfur skapad hefur: Giete hañ ecki odrum kieñt, gieti hañ ecki brwkad Maalid til ad tala Maale

Eckiunnar og hinns Fødurlausa, þa gietur hañ þo lofad Gud, Hañ skilur Maal hañs, sem adgreindi Tungurnar, og allar hefur giort af einni, Hañ gietur bedid Gud sier til Hiaalpar og Myskunar, Hañ er noogu sniallur i Guds Eyrum, Sem bidur i Anda og Sañleika, Joh. 4. Eins vel aakalla hinir unngu Hrafnarnir Gud og Svanurinn, og hverutveggiu þessa fædir hann: Þvi stendur nu eingum þessi Tungu-Brestur fyrir neinu Goodu, hiaa honum, Sem bædi hefur skapad hinn Maallausa Og hinn Veltalandi. Hin er Maal-Helltinn meiri og skadlegri, Þegar Menn bruka Munninn til ad lasta Gud, Hanns Nafn, Hanns Ord, Rangfæra þad, og ad Haadi hafa, Til ad skieña Naunganñ, til ad rægia hañ, ljuga aa hann Lijtum og Skomum þo saklausann, Brixla honum, Leggia Haft aa Tungu sijna þegar hañ a ad forsvara, þegar Sannleikanum aa Vitni ad bera, og færa Hlutina til betri Vegar: Þetta er skielfilegt Maalleysi, þad er ein Hofud-Skom i Guds Augliti. Þarfara væri þeim Manni, ad hanns Tunga væri fraa Rootum uppskoriñ, eñ ad bruka hana til slijkra Odaada; Þvi svo segier Frelsarinn: Betra er ad þu halltur og Handarvani iñgangir til Lijfsins, enn ad þu hafir Tvær Hendur og Tvo Fætur, Og verdir i eilijfann Elld kastadur, Matth. 5. Hver ed vijs er þeim sem temia sier Þogn þessa, og þessa Maal-Hellti; Og, nema þeir ydrist af Hiarta, og laati af slijku Ædi, þa munu þeir eilijflega med honum verda, er vier Rægi-Kall nefnum, og hefur sitt Nafn af þvi, Ad hañ aklagar Guds Utvallda Dag og Noott, Þar ellda þeir Saalum enn eta Tungur, Elldurinn er noogur, Kosturinn er mikill, Blaastur DRottinns upptendrar hann svo sem annad Brennisteins-Flood, Esa. 30. Fraa hverium Oskopum hinn goodi Gud vardveiti alla Christna Menn! Enn þu, Sem Allt Giordir Vel, Þu Sem Lietst Dausa Heyra Og Maallausa Tala, Vijk þeim affiijdis fraa Foolkinu, Fraa vondri Verolldu þessari, hverra Eyru ad allt ofmiog kiæa eptir hennar Glaum, Hverium eckert Maal lijkar, Nema þad sem henni er þocknanlegt; Rek þaa wt af Babylon, DRottinn minn, Jafnvel med Svipu þijns Krossburdar, Svo ad ecki medtaki þeir af Plaagum hennar: Snert Eyru vors Hiarta med Fijngri þijnum, Sem er þiñ Andi, svo ad vier hofum vora Lystin g i Logmaali þijnu, og upploys Fiotur Tungu vorrar, svo ad vier tolum riett, þad sem Gudi sie til Lofs og Dijrdar, Hañs Kyrkiu medal vor til Uppbyggingar, Eñ Andskotans Rijki, Og allri hañs Ydni, til Nidurdreps. Bænheyr þad vor Lausnari, fyrir þijna Forþienustu!

Þier med Fodur, og Heilogum Anda, sie Valld og Kraptur, Rijki og Maattur, Æra og Dijrd, Fraa Eiñi Eilijfd til Añarar, AMEN.

# Þrettanda Sunnudag eptir Trinitatis.

Gudspiallid, Luc. 10. Cap.

OG JEsus hañ sneri sier til siña Lærisveina, Og sagdi þeim einslega: Sæl eru þau Augu sem siaa þad, Hvad þier siaid, þvi ad eg segie ydur, Pad marger Spaamenn og Kongar villdu hafa sied hvad þier siaid, Og saau þad ecki, Og ad heyra hvad þier

þier heyrid og heyrdu þad eigi. Og sia, Ad nockur Logvitringur stood upp, Freistadi hañs og sagdi: Meistari, Hvad skal eg giøra, So ad eg eigneſt Eilijft Lijf? Eñ hañ sagdi til hañs: Hvad er skrifad i Logmaalinu? Hvørninn les þu? Hañ svaradi og sagdi: Elska skalltu DROTTiñ Gud þiñ af øllu Hiarta þijnu, Og af allri Ondu þiñi, Og af øllum Mætti þijnum, Og af øllu Hugskoti þijnu, Og þiñ Naunga sem sialfañ þig. JEsus sagdi til hañs: Þu svaradir riett, Giør þad og muntu lifa. Eñ hañ villde Riettlæta sialfañ sig, og sagdi til JEsu: Hvør er þa miñ Naungi? JEsus svaradi og sagdi: Madur nockur foor fraa Jerusalem, ofañ til Jericho, og hrasadi aa medal Ræningia, Hvørier ad ræntu hañ Klædum, og lemstrudu hañ Saarum, geingu sijdañ i burt, og lietu hañ þar eptir haalfdaudañ liggia. Eñ so bar til, ad Kieñimadur nockur foor ofañ hañ sama Veg, Og er hañ leit hañ, gieck hañ fram hiaa honum. Slijkt hid sama Levitiñ, Þa hañ kom nærri þeim Stad, og saa hañ, gieck hañ þar fram hiaa. Eñ Samverskur Madur nockur foor um farin Veg, Kom þar nærri honum, Og sem hañ saa hañ, Þa hrærdist hañ af Myskun vid hañ, og gieck ad honum, batt uñ Saar hañs, hellti þar i Vidsmiøri og Vijni, og lagdi hañ uppaa siñ Eyk, og flutti til Herbergis, Gaf og Giætur ad honum. Eñ Añars Dags þar eptir þa hañ foor i burt, took hañ upp Tvo Peninga, og fieck Hws-Bwandanum, og sagdi til hañs: Haf þu Gaat aa honum, Og hvad þu leggur meira wt, þad skal eg borga, nær ad eg kiem aptur. Hvør þeirra Priggia sijnist þier vera þess Naungi, sem hrasadur var aa medal Ræningia? Eñ hañ sagdi: Saa sem giørdi Myskunar-Verkid aa honum. JEsus sagdi til hañs: Far þu og giør slijkt hid sama.

## Exordium.

HVilijk Oeining ad verid hafi millum Gydinga og Samariskra Fordum, Þad vottar Heilog Ritning i nockrum Stødum. Hvernig bidur þu mig um ad drecka, þar þu ert Gydingur, sem er ein Samarisk Kona? sagdi hun, er taladi vid Frelsarañ hiaa Jacobs Brunni, Þvi ecki Samneyta Gydingar Samaritanum, Joh. 4. Segium vier ecki vel, ad þu ert Samverskur, og hefur Diøful, søgdu þeir Gudlastararnir Fordum, Joh. 8. Og svo mikid Hatur baaru Gydingar til þeirra, ad einn Heidingi maatti Gydingur giørast, enn ecki Samariskur, Jafnvel þott þeir brwkadu marga Gydinga Sidu i Þiønustu sinni, Svo sem einn af þeirra Meisturum skrif-

ar, og sannast hier medal annars, þad er Frelsarenn talade vid Pharisæos, ad þeir bonnudu Monnunum iñ i Himna-Rijke, enn siaalfer kiæmu þeir þar ecke, Matth. 23. Af þessu Innbyrdis Hatre, sem i þaa Daga var millum Gydinga og Samariskra, tekur Frelsarenn hier Orsøk til ad sannfæra þenna Løgvitring, sem Gudspialled umgietur, og maa hier rekia Spor hanns Guddoomlegrar Speke, svo vel, sem i øllu hanns Tale. Hefde hann ecke teked hinn Samariska til Dæmis um Myskunar-Verked, helldur laated hann vera þann, sem hrasadur var medal Ræningia, þa hefde þesse Gydingur sagt, ad hann ei hefde vered Naaunge hinns, og Gydingurenn þar fyrer ecke skylldugur ad Lidsinna honum i neinu: Enn fyrst hann var Samaritan, sem Myskunsemena framde, enn hinn var Jerusalems Madur, þad er Gydingur, og maatte þvi Myskunar verdur þykia, þa gat hinn ecke fraa þvi geinged, ad hann være hanns Naaunge, sem giørde gott Verk aa honum. Ecke aa þesse Epterlijking svo ad skiliast, ad sa sie einaste Naaunge, sem giører eins og þesse Samaritan; Þad giører Frelsarenn bert, er hann segier: Hver Laun hafed þier þess, ad þier elsked þa, er ydur elska, giøra ecke Tollheimtu-Menn hid sama? Matth. 5. Helldur er þesse Meiningenn: Fyrst þesse Samaritan giørde þetta vid einn Gyding, þa far þu, sem ert Gydingur, og giør slijkt hid sama vid einn Samaritan, edur þinn mesta Ovin, þviad hver ein Manneskia er þinn Naaunge, nær honum aaliggur: Ut af þessu Tale DRottenns, vil eg taka mier Orsøk, til ad tala um Kiærleikann, og hvad laangt hann eige ad naa. Vert þu i Verke med oss, DRottenn, svo ad þetta vel luckest, AMEN.

## Utleggingeñ.

MArgar Digder eru bodnar i heilagre Ritningu, og mørgum hroosad, þo eingum meir enn Kiærleikanum. Nu blijfa þesse Þriu, Trwen̄, Vonen̄, og Kiærleikurenn, en̄ Kiærleikurenn er þo mestur af þessum, segier Paulus, 1. Cor. 13. Þetta er Stoor Vitnisburdur af honum, er svo var kiært til Ætt-Manna sinna Gydinganna, ad hann æskte sier ad vera wtreken̄ fraa Christo fyrer þeirra Skulld, Rom. 9. Hañ mun meint hafa, ef þad kyñe ad gagna þeim, og þad mogulegt være; Þvi sijdarst i hinum 8. Capitula segiest hann vera þess Fullviss, ad eingenn Hlutur mune gieta skiled sig vid Kiærleika Guds, sem ad er i Christo JEsu: Enn þvi hroosar hann nu svo miøg Kiærleikanum fram yfer Trwna, aan hverrar hañ þo segier, ad Omøgulegt sie Gude ad þocknast, Hebr. 1. Og ad fyrer hana verde Meñ hoolpner, aan Verka Løgmaalsins? Þad velldur þvi, ad Trwenn er daud aan Verkanna, segier Jacob Postule, Jac. 2. Hann meinar aan Kiærleikans Verka, sem þo af heñe framkoma, þvi Trwen̄ sijner Afl sitt hvad mest i þeim. Satt er þad, ad eingenn verdur hoolpenn aan þess, ad hann trwe aa Gud og hañs Christ, og treyste þvi, ad hann Endurkeyptur sie fyrer Guds Sonar Blood; Eñ þvi gietur sa ecke trwad, til Saaluhiaalpar sier, sem er aan Kiærleikans: Paulus bijdur, ad Menn skule reyna hvert þeir sieu i Trwñe; Enn hvar med eiga þeir ad reyna þad, nema med Kiærleikanum, aan hvers Trwenn er eingenn Trw? Svo sem Kiærleikurenn gietur

ecke

ecke vered aan Trwarennar, svo gietur ei Trwenn aan Kiærleikans vered; Þad vottar Paulus, 1. Tim. 1. Er hann segier: Ender Logmaalsins er Kiærleikurenn af hreinu Hiarta og goodre Samvitsku, og Trw Hræsnislausre. Logmaaled er Omogulegt upp ad fylla; Þad vottar Paall, er hann segier: Af Logmaalsins Verkum mun eckert Holld fyrer honum hoolped verda, Rom. 3. Þo segier hann aptur i sama Pistle: Sa ed elskar annann, sa hefur Logmaaled uppfyllt, Rom. 13. Hvad ber til þessa, Christner Menn? Ad vijsu svarade JEsus Logvitringnum, er spurde hann ad, hvert ed være hid mesta af ollum Bodordunum, Marc. 12. Hann svarade honum: Hid ædsta allra Bodordanna er: Elska skaltu DRottenn Gud þinn af ollu Hiarta þijnu, og af allre Saalu þinne, og af ollu Hugskote þijnu, og af ollum Mætte þijnum, þetta er hid ædsta Bodord; Og annad er þvilijkt: Elska skalltu Naaunga þinn, sem sialfann þig; Og i þessum Tveimur Bodordum, segier Lausnarenn, ad foolged sie allt Logmaaled og Spaamennerner, Matth. 22. Enn svo sem oss er Omogulegt allt Logmaaled upp ad fylla, svo er oss þad og laangt um Megn fram, ad fullnægia þessum Tveimur Bodordum, svo sem vera byriar, med vorum Tilverknade. Hvilijkur er þa sa Kiærleikurenn, sem er Logmaalsins Uppfylling? Þad maa eg fyrst og fremst hier til svara, ad þad er hanns Guddoomlegur Kiærleike, sem gaf sitt Lijf i Daudann fyrer Syndarann, Rom. 5, svo hann mætte lifa, Joh. 4. Sw Elskann, sem vard honum svo sterk sem Daudenn, og Vandlætingenn svo hord sem Helvijted, Hin miklu Votnenn kunnu ecke ad wtslockva þann Kiærleika, og ecke Bylgiurnar ad kiefia hann, segier Brwdurenn i Lof-Kvædenu, Cap. 8. Þesse Ommrædelege Kiærleike og Brune Elskunnar, hann er fyrst og sijdarst Logmaalsins Uppfylling; Þad vottar Paulus, er hann skrifar, Rom. 8. Þad sem ad Logmaalenu var Omogulegt, af þvi þad veiktest fyrer Hollded, þad hefur Gud giort, sendande sinn Son i Lijkingu syndugs Holds, og fyrer Syndena fordæmt Syndena i Holldenu; Enn þoott ad Giædska Guds hafe svo yfergnæft til vor i Christo JEsu, þar fyrer vill hann ecke ad vier skulum Hlutlauser vera af Kiærleikans Verkum Innbyrdis medal vor; Þvi Johannes segier med berum Ordum: J þvi er Kiærleike Guds Auglijstur vid oss, ad hann hefur giefed Saal sijna wt fyrer oss, svo eigum og vier ad wtgiefa Saalena fyrer Brædurnar, 1. Joh. 4. Elskann til Naaungans er Omissande, og aan hennar er eingenn Riettnefndur Christenn: Hver sem segiest elska Gud, enn hatar sinn Broodur, hann er einn Lwgare, segier Johannes, þvi ef hann ei elskar sinn Broodur, þann ed hann sier, hvernig maa hann Gud elska, þann ed hann sier ecke? Og þar af skulu aller þeckia ydur, ad þier sieud mijner Læresveinar, ad þier elskest Innbyrdis, seger DRottenn sialfur, Joh. 13. Hier af vill þad fylgia, ad hann, sem ecki elskar sinn Broodur, hann er ecki Lærisveinn Christi; Sa sem ecki er hanns Lærisveinn, hann er ecki Christenn, og hann sem ecki er Christenn, hann hefur ecki Hlutdeild med honum: Med hveriumm þa? Med Vantrwudum mun hann setia hanns Hlutskipte i þvi Dijke, sem vellur af Ellde og Brennesteine, Jaa, med Dioflenum og ollum hanns Arum, þeir ed hata bæde Gud og Menn. J einu Orde ad segia: Þar er einkis Goods Von aa þeim Manni,

J hverium

J hverium Kiærleikurinn ecki blijr; Jafnvel þoott hann sijnist giöra nockud Gott, Kanskie til ad firra sig Vijtum, til Fordilldar sier, og til ad þyggia Hroos af Mönnum, Eins og Pharisæi giördu Ölmusur sijnar: Þar umm tekur Paulus Tvijmælinn af, Er hann segir, 1. Cor. 13. Þoott eg Bitadi allar Eygur mijnar nidur fyrir Fatæka, Enn hefdi ecki Kiærleikann, þa gagnadi mier þad ecki; Og hier þvert aa mooti: Hver sem Kiærleikann i sier hefur blijfanda, Hann er til allra goodra Verka hæfur. Svo segir Johannes: Gud er Kiærleikurinn, og sa sem blijfur i Kiærleikanum, Hann blijfur i Gudi, og Gud i honum, 1. Joh. 4. Þetta hefur sa Guds Madur aan Efa lært af sijnum Meistara, hver hann elskadi, Þvi svo segir hann Blessadur hiaa sama Gudspiallamanni, Cap. 15. Sa sem blijfur i mier fyrir Kiærleikann, og eg i honum, Hann ber mikinn Avoxt, Þvi aan mijn gietid þier eckert. Sijaid, hversu Omögulegt er aan Kiærleikans Gudi ad þocknast, Og hversu ad hann er Saal allra Dygda og Mannkosta; Þvi ef saa blijfur i Gudi, Sem i Kiærleikanum blijfur, svo sem strax var sagt, þa eru hanns Verk i Gudi giörd; Þvi segir og Paulus, Col. 3. Umm alla Hluti framm þa hafid Kiærleikann, Þvi þad er Band Fullkomlegleikans. An Trwarinnar er Omögulegt Gudi ad þocknast, Sem aadur er sagt: Enn sönn Trw er alldrei aan Kiærleikans, Þvi maa eg svo kalla, ad þau sieu eins og Fadir og Moodir allra þeirra Athafna, sem nockud eiga fyrir Gudi ad gillda.

Esajas skrifar svo umm Gud, Ad Eldur hanns sie i Zion, Og hanns Ofn i Jerusalem, Esa. 31. Teiknandi þar med Guds Þioonustu i þeim Heilaga Stad, Hvar enn Allra Hæsti hafdi sett Minning sijns Nafns, enn sw Dijrkan hefur Enda tekid, Sool Riettlætisins hefur Skuggann afmaad, Zion er Eydilögd, Jerusalem er uppbrend, Og Gydingum sitt Hws i Eydi laatid, Matth. 23. Þvi kalla eg, ad nu bwi Guds Elldur Og hanns Ofn i Nya Testamentisins Musteri, Sem er Riett-Christins Manns Hiarta, hvar Gud hvijlist yfir Cherubim, yfir þeim Naadar-Stoolnum er hann frammsett hefur i hanns eiginn Bloodi, Rom. 3. J einum gloandi Anda, J einni lifandi Trw, sem verkar med Kiærleikanum, þvi hun gylldir fyrir Gudi i Christo, Enn hverki Ummskurn nie Yfirhwd, Gal. 5. J Elskunni til Guds og Naaungans, Þad kalla eg hinn Ævarandi Elld, og sijfellt Offur; Þad nefni eg Guds Ofn i Mannsins Hiarta. Þesse Höfud-Dygd, Kiærleikurinn, er nu i mörgu foolginn, og alla Ummgeingni vora upptendrar hann til hinns Gooda, Ecki sijdur enn Twngann til hinns Jlla, Nær hun er upptendrud af Helvijte, svo sem Jacob ad Ordi kiemst, Jac. 3. Enn Paulus hefur i stuttu Maali uppteiknad alla hanns Edles-Haattu svo merkilega, ad þad verdur ecki af syndugri Twngu betur giört: Svo skrifar hann, 1. Cor. 13. Kiærleikurinn er Þolinmoodur, segier hann: Alla Hluti þola Menn fyrir þad, sem þeir elska: Hvad vinna Menn ecki fyrir Muni Veralldar þessarar, Fyrir Audinn, Fyrir Metordinn, til þess, ad faa Hefnd yfir Ovinum sijnum? Þad sama giörir Kiærleikurinn vid Gud og Naaungann, Guds vegna. Hann er Goodgiarn, Eckert maa hann Aumt siaa; Hann er ad sijnu Leiti eins Lyndur og Gud, Af hverium hann er, 1. Joh. 4. Hann giörir Gott, ef hann gietur, bædi Vinum og Ovinum, Matth. 5.

Kiærleik=

Kiærleikurinn Ofundar ecki; Þad er aa mooti hanns Naatturu, ad siaa Offwoonum yfir nockurs Manns Velgeingni, sem øllum villvel. Kiærleikurinn giorir ei Illmannlega, Þad er, med ødru Ordi ad segia, Hreckvijsslega; Hañ geymir eingann vondann Mann, ei talar hann annad med Muñinum, enn hann hefur foolgid i Hiartanu. Hañ Þytur ecki upp; Hann er ecki Drambsamur, Þvi saa sem elskar einn, Þann vyrdir hañ, enn Kiærleikurinn elskar alla, svo mikid sem elska maa med Riettu. Hann er ecki Osidsamur; Þar er valla fraa ad segia hvilijks Oþocka og Mann-Haturs ad Vanskickuninn aflar i Heiminum, og wtvortis Osidir, jafnvel Þoott sumum Mønnum Þyki lijtid i Kurteysina spunnid, samt er hun Þo oftast Dygdanna Forunautur, og hun prijdir Þær, eins og fagur Bwningur Mannsins Alit: Þetta vill ecki Kiærleikurinn sig vanta laata, svo ad eingum giefi hann neina Hneixlan. Hann leitar ecki eptir Þvi sem hanns er, Þvi hann leitar Almennilegs Gagns hvad mest, og ecki svo miøg sijns eiginn. Hann er ecki Þwnglindur, verdi hønum Þad, ad hann reidist, Þa lætur hañ Þo ecki Soolina undirgaanga sijna Reidi. Hann Þeinkir ecki Illt, ecki aa hiaa hønum heima Þad gamla Ordtæki, margur ætlar mig sig, og maatulega dyggvann, nie hitt, ad Illur veit hvar Ódyggur situr: Af Þvi hann ætlar eingum Illt, Þa dylst hann vid i fremstu Løg, ad Hreckvijsinn muni ætla sier Þad. Hann ber allt; Allt hvad hønum er uppaalagt, Þad ber hañ eins og Maattar-Trie i Hwsum, Þau bera allt Þad sem aa Þau er lagt, hvadann og Maalshaattur Þessi dreigiñ er; svo rijs hann og undir øllu, sem hann maa umbera, Guds og Þeirra vegna, sem hañ er hvad mest skylldugur. Hañ trwir øllu, hann vill helldur trwa Þvi, sem hønum er saklaust ad trwa, helldur enn ad væna einn Lijgi ad Naudsynialausu, edur Ofyrirsyniu: Hann vonar allt; hañ ørvæntir ecki um neitt, ad ei kunni hañ ad betra sig, Þoott Ovænlegt meigi um hann Þykia; Olijkur Þeim sem ecki vilia neina Tilraun giøra vid eiñ, sem af einhverri Hrosun verdur yfirstijgiñ, eins og Gud sie ecki maattugur ad reisa hañ, og Þess vegna lijdur Þad allt, hañ sparar eckert Þolgiædi til ad bijda eftir Betran Þeirra. Þar fyrir seigir Salomon vijslega, er hann segir, Prov. 10. Hatrid uppvekur Þrætur, enn Kiærleikurinn hylur Misgiørdirnar. Hvad er nu lijkara Gudi enn Þetta Hiartalag? Og Þessir eru nu Kiærleikans Avextir, sem upp eru taldir. Enn sier i Lagi vill Frelsarinn hafa kiennt med Þessari Eftirlijkingu Myskunsemina og Goodgyrnina vid sierhvern Þann sem Naudstaddur er, Þvi hann svarar hønum Skriftlærda uppaa Spurningu sijna; hver Þar væri hanns Naaungi? Þad er aadur hier ad framann sijnt, hversu ad Gydingar og Samariskir hafi hatast aa Innbyrdis, og hverugir meintu adra sijna Naaunga ad vera; Enn DRottinn snart hier nockud biturt vid Kaun hiña Skriftlærdu og Phariseanna, Þar ed hann tekur til Dæmis i Eftirlijkingunni Prestiñ og Levitann; Þessir heiløgu Menn, sialfir Gydingar, Þeir geingu fram hiaa Gydingenum, Þar hann laa so illa farinn, sem i Gudspiallinu segir. Enn Fiandmadur hanns, hverium einkis Gydings Auga mundi Myskunad hafa, hann giørdi Myskunar-Verk aa hønum. Hann Saa Aumur A Hønum, segier Textinn: Fyrst vaknadi Kiærleikurinn i Hiartanu,

ꜳnu; svo eigum vier og Lyndir ad vera, þvi nema ad Goodgiordir vorar framkomi af Gnægd Hiartans, Þa eru þær Onijtar: Þad er ꜳdur vottad af Pꜳls Ordum, er hañ segier, 1. Cor. 13. Þoott eg bitadi allar Eigur mijnar nidur fyrir Fꜳtæka, Og hefdi ecki Kiærleikann, þa gagnadi mier þad ecki: Og aptur bijdur hann, ad Menn skuli giora Gott, Ecki af Naudung, helldur af fwsum Huga. Eñ hann liet Goodgyrni sijna ecki alleina vera foolgna i Medaumkuninni, Helldur brautst hun wt med Verkunum. Hann Batt Hanns Sꜳr, Hellti Þar J Vijni Og Vidsmiori, Med ødru fleira sem Textinn upptelur, og ei þarf framar ad uppreikna. Enn i einu Ordi vil eg þad segia: Einginn Moodir hefdi kunnad betur ad giora vid Barn sitt: Einginn Fadir vid sinn einka Son, Einginn Broodir vid annañ, helldur enn þessi Utlendingur giordi vid Ovin sinn i slijku Tilfelli. Far þu nu, Christinn Madur, og gior slijkt hid sama, sem Heidingi þessi giordi: Elska ecki med Ordi og Twngu, Helldur med Verki og Sannleika, 1. Joh. 3. Nær þu sier Broodur edur Systir nakta, og hafa Skort ꜳ Daglegri Næringu, þa lꜳt ecki þinn Kiærleika vera þar i foolginn, ad þu segier: Lifid heil, Vermid ydur og mettid ydur; Enn giefid þeim þo ecki hvad Lijkamans Naudþurft tilheyrir, Jac. 2. Þetta er Hræsni Eintoom, og þad mun eins lijtid gagna Sꜳlu þinni, nær þu skallt fara eins nakinn i burt ur Heiminum, og þu i hann komst, Svo sem ad þijn Fagurmæli gøgnudu hinum Nakta og Hwngrada, ꜳ medann þu hafdir Audlegd Heimsins: Þad er merkelegt, ad ꜳ hinum Efsta Deigi, þegar Reikningurinn skal halldast, þa verdur oss þessi Poostur sier i lagi fyrirlagdur, Hvert Menn hafa mettad hinn Hwngrada, giefid hinum Þyrsta ad drecka, Hijst hinn Framanda, Klædt hinn Nakta, vitiad Siwkra, edur þeirra sem voru i Myrkvastofu, svo sem Frelsarinn kieñir oss sialfur, hiꜳ Matth. 25. Cap. Og er þad ecki noog ad vitia þeirra, Þad er eins gott og ad segia vid hinn Nakta, Klæd þig, Og vid hinn Hwngrada, Mettast, enn giefa hønum þo eckert. Vor Vitian ꜳ i þvi ad vera foolginn, ad Hugsvala þeim, Hiꜳlpa þeim med Rꜳd og Dꜳd; Annars eru Meñ ecki betri eñ Presturiñ og Leviteñ; Þeir sꜳu ad sønnu hinn auma Mann, Er hrasadur var ꜳ medal Ræningia, Enn geingu fram hiꜳ hønum. Jꜳ, Vier eigum ad hiꜳlpa þessum Krossberendum, Jafnvel med Skada vorum, og þoott vier meigum nockrs i þarfnast. Hier stendur i Gudspiallinu, ad Samaritaniñ hafi lagt hinn sꜳra Mañ uppꜳ sinn Eyk. Lijkast er hann hafi lꜳtid hann sitia ꜳ Dijrinu enn geingid sialfur; Þvi i Textanum stendur, ad hann hafi sett hañ uppꜳ sinn Eyk, Jꜳ, ef vier ecki berum Kunnꜳttu edur Vitsmuni til ad hiꜳlpa þeim sialfir, Þa eigum vier ecki ad spara til þess Fe-Muni vora, ad þeim meigi hoolpid verda; Þvi ef Johannes vill ad vier skulum giefa Lijfid wt fyrir Brædurnar, Þa er þad vijst; Ad hann ecki vill ad vier þyrma skulum hinum Rꜳnglꜳta Mamon, Er oss mun þo yfirgiefa i Daudanum; Þvi þad stendur fast, Sem Lausnarinn sagdi; Ad alltijd er Lijfid meira verdt enn Fædslann, og Lijkaminn meir enn Klædnadurin, og meira høfum vier ecki af øllu þvi vier eigum, og ꜳ þetta ecki ad giora svo naumt, ad þeir sieu litlu nær, sem vid þurfa. Ecki var þessi goodi Samaritan ꜳnægdur þar med, ad koma

þessum

þessum Vesæling til Manna-Bygda, helldur Gaf Hann Giætur Ad Honum; Og Um Morguninn Er hañ Reisti, Feck Hañ Hwsboondanum Tvo Peninga, Og Sagdi: Haf Þu Gaat A Honum, Og Hvad Þu Leggur Meira Ut, þad Skal Eg Borga, Nær Eg Kiem Aptur. O! Hvad morgum Þeim, er sig Christinn nefnir, gietur Utlendingur þessi Kiñroda giort a þessum verstu og sijdustu Tijmum, um hveria DRottiñ hefur talad hina soñu Spaa, ad sokum þess, ad Ranglætid vex, Þa muni margra Kiærleiki koolna, Matth. 24.

Eñ þessa Goodvilld eigum vier ecki alleina ad audsyna Naaungum vorum edur Kuñingium; Þad sie eg berlega af þvi, Er Frelsariñ sagdi vid þañ, Er honum bodid hafdi, Luc. 14. Nær þu helldur Middags-Verd edur Kvolld-Maaltijd, þa biood ei Vinum þijnum, Edur Brædrum þijnum, Edur Ættmonnum þijnum, Edur Rijkum Naagronnum, Svo ad þeir bioodi þier aptur einhvorn Tijma, Og þad verdi þier Endurgolldid; Helldur, nær þu giorir Heimbod, þa biood Faatækum, Vonudum, Holltum og Blindum, Og muntu sæll verda, Þvi þeir hafa þier ecki aptur ad giefa, Þvi þad skal þier aptur golldid verda i Upprisu Riettlaatra. Þar fyrir, Ef þu Christinn Madur ert, Ef þu villt i þeirri Upprisu Hlutdeilld hafa, Þa siaa til, ad þu naair Hlutskipti i hinni Fyrri, Svo þu verdir sæll, Og fel þig ecki fyrir Holldi þijnu, Þad er, Fyrir þijnum Naaunga, Hver sem hellst hann er, og nær þu sier einn Naudstaddann, er þu hiaalpad gietur, Þa laat svo sem hid sijdarsta Lyodurs-Hliood kvedi fyrir Eyrum þier, og tak þad fyrir Bod fraa Gudi, til ad minna þig a, ad giora Skylldu þijna med Kiærleikans Verki vid hinn Naudstadda: Laat eingann vera undannskilinn, þo þier Obeckur sie; Gleimid ecki Giestrisninni, segier Paall, Þvi fyrir hana hafa sumir Einglana hyst Ovitandi, Hebr. 13 Hann meinar aan Efa Abraham, Gen. 18. Og vard honum þad ad mikilli Blessan; Þu veist ecki hvorium Guds Þock er ad giora, Enn þad veistu, ad hann þacka vill allt þad, sem i hañs Nafni giort og giefid er. Framandi var eg, og þier hystud mig, segier Doomari alls Hollds. Þu skalt ecki giora Ofrijki hinum Framanda, Þvi þu varst Framandi i Egyptalandi, segier Gud, Exod. 22. Þu skallt og huxa þad, ad þu ert Framandi i hiñi vondu Egypto, Verolldu þessari, I þeirri Leyr-Velltuñi, Þvi Þrældooms-Hwsinu: I hiñi eilijfu Canaan er þitt Fodur-Land, Þangad attu inn ad gaanga til hanns Hvijldar, Þangad a þig ad leida, Ecki Jesus Sonur Nun, helldur JEsus Sonur Davids; Forsmaa ecki þa, Sem hann hefur med sijnu Bloodi Endurleyst, Er sialfur Framandi var medal sinna Eiginn, og hvad minnst vyrdtur a sinni Foostur-Jordu fyrir þijna Skulld, sem varst Utlægur wr Himnarijki. Og svo þu vitir, ad þad sie ecki noog, ad giora hinum Framanda edur Naudstadda eckert Mein, Þa leggur DRottiñ sialfur best wt sijn eigiñ Ord, þar hañ segier, Levit. 19. Svo sem hinn Iñlendi, svo skal Utlendinguriñ vera, sa ed reisir um hiaa þier; Og eñ framar: Þu skallt ecke upptaka Leifar Kornskieru þiñar: Þu skallt laata þær eptir hinum Faatæka, Og hinum Utlenda, Levit. 23. Ja, Þier skulud elska hiñ Framanda, Þvi þier vorud Framandi i Egyptalandi, segier hiñ Alvaldi Konungur,

ur, Devt. 10. Ecki eru undann þessari Skylldu Ovinir þijnir skildir, Guds Barn, helldur i henni tilskildir: svo segir DRottinn, Exod. 23. Ef þu finnur Naut Ovinar þijns, edur Asna Villuraafandi, þa skalltu endilega færa þad til hanns. Vilie nu Drottinn ad eiñ skuli vera sijnum Ovin skulldbundinn i so litlum Hlut; Hvad þa ecki, ef honum meira aaliggur? Og þoott eckert væri annad, sem kynni ad hræra oss til ad giæta þessarar Skylldu vorrar, þa er hid algiorda og alkunnuga Logmaal Christi, er ritad stendur hia Matth. Cap. 5. Elskid Ovini ydar; Blessid þaa er ydur formæla, og bidied fyrir þeim ed smaana ydur og offækia. Til hvers? Svo ad þier sieud Born Fodur ydar, sem aa Himnum er, hver ed lætur Sool sijna upprenna yfir Riettlaata og Raanglaata, og rigna yfir Vonda og Gooda. JEsus maatti hier diarft um tala; hann var i Guds Mynd, Phil. 2. Jaa, sialfur Gud, Eilijfur Fadir og Fridar-Hofdingi, Esa. 9. Þo Lijtilæckadi hann sialfann sig, takandi Þioons-Mynd, vordinn hlijdugur allt til Daudans, jaa, allt til Krossins Dauda, sijdann er hann uppfarinn i Hædirnar, og hefur Monnunum Gaafur giefid: Enn hvilijkar Gaafur? Naad Guds og Vingan, Syndanna Fyrirgiefning, H. Anda og eilijft Lijf. Hverium hefur hann þessar Gaafur sendt? Ovinum sijnum, þeim sem hann Hæddu, Fiotrudu, Hwdstryktu, med Þyrnum Kronudu, og aa Gaalgann uppheingdu, ecki einasta þeim, er stoodu ad Verkinu, helldur og ollum odrum, hverra Syndir ad Dijrdarinnar Hertoga Krossfest hafa, þvi fyrir alla er hann daainn, og ollum er Guds Heilsusamleg Naad frambodinn: Þetta giordi hann, sem er Lioomi Fodursins Dijrdar, þegar allt Mannkyn var stati i hinu herfilegasta Volædi. Skamastu þijn þar fyrir, Syndarinn, nær þu sier Ovin þinn Hwngra, ad giefa honum ecki ad eta, edur Þyrsta, og giefa honum ecki ad drecka, og nema þu svo giorir, þa þeink alldrei til þess, ad þu siert kvittur um Syndir þijnar fyrir Gudi, þvi valla hefur Guds Andi i Nya Testamentinu lagt svo rijkt aa vid Mennina um nockurn Hlut, sem þenna. Allir kollum vier Gud vorn HErra, enn ef hann er vor HErra, hvar er þa hañs Heidur? Mal. 1. Hvar er Hlijdni sw, er vier eigum honum ad audsijna? Þvi kallid þier mig HErra, og giorid þo ecki þaa Hluti, er eg bijd? Segir Christur, Luc. 6. Hanns Bodord eru ecki þwng, segir Johannes, enn eg vil segia, ad þetta er eitt af þeim liettustu, af þeim audvelldustu, fyrir þann sem Hugleidir hvad lijtil sie Naungans Misgiord vid sig, hiaa þvi sem hann sialfur hefur giort Gudi i moot, og hversu þad er eckert, sem hann gietur Lidsinnt Broodur sijnum, hiaa ollu þvi goodu sem Gud hefur honum giort, og tekur hann þad þo ecki af sijnu, helldur hanns, sem aa allar Eigur. DROttinn, wtslock þu i oss Baal Illskunnar og Heiptrækninnar, enn kveik i oss Elskuna til þijn og Naungans; Þier sie Lof, Dijrd og Heidur, um Alldir, Amen.

## Fioortanda Sunnudag eftir Trinitatis.

Gudspiallid, Luc. 17. Cap.

J Þañ

A Pañ Tijma. Og þad ſkiedi ſo, þa ed JEſus gieck til Jeruſalem, ad hañ ferdadiſt i giegnum midia Samariam og Galilæam. Eñ ſem hañ gieck iñ i nockurt Kauptwn, mættu honum Tiju Lijkþraair Meñ, hverier ad ſtoodu laangt fraa, hoofu upp ſijnar Raddir, og ſøgdu: JEſu goodi Meiſtari, Myſkuna þu oſs. Eñ ſem hañ leit þaa, ſagdi hañ til þeirra: Farid þier og ſijnid ydur Kleñimoñunum. Og þad ſkiedi ſo, þaa er þeir geingu þadañ, ad þeir urdu hreinir. Eñ eirn wt af þeim, nær hañ ſaa þad, ad hañ var Heilbrigdur vordiñ, ſneri hañ aftur, lofandi Gud med haarri Rauſt, fiell frañ aa ſijna Aſioonu fyrir Fætur JEſu, giorandi honum Packir, og þeſsi var Samverſkur. Eñ JEſus ſvaradi og ſagdi: Hvort voru ecki Tiju hreinſadir? Eñ hvar eru hinir Niju? Funduſt aungver þeir afturſneri, ad giefa Gudi Dijrdina, nema þeſsi Utlendingur? Og hañ ſagdi til hañs: Statt upp og far hiedañ, þvi ad þijn Trw giordi þig Hiaalplegañ.

## Exordium.

Verſu ſtoor ad ſie Mismunur Guds og Manna, þad kann einginn Twnga wt ad ſkijra, og einginn Hugur ad ſkilia: Hver Manna veit hvad Mannſins er, nema Mannſins Andi ſem i honum er? Svo og hvad Guds er, veit eingiñ, nema Guds Andi, ſegir Paulus, 1. Cor. 1. Eñ þo ad vor Natturlegur Skilningur naai ſkamt til þeſs, ad rannſaka Guds Undirdiwp, þa kynnum vier þo a þeſsum Mismun nockud ſkijrari Grein ad giora, ef vier legdum meiri Hug a, ad ſamannbera hañs Almætti og vorn Vanmaatt, hanns Riettlæti og vort Raanglæti, hanns Vijsdoom og Faafiænſku vora; Enn þo allra hellſt hanns Polinnmædi og vora Þvermoodſku, hanns Giædſku og vort Opacklæti: Hanns Almætti þeckium vier ecki ſvo ſem þad er: Sitt Riettlæti ſijnir hann oſs ecki ſvo opt, nema i Giædſkunni, þvi velldur Rijkdoomur hanns [illegible]innmædis: Hanns Vijsdoom ſkynium vier ecki, enn hanns Laanglundar-Gied, hañs Giædſku og Myſkunſemi meigum vier hvad beſt þeckia, þvi hun er nij og ferſk yfir oſs aa hverium Morgni; Jordinn er full af henni, aa hverri vier ſkrijdum, ſyndugir Ormar, og meigum Daglega rekia þar hanns Spor, ſem driwpa af Feiti. Eg ſkal ecki fullkomna mijna brennandi Reidi, eg ſkal ecki tortijna framar Ephraim, þvi eg em Gud og ecki Madur, ſegier Giædſkann ſiaalf fyrir Munn Hoſeæ Spaamanns, Cap. 11. Og þo vill Syndarinn ecki kannaſt vid þeſſa Guddoomlega Elſku, Myſkunſemi og Polinnmædi, jafnvel þoott hann ſie Madur, þad er, ein Guſa, ein Vatns-Boola, og ecki Gud, og ecki þacka honum edur kannaſt vid hanns Fødurlega Giædſku margur hver, Jaa, Gud giæfi ad færri væru enn fleiri! Dæmi hier uppaa ſiaaum vier i Textanum, aa þeſſ-

um Tiju Lijkþrau Monnum, sem hreinsadir voru, Hvetra Einn alleina aptursneri, og gaf Gudi Dijrdina, Enn hinir Niju gleymdu þvi ad Bragdi er giort var. Eg vil skipta Gudspiallinu i Tvo Hluti, Og Hugleida 1. Opacklæti hinna Niju. 2. Packlæti hinns Eina. JESU Goodi Meistari, Hiaalpa oss hier til med Krapti þijns Anda, A M E N.

## Utleggingin.

EKki er Trwinn allra, segier Paulus, 2. Thess. 3. Ollum er hun þo frambodinn sem Ordid heyra, þvi Heilsusamleg Guds Naad er Opinnber vordin ollum Monnum, segier Postulinn aftur, Tit. 2. Er hann talar um Christni Bodid, J hveriu ad Trwinn er eitt Hofud-Sticki; Margur trwir um Stundar-Sakir, Enn aa Freistingar-Tijmanum, þa fellur hann þar fraa, svo sem Lausnarinn kiennir hiaa Lucam, Cap. 8. Ad vijsu er þad satt, ad Freisting merkir optlega i Ritningunni þær Hormungar, Er Gud lætur Bornum sijnum mæta, til ad reyna þau: Ydur hefur ecki hendt nema Mannleg Freistni, segier Paulus, þad er, Mootlæti þad sem Monum er bærilegt: Svo nefnir og Jacob Mootlæti Guds Barna, Cap. 1. Enn Gud Freistar Mannsins aa Stundum med Eptirlæti sijnu: Þegar Gud liet David allt ad Oskum gaanga, þa vard hann svo freistadur, ad hann taldi Foolkid, 2. Sam. 24. Þegar Ezechias Konungur hafdi Luckui ollu sijnu Verki, þa freistadist hann til ad sijna Babylons Hofdingia Sendi-Monnum Fiaar-Sioodu sijna og Gersemar, 2. Chron. 32. Svo ad þad maa allt syndugt Holld jaata, ad ecki er minni Freistinga Von i Medlætinu enn i Mootlætinu; Svo sem Mootgaangurinn steypir sumum i Orvænting, svo þurfa og sterk Bein til ad þola gooda Daga. Morgum hefur Velgeingninn komid til Ohoofs, Til Ofmetnadar, Til Opacklætis vid Gud, og jafnvel til Afgudadijrkunar, Jaa, þeim og, sem Gud hafa aadur vel þeckt, og hann vor Duptinu hafid hefur, enn sett til mikillrar Tignar, Hvar um liooft Vitni bera Jeroboam og Jehu Israels Konungar, sem ecki voru Kongbornir, Enn Gud þo upphoof aa Tignar-Stool Drottna sinna. Ecki verdur þvi neitad, ad allir þessir Lijkþraau Menn, þeir hafa i Fyrstunni trwad aa Christ, Þvi upphoofu þeir Raddir sijnar, og sogdu: JEsu g[...] Meistari Myskuna Þu oss; Þad hefdu þeir ei giort, nema þeir hefdu heyrt Riktid af DRottni, Og treyst þvi, ad med honum væri Guddoomlegur Kraptur: Er eg Gud sa ed kunni ad deyda edur lijfga, sagdi Israels Konungur, þegar Konungurinn af Syria sendi Naaman hinn Syrlendska til hanns, þad eg gieti hreinsad þenna Mann, af sinni Lijkþraa, 2. Reg. 5. Hvar af audsært er, ad þad hefur verid ad jofnu lagt i þaa Daga, ad lækna þesshattar Siwkdoom, og ad uppvekia af Daudum, Sem er Guds alleina, svo sem David vottar; Og er þvi audvitad, ad þessir veiku Menn hafi tillagt Frelsaranum nockurskonar Guddoomlegann Heidur; Þoott ei hafi þeir verid Sann frood-ir um hanns Persoonu, samt dugdi þessi Trw til Lijkamans Lækningar. DRottinn læknadi þaa ecki strax, Eins og hinn Lijkþraa, er gietur um hiaa Matth. 8. Cap. Vid hvern hann snart og sagdi: Eg vil vertu hreinn; Helldur sagdi hann alleina: Farid og sijnid

Ydur

Ydur KJennimønnunum, og aa ttu þeir þo laanga Leid til þeirra wr Samaria upp til Jerusalem, enn aa Leidinni hafa þeir hreinsadir vordid, Þvi Gudspiallid seigir: Og Þad Skiedi, Er Þeir Voru A Ferdinni, Ad Þeir Hreinsuduſt. Þetta sijnir Trw þeirra, Ad þeir efuduſt ecki um̃, ad giora Frelsarans Skipan, Helldur i Trausti hanns Orda byriudu Ferd siina til Kiennimannaña, Sem eptir Løgmaalinu aattu ad dæma um̃, hvert þeir væru hreinir edur ei. Olijkir voru þeir i þessu mørgum þeim, er ei vilia Gudi treista, verdi þeir ecki strax Bænheyrdir um̃ þaa Hluti, er þeir þurfa þykiast. Vantrwiñ segier: Þoott Gud giørdi Glugga aa Himininn, þa kann ecki þetta ad skie; Hun skijtur sier inn jafnvel hiaa Guds Børnum, og Predikar: Hvar faaum vier Braud hier i Eydi-Mørku svo ad þessir neyti, Marc. 8. Hvad tijtt hendir oss þvilijkt, nær oss þykir eitt-hvad Olijklegt? Og er margur af oss i þessu miøg Olijkur þessum Lijkþraa Mønnum: Enn i hinu erum vier þeim nærsta lijkir, ad þegar DRottinns Almaattuga Hønd hefur wtryckt oss af Neydinni, þa erum vier þess svo skam̃minnugir, og hanns Otte valla leingur hiaa oss, eñ Snioriñ aa Steinunum, þegar Regnid Ofann kiemur, svo sem Spaa-Madurinn segier: Og hvad er tijdara enn þad, Ad nær Angistinn þreingir ad oss, ad vier þa køllum til DRottinns, þa er vort Sinni til hanns, svo sem Esajas ad Ordi kiemſt, Cap. 26. Hver er sa, Nær hann siwkur er, Edur af einhveriumLijkamans Meinum plaag-adur, ad ecki sie hann reidubwinn til ad giefa Gudi Handskrift sijna, ef hañ mætti, uppa Betran Lijfernisins, og ad hann vilie laata af øllum þeim Syndum, Er hann veit og vid-kannaſt, ad hann hafi hinn gooda Gud styggdann med? Þetta er ad vijsu Alvara fleſtra Manna, Þvi einginn hygg eg ad vilie gabba Gud, Þegar svo aaſtendur: Aſetninguriñ er ad sønnu goodur, og geingur þad fyrir fullt, Ef Gud lætur einn burtkallaſt i Siwkdoom-inum; Eñ þa er Efndanna vant, Þegar Heitid er komid, segir Ordtækid. Hvernig þeim sie varid aa Stundum, þad siaaum vier af þeim mørgum sem hætt hafa leiged; Eñ Guds Þoliñmædi og Giædska hefur aptur aa Fætur reiſt, ad þeir lifa eingu betur sijdañ eñ aad-ur, nema midur sie a Stundum, og laata jafnvel ecki af þeim Løſtum, er verid hafa. Or-søk til Meinlætis þeirra, edur añars Mootgaangs, og brwka svo Miskun Guds til Ef-lingar Syndanna; Svo laangt er fraa þvi, ad þeir laati Rijkdoom h[...]s Þolinmædis draga sig til Yðrunar, Rom. 2.

Menn hafa aa medal vor eina Skrok-Søgu um̃ Barn nockurt, þad er fiell i Pitt, og er þad meinti sier Dauda-Von, Beiddi þad Gud ad hiaalpa sier til Lijfsins, Eñ er þad slapp wr Dijkinu upp aa Backann, Þa segier Æfinntijrid, ad Barnid hafi sagt: Ecki þarftu, Eg gat. Einfalldleg er Saga þessi, enn þo er hun maatuleg til þess, og þar til mun hun diktud vera, ad giora þeim Kiñ-Roda, sem eru Børn i Skynseminni, Eñ ecki i Hreck-vijsinni, 1. Cor. 14. Og leita Guds alleina nær þeim aaliggur; Eñ añadhvert þacka sier, edur giallda honum litlar Þackir, nær þeir sloppnir eru wr Vandrædunum: Þetta er Almennara, enn Vitni þurfi til ad leida, Jafnvel hiaa þeim, sem hvad beſt ættu ad vita sijns HErra Vilia, Luc. 12. Og ødrum ad vera til Eptirdæmis, Er þo mættu Ottaſt

fyrer

fyrir hinum flestu Slogum, nær Mælir Syndanna er uppfylltur. Til eru þeir sem meina, ad Prestarnir hafi um̃snwid þessum Niju Gydingum, og talid þeim Trw þar um̃, ad JEsus hefdi ei giort Jardteikn þessa af Guds Krafti, og þvi hafi þeir ecki aftur horfid. Alls var ad sønnu Jlls Von af þeim i þaa Daga, sierdeilis þegar Christur aatti Hlutinn ad, og var ecki Olijkt þvi er hann maatti heyra, ad fyrir Belzebub ræki hann wt Diøflana, Luc. 11. Þad gietur og skied, ad þeir hafi talad þetta fyrir Gydingum, Løndum sijnum, enn ecki hyrdt svo miøg um̃ hinn wtlenda Mann: Þeim hefur þad i eingu Rwmi leigid, þoott hann sneri aftur til hanns, er þeir kølludu Samariskann og hefdi Diøfulinn, Joh. 8. Enn Gaatu þessarar er eingiñ Þørf; Holld og Blood er noogu banvænt til ad vekia i oss Syndina, og ad letia oss til ad giora Gudi Þackir fyrir Myskun sijna, er þo Daglega upprennur yfir oss Raanglaatum aa hverium Morgni.

A medann þessir veiku Menn laau undir Krossinum, þa voru þeir goodir Vinir, og allir i einum Flocki, enn þegar DRottinn hafdi giefid þeim øllum Heilsuna aftur, þa kønnudust hinir Niju vid þad, ad þeir voru Gydingar, enn hinn Samverskur, þvi ecki villdu þeir verda hønum samferda i Afturhvarfinu til Frelsarans; Þannveg er vort Þacklæti vid Gud, er hvad mest hefur bodid ad dijrka sig med Kiærleikanum, Myskunseminni og Eindrægninni. Þegar Skeinkiari Pharaonis hefur naad aftur sijns Herra Gunst, þa gleymir hann Joseph, þvi hann var Utlendur; Þegar Skullda-Priooturinn, sem aatti 10000. Pund ad giallda, þegar hann er wtgeinginn fraa Hws-Fodurnum, sem gaf hønum upp alla Skulldina, þa griipur hann fyrir Kverkar sijnum Verka-Naut, er hønum var miklu minna skylldugur. Svo geingur þad til fyrir mørgum af oss; Hafi Gud upphafid einn Vesæling til Heidurs, til Rijkdooms, til Embættis, þa vill hann ecki kañast vid Brædur sijna, er skom̃u aadur voru hanns Jafningiar, og kannskie høfdu giort vel til hanns. Þegar hinn Almaattugi hefur lagt einhvern undir Lijma med nockru Mootlæti, annadhvert Heilsu-Bresti, Fie-Missu, Ofbelldi og Ofsooknum vondra Manna, er hann lijdur ad flwga aa suma, sem minni Maattar eru, til ad typta einhvern, enn laatid hañ þo rata wr þessu, og sett hann aftur i sinn Stad, þaa stijngur hann bædi Auguñ wt, og vill ecki Myskuna hønum, sem hann þo sier, ad maa lijda hid sama, sem hann maatti þola, og Gud hafdi agad hann med, til ad þeckia Vanmaatt siñ, og Skaparans Giædsku, og þegar hañ sier Ovin sinn, er hann þykist eiga Heyptir ad giallda, þa segir hañ med siaalfum sier: Eg skal giøra hønum, svo sem hann mier giørdi: Svoddann er hid mesta Oþacklæti. Voru Ecki Tiju, Þeir Ed Hreinsadir Voru, Enn Hvar Eru Þa Hinir Niju? Segir Endurlausnarinn i Gudspiallinu. Betra hefdi þessum Oþacklaatu Mønnum verid, ad Siwkleiki þeirra hefdi fylgt þeim inn til Daudans, enn ad þeir yrdu heilbrygdir aa Lijkamanum, enn fyrir Vanbrwkun DRottinns Giædsku, aa Saalunni Vanheilir. Þeir skildu sig fraa þessum Utlenda Mañi i þvi, ad þeir sneru ecki aftur til sijns Læknara, og sijndu þar med, ad ei væru þeir af hinni Osijnilegu Guds Kyrkiu, þoott ad þeir væru Limir hinnar Sijnilegu; Svo vil eg segia: Ad þeir, sem eg hier ad framann hefi talad

um̃,

um, er vilia fraa skilder vera Christi Limum, og ecke þeckia þa, þeir eru Stallbrædur þess-ara Opacklaata Manna, og ecke Limer aa hanns Lijkama, sem er Hofud Safnadarens, og ecki emasta gieck i kring, giörde Gott og grædde alla, helldur og leid fyrer Ovine sijna, Jafnvel þa, er hann sialfer kvoldu. Vier vorum til Forna utlender, aan Guds i Heimenum, og fiarlæger Israels Borgar-Riette, svo sem Paulus ad Orde kiemst, Eph. 2. Hvert ad þesser Niju Gydingar hafe nockurn Tijma aptur naad sinne Andlegre Heilbrigde; Þad veit hann einn, sem alleina veit Tolu sinna utvaldra Barna: Enn sieaum vier til, Utlendinganna Syner, ad vier helldur lijkiunst þessum Utlending, helldur enn Abrahams Sonum þessum epter Holldenu, svo ad Spaadoomur Frelsarans mætte rætast aa sierhverium af oss, þar hann sagde: Marger munu koma af Austre og Vestre, og sitia til Bords med Abraham, Isaac og Jacob, enn Rijkesins Syner munu utrekner verda i hin ytstu Myrkur, Matth. 8. Vier erum ad sonnu komner i Stadenn Gydinga. Svo sem ad DRottenn utrak Heidingia fyrer þeim, vegna Synda sinna og Stoor-Glæpa, svo hefur hann utreked þa fyrer oss sokum Hardydgis þeirra og Vantrwar, þeir eru afbrotner, enn vier innplantader, svo sem Paulus ad Orde kiemst, Rom. 11. Enn Gud giæfe, ad fleire enn einn Samaritan finnest aa medal Tiju Israels Manna; þad er þeirra, sem eiga ad vera, og kalla sig Abrahams Syne epter Trwnne. Diogenes Spekingur var eitt sinn adspurdur, hver Hlutur ad mest fyrnteste aa medal Mannanna? Enn hann svarade; Þad væru Goodgiorderner. Þvi maa ei neyta, ad hann sagde satt, Dagleg Reynsla kienner þad: Enn hverneg sem þessu er vared aa medal vor Mannanna Innbyrdis, þa ætla eg þo, ad Velgiorningar DRottens, og Packlæted fyrer þa, þau eige hinn skiemsta Alldur hiaa sumumhverium, og eg maa segia, hiaa allmorgum: Þar um hygg eg þad satt sie, er hiner Spöku segia: Ad sumer vanþacke þess meir, sem þeir meira skylldúger eru, Sokum þess, ad vier siaaum hver annann, og þar sem oss er eitt Sinn gott giort, þadann væntum vier meira, þa laatunst vier þacka Monnunum, ecke svo af Hiarta sumerhverier, svo sem til ad orsa þa til, ad hallda aafram Goodvilldenne; þad siest aa Stundum, nær þeir eru i einhverium Þrautum stadder, sem hvad best hafa til vor giort: Enn Fodur Lioosanna, fraa hverium ad kiemur oll good Giöf, og oll fullkomenn Giof, Jac. 1. Og allt hvad fraa Monnunum kiemur, þad kiemur i Fyrstunne fraa Gude; Honum þacka Menn svo lijtt, af þvi vier siaaum hann ecke, enn þreifum þo aa hanns Giædsku, hanns Velgiorningum og Daasemdum, hvern Dag, hvern Tijma, og hvert Augnablik; Og skal þad nu svo ut-talad um þad Fyrra.

Nu er sijdann ad tala um Packlæte Utlendingsins, og hvad vier eigum af þvi ad læra. Drottningenn af Sudre mun upprijsa og fordæma þessa Kynslood, sagde Lausnarenn, Matth. 12. Hun var Framande, og þo dædest hun svo ad Speke Salomonis, ad Lausnarenn hroosar henne i þessum Ordum: Enn oll Salomonis Dijrd var lijtel ad reikna hiaa þessu Kraptaverke DRottenns, þvi maa eg þad segia, ad þesse Utlendske Madur mun gieta kienntt morgum Atferd Packlætesins vid Gud, Fyrer medtekna Velgiorninga,



ninga,

ninga. Hverniggiorir hann þad? Gudſpiallid ſegir: Hann Hafi Prijſad Gud Med Haarri Roddu. Lof ſeig þu Ønd mijn DRottni, og allt hvad i mier er hañs H. Nafni, ſegir David; Hvar af ſiaa maa, ad hann vill ad allir Partar Skapnadar vors ſkuli Gud loſa, aa medal hverra ad Rauſtinn er ecki hinn minnſti. Alla Hluti hefur Gud giort ſier til Dijrdar, og til vorrar Saaluhiaalpar; Oſkandi væri, ad Menn brwkudu þa þar eftir! Hvad oft bijdur David, ad Menn ſkuli Gudi Lof ſijngia? Moyſes ſaung Gudi nijann Loſſaung, Maria Syſtir þeirra Aarons gieck wt og prijſadi Gud med Bumbum og Hlioodfærum, þegar Gud hafdi giort hina ſtooru Endurlauſn ſijnu Foolki af Egypta landi, Exod. 14. Svo er þad enn nu hiaa oſs bædi ſkipad og Veniulegt, ad prijſa Gud med Pſalmum og Loſſaungvum, eftir Paals Bodi, Col. 3. Ecki ſegi eg, ad þeſsi Samaritan hafi kvedid vid Rauſt; Enn þetta, ad hann Prijſadi Gud Med Haarri Roddu, þad minnir mig þar aa, ad vier laatum Loſſaungva vora ecki alleina vera foolgna i Hlioodunum, helldur þar med i Gudrækni Hiartans, þvi hier ſtendur, ad hañ hafi prijſad Gud; af hveriu audſært er, ad Hugur hefur Maali fylgt. Ecki verdur DRottinn med þvi prijſadur, ad naalgaſt hann med Vørunum, ecki helldur med Rauſtinni alleina, hverſu ſem hun fogur er, hann vegur Hiartad, ſem er Hiartnanna og Nijrnanna Rañſakari; Giæti þeir þeſs, er fara med Audlegar Vijſur og Pſalma, alleina ad Gamni ſier, brwka þær fyrir Øl-Vijſur, edur til annars Giaalijfis: Hyggi Meñ ad, hvert ecki er i þeſſu nockur Gudlaſtan: J þetta mun þykia lijtid ſpunnid, þvi þad er Almennt, enn Gud lætur ecki ad ſier hæda, þoott Ordinn ſieu good, þoott Dicturinn fallegur, þoott Rauſtinn ſie væn, þa eru ſoddann Loſſaungvar ecki añad enn Nyt fyrir utann Kiarna, Sky fyrir utann Regn, og meir til þeſs ad ſtyggia Gud, enn ad prijſa hann; Vilie Meñ þvi ſijngia Gudi Lof, edur prijſa hann med Roddu ſinni, þa ſijngi Menn eins og Paulus og Silas i Faangelſinu, Act. 16. Eins og Guds Moodir, eins og St. Paall um̃ ſig ſegir, 1. Cor. 14. Eg ſkal ſijngia med Andanum; Eg ſkal og ſijngia med Hugſkotinu, þad er, Eg ſkal laata Hug Maali fylgia; aan þeſſa er Rauſtiñ Onijt til ad prijſa Gud; Miklu betur lætur Þøgn Moyſis, er hann hroopadi til Guds, Exod. 14. Enn ecki gietur um̃, ad nockur hafi ſied hanns Varir bæraſt; miklu betur þeigiandi Graatur Aunnu Moodir Samuelis, og miklu betur Trw og heimugleg Andvarpan hinnar Bloodfallsſiwku i hanns Eyrum, ſem Eyrad plantad hefur.

Hañ fiell til Foota Jeſu, ſegir i Gudſpiallinu: Þetta var hid meſta Audmyktar Merki: Ad ſøñu plogudu Gydingar ad bidiaſt fyrir ſtandandi i Samkunduñi: Tollheimtumaduriñ ſtood og badſt fyrir, ſama giordi Phariſæiñ, þvi ſegir og Lauſnariñ, Marc. 11. Nær þier ſtandid og bidieſt fyrir, þa fyrirgiefid, ef þier hafid eitthvad aa mooti nockrum: Svo bijdur og Paulus, 1. Tim. 2. Ad Meñ ſkuli upphefia Heilagar Hendur: Þo var þad Sidur Gydinga, nær þeir ſier i Lagi villdu audmijkia ſig, ad þeir koſtudu ſier flotum fram̃ fyrir Gud: Þanninn giordi Joſua, Joſ. 7. Svo breitti David, og ſiaalfur Frelſarinn i ſinni meſtu Angiſt. Audmyktinn geingur undann Vegſemdiñi, ſegir Salo-

mon,

tion, Prov. 15. Einginn Hlutur er Gudi þægari, eñ eiñ audmiwkur Andi. I vorri Audmykt minntist hann a oss, segir David, Ps. 136. Ja, hann lijtur a Tal hinna Audmiwka, og forsmaair ecki hanns Bæn, segir hann enn aftur, Ps. 101. Hversu vel þocknadist Gudi Audmykt Abrahams, er hann sagdist vera Dupt og Aska, Aunnu Hws-frw Elkanæ, Gedeonis, er hann sagdist vera hinn Minnsti i sijns Fodurs-Hwsi, Jud. 6. Pad stendur fast sem Salomon skrifar; Hinum Dramblaata fylgir Nidurdrepid a ep-tir, og þann sem audmiwkur er i Anda mun Vegsemdinn upphefia, Prov. 29. Og þvi skylldi Manneskiann ecki audmijkia sig fyrir Gudi? Einn Syndari fyrir hinum Heilaga? Einn Ormur fyrir Konungi Himins og Jardar? Einn Skullda-Priootur fyrir þeim er Daglega uppgiefur honum svo morg Tiju Þusund Punda, hvers Giædska ad er hær-ri enn Himininn, hvers Reidi ad brennur allt til nedsta Helvijtis yfir hinum Drambla-tu, hver ed Volldugum hrindir af Stooli, enn Lijtilaatum giefur hann Naad? Og hver-su eru Menn ecki audmiwkir i annarra Manna Augsijn, jafnvel a Stundum fyrir einn Bita Brauds? O! hvilijk Lotning ber þa honum, sem Daglega upplijkur sinni milldu Hendi, og sedur allar lifandi Skiepnur?

Giorandi Honum Packir, segir i Textanum. Þessi framandi Madur hafdi aadur sijnt Drottni Gudlegann Heidur, þar hann fiell til Foota honum, hvad Gudi alleina til-heyrir, jafnvel þoott sumir Veralldar-Hofdingiar hafi laatid sig svo tigna, einkum Pers-anna Konungar i Fyrndinni, þvi ecki villdi Eingilliñ taka slijku af Johanne, er hañ sagdi: Sia til ad ei giorir þu þetta, tilbid þu Gud, Apoc. 19. Nu fyrst hann þeckti hañs Gud-doomlegann Krapt og Valld, þa offrar hann honum Þackargiordinni. Svo sem eingiñ Hlutur meir styggir Gud eñ Oþacklætid, hvar uñ aadur er nockud talad; So er og Þack-lætid hanns kiærasti Skattur, og snart ad segia, sa einasti, af Monnunum, þviad þessi Skyllda a ad sijna sig i ollu þvi, er vier leitunst vid ad giora Gudi til Þocknunar; Þar fyrir segir Paulus: Allt hvad þier giorid med Ordi og Verki, þad giorid i Nafni JEsu Christi, og þackid Gudi og Fodur fyrir hann, Col. 3. Þacklætinu er svo varid, nær þad fraḿkiemur af Elskunni til Guds, og trwudu Hiarta, ad þad ecki einasta gielldur Gudi undannfarnar Velgiordir, þvi annad heimtir hann ecki, helldur og bijdur odrum heim af hanns Myskunar-Hendi; Ecki þrijtur hiaa honum, ef oss þrijtur ecki þad sem hann hefur a oss skilid, og syndugum Manni er hægast wti ad laata, sem er audmiwkt Þacklæti. Et eg nockud Kiot hinna sterku Uxanna, edur dreck Blood Hafranna? Segir Gud fyr-ir Davids Munn, Ps. 50. Offra þu DRottni Lofgiordinni, og gialld hinum Hæsta þijn Heit: Og er Manneskiañ nærsta Hyrdu lijtil uñ sijn eigiñ Efni, ad hun ecki skuli legg-ia allann Hug a þetta, þar Gud krefur svo lijtils Hlutar af heñi, i hveriu heñi ecki einasta eru einginn Utlaat, helldur er þad i sialfu sier hid mesta Inndæli, þeim sem vordiñ er einn Andi med Gudi, þad er sa Fognudur i Heilogum Anda, sem vier eigum ad byria hier fyrst i Guds Naadar-Rijki, enn sijdañ skal fullkomnast i Dijrdinni, þegar þad tekur En-da sem Haalfverkid er, þvi þad mun i hinni Eilijfu Sælu verda hid mesta Eftirlæti Guds

Barna; ad lofa hann og þacka honum fyrer allar hanns Daasemder og Velgiorninga, hveria vier þa fyrst þeckium, svo sem vier þeckter verdum, enn hier ecki nema svo sem fyrer Speigil og i Raad-Gaatu, 1. Cor. 13. Nu er þad ecki noog, ad Menn giore Gude Þacker med Munnenum alleina, Hiartad aa med ad fylgia. Hversu innelegar Þacker ad Madur þesse hafe giort Frelsaranum, þad sijna oss Ord DRottenns, er hañ sagde: Þijn Trw giordi þig hoolpeñ. Og ecki Einasta aa Þacklæted ad framkoma af Hiartanu, þad er liett fyrer þann, sem hugleider, ad hann er Gude um̃ Saal og Lijf skylldugur, ad þacka Gude af Alvoru; helldur aa og Gnægd Hiartans ad briootast wt med Verkenu i Betran Lifnadarens, J Ydkun hinna bestu Dygda og Mannkosta, og ollu þvi er vier Gudi þocknannlegt vitum vera; Þad bijdur Paulus, er hann segier: Epter þvi Christur er daaenn fyrer alla, þa er þad Riettvijst, ad vier ecke framar skulum lifa sialfum oss, helldur honum, sem fyrer oss er daaenn, 2. Cor. 5. Enn þo aa þesse Vidurkienning Guds Giædsku hvad mest ad laata sig sia i Miskunar-Verkunum, vid þa sem bera Drottinns Kross. Frelsarenn saa Aumur aa þessum veiku Monnum, og læknade þa; Gior slijkt hid sama, vert Myskunsamur, svo sem hann var Myskunsamur, og nær þu sier þvilijkt eitt lifande Hræ, þa huxa til þess, og laat sia þad i Giorningnum, ad þu vidkannist, ad þu ert i Skijrnenne hreinsadur af hinne Andlegu Lijkþraa, Syndenni, sem er ollum Siwkdoomum skiædare. Minn HErra JESU! Eg hefe ecke Glede af nockurs Manns Hormungu, nema þinne; Hvar fyrer? Þviad allra Manna Harmkvæle eru Straff Syndarinnar, enn nær eg sie, ad þeir eru typtader, enn eg em heill og hraustur, þa kiemur mier i Hug, ad eg hefe hid sama forskulldad, eg, sem ad er hinn meste aa medal Syndaranna; Enn þegar eg aalijt þijnar Hormungar, DRottenn miñ, er þu ecki hafder forskulldad; enn leidst þo Saklaus miña vegna, þa stend eg upp med þessum Utlending, þa hressest Hugur minn, þar eg trwe ad mijnar Jllgiorder sieu þar fyrer kvittar, ad Gud hefur lided i Holldenu; Svo giorer mijn Trwa mig hoolpenn og þess fullvruggann, ad þinn Himneskur Fader hefur kastad Syndum mijnum i Hafsins Diup, svo þeirra Minning kome ei upp ad Eilijfu. Þier med honum, aasamt Heilogum Anda, sie Vellde og Kraptur, Dijrd og Heidur, um̃ Allder Allda; AMEN.

# Fimtanda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 6. Cap.

A Þeim Tijma. JEsus sagde til siña Læresveina: Eingeñ kañ Tveimur Herrum ad þioona. Añadhvert hañ afræker þañ Eina, og elskar hiñ Añañ, eda hañ adhillest þañ Eina, og fyrerlijtur hiñ Añañ. Eige geted þier Gude þioonad, og Mam̃ona. Þar fyrer segie eg ydur: Vered eige Hugsiwker fyrer ydru Lijfe, hvad þier skulud eta og drecka, og eige helldur fyr-

fyrer ydrum Lijkama, hveriu þier skulud klædast. Eda er ecke Lijfed meir enn Fædslan, og Lijkamenn meir enn Klædnadurenn? Lijted a Fugla Himens, þeir ed hverke sa nie uppskiera, og ecke helldur safna þeir i Korn=Hlodu, og ydar Himneskur Fader hann fæder þa. Eda erud þier ecke miklu framar enn þeir? Enn hvør ydar gietur med sinne Ahyggiu auked eirne Alenn vid sijna Leingd? Og hvar til erud þier Hugsiwker fyrer Klædnadenum? Hygged ad Akursins Lilliu Grøsum, hvernenn þau vaxa, þau vinna ecke nie spinna; Enn eg segie ydur: Pad Salomon i allre sinne Dijrd, var eige svo skrijddur sem Eitt af þeim. Og ef Gud klæder so Grased, þad i Dag er a Akre, og a Morgun verdur i Ofn kastad: Skyllde hann ecke miklu framar þad sama vid ydur giora, O! Pier Lijteltrwader? Par fyrer skulud þier ecke Hugsiwker vera, so seglande: Hvad eigum vier ad eta, eda hvad eigum vier ad drecka, eda med hveriu eigum vier ad klædast? Pviad epter þessu ollu leita Heidnar Pioder. Og ydar Himneskur Fader, hann veit ad þier þurfed alls þessa vid. Par fyrer leited fyrst Guds Rijkis, og so hanns Riettlætis, og mun ydur allt þetta til leggiast. Fyrer þvi skulud þier ecke Ahyggiu bera fyrer Morgun=Deigenum, þviad Morgun=Dagurenn mun fyrer sialfum sier Umhyggiu bera. Hverium Deige næger sijn Plaaning.

## Exordium.

HOtt ad Hugur vor sie hin Daasamlegasta Skiepna Guds under Soolunne, þa gietur honum ecke twijskipt vorded, til ad rækia þaa Hlute, sem Gagnstæder eru hver odrum; Svo er hann kreinktur af Spillingu þeirre, sem vier epter Adam erfdum: Enn aadur enn Bondskann innkom i Heimenn, þa var ecker Gude Mootstædelegt, allar Skiepnur hlijddu honum, þad var allt harla Gott, er hann skoop, Illskann eir er honum Ohlijdenn, og þeir Hluter, sem af henne frammkoma, hverra Hofundur ad Diofullenn er, og hanns Þienare, hinn Gudlouse Heimur þesse. Med al Guds og hanns er Eilijfur Fiandskapur stadfestur, sijdann hann var wt wr Himnenum rekenn, svo er og Heimurenn, þvi segier Jacob, Cap. 4. Hann, sem er Heimsins Vinur, hann gioreft Guds Ovinur: Hægra er Vatne og Vidsmiore samann ad blanda, enn þessa ad forlijka, Svo ad hverugs Þienarar gieta annars vered: Þad vill Frelsarenn kienna oss i upplesnu Gudspialle, er hann segier: Ad Eingenn Kunne Tveim HErrum Ad Þioona, og Ad Vier Gietum Ecke Under Eins, Þioonad GUDE Og MAMMONA. Þetta Ord, MAMMONA, þijder Abata, epter sumra Vijsenda Manna Utleggingu; Enn allskonar Nægter og Fullsælu Fiaar, epter sumra: Hun er ad sonnu stoor Guds Gaafa, ef hun er af honum þeigenn, og ecke af Fiandanum edur ad hanns Raadum wtvegud

ud, brwkud edur medfarinn, þvi segir Frelsarinn ecki: Þier KUnnid EJgi GUdi Ad ÞJoona, og þo leita Næringar ydar i Sveita ydar Andlitis, edur taka vid þvi, er Gud vill lata ydur i Skaut falla: Ecki helldur segir hann: Þier Kunnid Ecki GUDJ Ad ÞJoona, og Rijkir ad vera: Margur Abraham, Jsaac, Jacob og Joseph, ecki einasta hann, sem var Forista Egyptalands i Tijd Pharaonis, helldur og hinn af Arimathia, er DRottinn groof, þeir hefdu verid wtreknir wr Þienustu hinns Stoora Konungs Himins og Jardar, ef svo væri, helldur Sokum þess, ad Audurinn er Gud Veralldar þessarar, og hennar Born leita hanns framar, Enn GUds Rijkis og hanns RJettlætis, þa vill Frelsarinn kiennt hafa i Predikun þessari, ad Omøgulegt sie badum ad þioona, og þad Ord, er hier i Textanum stendur, Ad ÞJoona, þad merkir ad vera aanaudigur Þræll einhvers. Nu þarf einga adra Røksemd til þess ad sijna, ad þessu Tvennu sie Omøgulegt samann ad koma, helldur enn DRottinns eiginn Ord, þviad i hanns Munni eru alldrei Svik fundinn. Enn eg vil wt af Gudspiallinu Tvennt Hugleida, sem er: 1. Hversu gott þad sie Gudi ad þioona. 2. Hvilijk Plaaga þad sie, ad vera Mammons Þræll. Þu alleina Rijki Goodi Gud, Stioorna þu Hiortum vorum, þier til Þioonustu hier i Tijmanum, svo vier meigum þier eilijflega þioona, fyrir JEsum Christum, Amen.

## Utleggingin.

HVersu gott sie Gudi ad þioona, þad kann eingin nooglega ad skynia, nema sa, sem af Alvoru er Guds Þienari. Allir Menn kieppast vid ad naa Þienustu hiaa Tignum Mønnum, þvi þad þykir Heidarlegt: Sælir eru Menn þijnir, og Þienarar þijnir, er standa yduglega frammi fyrir þier, og heyra Speki þijna, sagdi Drottninginn af Saba, vid Konunginn Salomon, 1. Reg. 10. Enn sia, hier er meiri enn Salomon, þvi ef ad Drottinn segir hier i Gudspiallinu: Ad SAlomon J Allri Sinni Dijrd, Hafi Ecki Svo Skrijddur Verid, Svo Sem Eitt Af Akursins Liliu-Grosum: Hversu laangt var hann þa fraa þvi, ad koma i nockurn Samjøfnud vid Himnanna Konung, hann sem þaa hefur wtþanid, og prijdt med hinum fogru Lioosum og dægilega Himensins Her, sem vier Augum lijtum! Og er þad þo svo sem Myrkur ad reikna hiaa sialfri hanns Dijrd, sem upplioomar hina fogru Jerusalem, Guds Barna Borg, sem er þar uppi, hverrar Sool og Twngl hann sialfur er, og sialfur bijr i þvi Lioosi, sem einginn fær tilkomist: Hann sem Loftid hefur wtbreidt, og skapad alla Fuglana þar inni, forsorgar þa, vidhelldur þeim, giefur þeim sijna Fædu i hendtugann Tijma, svo ad Lausnarinn segier hier i Gudspiallinu: Ad Ecki Einn Af Þeim Falli A JOrdu An Sijns Fodurs VJlia; hann hefur Sioinn giort og alla Fiskana þar inni, Smaaa og Stoora, og innlykur hann i sijnum Hnefa, segiandi til Hafsins: Hijngad skalltu komast, og hier skulu þijnar stolltu Bylgiur leggia sig, Job. 38. Hann ed sialfur hefur tilbwid Akursins Liliu-Gros, prijdt Jordina med Skoogum, Dijrum, Fiollum, Haalsum, Dolum, og Arlega framleidir af henni allrahanda Avoxt og Alldini, hinum lifandi Skiepnunum, og þo allra

hellst

hellst Manninum til Nota og Upphelldis, og allra sijdarst skoop hann hid Veglegasta og Dꜳsamlegasta Dijr undir Soolunni, eptir sinni eiginn Mynd, sem er Madurinn, jꜳ, Endurskoop hann i Synd og Dauda fallinn, og took hann i Sꜳtt aftur, Endurleysti hann, ecki med Gulli og Silfre, helldur med sijns Eingietins Sonar dijra Bloodi, 1. Pet. 1. Helgadi hann Ohreinann, af Ohreinum kominn; Endurnijar alla þꜳ, sem sin̄ Skijrnar-Sꜳttmꜳla ecki vijsvitandi undir Footum troda; Fyrirgiefur oss Daglega margar Syndir, þvi Daglega syndgunst vier, og vinnum ecki nema til Hegninggar; Hverium er oss sæmra, hverium skylldugra og Vegsamlegra ad þioona, enn honum, i hvers Hendi ad er oll lifandi Sꜳl, hver ad er vor Styrkleiki, vor Prijs, og er vorþinn oss til Hiꜳlprædis? Esa. 12. Enn svo sem þad er ꜳgiætt og Veglegt, ad þioona Kongi Dijrdarinnar, svo er þad ecki sijdur Gagnsamlegt. Þad er oss ollum kunnugt, hversu mikil Um̄svif ad Daudlegir Menn hafa fyrir þessa fallvallta Lijfs Næringu, sem þo lijtils vidþarf i siꜳlfu sier, og þrijtur nær allra minnst Vonum varir, og þo eru sumir Menn ecki ꜳnægdir, fyrr enn þeir hafa Korn-Hlodur sijnar fullar, svo þeir gieti sagt med hinum Rijka Maura-Þegn, Luc. 12. Et og dreck Sꜳla mijn, þviad þu hefur til margra Ara samannsafnad. Enn hvad segir Frelsarinn hier i Gudspiallinu? Verid Eigi HUgsiwkir Fyrir Ydru Lijfi, Hvad Þier Skulud Eta Og Drecka, Og Eigi helldur Fyrir Ydrum Lijkama, Hveriu Þier Skulud Klædast; Med odrum fleiri Ordum, sem þar ꜳ eftirfylgia, og eru full af Guddoomlegri Speki. Med miklu Snarrædi hefe eg þa aflokid allri Ahyggiu minni, sem kvelur hinn Vantrwada og Agiarna, þegar eg hefe kastad henni uppꜳ hann, sem ꜳ oll Dijrinn ꜳ Morkinni, Ps. 50. Og allt Sylfur og Gull er hanns. Mun Hugsijki mijn draga mig leingra ꜳ Leid, enn hanns Fyrirhyggia? Og fyrst um̄ Mꜳttinn er ecki ad efast, þa kann eg ecki Viliann ad ugga. Noog er þad, ad DRottinn segir hier i Gudspiallinu: Ydar HImneskur Fadir Veit, Ad Þier Hafid Alls Þessa ÞOrf. Ef Gud er minn Fadir, mun hann þa ecki forsorga mig? Ef eg, sem vondur er kann ad giefa Barni mijnu goodar Gꜳfur, mun þꜳ minn Himneski Fadir giefa mier Stein fyrir Braud, edur Hoggorm fyrir Fisk? Enn þoott hann ꜳ Stundum lꜳti mig vanta þessa Lijfs-Næringu, eftir sijnum þægilegum Vilia, mun hann þar fyrir hafa gleymt Myskunsamur ad vera? Mun hann samt ecki vera min̄ Fadir? Eg kalla þad ecki goodann Fodur, og ecki forsiꜳlann, sem ad elur Barn sitt so kappsamlega, ad hann undir eins elur upp i þvi Matvendni og annann Osooma; Mꜳ eg þa kunna Gud fyrir þad, ad hann neitar mier um̄ þær Nægtir, er mig skada? Noog er þad, ad eg veit ad hann er minn Fadir, trwr er hann, og freistar einkis yfir Megn fram̄. Þegar mier allt ad Oskum geingur, þa finn eg kannskie valla til þess, ad han̄ er min̄ Fadir. Eg kynni ad gioraft Lauslꜳtur þegar eg er fullur og feitur, eins og Israel, Devt. 32. Af þvi veit eg ad eg ecki er Hiꜳ-Barn, ad hann typtar mig, af þvi sie eg ad hann elskar mig, Heb. 12. I allri þeirra Angist, þa ꜳngradi hann þꜳ ecki, helldur verndadi þa Eingill hanns Andlitis, og forsvaradi þꜳ med Milldi sinni, segir Esaias Cap. 64. Hver er

Sa

á Augliteſins Eingillenn, miñ HErra JEſu, nema þu Chriſte? Þvo byrteſt aan Aflaats fyrer Auglite vors Fodur aa Himnum, ſvo ſem einn eilijfur Kiennemadur, þu ert Mynd hinns Oſijnelega Guds, Col. 1. Þu ert i Fodurſins Skaute, Joh. 1 Þijn Medalgaanga verkar þad, ORottenn minn, ad jafnvel i hinne meſtu Angiſt, fiña Born Fodur þijns til einkis Angurs, þviad þinn Vondur og þiñ Stafur hugga oſs, Pſ. 23. Vitnisburdur þijns Anda telur oſs Trw þar uñ, ad vier Guds Born ſieum, Rom. 8. Þar fyrer reiknum vier ecke Mootlætingar þeſſara Tijma verdar þeirrar Dijrdar, ſem vid oſs framkoma mun i eilijfu Lijfe: Og hier af kiemur þad, ad ſvo veglegt og ſvo þarflegt ſem þad er Gude ad þioona, ſvo er þad og Yndællt og Ununarſamlegt. Hvad er þad ſem Menn allra meſt ſækia epter i Heimenum? Þad er ad vera aanægdur, og una vel Hag ſijnum; Enn þar er valla nockur ſa, er naae þeirre Fullſælu af Veralldar Munum, edur Munudum, ad honum þyke ſig eckert vanta. David kienner oſs eitt Ædra og betra Raad, er hann ſegier: Haf þijna Unadſemd i ORottne, og mun hann giefa þier þad ſem þitt Hiarta gyrneſt; Pſ. 37. Satt er þad, ad vegna þeirra naakvæmu Teingda, ſem eru aa millum Saalar og Lijkama, þa hryggeſt hun edur gledſt af þvi, ſem honum gott edur Illt tilfellur; Enn þo eru þau ecke ſvo miøg ſkylld, ad ei ſie Gud henne ſkylldare; Ecke er hun af ſama Efniegiord og Lijkamenn, ſem af Molldu var ſkapadur. Gud blies lifande Anda i Mañſins Naſer, ſegier Ritningenn, Gen. 2. Hun er af eingu ſkopt eins og Einglarner, hverier i Jobs Book, Cap. 1. kallaſt Guds Syner: Svo kallar og Lucas Adam Fodur vorn, Luc. 3. Og Paulus ſegier: Vier ſieum hanns Kyns, þad er, lijkrar Veru, enn þo ecke hinnar ſømu; Gud er einn Ande, ſegier Johannes: Ande hefur ei Holld nie Bein, eins og þier ſiaaed mig hafa, ſegier Frelſarenn: Hier af kiemur þad, ad þoott Adam yfergiæfe ſinn Uppruna, þa hefur hinn allra Hæſte ſvo bætt Raad vort aptur fyrer hinn annañ Adam, ſem er Gud af Himnum, ad hvad elſkar ſier lijkt, ſvo þegar eiñ er vordeñ eiñ Ande med Gude, og uñmyndadur epter hañs Mynd, er ſkapade hañ, þa fær Saaleñ Kraft af Hædum, ſem er heñe miklu ſkylldare, og ſterkare þeirre Elſku ſem hun hefur aa Lijkamanum, ſvo ad hun reiknar alla Hlute Þreck ad vera hia JEſu Chriſto ſijnum ORottne, eins og Paulus, hun hrooſar ſier af eingu, nema af hanns Kroſſe, fyrer hvern heñe er Heimureñ Kroſsfeſtur og hun Heimenum, Gal. 6. Svo yndællt er þad nu Gude ad þioona, ad þad er ununarſamlegt, jafnvel i Hormungunum. Paulus talar þannig uñ hinn ſanna Chriſtenndoom, 1. Tim. 4. Ad Gudhrædſlann ſie til allra Hluta Nytſamleg, háfande Fyrerheit bæde þeſſa Lijfs, og hinns komanda. Þeſſe er hin rietta Guds Þioonuſta. Eñ hvad þa? Ecke hefur Gud i Nya Teſtamentenu heited ſijnum Þioonuſtu-Monnum ſvo mikelle Veralldar Farſælld, jafnvel þoott hann veite þeim hana aa Stundum. Hvar i er þa Fyrerheited iñefaled? J þvi ad hañ giefur þeim ſiaalfañ ſig, ſem er ollu ædra; Saa ſem hañ aa, hañ hefur eignaſt allt, og ſaa ſem ecke hefur Hlutdeild i honum, hañ hefur miña eñ ecke, hañ vantar jafnvel þad hañ hefur, þvi Guds Rijke er ecki Matur nie Drycku, helldur Fridur og Fognudur i Heilogum Anda; Þar fyr-

er segier Paulus enn aptur, 1. Tim. 6. Ad Gudhrædslann sie mikill Abati med Þvi Skape, sem lætur sier sijna Lucku nægia. Nu er þad ecki einasta Vegsamlegt, Þarflegt og Yndællt Gude ad þioona, Helldur og er þad Einsætt og Omissandi, Svo ad aan þess kunna Menn ecki Guds Born ad heita, Nie Saaluhiaalpina ad erfa; Og siaa þa allir þeir sem trwa þvi, ad Himnarijki og Helvijti sie til, Þeir siaa hvad miklu ad tapad er, Ef Menn skiootast wr Guds Þioonustu: Bolvadur veri saa, sem ecki elskar DRottinn vorn JEsum Christum, segier Paulus, 1. Cor. 16. Enn ad Elska hann, og ad Þioona honum, Þad er allt hid sama, Honum verdur alldrei þioonad fyrir utann Elsku, og alldrei verdur hann elskadur fyrir utann Þioonustu, þvi i Þioonustunni skulu Menn sijna Elskuna, og af Elskunni Þioonustuna. Þess vegna spurdi DRottinn St. Petur ad, aadur enn hann baud honum ad fæda Lomb sijn og Saudi sijna, Hvert hann elskadi sig, Joh. 21. Sama er ad segia um hvern einn, Hvada Starf sem hann aa hendi hefur af Guds Alfu; Enn allir hafa noog; Einginn er saa, ad ecki hafi sitt Pund af Gudi, Eins vel Boondinn aa Akrinum, Svo sem Presturinn i Kyrkiunni, Edur Doomarinn i sijnu Sæti, og allir þessir eru honum eins kiærir, nær þeir giora Verk sinnar Kallanar trwlega i Otta DRottins, Þvi sialfur hefur hann þeim Verkid i Hendur feingid. A ecki Smidurinn Leirsins Valld? Maa hann ecki giora þar af hvad hann vill? Rom. 9. Þvi er Einsætt ad þioona honum af allri Trw, Eptir þvi sem hann hefur sierhverium umbodid, Annars erum vier ecki hanns riettir Þioonustumenn. Einn Strijds-Þegn aa ecki þar ad standa i Fylkingunni, Er hann sialfur vill, helldur þar sem Hofdinginn baud honum. Eg em Madur Yfirvalldinu undirgiefinn, Hafandi undir mier Strijds-Foolk (Sagdi Hundrads-Hofdinginn i Capernaum, vid Frelsarann, Luc. 7.) Og nær eg segie þessum, kom þu, þa kiemur hann, Og hinum, far þu, og hann fer, og Þræli mijnum, gior þetta, Og hann giorir þad: Eins aa þad ad vera i Christi Her-For hier aa Jordunni; þar skal hver sitia, sem hann hefur hann settann, þar inni skal hann Gudi þioona, Ef hann vill þocknast honum sem valdi hann til Bardagans, 2. Tim. 2. Þvi ecki er þad noog, ad leggia Hondina aa Plooginn, Enn lijta aptur til þess sem til Baka er; Saa þad giorir, Hann er ei hæfur til Guds Rijkis, segier Lausnarinn. Segied mier; Til hvers hefur Gud Manninn skapad, Nema til þess, ad hann skuli þioona sier? Allir Hlutir adrir eru Mannsins vegna skapadir, Þvi alla þa hefur hann lagt undir hanns Fætur; Ps. 8. Enn Madurinn er Guds vegna giordur, Ecki þess vegna, ad hann þyrfti hanns med, Helldur ad hann skylldi þioona sier, Til ad lifa þar af Eilijflega. Hverium er oss skylldara ad þioona, enn honum sem oss skapadi? Hefur Mammon nockurn skapad? Vesæll er hann til þess; Vanskapad gietur hann suma Menn; Enn Eingann hefur hann skapad nie Endurskapad. Kalla Menn þad ecki Gudlaust Ræktarleysi, Ef Bornin ei vilia liaast Forelldrunum til Þioonustu? Og hvad skulum vier þa um hann tala, sem er Fadir yfir allt þad sem Born kallast bædi aa Himni og Jordu? Til hvers hefur Guds Sonur Endurleyst oss? Segier ecki Lutherus oss þad i Frædunum? Till ad þioona honum i Riettlæti og Heilagleika alla vora Lijfdaga. Til hvers hefur

Ande DRottenns kallad oss, helgad og upplijst med sijnum Astgiofum? Mun ecke til þess, ad vier gaungum verduglega þeirre Kallan, hvar inne vier kallader erum? Eph. 4. Þvi ælikta eg svo, ad sa sem ecke vill Gude þioona, hann er ecke hanns Barn, ecke Christi Læresveirn, og ecke Limur Guds Kyrkiu. Hvad er hañ þa? Diofulsins Barn, Þræll Syndarinnar, og Helvijtis Elldebrandur. Nu er þetta svo sagt um̃ þad Fyrra, er eg hiet um̃ ad tala.

Hvad hinu Sijdara vidvijkur; Þa hefe eg til Forna i Inngangenum sagt, hver ad sie Meining Frelsarans i þessum Ordum, þo vil eg þvi hier vid auka um̃ sama Efne, ad þar DRottenn segier: Eingenn kann Tveimur Herrum Ad Þioona; þa meinar hann Tvo, þa sem eru hver odrum gagnstæder; Þioona kunna Menn Foreldrunum, Yfervalldenu, og Naunganum, J ollu þvi sem Gud hefur boded, og þo under eins Gude; Hvar fyrer? Þviad svoddann Þioonusta og Guds Þioonusta eru eitt: Sa sem þioonar þeim sem af Konungenum sender eru, hann þioonar Konungenum; Sa sem Konungenum þioonar i þvi sem Gud boded hefur, hañ þioonar Gudi. Eins er a hina Sijduna: Sa sem þioonar Mam̃ona, hañ þioonar Heimenum, sa sem þioonar Heimenum, hann þioonar Syndenne, hver ed Syndenne þioonar, hann er Þræll Syndarennar, enn hann sem er Þræll Syndarennar, hann er under eins Þræll Andskotans; og er þessu Omogulegt samann ad koma: Þetta vottar Paulus, er hann segier, Rom. 6. Vited þier ecke, ad hverium þier giorest Þioonustu-bundner, til Hlijdnis, hanns Þienarar erud þier, hvert helldur Syndarennar til Daudans, edur Hlijdnennar til Riettlætesins. Og þetta Ord, HERRA, merker hier svoddann Yfer-Raad, nær einn selur sig einum svo allødilis a Valld, ad hann a ad mestu hanns oll Raad: Vel kañ eg ad þioona einum, þott ecke sie hann miñ Herra; Svo hefur og Gud alldrei bannad, ad þioona ad Gæfum sijnum, helldur leyft ad brwka Heimenn, enn ecke ad vanbrwka hann, ecke bañad ad eignast Audenn, helldur ad festa Hiartad vid hann, þvi sa þad giorer, hann er riettur Mam̃ons Þræll, hañs Herra er Abatenn og Audurenn, þvi alla Hlute vill hañ til hañs vinna, og jafnvel ad tapa Saalu siñe, sem morg munu Dæme giefast, og er þa eingenn Þioonusta argare. Hun er sierdeilis med Tvennu Moote. Fyrst, nær Madur safnar Audnum, med hveriu Moote sem hann kann, hyrdande eckert um̃, hvert þad er Riett edur Raangt, edur hversu Þrælslegt edur Obreiñlegt þad er: Þetta er Skap-Lostur sa, er vier Agyrne kollum. Paulus segier um̃ hana, ad hun sie Afguda Dijrkun, Eph. 5. Þad er hveriu Orde sannara, þvi hinn Agiarne hefur ecke annann Gud, enn Mam̃ona. Hann svijfst ecke ad rya Guds Volada Saude, til ad fylla Þrong sinn, ecke ad speria vid hañs Nafn, og þo Raanglega a Stundum, ef hann gietur Abatast um̃ eitt Alnar-Virde: Ecke þyrmer hañ Kyrkium nie Kieñemoñum, Konungeñ svijkur hañ giarnañ, ef hañ maa, sem er ein Hofud-Skom: Og i einu Orde ad segia; Hañ tredur oll Guds Bodord under Fætur sier. Hvad vantar þa til Skurgoda-Dijrkunareñar? Betra er af Illu ad tilbidia Lijkneskiuna, enn ad vera svo selldur Mam̃ona i Þrældoom; Þvi margur, sa sem eiñ Afgud hefur, hañ ætlar þo, ad

hann mune hegna vondra Verka, enn launa hin goodu, og svo hafa flester Heidingiar meint; Enn Agyrndenn hefur eingann Gud, og er þa ei Von at verra. Þu segier: Eg vil dijrka Gud, heyra hanns Ord, syngia honum Lof; Eg geing til hanns Bords, trwe a haim, ydrast Synda minna. Verda maa ad svo sie. Enn ef þu dijrkar Gud, þa laat mig sia ad þu giorer þad ei, sem hañ bannad hefur; Edur verdur hañ nockud dijrkadur med Naane og Stulde, med Svikum og Prettum, med Lygum og Meinsære? Ef hann er þiñ Gud, ef hann er þiñ Fader, hvar er þa hanns Heidur? Þu segiest heyra hanns Ord, hvar eru þa Avexterner? Eru þeir þad sem strax var uppraled? Sia til, ad þu ecke heyrer þad til Doomß Afellis þier. Þu heyrer þad; Svo er þetta! Saadmadurenn gieck wt ad saa, eñ þad hañ saade, fiell a medal Þyrna, þar sem þu atter Hlutenn ad, og Þyrneñ uxu upp, og kiæfdu þad; Hvad þad sie, maattu læra af Utleggingu Frelsarans, er hann segier, Matth. 13. Þad sem saad var medal Þyrna, er saa ed Orded heyrer, og Uñsorgun þessarar Alldar, og Villa Audsins kiefur Orded, og hann verdur Avaxtarlaus: Þu lofar Gud ad sonnu med Vorunum; Eñ Hiartad er langt þar fraa, þad er wt a Bwgarde þijnum, og hiaa Aknautum þijnum. Þu geingur til Guds Bords; Enn tekur þo med þier Gieste þa, sem hann ecki maa lijda; Sia til, ad ecki eter þu og dreckir þier Doom. Þu trwer a Gud; Sijn mier Trw þijna af Verkunum, segier Jacob. Þu ydrast Syndanna; Laat þu af Illu, og lær Gott ad giora, Es. 1. Annars meina eg þu vilier under eins þioona Gude og Mamona, og er þijn Guds Þioonusta þa aungu betre enn Gydinga Fordum, þeir ed færdu Gude Fooner i Jerusalems Mustere, enn offrudu þo a Hædunum: Og i ollu þessu launar Mañon Þienurum sijnum illa; Hann sedur þa med Harma-Braude. Paall segier, ad Agyrndenn sie Root alls Ills, 1. Tim. 6. Fyrst er hun Root Lastanna, svo sem adur er sagt: Gud forsmaaer hun; Hanns Nafn skyrrest hun ecki vid ad misbrwka vegna Abatans; Hvijldar-Daga DRottenns hefur hun til Avinnings, þa geingur hennar Ploogur hvad kappsamlegast, svo ad hun jafnvel kiemur þa odrum til ad syndga. Foreldrum, Bornum og Naafrændum þyrmer hun ecki: Margur hefur veiged Mann til Fiaar; Ecke ætla eg ad sumer Menn sieu vandir ad Hlut sijnum i Skijrlijfenu, þegar Fied er i Bode: Um Siounda Bobordet vil eg ei tala; Hun a þar heima: Og hvad er tijdara, enn ad liwga vegna Abatans, og giora sig falann til ad bera Liwgvitne? Enn ecke einasta fremur hun þetta moote Gude og Naaunganum, helldur kvelur hun sinn eigenn Þræl; Svo þad maa uñ hana segia, sem David segier uñ hinn Ogudlega, a medal hverra Fie-Pwkenn er hinn meste; ad hanns Plaagur sieu margar. Helvijte og Glotunenn verda alldrei fylld, segier Salomon, Prov. 27. Svo eru og Augu hinns Agiarna; Þess meira hann dreckur, þess meira þyrster hann; Eins og hinar mogru Pharaonis Kyr, svo er hinn Agiarne; þegar þær hofdu uppeted hinar feitu, þa saast þad ecke, ad þær hefdu komed i Maga þeirra, segier Ritningenn, Gen. 41. Riett eins og Ovidius Skalld kvedur uñ Erisichthonem Gud-Nijding, ad þess meira sem hann aat, þess meira svallt hann; Fyllenn vard honum Orsok til æ meira Hwngurs,

svo þegar hann hafdi sellt Aleigu sijna fyrir Mat, þa selldi hann Doottur sijna, og sijdarst allra took hann ad naga sijna eiginn Limu. Svo er og hinum Agiarna varid; Þad hann fær, þad fyllir hann ecki; Hann er eins solltinn eptir sem aadur; Ecki sparar hann Vini nie Frændur, og þegar hann nær eingu, Þa etur hann sitt eigid Hiarta, af þvi, ad hañ gietur ei uppetid Hws Eckna og Fødurlausra. Mørgum af þessum Mamons-Þwkum lijdur DRottinn ad fylla Kornhlødur sijnar, Og adrar Hyrdslur med Aura-Nægt; Enn þess vita Menn og nockur Dæmi, ad þess meira þeir nidur saa i Raanglætinu, þess miña uppskiera þeir, Nema i Skadseminni, svo ad Hyrdslur þeirra eru eins og Obiett Lagar-Fat, sem ecki helldur þvi, Sem i þad er laatid. Þess gietur Salomon, Prov. 11. Er hann segier: Einn wtbijtir sijnu eiginn, Og verdur rijkari, Annar innihelldur þar sem ecki skal, og er jafnann saatækur. Þetta er riett ad eta, og verda þo ecki mettur, Og ad drecka, Og verda þo ecki druckinn. Hin ønnur Þioonusta Mamons er su, ad liggia of-fast aa þvi, sem einn aa eins og Moab aa Dreggium sijnum, Jafnvel þoott velfeingid vera kunni: Ad sønnu eru þetta adgreindir Lestir ad nockru Leiti, Enn þo nærsta skylldir hver ødrum: Til eru þeir ad vijsu, sem taka allt fraa øllum, sem þeir naa, Enn laata þo eckert af Hendi rakna vid nockurn; Þeim er hvad verst varid, og optlega plagar slijkt ad halldast i Hendur: Hins eru og Dæmi, ad sumir Menn eru ecki miøg aasælnir, Enn vilia þo eckert wtilaata; Þessa kálla Menn nijdska, og er hañ ad sønnu Ill-skaarri eñ hiñ, Enn þo samt Mamons-Þræll, Ecki munar þa nema i þvi, ad þegar Mamon skipar, þa fer hiñ Agiarni, Enn Nijdingurinn hefur eckl svo mikid Walld yfir hønum, ad hann gieti rekid hann wr Stad: Jafnvel þoott hann eigi øll hañs Raad, þa lætur hann svo daatt ad hønum, svo sem Moodir ad einka Syni, Og vill ecki giøra hønum Omak. Lijkir eru þeir Sadducæis, Er ecki villdu giøra aa annars Hlut, ecki villdu þeir helldur neinum Gott giøra: Þeir eru Brædur Nabals, Er ei villdi giefa David Mat, Þegar hann mælti til þess i Naudsyn sinni, Og hafdi þo til Matar unnid, 1. Sam. 25. Jaa, Þeir eru argari enn Nabal, Þvi hann tijmdi, ad laata eptir sier og Hyski sijnu; Eñ þessum er svo Auduriñ saar, ad þeir neita sijnum eiginn Lijkama um Naudsynlega Hluti; Ecki hafa þeir lesid þad, er Salomon skrifar, Prov. 3. Hinn Riettlaati etur svo mikid sem hann vidþarf, Enn Maga hins Ofrooma vantar alltijd; Og eñ sijdur þad hann ritad hefur i Predikunar Bookariñar 6, Cap. Þar er ein Olucka er eg saa undir Soolunni, Og hun hiñ mesta yfir Mønnunum: Einn Madur, saa ed Gud giefur Rijkdoom og Audæfi, og Heidur, hvers Hiarta ad eckert vantar, og Gud giefur hønum þo ecki Makt til ad neita þess hinns sama; Svoddann Oþockar sialfs sijns eru þo nockrir, svo laangt er fraa þvi, ad þeir klædi edur metti Broodur edur Systur, Nær þeir siaa þau Nakinn edur Hwngrud, Og er þetta hinn mesti Þrældoomur, Þad er riett kolllud Afgudadyrkun; Þad sem Christnir Menn ættu ad giøra Gudi til Þioonustu, sem er ad þvijnga Lijkama sinn, og giøra hann ad Þræl, þad sama giøra þeir vid Mamona; Segied mier, Er hann þa ecki þeirra Gud? Beri þeir nu saman sem lesa þetta, Hverium betra sie ad þioona, Gudi edur Abgudinum. Hvernig ad Gud ali Oñ

fyrir siinum Þienurum, þad er ædur sagt i hinum fyrra Partinum, Enn hvernig Mañon sari med sijna, Þad hefi eg i hinum Siidara talad um̄, med faam Ordum; Þvi vil eg segia vid ydur, Christi Børn, hid sama og Josua sagdi vid Jsrael, skom̄u fyrir Andlaat sitt, Jos. 24. Segied, hvert þier vilied þioona Jehovæ Gudi ydar, edur ei? Enn þeir svorudu aller: Vier vilium þioona DRottni Gudi vorum. DRottinn minn og Gud minn, Gief þu oss þad Sinni, Ad þad sem þeir jaatudu med Munninum, meigum vier med Hiarta, Ordi og Verkum uppfylla, allt til Enda vors Lijfs, svo vier meigum wr Bijtum bera Coronu Lijfsins, Hveria þu Konungur Rædariñar giefa munt øllum þeim, sem elska Tilkomu þijns Sonar. Bænheyr þad, fyrir hanns Skulld og Forþienustu, AMEN.

# Sextanda Sunnudag eptir Trinitatis.

Gudspiallid, Luc. 7. Cap.

Uppañ Tijma. Og þad skiedi so eptir þad, ad JEsus gieck til þeirrar Borgar sem kallast Nain, og hañs Lærisveinar geingu margir med honum, Og mikill Fiøldi añars Foolks. Þa er hañ took ad nalægiast Borgar=Hlidid, Sia þu, þad Framlidiñ Madur var boriñ wt, einka Sonur siñar Moodur, og hun var Eckia, og mikill Fiølldi Borgar=Maña gieck wt med heñi. Eñ þa ed DRottiñ leit hana, Hrærdist hañ Myskunar yfer heñi, og sagdi til heñar: Graat þu eigi. Og hañ gieck þar ad, og aahrærdi Kistuna. Eñ þeir sem baaru, Stoodu vid. Og hañ sagdi: Þu Ung=Meñi, Eg segie þier, Rijs þu upp. Og sa settist upp sem Framlidiñ var, og took til ad mæla, Og hañ gaf hañ aptur siñi Moodur. Eñ allir urdu Otta=slegnir, Lofudu Gud og søgdu: Spaamadur mikill er aa medal vor uppristñ, Og Gud hefur vitiad sijns Foolks. Og þesse Saga barst wt af honum, um̄ allt Gydinga=Land, Og um̄ øll krijngum liggiandi Hierød.

Exordium

Skom̄u ædur enn DRottinn giørdi þetta mikla Krapta=Verk, sem þessa Dags Evangelium hermir oss, Þa flutti hann þa agiætu Predikun fyrir Lijdnum, sem ritud stendur i næst fyrirfarandi Capitula, (Luc. 6.) Hver og er af Matthæo uppteiknud i hanns Gudspialla 5. Capitula. J henni standa, medal añarra, þessi Ord: Sælir eru þeir sem Harma, Þvi þeir munu Hlæa. Matthæus segier oss þad aa þenna Hatt: Þeir skulu Huggadir verda; Sem er allt hid sama, Þvi þar heyrir einginn Sorg til ad giøra sig Gladann, segier Ordtækid, Og einginn hlær, nema honum sie glatt i Hug, Og gladur er einginn, Nema Huggadur sie. Þad er Ad=daaan=

legt ad hugleida, hverneg Frelsarenn, a Dögum Hollds-Vistar sinnar, hefur Vijslega hagad sijns Embættis Urriettingum; Margt þad sem ad i greindre Predikun stendur, þad er gagnstædt Hollde og Bloode, hveriu ad öll Typtan þyker Sorg og eingenn Glede ad vera medann hun a liggur, segier Paulus, Hebr. 12. og glæter ecke þess, ad epter a giefur hun Fridsamlegann Avoxt Riettlætesins. Enn til þess, ad hinn goode Meistare færde Sonnur a Maal sitt, þa giorer hann sier Ferd wr Capernaum til Borgarennar Naim, til ad styrkia med þessare Jardteikn, hvad hann adur talad hafde. Eingenn skal meina, ad þetta hafe skied af Hendingu, ad DRottenn mætte þessare Lijk-For; helldur fyrer þvi hann visse alla Hlute, þa hefur sa aan Efa vered Tilgangurenn, sem nu hefe eg adur sagt, og þar ad auke ad giefa öllum Sorgbitnum Eckium og Munadarlausum eitt Æfennlegt Huggunarennar Dæme, og fullrar Vonar og Trwnadar-Trausts um sijna Hiartgroona Myskunseme yfer þeim, ad hann vilie vera Fader Födurlausra, og Forsvar Ecknanna, Devt. 10. Ps. 68. Og fyrer þvi, ad þetta Heilaga Gudspiall er næsta gledelegt ad hugleida, fyrer alla þa sem þreya epter Astvine sijna, sem þeim i Lijfenu hafa til Glede og Adstodar vered, þa vil eg af þvi Tvennt yfervega. 1. Hvad Eckiurnar eige ad hugga sig vid i sijnum Einstædingskap. 2. Hvad þeim eige til Huggunar ad verda, er missa Börn sijn, Jafnvel a Unga Alldre.

Enn þu sem ert Fader yfer allt þad sem Born kallast bæde a Himne og Jordu, styrk þu Maal mitt, og tilbw svo Hiörtu Barna þinna, ad þetta þitt Eyrende meige vel takast, J JESU Nafne, AMEN.

## Utleggingenn.

Her stendur i Gudspiallenu um Moodur þessa Ungmennis, ad hun hafe Eckia vered; Þad Stand hefur jafnann hallded vered aumt og Oskiemtelegt, sem og ad Lijkindum lætur. David veit valla annad lijkara ad Oska, hvert helldur sijnum edur Guds Ovin, ad Born hanns skule verda Munadarlaus, og hanns Kvinna Eckia, Ps. 109. Vorer Omagar eru Fodurlauser, og Mædur vorar svo sem Eckiur, segier Jeremias i Harmagraatnum, 1. og 5. Cap. Nu er þad vijst, ad slijkt er Reide-Teikn Drottens a Stundum, og Straff Syndanna, eins og hvert annad Mootlæte; Enn hverge nærre alltijd, þvi valla er nockurt Stand i Heilagre Ritningu umgieted, sem hinn Almattuge vill helldur taka i Forsvar, enn Eckiudoomenn, þvi fyrer utann þad, ad hann vill sialfur vera þeirra Forsvar og Fæda þær, þa hefur hann sier i Lage giefed þeim Verndar-Brief i sijnu H. Logmaali, a þenna Haatt: Eingre Eckiu edur Omyndugum skalltu Piaaning giora, ef þu sijner honum Piaaning nockra (þvi ef hann ad eins kallar til mijn, þa vil eg bænheyra hann), Þa skal mijn Reide brenna, og eg skal sla ydur i Hel med Sverde; Svo skulu ydar Konur Eckiur verda, og ydar Born Fodurlaus, Exod. 22. Og enn segier hann: Eckiunne og Omyndugum skalltu eingann Skada giora. Hefur hann ecke skickad þeim sinn Hlut af Tijundum? Devt. 14. Bijdur hann ecke ad kalla þær framar ödrum til Almennelegrar Maal-Drycku fyrer DRottne? Cap. 16. Ja, hann hefur sier i Lage um-

umboded Valldstiettenne, ad þeir skule dæma Maal hiñs Unga Manns og forsvara Eckiuna, Esa. 1. Jafnvel þoott eg ætle ad valla sie nockru Guds Bodorde midur hlijdt enn þessu af sumum Monnum. Oskande være, ad ei finduft þeir, ed siaalfer hafa Eckiurnar fyrer Fie, og giora þær sier ad Raane, svo sem Esaias ad Orde kiemst, Cap. 10. Hefnast aa þeim og þeirra Munadarlausum Bornum, ef þeir þoottust eiga Fodur þeirra nockrar Heipter ad giallda, enn feingu ecke stoled Hefndenne fraa Gude aa medann hann lifde! Soddann er hin mesta Lodurmenska, sem eitt Hugprwdur Tyrke ei villde verda fundenn ad, og þo skamast ecki sumer Christner Meñ sijn ad æsa þetta Bligdunarlaust. Svo hoppa þesser Myslingar aa einu daudu Leone, sem þeir þo ecke þordu ad geispa aa moote, aa medann þad hafde Muñeñ opeñ! Lijted muna þeir til hiñar skielfelegu Bolvunar, er DRottenn leggur yfer þaa, sem umhverfa Riette Eckiuñar, Devt. 27. Edur hiñs, ad Ritningeñ teh þad med hinum hellstu Orsokum hiñar Babyloniskn Herleidingar, ad þeir dæmdu ei Maalefne Eckiunnar, Jer. 22. Nu vil eg sleppa þessu, enn hverfa aptur til hinns er eg skildest vid.

Þesse Kviña var Eckia; Lijklegt er ad Madur heñar hafi burtkallast aa sijnum besta Alldre, hvad þar af raada maa, ad hañ hafde heñe efterlaatid eiñ einasta Son, sem ad eñ þa var Ungmeñe. Þetta var stoor Sorg, hveria hun gat ecki duled, þvi sagde Frelsariñ vid hana: Graat þu ecki; Og þetta Mootlæte heñar var svo mikid, ad Bæar-Meñ sampijnduft heñe; þvi segier i Textanum: Ad mikell Fiollde þeirra hafe geingid Ut med heñe. Lærum þad af þeim, ad graata med Graatendum, og hafa Medaumkan med þeim, er i slijkar Rauner rata; Svo giordi hañ, sem best kañ ad sampijnast Eymdum vorum, þvi Gudspialled segier: Ad þegar DRotteñ leit hana, þa hrærdest hañ Myskunar yfer heñe; og faaum vier jafnañ Ordsek þar til, þvi ecki lijdur aa Stundum laangt aa millum þess, ad svoddann tilsellur. Morg volud Eckia aa þvilijkt til Brunns ad bera. Enn wt af þessare Medaumkan Frelsarans, take Eckiurnar sier hina mestu Huggun; Strax sem hann saa þessa syrgiande Konu, þa hrærdest hann af Innstu Medaumkan, segier Textenn: Ecke giorer hann þad sijdur nu, helldur enn þa hañ umgieckst i voru Hollde, sem nu er upphafed til Kraptarens hægre Handar; Hann hefur Likel Lijfsins og Daudans, Barn mitt: Hafe þvi Dauden griped Hendeñe inn i Hws þitt, og veitt þier eitt miked Saar, þar hañ hefur teked Helming þijns Hiarta burtu, og giort Born þijn Munadarlaus, þa vit, ad þad er ecke skied aan hanns Raadstofunar; Einga Makt hefde Daudenn haft yfer þijnum kiæra Egta-Manne aan hanns Leyfis, i hvers Hende ad er oll lifande Saal; Audmijk þig þess vegna under Vollduga Guds Hond, og seig med David: Eg vard Maallaus og talade ecke, af þvi þu giorder þad; Sierdeilis þar þu hefur þo ecke tapad þijnum Egta-Manne; Meina ecke, Barned gott, ad siaalfur Giædskunnar Bruñur sie eins lyndur og sumer Obockar i Heimenum, þeir ed apturtaka þad þeir gaafu, helldur vil eg hier um segia eins og Paall sagde um Onesimum vid Philemonem: Hann er um Stundar-Saker vidskilenn, svo þu hallder honum Eilijflega: Hann er ecke daudur, ad þvi Leite sem

sem vidvijkur Saalunni, Þvi Gud Abrahams, Isaacs og Jacobs, Hann er ecki Gud Daudra, helldur Lifendra, segier Frelsarinn: Þar fyrir er hann ecki daudur, helldur kalladur fraa Daudanum til Lijfsins; Fraa Volædi þessa Heims, til eilijfrar Sælu; Fraa Selskap vondra Manna, til Samfelags Heilagra Eingla. Jaa, hann er ecki helldur daudur, þad Lijkamann aahrærir, helldur sefur hann, svo sem DRottinn sagdi um Hofdingians Doottur, Matth. 9. Þad stendur Æfinnlega stodugt, Er Frelsarinn sagdi: Hver sem trwir aa mig, Þad skal skie, ad þoott hann deyi, Þa skal hann samt lifa, Joh. 11. Þar fyrir, Þoott ad þad sie Naatturlegt, ad syrgia Astvini sijna, Þa er ecki svo stoor Orsøk þar til, Þvi vier høfum ecki mist þaa, helldur eru þeir undann oss farnir i eilijfa Sælu, Enn Lijkaminn hvijlist af Erfidi sijnu inn til þess Dags, ad DRottinn uppvekur hann, og giorir Einglunum jafnann, Jaa, samlijkann sijnum Dijrdlegum Lijkama, Phil. 3. Nu er þad vijst, Ad eckert Guds Barn misann sijnu Egta Hiarta þvilijkrar Sælu, Enn þad er Veikleiki vor, Ad Menn syrgia sinn eiginn Hag, og sinna Eptirlaatinna, Þeinkiandi meir aa hid Nærveranda, enn hid Eptirkomanda. Enn hyxa til þess, Barn mitt, Ad Gud hefur kannskie þinn Egta-Mann i burtu tekid til sinnar Dijrdar, uppaa þad þu skylldir hafa allt þitt Traust, alla Von, alla Gledi og Unadsemd i sier einum, og fognud af þvi, ad sia og reyna sijna Naad aa þier, og vid þig og þijna; Nær oll Mannleg Hiaalp er wti. Gior svo! Þar af hefur þu tvofallda Nytsemi: Þa Einu, ad þijn Saala gledur sig i Gudi Heilsugiafara þijnum, Hver Fognudur ad yfirgnæfir allann Skilning, Og drepur alla Sorg; allt Mootlæti giorir hann liett. Hina adra, ad aa medann þu ert svo Skapi farinn, Þa er þad Festi-Bref uppaa Guds Rijki, Þad er Pantur þess, ad þu munir fagna med þijnum Egta-Manni i Himneskri Sælu, Eilijflega med Gudi og hanns Heilogum. Laat þvi sia, ad þu tileinkir þier þad, sem DRottinn segier vid Israel, Esa. 54. Sa sem hefur skapad þig, Hann er þinn Madur, DRottinn Zebaoth er hanns Heiti, og þinn Lausnari, Sa Heilagi i Israel, Hvern oll Verolldinn Gud nefnir, Hvar fyrir grætur þu, Og þvi ber þitt Hiarta sig svo illa? Er eg þier ecki betri enn Tiju Synir? Sagdi Elkana vid Konu sijna Aunu, 1. Sam. 1. Og hvad miklu betri er þa Gud Himnanna, helldur enn einn daudlegur Madur, vilie hann gaanga þier i Manns Stad! Hvada Naud hefur þu þa? Hann er noogu Vijs til ad Raadleggia þier, Noogu Rikur til ad forsorga þig, Noogu Maattugur til ad forsvara þig, Noogu Giædskurijkur til ad Hugsvala þier: Hvers villtu framar æskia? Eckiur og Munadarlausir hafa stoorann Riett i Himninum, svo sem aadur er sagt: Þegar DRottinn leit þessa Eckiu; Þa HRærdist Hann Af Innstu MEdaumkun Yfir Henni. Hun hefur kannskie ecki þeckt DRottinn, edur ecki sied hann, Þvi sorgandi Manneskiur geingu med huldu Hofdi hiaa Gydingum; Hun hefur og ecki Ordi wtkomid fyrir Harmi, svo hun giæti bedid hann: Og þo gat ecki Brunnur Giædskunnar halldid sier. Hanns Hiarta brast i honum, svo hann hlaut henni Myskunsamur ad vera, strax sem hann leit Eymd hennar; med einu Ordi, Einu Atviki þurkadi hann oll Taarinn af Augum hennar. Þegar þær Ruth og Naemi voru aldeilis Munadarlausar, þa sendi Gud þeim Boas, Ruth. 2. Þeg-

ar

ar Eckiann i Sarepta og hennar Sonur voru adkominn Dauda i Atvinnuleysi, þa baud Gud Eliæ ad bæta Brest hennar; Mun hanns Hønd eñ nu stutt vordiñ? Er honum nockud afturfarid, sijdañ hañ er hafiñ yfir alla Himna? Nei, Nei, wtriett er hun eñ nu i Dag til allra þeirra, sem aa hañ vona, og þoott hann reyni sijna aa Stundum, þa efest eingiñ um Sannsøgli hanns, edur ætli sig yfirgiefinn; Hann gat halldid Manni þessarar Eckiu vid Lijfid; Hann gat læknad Son hennar aa Bana-Sænginni; eñ hier færdi Drottiñ Soñur aa Maal sitt, er hann skomu aadur talad hafdi, ad sælir væru þeir sem harma, þviad þeir muni huggadir verda, þvi miklu meiri var Fognudur þessi, ad hann gaf henni aftur Son sinn, sem daudur var, helldur enn þott hann hefdi læknad hann Daudsiwkann. Laat þvi þier til Hugar koma, Guds Barn, ad þott Daudiñ hafi slitid þad Band um Stund, sem var aa millum þijn og þijns Egta-Manns, þa er þo ecki slitid þad Einingarinnar Band, sem hefur bundid Hiarta þitt vid Gud, hver alleina hefur Odaudleikann, hver og hefur Trwlofad þig sier ad eilijfu, i Naad og Myskunsemi, i Riettlæti og i Doomi, Hos. 2. Ef þu elskar hann, þa er ecki ad ugga hanns Elsku til þijn, hann vill vera hiaa þier i Neydinni, og þier þadann wtryckia, allar þijnar Andvarpanir heyra, øll þijn Taar reikna, og hella þeim i sinn Siood, og sijdann af-þurka med eilijfri Gledi; Og þoott ad þu meigir siaa aa Bak þijns kiæra Egta-Manns um Hrijd, þaa er þad stutt hiaa Eilijfdinni, hvar þid munud um Alldir Allda samfagna, aan nockurs Kvijda fyrir þvi, ad skiliast framar. Seig þvi ecki: Eg er af øllum forlaatinn! Medann þu hefur ecki Gud forlaatid, mun hann þig alldrei forlaata; treyst þvi ad fullu, ad þad sem Drottinn segir vid Christnena, hiaa Esaiam, Cap 54. Þad vill hann til þijn sagt hafa; Svo sem Eina forlaatna Konu og Sorgbitna, þa kallar DRottinn þig aftur; Fyrr skulu Fiollinn wr Stad vijkia, og þessar Hædir nidurfalla, enn ad mijn Naad vijki fraa þier, edur minn Saattmaali nidurfalli, segir DRottinn þinn Myskunari, Jaa, hann sem er trwr, og siaalfum sier ei kañ ad neita, segir Postulinn. Øll Umsorgun og Umhyggia Bwskaparins liggur nu aa þier, sijdann Gud took þinn Mann fraa Sijdu þinni; Hugsa til þess er David segir, Ps. 68. Gud leggur oss eina Byrdi uppaa, enn hann hiaalpar oss ad bera; Vantreyst honum ecki, sem bar allann Jsrael i Eydimørkinni, svo sem ein Moodir ber sinn Son (segier Moyses), edur hanns Syni, hver ed ber alla Hluti med Ordi sijns Kraftar, ad hann gieti ecki hiaalpad þier, til ad bera þad hann hefur siaalfur þier aa Herdar lagt: Haf þijna Unadsemd i honum; hann hefur lofad ad giefa þier hvad þitt Hiarta gyrnist; Finnist þier Byrdinn þwng, þa varpa allri þinni Ahyggiu uppaa hann, sem þvi mun vel til Vegar koma: Og er þad nu svo um hid Fyrra wt-talad.

Hvad hinu Sijdara vidvijkur; Þa reyna Meñ þad oftlega, ad Forelldrunum fellst ecki minna um þad, nær þeirra Børnum verdur fyrir Tijmaunlegann Dauda burtu kippt, helldur enn þo ad hvert misti Annars, sierdeilis, ef þad eru einka Børn, svo sem hier aa stoodst; Þvi Hann Var Einka Sonur Sinnar Moodur, segir i Textanum: Og þar ad auki, ef ad þvilijk Børn eru lijkleg til Giæfu og Menningar, svo þau giæti sijdann Gudi

og Fodur-Landinu med Sæmd og Æru plodnad; Og ecki verdur þvi mooti sagt, ad stoor Hormung laa a Kvinnu þessari, þar Daudinn hafdi rænt hana fyrst sijnum Hiartkiæra Egta-Manni, og þo aa hennar besta Alldri, og þar ad auki sijnum Einasta Syni, einig i sijnu Æsku-Bloomi, Hver aan Efa hefur verid hennar Einasta Yndi og Adstod i hennar Munadarleysi, Enn þad eykur miklu hier aa, Ad þad var Eitt Brijxli halldid aa þeim Dogum fyrir Kvinnurnar, ad laata ecki Sædi eftir i Israel, Þvi allar gyrntust ad vera Mædur ad Messia, og ecki hefur þad einasta Læging þoott Obyria ad vera, helldur og hitt ein stoor Sorg, ad missa Born sijn, Og eiga kann ske ecki Von til annarra; Þad sie eg aa Dæmi hinnar Sunamitisku, Er sagdi vid Elisæum, Nær Sonur hennar laa Andvana, 2. Reg. 4. Beidda eg minn Herra nockud um Son? Sagdi eg ei, Pretta mig ecki? Svo sem hefdi henni þoott saa Kosturliettari, alldrei ad hafa Barn fædt, helldur enn ad Syni hennar hefdi verid i burtu svipt: Og maa saa vera af Jarni giör, sem ecki vorkiennir þeim svoddann Mootgaang, fierdeilis, Þar Guds Andi setur oss þetta til Dæmis um hina mestu Sorg, Þar hann segier, Amos. 8. Ad Harmkvæli Gydinga skulli verda eins og Harmur eptir einn einasta Son; Þad sama Itrekar hann hiaa Zachariam, Cap. 12. Þvi er svoddann miog Natturlegt og einguni ad laa; Þo skulu Christnir Menn haga sier i þessu svo sem Guds Born, Og laata hann raada, Sem alls Raad aa bædi aa Himni og Jordu. Hinar somu Roksemdir skal ad sonnu til þess hafa, ad bæta Sorg sijna i þessu Tilfelli, og hinu, Er i Fyrri Greininni var umtalad: Seig mier, Christin Madur! Hefur þu ecki Barn þitt af Gudi odlast? Svo segier David, Ps. 127. Bornin eru Guds Gaafa, og Lijfsins Avoxtur er einn Skeinkur; Þau eru ecki svo alldeilis vor Born, ad þau sieu ecki miklu framar hans, Sem er Fadir yfir ollu þvi er Born kallast bædi aa Himni og Jordu, Þvi nær hann gaf oss þau, Þa gaf hann þau med þeim Skilmaala, ad honum væri frialst ad taka þau til sijn nær hann villdi; Eda giorum vier ecki svo hver vid annann? Þoott einn laati Barn sitt til Vinar sijns um Stund, Mun þad ecki standa i hanns Valldi, ad laata þad til sijn aptur hverfa, Nær honum lijkar? Ætlunst þvi ecki til, ad Gud muni hafa minni Riett yfer oss, Og Bornum vorum, Enn vier þykiunst yfir þeim hafa; Seig þvi midt i Sorginni, midt i Harminum eins og Job, Hvern Gud svipti ecki einasta ollum Bornum sijnum, Helldur og allri Aleigu sinni i Einu Vetfangi, Job. 1. Gud gaf, og Gud aftook, Sie Nafn DRottinns Blessad: Ef þu ert Guds Barn, (Þvi fyrir þeim vil eg sier i Lagi þetta talad hafa) Ef þu ert sialfur Guds Barn, segie eg, þa veit eg, ad þier hefur umhugad verid, ad fela þessa Guds Gaafu honum sialfum aa Hendur, ad Barn þitt mætti hanns Myskunar og Forsioonar i ollu njoota; Enn allra hellst muntu hafa Umhyggiu borid fyrir þess eilijfri Velferd, ad þad mætti Gudi sem kiærast vera, Og sem mest vardveitt fyrir Andskotans, Heimsins og Holldsins Vielum; Hier um muntu Gud bedid hafa i ollum Bænum þijnum, Meir enn um langa Lijfdaga: Seig mier, Hefur þa Gud ecki Bænheyrt þig, Er hann hefur tekid þad burt wr Pexlbodmi Heimsins i Sælu-Himinsins, Fraa Umsaatrum Diofulsins til Guds

Guds Barna Frelsis, Fraa Ofrijki Holldsins, Til Þijns og þess Födurs Rijkis, Hvar þad mun skijna svo sem Sool um̃ Alldir Allda. 2. Þier skulst þetta lijtt kannskie, aa med-ann Sorginn er sem braadust; Enn laat þa svo sem Christur segie vid þig hid sama, Er hann sagdi vid Petur Fordum, Þa hann ei villdi laata DRottinn þvo Fætur sijna; Hvad eg giori, Þad veistu ecki nu, Enn þu munt þad sijdar þeckia, Joh. 13. Þier mundi vænt um̃ þykia, Þu mundir af Hiarta gladur verda, ef Gud giæfi þier Barn þitt aptur, Eins og Ecktu þessari; Enn eg vil svara þier eins og hann svaradi þeim i Nazareth Fordum: Margar Eckiur voru aa Dögum Eliæ, Enn til Eingrar var Elias sendur, Nema til Ecklunnar i Sarepta i Sidons Landi, Luc. 4. Gud veit hvad hann vill giora, Eckert giorir hann til Onijtis. Tilgaangur DRottinns i þessu Kraptaverki er audsien. Fyrst er saa, ad hann sijndi bædi þier og öllum Sorgbitnum, ad hann bædi vilie og kunni ad sampijnast Eymdum þeirra. Hiñ añar, ad hañ Auglijsti þad hann Gud væri, sem ad hefur Valld yfir Daudanum, Þvi þessi var hinn Fyrsti af hinum Daudu, Er hann uppvakti aa sijnum Hiervistar-Dögum; Enn sijdann ad hann hefur hverttveggia þetta med mörgum Rökum stadfest; Hver Naudsin ber þa til þess, ad hann um̃breytti sijnu Lögmaali? Og þoott þu mættir þann Kost eiga, ad Barn þitt hverfi aptur i Verölldina, Hvilijk Faavitska væri þad, ad selia Rijkdoom fyrir Armood, Heilbrigdi fyrir Siwkdoom, Gledi fyrir Sorg, Og hina allra sætustu Roo og Hvijld fyrir allskonar Audstreymi og Erfidi? Þad væri ad hata, og ecki ad elska Barn sitt, Ef riett er aalitid; Sierdeilis þar hinir Utvölldu Guds, Sem i DRottni deyir eru, Þeir lofa Gud Oaflaatanlega fyrir sijna Endurlausn i Himninum: Þvi skylldu Menn þa syrgia þeirra Burtfor af Heiminum, Allra hellst þar vier hofum eckert mist, Helldur undann oss sendt, Og munum finna eitt Heilagt Barn fyrir Syndugt, Odaudlegt fyrir Forgeingilegt, Og Einglunum samjafnt, fyrir þad sem adur var þo ecki nema Molld og Aska? Leifid þvi Börnum ydar til DRoottiñs ad koma, Christnir Menn, Og bannid þeim þad ecki, Og segied eins og Baruch vid sijna Herteknu i Babylon, Baruch 4. Eg hefi laatid ydur burt med Harmi og Graati, Enn Gud mun skila ydur mier aptur med Gledi og Fögnudi Eilijflega. Eg veit ad mörgum er þad stoor Harmur, ad missa eitt Einasta Barn, Sem var Giæfulegt, Og vel ad sier um̃ alla Hluti; Eñ Hugleid þa, Christinn Madur, ad Gud gaf siñ eiginn og Einasta Son ut fyrir þig, J hverium hann alleina hefur sijna Velþoocknan, Ecki til ad bada i Roosum, helldur til þess, ad ecki hefdi hañ þar hann mætti Höfdi sijnu halla ad, Luc. 9. Ecki til ad laata sier þioona, helldur til ad þioona ödrum, ecki til ad lifa i Sælu nockri, Jafnvel þoott hañ mætti þa vel Sælu hafa, helldur til ad þola Krossinn, Heb. 12. Þetta giordi hañ, sem þier var um̃ eckert skylldugur; Ojafnt hafist þid ad; Sem ert honum skylldugur bæd um̃ þig og Barn þitt, ad þu aangrast af þvi, ad hañ flutte þad i eilijfa Sælu, Sem hañs Sonur hefur þvi med sinni Kvöl afrekad; Hversu giorfuglegt sem þad var, Þad var þo alldrei svo veglegt, Svo sem hinn Frijdasti medal Mañanna Barna; Ef Gudi og Födur þootti hann ecki Ofgoodur i Kvalirnar, Hvar fyrer skylldi þier þa þykia Sonur þinn Ofgoodur

til Oljrdarinnar? Þu villdir hafa honum Stoor-Fie eftirlaatid i Verolldinni, mun þad vera betra enn hanns Arfa-Hluti i Landi Lifandi Manna? Misjafnt fer um̃ Arfana hier i Verolldinni, enn Petur segir oss ad þessi Arfur skiemist ecki, 1. Pet. 1. Noogir eru Erfingiarnir, þoott einn deye Barnlaus; Sieu ecki adrir, þaa er Fodur-Landid, þa eru Guds Voladir; Gior þeim Gott medann þu lifir, og hefur þu Fie-Siood aa Himnum. Sonur þinn doo burt i sijnu Æsku-Bloomi, enn einginn veit Æfi sijna fyrr enn oll er: Vor Fyrsta Moodir fagnadi nærsta miog hinum Fyrsta Manni, sem i Heiminn var fæddur, enn þad villdi ecki svo rekiast wr fyrir honum. Eli Hofud-Prestur liet daatt ad Sonum sijnum, 1. Sam. 2. Þo voru þeir Skaalkar. Vænt þookti David um̃ Absalon, hvernig hann launadi honum, þad er alkunnigt; Þu þykist vita, ad ei var Barni þijnu hætt vid slijku: Svo er þad; hverium af oss þykir sinn Fugl fagur. Enn þegar ad Gud hefur ad fullu raadid Son þin̄ sier til Handa, þa hefur hann tekid þessa Um̃sorgun af þier, han̄ er þaangad kominn, hvar hann ecki skal vega sinn Broodur, ecki vanvyrda Guds Pioonustu, og ecki giora Uppreist i mooti Fodur sijnum. Þu villdir hafa sett hann til Menta, ad han̄ lærdi alla Heims-Speki, og oll Tungumaal: Heyr mier, Guds Vinur! Einginn er þvilijk Speki, sem ad deya vel, og þar ad aa oll Speki ad lwta, annars er hun Onijt. Hann kunni ecki so margar Twngur sem þu villdir; Þoott hann kunnad hefdi, mundi þad hafa gagnad honum til Himnarijkis? Þacka Gudi, ad hann er þaangad kominn, Hvar Tungumaalunum slotar, enn Kiærleikurinn varir Eilijflega, 1. Cor. 13. Noogur Vijsdoomur er þad, ad hann þeckir Gud, svo sem hann er af honum þecktur, og talar Einglanna Twngu. Adgreining Tungumaalanna er Straff Syndarinnar; En̄ þad er Raad Guds, ad Tunga hinna Maalholltu skal tala riett, Esa. 32. Svo veit eg og, ad hver Utvalldra mun̄ skilia annann, og ad þetta fullkomnast i Himnarijki, þar skal ecki Barn mitt þola morg Hogg fyrir sinn Lærdoom, ecki Ottast fyrir, hvert þad muni vinna edur tapa i einu Prætu-Maali, ecki helldur æra sig i Reikningi Stiarnanna, edur Mælingu Himinsins, nær þær eru dottnar, enn hann samannvafinn eins og annad Klædi, Heb. 1. Jafnvel þoott Menn verdi ad flækiast vid þen̄a Hiegooma eptir Naudsyn Spillingarinnar Haattalags. Þu meinar, ad Gud sie þier Reidur, af þvi hann leifdi þier ecki ad uppala þad, er hann svo vel skoop, sijnum Brædrum i Heiminum til Nota og Gagnsemdar: Gief þig til Frids, Barn mitt! Þacka Gudi, ad þu, med han̄s Adstod, hefur uppalid þad til Himnarijkis; han̄ aa margan̄ goodan̄, laat han̄ sorga fyrir Londum og Lijdum, sem þad leingst hefur giort. Svo hyggid nu ad þessu, Christnir Men̄, hver i sinn Stad; Laatid hann raada sem raada aa, og alldrei rædur sijnum Bornum, nema til hinns besta, og ætlist ei til, ad þier siaaid betur fyrir ydar Raadi edur Barna ydar og Astvina, helldur enn han̄, til hvers ad bædi ydur og þeim er varpad allt i fraa Moodur-Lijfi. Enn þu eilijfi Fadir, sem ecki einasta talid hefur alla Daga vora, helldur og oll vor Hofud-Haar; Kienn þu bædi Forelldrum og Bornum, ad hyxa þad vier hliootum ad deya, svo vier forsiaalir verdum, ad alldrei lifum vier svo sem ættum vier i þessu Volædi Æfinnlega.

lega ad lifa, helldur gief þu oss, sem ert Gud Lijffsins og Daudans, ad hvert vier lifum edur deyum, þaa sieum vier DRottinns! Bænheyr þad, DRottinn minn, fyrir JEsu Pijnu og Dauda, og gief oss þar til Styrk Heilags Anda, Amen, i JEsu Nafni, Amen.

# Seytianda Sunnudag eftir Trinitatis.

Gudspiallid, Luc. 14. Cap.

Á Þeim Tijma. Og þad skiedi so, ad JEsus kom i Hws nockurs Phariseara Høfdingia aa Þvott=Deigi Brauds ad neyta, og þeir høfdu Vardhalld aa honum. Og siaa þu, ad Madur nockar Vatns=Siwkur var þar framm fyrir honum. Og JEsus Andsvaradi og sagdi til Log=Spekinganna og Phariseanna, svo segiandi: Hvort leyfist nockud ad lækna a Þvott=Degum? Enn þeir þøgdu vid. Og hann took aa honum, læknadi hann, og liet hann i burtu fara, svaradi og sagdi til þeirra: Hvers ydar Asni eda Naut, sem fellur i Pitt, er þad eigi jafnsnart wtdreigid aa Þvott=Deigi? Og þeir gaatu honum þar til aungvu svarad. Enn hann sagdi þessa Eftirlijking til þeirra, sem bodnir voru, þaa ed hann merkti hvernin þeir mettust eftir hinum fremstu Sætum, segiandi svo til þeirra: Nær ed þu verdur bodinn af einhverium til Brwdkaups, þa set þig ecki i hid Ædsta Sæti, kannskie, þad annar Heidarlegri enn þu, sie bodinn af honum, og komi saa, sem þier baud og honum, og segi til þijn: Gief þessum Rwm; Og hliooter þu þa med Kinn=Roda ad hafa hid Ytsta Sæti. Helldur svo, nær ed þu verdur bodinn, þaa far þu, og set þig i hinn Ytsta Sess, svo ad nær ed saa kiemur, er þier baud, þaa segi hann til þijn: Vinur, þoka þier upp betur. Þa mun þier Vyrding veitast hiaa þijnum Sessunautum. Þviad, hver sig sialfur Upphefur, hann mun Nidurlægiast, og hver sig Lijtilætir, hann skal Upphafinn verda.

Exordium.

Á Medal hinnar Vegleguſtu Guds Þioonustu, er vier eigum ad dijrka hann med, þa er Helgun Sabbats=Dagsins; Hun er i Fyrstunni ecki bodinn Syndarinnar vegna, helldur aadur enn Spillinginn innkom i Heiminn. Svo segir i Genesis Bookar 2. Cap: DRottinn blessadi hinn Siounda Dag, og helgadi hann, þar hann aa honum hvijldist af øllu sijnu Verki, er hann skapad hafdi, þad er, ad hann hætti þaa ad skapa Himin og Jord, og allt hvad þar er inni. Þetta Bodord er aftur Itrekad i

Moysis Logmaali, Og er eitt af þeim Tiju Guds Laga Bodordum, Þess gietur i Exodi Bookar 20. Cap. Minnstu ad helga Hvijldar-Daginn DRottins Guds þijns; Og er þetta Bodord optlega stadfest i Gamla Testamentisins Bookum. A Sex Døgum skulud þier Verk vinna, Hinn Siøundi Dagur skal Helgur kallast, Þvi þad er Hvijldar-Dagur, Þier skulud eckert Verk aa honum vinna, segier i Levit. 23. Cap. Hin Fyrsta Orsøk til þessa Hvijldar-Dags i Gamla Testamentinu var sw, Ad Endurminnast hinns mikla Stoorvirkis, Er Gud giørdi i Skøpun allra Hluta, Þvi nefnir DRottinn þad eitt Teikn aa millum sijn og Israels Barna, Ezech. 20. Ønnur var sw, ad aa þeim Deigi skylldi Almennileg Guds Þioonusta halldinn verda, med Foornfæringum, Med Kienningu Guds Orda og ødrum þvilijkum Gudræknis Eyrendum i Helgidoominum. Um Foornirnar maa lesa, Num. 28. Enn um Guds Orda Kienningu, vottar Lucas Cap. 4. Med Dæmi Frelsarans: Hann kom til Nazareth, Hvar hann var uppalinn, og gieck inn ad Veniu sinni aa Sabbatz-Deiginum i Samkunduna, og stood upp ad lesa. Hin Þridia var, Ad Menn og Vinnu-Dijr skylldu hvijlast af Sex Daga Erfidi, Þad er bert af Exod. 23. Cap. Og hin Fioorda var sier i Lagi fyrir Israels Foolk, Ad Endurminnast Lausnarinnar af Egyptalands Þrældoomi, svo sem segier i Devt. Bookar 5. Cap. Nu, þoott ad Gud setti svo i Ondverdu, Ad hinn Siøundi Dagur skylldi brwkast til þessarar Helgi, þa er hun nu og hefur verid sijdann Himna-Før Lausnarans halldinn aa hinum Fyrsta Deigi Vikunnar, Er vier i Minning Christi Upprisu helgum, J Minning Endurskøpunar Heimsins, Sem fyrir hanns Dauda er skien, Og i Minning hinns Eilijfa Sabbatz, Er øllum Guds Børnum i hanns Upprisu feingid er. Þetta skulu Menn ecki ætla ad sieu Manna Setningar, Helldur svo sem Moyses flutti Guds Logmaal aa millum hanns og Israels Barna, Svo hafa og Christi Postular giørt þessa Skyckun, aan alls Efa, eptir hanns Bodi, þvi eckert segiast þeir mundi þora ad giøra fyrir utann hanns Skipan, Act. 15. Þad er og kunnugt, Ad þeir afmaadu sumar Greinir af Kyrkiu-Logunum i Samkomunni i Jerusalem, Þegar Paulus og Barnabas voru til þeirra sendir fraa þeim Christnu i Antiochia, Og er þenna Flutning Sabbatz-Dagsins ecki meira i spunnid. Eg vil ecki ætla, ad nockur giøri sier i Lund, ad Christur hafe ei haft Valld til þessarar Færslu, Þvi hann segiest vera HErra Sabbatz-Dagsins, Og ef þad var ecki aa mooti hanns Guddoomlegu Haatign ad afmaa Sacramenti hinns Gamla Testamentisins, þa var ei helldur þetta. Enn ad þessi Raadstofun sie af hanns Postulum giør, Er þad til Vitnis, ad þeir komu samann aa Hvijtasunnu-Deigi, Act. 2. Sem innfellur aa vorn DRottinns Dag. Lucas skrifar, Act. 20. Ad þann Fyrsta Dag Vikunnar hafi Lærisveinarnir samannkomid til, ad brioota Braudid, Og ad Paall hafi þa Rædu halldid; Og sialfur Paall skrifar Corinthu Borgar-Monnum til, 1. Pist. 16. Ad aa hinum Fyrsta Deigi Vikunnar skuli þeir leggia Assijdis Olmusur sijnar, Er Naudstøddum Christnum Monnum ætladar voru. Þenna sama Dag kallar Johannes Postuli og Gudspialla-Madur DRottinns Dag i sijnum Opinberunum,

um, Cap. 1. Og svo hefur Christileg Kyrkia nefnt hann fraa Peitri Tijd, allt til þessa; Pad ber til þess, ad nær Postularnir ecki nefna Frelsarann sijnu eiginn Nafni, Pa kalla þeir hann DRottinn, i Stadinn fyrir Guds Heiti, Sem er Jehova, i Gamla Testamentinu, Þvi kalla eg pad vijst ad þessi Raadstofun sie fraa Gudi kominn; Og ad þessu svo fyrirmælltu, þa vil eg nu taka mier Orsok af Spurningu DRottins til Gydinga, HVert, Par Leifdist Ad, LÆkna A SAbbatz-Deigi? Af henni vil eg taka mier Orsok ad tala um þetta Tvennt: 1. Hvad Christnum Monnum sie Oleyfilegt ad fremia aa Sabbatz-Dogum. 2. Hvad þeim byrie ad giora, Og Leyfilegt sie.

Þu Stoori HErra DRottinns Dagsins og hinns Eilijfa Sabbatz, Laat oss so giora þitt Verk aa þessum Deigi, ad vier um sijdir meigum Inngaanga til þinnar Hvijldar, Amen, JJESU Nafni, AMEN.

## Utleggingin.

HJd Fyrsta, sem bannad var aa Sabbatinu, þad var ad vinna nockurt Verk aa þeim Deigi: Svo segier DRottinn i sijnu Logmaali, Devt. 5. Vardveit þu Hvijldar-Daginn, ad þu helgir hann: Eckert Verk skalltu aa honum vinna. Og svo streingilega var þetta bannad Jsraels Sonum, Exod. 35. Ad þeir ecki maattu Elld kveikia i Hybijlum sijnum aa þessum Dogum, Hvar fyrir þeir ecki helldur maattu Matreida; Og er valla nockurt Bodord svo optlega Jtrekad i Heilagri Ritningu, svo sem þetta, Og hversu ad Gud hafi freklega straffad Vanhelgun Hvijldar-Dagsins, Pad sijnir oss Straff hanns, Er tijndi upp Smælkid aa Sabbatz-Deigi, ad hann maatti deya eptir Logmaalinu, Num. 15. Fyrir Vanhelgun þessa, hootar Gud sijnu Foolki, ad hann vilie uppbrenna Borgir þeirra, hiaa Jeremiam Cap. 17. og hiaa Ezechielem, Cap. 22. Sverdi Konungsins af Babylon; Og er þeir, apturkomnir wr Herleidingunni, tooku til ad vanhelga DRottinns Hvijldar Daga, Pa ataldi Nehemias þaa hardlega, og leiddi þeim fyrir Sioonir, Ad fyrir þessa somu Synd, hefdi Ogiæfann komid yfir Fedur þeirra, segiandi: Þegar Forfedur ydar giordu svo, Mundi ei Gud vor leida yfir oss alla þa Olucku og yfir þessa Borg? Og þier vilied upperta Guds Heiptar Reidi mooti Jsrael, med þvi ad vanhelga Sabbatz-Daginn, Nehem. 13. Nu er þo um Sabbatz-Daginn Tvennt ad Hugleida: Pad Eina, er Sida-Logmaalinu vidvijkur; Pad er hellst i þvi foolgid, ad lofa Gud og dijrka aa þeim Deigi, Og svo ad giefa bædi sialfum sier og Hiwum sijnum Toom og Stundir til þessarar Þioonustu, Svo og ad hallda einhvern Viku-Dag til þessarar Jdnar; Og þad er svo rijkt i Natturuna innskrifad, og medfædt Mannenum, ad hinir orgustu Heidingiar tooku sier vissa Daga, nærri svo marga sumir hverier, svo sem vier Christnir Menn, til ad fremia Bloot sijn og adra Godanna Þioonustu, Hverri Skipan þeirra þoott ad Mannkynsins Ovinur hafi spillt med sinni Dijrkun, Þa er þo auduært hier af, Ad Natturann hefur bodid þeim, ad slijkt væri ein sialfbodinn Skyllda vid Gud, Og hafa ad þvi Leiti og med þessum Setningi sannad þad sem Paall skrifar, Rom. 2. Ad Heidingiarnir, sem ecki hafa Logmaalid, Þeir giora af Natturunni þad Logmaalsins

er. Annad er þad sem Kyrkiu-Løgum Gydinga sier i Lagi vidkom, sem er, ad hallda Sabbatid, a hinum Siounda Degi, hvar um̃ adur er nockud i Inngauginum talad, svo og ad vinna alldeilis eckert Verk a þessum Døgum, sem þo an Efa hefur nockurn Skilmaala haft, sem siidar mun sagt verda. Nu þoott ad Christenna Manna Frelse hafe nockra Linkind hier i giørt, svo og linad Straff þeirra, er DRottinns Daginn vanhelga, þa vite Menn samt, ad þad er ein hroopandi Synd, ad brioota hann med Onaudsynlegu Erfidi. Til Guds Dijrkunar var hann helgadur i Fyrstuñi, laungu adur eñ Logmaalid var wtgiefid. Christilegt Frelsi hefur ei afmaad hann, helldur flutt a hinn Fyrsta Dag; Hann er i Sida-Logmaalinu bodinn, alldrei er hann af Christo fyrirbodiñ, helldur Hræsni og sw Hiatrw er Gydingar um̃ hann̄ høfdu, hun er stroffud af Frelsaranum. Þetta Bodord um̃ Helgun Hvijldar-Dagsins, er Alyktun hinnar Fyrri Bodorda Toblunnar, hvers vegna ad siinast maa, ad hann, sem þad mootþrooanlega brijtur, hann neiti allri Guds Dijrkan, fyrir utann þad, ad þad stendur alltijd stødugt, er Jacob skrifar, Cap. 2. Ad sa sem brijtur eitt af Bodordunum, hann er vid øll sekur: Sa sem brwkar Hvijldar-Daginn til sinna Utriettinga, ad Þarflausu, fyrir Agyrnis Sakir, edur af Forsmaan vid Gud, hann er einn Afguda-Dijrkari, þvi Gudi einum, enn eingum ødrum, tilheyrir sa Heidur ad hallda hann helgann; þar fyrir segir hañ, Ex. 31. Siaaid til, ad þier halldid minn Hvijldar-Dag, þvi þad er Teikn a millum mijn og ydar. Vanbrwki þvi nockur þenna Dag, med þvi Mooti sem adur er sagt, þa rænir hann Gud sijnum Heidri, og tileinkar sier, þad honum alleina tilheyrir; Hann vanhelgar og hanns Nafn, þvi a þessum Deigi a ad prijsa og lofa þad, med hinni mestu Audmijkt; Enn sa sem ecki er med mier, hann er a mooti mier, segir Christur, Matth. 12. Svo vil eg segia: Ad hann sem ecki Guds Nafn helgar a þessum Deigi, hann vanhelgar þad; Og i Sannleika, Christnir Menn! Þykir oss þad Oflijtid, ad Gud hefur giefid oss hina Sex Dagana til Utriettinga vorra, ad hann hefur blessad vort Erfidi, vora Lijfs Næringu, vorar Karfir og vorar Afgangs Leyfar? Þoott vier giølldum honum Þioonustu Siounda rinnar, svo sem einn Skatt af øllum Tijmanum: Þad væri stakt Oþacklæti, ad skora sig undann þvi. Eg vil ei þar um̃ tala, ad Gud er laangtum Vægdarsamari vid Lijkami vora enn vier erum sialfir: Þar finnast þeir, ed svo eru akafir i Bwsorginni, ad þeir mundu eingann Tijma giefa sier, Hiwum sijnum og Vinnu Dijrum til Hvijldar, nema þessi Dagur væri tilsettur; Svo eyda þeir sialfum Lijkamanum fyrir Lijkamans Næringu ad Þarfleysu, hvar med Gudi er eingi Þioonusta giør; Þviad hann, sem ad baud Manninum, ad i Sveita sijns Andlitis skylldi hann sijns Brauds neyta, Gen. 3. Hañ hefur og bodid, ad a hinum Siounda Deigi skylldi hann hvijlast af sijnu Erfidi. Og þoott nu ad Strit-Vinna og ønnur þvilijk Veralldar Umsvif sieu bønnud a helgum Døgum, þa meini þo einginn, ad Gud verdi med Emtoomis Idiuleysi dijrkadur, Idiuleysid er Orsøk til margra Lasta: Þegar David gieck Idiulaus uppa Hws Þaki sijnu, þaa freistadi Diofullinn hanns til ad gyrnast Bersabe, og var hann þo Guds

Madur:

Madur; Ætla ecki ad þu siert Ohultari fyrir hönum ef til vill: Þvi talar Hieronymus vijslega og Gudrækilega, er hann segir: Haf alltijd eitthvad ad sijsla, svo Diofullinn hitti þig ecke Idiulausann, þvi Idiuleysid færir med sier Lestina: Menn læra Illt ad giora, af þvi ad giora eckert; Þar fyrir segir og einn af þeim Christinu Forn-Mönnum: Betra væri Gydingnum ad vinna eitthvad til Þarfinda a Akri sijnum, helldur enn ad giora Upphlaup a Akrinum, og betra væri Konum þeirra ad sitia ad Ullar-Verki, helldur enn ad dansa Opinberlega a sijnum Tunglkomu-Hatijdum. Og er þad Mala sannast, ad oss Christna Menn vantar alldrei Verk a Helgum Dögum, til ad þiona Gudi med, ef vier værum Lundlægnir þar a, þo ott vier hvijlunst af Daglegu Erfidi, hvar um eg vil framar tala i hinni sijdari Greininni. Enn ef þad er ecki Leyfilegt, ad vinna Osmikid, edur eckert a þessum Dögum, þa er þad vijst, ad þad er ein Höfud-Skömm, ad hafast þad ad, sem Illt er og i sialfu sier Oleyfilegt, þvi þad er ad dijrka Diofulinn i Stadinn þess Menn ættu Gud ad dijrka. Þetta giora allir þeir, ed brwka Guds helga Daga til Lauslætis, til Ofneytslu og Ofdryckiu, til liootrar Skiemtunar, til Okurs og Agyrni, til ad vinna sier inn Fe med Dubli og Teninga Kasti, hvar af þrálega orsakast Svardagar, Agg og Þræta, Aflog og Riskingar, til Ills Samtals, til ad Baktala, Rægia og liwga uppa Naungann, til ad Atyrda hann og giora Illt i Skapi. Osk-andi væri, ad ecki kiæmi Menn samann til slijks, a helgum Dögum, undir þvi Skyni, ad ganga i Guds Hws! Um hveria Páll segir, 1. Cor. 11. Ad þeir samannsafnist til hinns verra eins; Og er einginn Vanhelgun argari enn þessi; Þvi ef þad eru i sialfu sier þvilijkir Klækir, ad Paulus segir, ad med slijkum skuli Menn ecki Umgeingni hafa, og ad þeir ed þvilijkt fremia, Erfe ecki Guds Rijki: Hvilijkur Glæpur mun þad þa vera, ad adhafast svoddann a þeim Tijmum, sem DRottinn helgad hefur? A medal þessara Klækia er ecki hinn minnsti, Guds Hwss Forsoomun og hanns Heilögu Orda, sem mörgum Veralldar Syni þykir lijtil Synd, og allt annad þarfara ad vinna; Þykiast sialfir nöogu vel uppfrædda, svo ad ei muni þeir læra mikid af einfolldum Prestum. HErra Gud! Olijkir eru Sialfbyrgingar þessir Heilögum David; Hann var svo vel uppfrædur af Heilögum Anda, ad hann hefur mörgum ödrum Himneska Speki kiennt i Psalmum sijnum; Þo segir hann, Ps. 27. Eins hefi eg bedid af DRottni, þess kresst eg af hönum, ad eg sitie i Hwsi DRottinns alla mijna Lijfdaga, til ad sia Fegurd DRottins og leita hennar i hanns Musteri. Hvad sijnist ydur? Mundi David ecki gieta fundid Gud heima i Hwsi sijnu, eins vel og þier? Ju, miklu betur; Þvi eg efast um, hvert þier finnid hann nöckurstadar, sem svo Toomlaater erud, ad þier vilied ei lia Fætur ydar til ad ganga i Guds Hws, til ad leita hanns þar, edur Eyrunn til ad heyra hanns Ord. Hvad fann þo David i Guds Hwsi annad enn nockrar Foornfæringar, i hverium ad Fyrirmyndud voru eptirkomandi Giædi, vid hveriar hann þo huggadi sig, og var gladur af Voninni: Enn þier, hverium Christur er med öllum sijnum Velgiorningum krossfestur afmálodur, i hverri riettskickadri Predikun, þier forsmaaid þo Lijkamann, þar sem David


undi

undi sier vid Skuggann. Hier af spretta adrer Avexter, lijker Rootenne, sem er Barnræktarleised, þvi Guds Hws er Bæna-Hws: Vantrwenn, þvi hverneg meiga þeir trwa, nema þeim sie predikad, segier Paulus, Rom. 10. Kiærleiksleysed, þvi þeir ykergiefa Safnadenn a moote Postulans Bode, Hebr. 10. Og Samneyte Guds Barna, sem hvad mest eflest i Guds Helgedoomi. Hier af fylgir hanns Þienara Forsmaan; Þeir eru svoddann Monnum eins og ein Gaman-Vijsa, sem er fogur ad leika, svo sem DRottenn sagde vid Ezechielem, þeir eru þeim nockurskonar Epterlijkinga edur Ords-kvida Smider eins og hañ, Ezech. 21. Eñ hvad vill hier af fylgia? O þier hin Faavijsu Bornenn! Þad, aan Efa, ad hver sem þa forsmaaer, hañ forsmaaer Christ, eñ hver sem Christ forsmaaer, hann forsmaaer þann er hann sende, enn þañ ed Gud forsmaaer, þann vill hann forsmaa, 1. Sám. 2. Og er þa ecke leingra ad leita ad Glotuneñe; Saa fiñr hana i eilijfum Ellde, sem ei villde leita ad DRottne i hanns Hwse. Hier uñ mætti margt fleira tala, enn eg læt þetta nægia ad svo stoddu, og vil koma til hins, er eg aadur losad hefe uñ ad tala.

Hvert ad vera eige vort hid Sierlegasta Verk a DRotteñs Dogum og odrum Helgum Tijdum, þad er audvitad af Skickun Sabbatsdagsins i Gamla Testamentenu, hvar Foolked aatte samann ad koma til Helgedoomsins, til ad dyrka Gud med Offrum og Foornfæringum, svo sem aadur er sagt, þvi jafnvel þoott Dagurenn sie umbreittur, og Foornernar afmaadar med þeirre einu Foorn, sem hinn Ædste Nya Testamentesins Kiennemadur hefur innbored i þad Allra-Helgasta i Himnenum, ad ævegadre Eilijfre Endurlausn, þa er þo ecke hanns Vilie umbreittur i þvi, ad laata þioona sier af Christnum Monnum. Fyrer Synda-Foornernar offrum vier þvi Saklausa Guds Lambe, sem fraa Upphafe Veralldar slaatrad er. Vor Upplyptingar Offur eru Bæner og Þackargiorder, þetta eru Kaalfar Vara vorra, þad eru vorer Frumburder, sem DRottne eru Helgader; Þa eigum vier fram ad bera ad sonnu alltijd og allstadar, enn þo sierdeilis i hanns Hwse, a þeim Dogum, sem þar til Helgader eru: Þar til er hinn Fyrste Dagur Vikunnar bodenn, sem aadur er umgieted, sem og adrar Haatijder, þær ed Christelegt Yfervalld hefur sett, og eiga ad' halldast i josnu Gyllde; Þvi hañ sem baud ad helga hinn Siounda Dagenn, hañ hefur og boded ad hlijda Yfervalldenu; Og a þad þo hvad mest ad framkoma i þeim Hlutum, sem Guds Dijrd aahrærer, og hanns sierlegustu Velgiorninga: Hvar fyrer hinn Fyrste af Christnum Keysurum, hinn Stoore Constantinus, liet hallda Fostudagenn helgann i Minning Krossfestingar DRottenns, og varde saa Sidur leinge nockud. Nu er þad þo ecke noog, ad koma saman til Kyrkiunnar, nema Menn giore þar Guds Eyrende med allre Alwd; Añars er vor Kyrkiu-Gaangur ecke nema Eintomis Hræsne, og være af Illu skaarra, ad koma þar alldrei (sem þo er stoor Synd i siaalfu sier, nær þvi maa vel vid koma); Þvi hitt er ad naalægiast Gud med Vorunum, eñ Hiartad er þar langt fraa; Og hvad gagnar þad til Guds Dijrdar og vorrar Saaluhiaalpar, ad Menn sitia i Kyrkiunne, eins og Gud segier uñ Tilheyrendur Ezechielis, Cap. 33.

Þeir

þeir koma til þijn Hoopum samann, og sitia fyrer þier svo sem mitt Foolk, og heyra Ord þijn, enn þeir giora þau ecke. Þad er Teikn til þess, ad Epterteckten hefur ecke mikel verid. Og ecki einasta er þad nu Skyllda vor, ad koma samañ aa Helgum Dogum, til ad lofa Gud, helldur er þad einn Gledelegur Hlutur, þad er Myskun Guds, ad hann hefur ætlad þessa Daga til Sadningar Saalum vorum, þar hefur hann tilreidt eitt miked Giesta-Bod i Syne sijnum. Þarvid huggar David sig i sinne mestu Sorg, er hann kvedur þannenn, Ps. 42. Eg wthelli Hiarta mijnu i siaalfum mier, þar eg mun med þeim Flocknum burt gaanga, og med þeim fara til Guds-Hwss, med Gledskap og Þackargiord, med þeim Hoopnum, sem Helgena helldur: Eg fagna af þvi, segier hañ enn aptur, Ps. 122. Ad til mijn verdur sagt, vier skulum gaanga i Hws DRottens. Þetta sagde hann Konungurenn i Israel, og einum Verk-Þræl aa medal vor maa valla nwa til þess, ad sækia Sooknar-Kyrkiu sijna aa Stundum, edur og Hwsboonde hanns hefur svo lwd hann i Erfide, ad hann gietur þad valla; Hvad og er ein hroopleg Synd.

Nu er ecke þar med bwed, Christner Menn, ad Meñ heyre Guds Ord i Kyrkiunne. Allañ Dageñ aa Gudi ad giefa med Riettu, ef þad giora maa Stoor-Naudsynia vegna. Þegar Menn eru fraa Kyrkiuñe geingner, þa eiga Meñ ecke strax ad hætta sijnu Gudrækenis-Verke, edur lifa svo sem alldrei hefdu þeir komed þar, og hugxa ecki framar þar til; Hvad aa þa ad giora? Riett er ad sedia Lijkamañ epter Þorfum, þad er og ecke bañad ad hallda skickañlegar Maal-Dryckiur aa þessum Dogum, þo svo, ad Meñ gledie sig med Otta, og dijrke DRotteñ med Virdingu, Ps. 2. Þetta gietur og vered eitt af Kiærleikans Verkum, ef þad er giort aan Ohoofs og Metnadar. Svo sogdu þeir Nehemias og Hezras Kieñemadur og Levitarner, er kiendu Foolkenu; Eted hid Feita og drecked sætann Dryck, og sended þeim eiñ Part, sem ecke hafa tilbwed, þvi Dagur þesse er Helgadur DRottne vorum, Nehem. 8. Þetta budu þeir ecke af eigeñ Myndugleika, helldur epter Logmaali DRottiñs, er ritad stendur i Devteronomii Bookar Cap. 16. Hvar fyrir slijkt er Leifilegt, sierdeilis ef Meñ gleyma ecke Naaunganum og hinum Faatæka, þvi þeim bijdur DRottenn med svoddann Hætte gott ad giora, Luc. 14. Enn þoott ad Skapareñ hafe lated þetta epter Lijkomum vorum, þa eiga Menn ecke ad laata Saalena Hlutlausa vera, helldur æfa hana i Umþeinkingu Guds Orda, er Menn heyrt hafa, og þess Lestre, Þeir sem aa Bækur kunna, og meiga fyrer odrum lesa. Ecke hofum vier Christner Menn særre edur smærre Velgiorninga DRottens ad minnast, aa vorum Dogum, enn Gydingar; Eins er oss skylldt ad minnast aa Verk Skopunarennar og þeim, og ollu meir aa vora Endurlausn af Helvijtis og Syndarennar Þrældoomie, enn þeim aa Lausnena af Egyptalands Anaud, ad hverre fullendadre, (eg meina vorre Endurlausn) ad DRottenn, sem doo fyrer Synder vorar, er uppriseñn oss til Riettlætis; A vora Endurskopun og Helgun i Skijrnenne, hverrar Fyrermyndañ ad var Gaangur Israels Sona yfer uñ Hafed Rauda wr Egyptalande; Þvi meigum vier tileinka oss þad, sem DRottenn bijdur i sijnu Logmaale: Geimed mijna Sabbats-Daga, svo ad þier vited ad eg er

DRottinn sem ad helga ydur, Ezech. 20. A Vepdingu Hollðsins, ad vier ei giorum þad oss lystir a hanns Helga Deigi, nie gaungum a vorum Vegum, Esa. 58. Um þetta eigum vier ad hugsa a þessum Helgum Tijmum, þad eigum vier ad brijna fyrir Bornum vorum og Hiwum, ecki sijdur enn Israels Synir Logmalid: Og skulu Menn satt tala, þa er einginn Ydia Gudi þeckari a Sabbats-Dogum, enn ad uppfræda Ungdoominn og hina faafroodu i þeirra Christinndoomi, þvi til þess ma eg segia, ad Christenna Manna Sabbat sie giort sier i Lagi. Giæti þeir þess, ed af Gudi settir eru til slijkrar Idnar, bædi Kiennimenn, Forelldrar og Hwsbændur, og Hugleidi, hvad stoorum Reikningi þeir eigi ad svara fyrir þenna Dag, ad odrum fraateknum.

Nu fyrir þvi, ad svo er varid spilltu Edli voru, ad fæstir af oss, ja, svo faair sent eingver af þeim, sem lifa a þessari kolldu og sijdurstu Olld, þeir gieta allan Dag til Enda Gudi þioonad i Hiarta sijnu, aan þess ad Hugur þeirra hvarfli fra, þa meina eg ad Leyfilegt sie, ad hressa Hiarta sitt med Sidsamri og Hæverskri Skiemtan a þessum Dogum. DRottinn og hanns Lærisveinar geingu wt um Korn-Akur a Sabbats-Deigi, Matth. 12. Þvi veit eg, ad hann bannar ecki ad giora sier eitthvad til Dægur-Styttingar, hvert helldur þad er med lijtilli Vinnu edur Meinlausum Leik, nær þad ecki skiedur af Giaalijfe, af Lauslæti, af Hreckvijsi, edur odrum Hlutum, sem Guds Hæleita Nafn verdur lastad med, svo og eru Naudsyninni einginn Log sett. Hvers Ydar. Asni Edur Naut, Sem Fellur J Pitt A Sabbats-Deigi, Er Þad Ecki Jafnskioott Uppdreigid? Segier Frelsarinn hier i Gudspiallinu: Þvi veit eg, ad ecki a so Logmalid ad skilia, ad oll Vinna hafi Judum bonnud verid a Sabbats-Deigi, hvernig sem aistædist; Þad kiennir Christur sialfur med þeim Ordum, er strax voru lesinn, og aftur med þvi, ad hann segir, ad Kiennimennirnir i Musterinu vanhelgi Sabbatid, hann meinar, eftir Phariseaana Utleggingu. Eins mikil Vinna var ad slaatra Foornunum fyrir Altarinu, svo sem i Heima-Hwsum. Enn fyrir þvi, ad þessir Pharisæi kynnu ad hafa sagt, ad slijkt helgadist af Musterinu, þa leifdi hann Lærisveinunum Axin ad plocka fyrir utan Musterid a Akrenum, og sagdi: Hier er sa, sem meiri er enn Musterid, Matth. 12. Hvad ed satt var, þvi hann var Musterisins Herra, svo vel sem Sabbats-Dagsins, Luc. 6. Þad var og af Guddoomlegri Speki talad, er hann taladi undir eins; Sabbatid er giort fyrir Manninn, enn Madurinn ecki fyrir Sabbatid, Marc. 7. Þetta er satt, svo sem oll hans Ord, þvi Madurinn var skapadur adur enn Sabbatid var sett; Hvar fyrir skylldi þa hin ædsta Skiepna Guds, sem er undir Soolunni, vera svo miog bundinn vid Kyrkiu-Loginn, sem ecki attu ad vara leingur enn til Christum, ad ei mætti bregda wt af Logvillinganna Utleggingu? Guds Logmal wtleggur og sialft sig i þessari Grein; Þviad i Levitici Bookar 23. Capit. stendur oftlega: Þu skallt eckert Prældooms-Verk vinna; Þad er Itrekad aftur i Num. 28. og 29. Capitulum. Hvilijkt þad sie, kienna bædi Esaias og Jeremias, ad ei skuli bera Byrdir inn um Jerusalems Port a Sabbats-Dogum: Og ma þar af raada, hvad i þessu hafi mest haungad verid. Nu er þo Frelsi

vort Christenna Manna meira, þvi vier erum ecki ad ollu Leiti bundnir vid Gydingana Sabbat. Nockud hefi eg ądur þar um̃ sagt, nockud vil eg hier eftir segia. Þad er nu ollum kunnugt, ad Kyrkiu-Log Moysis eru fyrir Dauda DRottinns afmąd, eñ þad er ądur sijnt, ad Forbod alls Erfidis a Sabbats-Deigi heyrir til Kyrkiu-Logunum. Satt er þad, ad Gud skipar, ad þetta Logmął um̃ Sabbats-Daginn skuli vera þeim eitt Æfinnlegt Logmął i þeirra Kynsloodum; Enn þær rugludust, ei langt eftir Himna-For DRottinns, og nu veit einginn af þeim, af hverri Ætt hann er, þvi er þad bert, ad þetta Logmął hefur ei ad ollu Leiti verid giefid nema Gydingum: Umskurninn kallast og eitt Æfinnlegt Sąttmął, þo er hun aftekinn med Skijrn Christiña Manna; Þvi ber þess ad gięta, ad Ritninginn kallar þad Æfinnlegt ą Stundum, sem leingi ą ad vara. Enn hvernig sem þessu er varid, þa vil eg adspyria: Hvar fyrir mun Paulus straffa þa i Galatia segiandi, Gal. 4. Þier takid Vara ą Dogum og Mąnudum og Tijmum og Arum? Hvar fyrir mun hann aftur segia vid þa i Colossis, Cap. 2. Einginn skal dęma ydur i Mat edur Dryck, edur um̃ Hątijdardags Halld, edur Ny Mąnuda Helgar, edur Hvijldardags, sem ad er Skuggi þess Eftirkomanda, enn Christi er Lijkaminn? Hvad er þetta annad, enn ad Sabbatsins Logmął er ad nockru Leiti linad, og ecki svo streingilega bodid Christnum Monnum, svo sem þad var Judum: Eg vil og þad til-leggia, ad þad kallast Teikn, i Exodi Bookar. 31. Cap. Hvad mundi þad þą teikna? Þad Ævarandi Sabbat, sem DRottinn byriadi med sini Upprisu hier i Nąd-inni, enn mun fullkomna i Upprisu allra Manna, hvar eftir ad Utvalldir munu eckert annad Verk vinna, enn ad lofa Gud. Fyrst Meñ nu hafa siąlfañ Hlutiñ allareidu ad nockru Leiti (þvi Trwinn er Vera þeirra Hluta sem Menn vęnta eftir, Heb. 11.) Og ad vijsu hver einn fullkomlega, są ed i Drottni deyr: Þvi skylldu Menn þa svo mieg hallda uppą Teiknid? Þegar eg Lijkamann hefi, hvad gylldir mig þa um̃ Skuggann? Svo er nu Christnum Monnum Leifilegt ad vinna ą Sunnudogum allt hvad stoor Naudsyn vidliggur, þo svo, ad Menn heyri ądur Guds Ord, ef heyra mą, svo sem er ad biarga Atvinnu sinni frą Skiemdum, ef þær vidliggia, ad giora Naudsynlegar Reysur, ad hiąlpa þvi sem ad Landi ber, ef annars er hętt vid ad missest, ad Rova til Fiskiar i Hallæris Tijd, þo svo, ad ei sie Fątękum gleymt, eftir þvi sem Loginn biooda, og annad þessu lijkt. Þetta er Leyfilegt ad vinna, og jafnvel þo ecki beri brąd Lijfsins Naudsyn til, þą er þo ecki svoddann bannad. Ecki liggur Mañsins Lijf vid ad draga Nautid upp wr Dykinu ą Sabbats-Deigi, og þo mą sią, ad Gydingar hafa þad Leyfilegt halldid. Ecki hefdu Lærisveinar DRottinns af Hwngri dąid, þott ecki hefdu þeir plockad Axin ą Hvijldar-Deiginum, og took hann þa samt i Forsvar mooti Illkvitni Phariseanna, hann gat og sadt þa med odru Mooti, hefdi þetta ecki Leyfilegt verid, þvi ecki var hann kominn til ad uppleysa Logmąlid, Matth. 5. Nu er þetta og añad Christnum Moñum lofad med sogdum Hætti; enn þess ą einginn ad dyrfast ad Naudsynialausu, edur ad brwka Frelse Guds Barna til Agyrni, edur giora þad af Vantrausti vid Gud, edur Forsmąn

vid hanns helga Daga. Eñ hvad hier um̃ er framar ad tala, þa er Gude eingeñ Hlutur þeckari ad giora a Sabbatz-Dogum, nærst siñe Pioonustu, helldr eñ Kiærleikans-Verk.

Hier stendur i Gudspiallenu, Ad Hann Hafe Teked A Þessu:n Vatnssiwka Manne, Læknad Hann, Og Lated Hann J Burtu Fara; Og hversu ad hann hafe Pharisæana sannfært hier um̃, er Auglioost, ecke einasta af hanns Tale i þetta Sinn, helldur og af Andsvare hanns vid Samkundu Hofdingiann, er vandlætte um̃ þad, ad hañ læknade hina veiku Konu a Sabbatz-Deige, Luc. 13. Þu Hræsnare, sagde hann, leyser ecke hver ydar sitt Naut og Asna af Stalle a Sabbatz-Deige, og leider til Vatns? Byriade þa ecke þessare, sem er Abrahams Dootter, hveria Andskotenn hefur bunded, Siau, i Atiaan Ar, ad leysast af þessu Bande a Sabbatz-Degie? Ecke erum vier megnuger um̃ ad giora Krapta-Verkenn, samt eiga þeir ed Læknis Kunstena vita, ad giætä þessa, og aller ad giora vidlijk Kiærleikans Verk hvad mest a þessum Deige, epter þvi sem hver hefur Orsok og Efne til. Eg veit þar er eingenn sw Predikun, ad eg fæe ecke ad heyra þar talad um̃ Synder mijnar, um̃ Giædsku Guds og hanns Velgiorninga, um̃ Avoxtu Trwarennar, og Betrun Lifnadarens, og þoott alldrei sie Predikunenn svo Einfalldleg, þa veit eg, ad eg er ecke svo lærdur sem Lutherus, er sagdest alldrei hafa heyrt þa Predikun, ad hann ecke hefde Eitthvad af henne lært, og mun hann þo hafa heyrt þær misjafnar a þeim Dogum; Sie eg nu Guds Barn, þa vil eg sijna þad i Verkenu, sem eg numde af Ordenu, annars er þad falled utann hia Veigenum, i grijtta Jord, edur medal Þyrna. Alltijd eigum vier Kiærleikans minnuger ad vera, enn þo hellst a þessum Dogum. Gud giæfe, ad Christner Menn nu villdu giora sier þad ad Skylldu-Logmaale, sem Paulus ried þeim i Corintho um̃ Tillaged til Heilagra. Hinn Fyrsta Dag Vikunnar, sagde hann, þad er a Suñudagenn, þa legge hver einn hia sialfum sier, safnande i Siood, þad sem honum hefur heppnast: Fatæka hofum vier jafnann hia oss, enn þo hofum vier fier i Lage Orsok til ad giora þeim Gott, a þessum Dogum, þvi þeir koma asamt oss fram̃ fyrer Gud i Helgedoomenum; þa faum vier best ad heyra Naudsyniar þeirra, þar gietum vier raded Boot a þeim, vier, sem Gud hefur giefed Audlegd Heims þessa, þar kunnum vier ad giora oss Vine af hinum Ranglaata Mamon, þa er medtaka oss i Eilijfar Tialld-Buder. Svo og eigum vier ad vitia Siwkra, Hwsa Eckna og Fodurlausra a þessum Dogum (þvi þad kallar Petur Gudrækni Verk) hugga þa, Raadleggia þeim, og ecke koma Toomhendter, ef vier meigum afleggia, eñ þeir eru Naudstadder: Annars geingur þad nærre þvi, ad segia, Fared i Fride, vermed ydur og mettest, enn giefa þeim þo ecke hvad Lijkamanum gagnar, Jac. 2. Svo giæted nu þessa, Christner Meñ, og gióred ei Hiegooma wr DRottenns Dogum, hanns Orde, edur hanns Hwse, þvi hañ lætur ecki ad sier hæda, og hvern sem hañ forsmaaer, þañ vill hañ forsmaa. Eñ þu goode Gud og Konungur Dijrdariñar, verka þu þad med oss, ad vier so ræktum þijna Sabbatz-Daga, þitt Ord, þijna Pioonustu, og allar þijnar Helgar Tijder, ad vier meigum med þier

Oend-

Oendannlegt Sabbat hallda, fraa einne Eilijfð til Annarar, med ollum Heilogum, Bænheyr þad Nædugе Fadir, fyrer JEsum Christum, AMEN.

# A Michaelis Messu.

Gudspialled, Matth. 18. Cap.

Uan Tijma, geingu Læresveinarner til JEsu, og sogdu: Hvor er mestur i Himnarijke? JEsus kallade eitt Barn til sijn, og sette þad midt i millum þeirra og sagde: Sañlega segie eg ydur: Nema þier umsnwest, og gioreſt ſo ſem Smaa-Born, munud þier ecke ĩngaanga i Guds Rijke. Hvor ſiaalfur ſig læckar, ſo ſem Ung-Meñe þetta, ſaa er meſtur i Rijke Himnaña. Og hvor ſem medtekur eitt þvilijkt Ung-Meñe i mijnu Nafne, ſaa medtekur mig: Eñ hvor hañ hneixlar eirn af þeſſum Smælingium ſem aa mig trwa, þarfara være honum ad Mylnu-Steirn heingdeſt uñ hañs Haals, og være i Siaafar-Diwp ſocktur. Vei ſie Heimenum fyrer Hneixlaner! Þar hlioota þo ad koma Hneixlaner; Eñ Vei þeim Mañe, fyrer hvorn ad Hneixlaneñ kiemur! Eñ ef þijn Hond edur þiñ Footur hneixlar þig, ſnijd hañ af og ſnara honum fraa þier. Betra er þier iñ ad gaanga til Lijffins Halltur og Handar vanl, eñ þad þu hafer Tvær Hendur og Tvo Fætur, og verder i Eilijfañ Elld kaſtadur. Og ef Auga þitt hneixlar þig, þa ſlijt þad wt og ſnara þvi fraa þier: Betra er þier Eineygdum iñ ad gaanga til Lijffins, eñ þad þu hafer Tvo Augu, og verder i Helvitſkañ Elld kaſtadur. Siaaed til ad þier forſmaaed ecke eirn af þeſſum Smælingium. Þviad eg ſegie ydur: Ad þeirra Einglar aa Himnum, ſiaa jafnañ mijns Fodurs Auglit, ſem er aa Himnum.

Exordium.

Eſſe Veglega Haatijd, er vier i Dag holldum, er tileinkud hinum ſtoora Hofud-Eingle Michael, hvers Nafn ad merker, Jafn GUDE, eda, HVer Er Svo Sem GUD; ecke þeſs vegna, ad hann ſie Gude jafn, edur nockur oñur Skiepna, helldur hinns, ad hin Oñnur Guddoomſins Perſoona, Guds Eingieteñ Sonur, hann ber þetta Nafn Sumſtadar i Ritningunne, og medal annars hiaa Danielem, i 10. og 12. Capitulum. Ecke helldur er þeſſe Dagur helgadur Guds Eingle i þeirre Veru, ad Menn ſkule dijrka hann þar med, þvi DRottenn Gud þinn ſkaltu tilbidia og hon-

heyrum eirnum Pioona, segir Ritningin, Matth. 4. Pad bannar Paulus, er hañ tekur oss Vara fyrir, ad vier ei skulum læta villa oss med Dijrkun Einglanna, Col. 2. Og ecki villdi Eingillinn, sem byrtist Johanni, taka a mooti þvilijkri Lotningu, þegar Postulinn fiell honum til Foota ad tilbidia hann, er hann sagdi, Apoc. 19. Siaa til ad ei giorir þu þetta, eg er þinn Samþioon: Helldur er þessi Hatijdis-Dagur þar til giordur, ad þacka Gudi fyrir Vernd H. Eingla, hverium hann umbodid hefur, ad þeir beri oss a Hondum sier, svo ad ei steitum vier Foot vorn vid Steini, Matth. 4. J Ritningunni hofum vier morg Dæmi uppa Varatekt H. Eingla: Gud DRottinn Himinsins mun senda sinn Eingil fyrir þier, sagdi Abraham vid Eleazar Pioon sinn, Gen. 24. Er hann reisti i Mesopotamiam, til ad bidia Syni hanns Konu til Handa. Jacob segir: Ad Eingillinn hafi frelsad sig fra ollu Illu, Gen. 48. Petur segir: DRottinn sendi Eingil sinn, hver ed frelsadi mig, Act. 12. Enn þoott ad ei siaum vier Einglanna Sioonir nu a þessum Dogum, þar hinn Stoori Michael, hinn Stoori Eingill þess mikla Raads, hefur bwid svo um vor Saaluhiaalpar Efni, og so Lioslega opinberad oss sijns Fodurs Vilia, ad vier þurfum ecki Einglana af Himni til ad kienna oss hvad til vors Fridar heyrir, þa samt skulum vier vita, ad þeir blessudu Andar eru oss nælægir til ad afstijra Skadrædi og Araasum Fiandmanna vorra, og þad vottar Paulus, er hann segir eftir David: Ad þeir sieu allir Pioonustusamir Andar, wtsendir þeim til Pioonkunar, er Saaluhiaalpina erfa skulu, Hebr. 1. Nu villium vier allir i þeirra Tolu vera, þar fyrir eigum vier ad leggia allann Huga a, ad vier styggium þa ecki fra oss med Hneixlanlegum og Ogudlegum Lifnadi, hvarum ad þetta H. Evangelium giefur oss Orsok ad ræda, wt af þeim Ordum, er DRottinn talar um Hneixlid, hvert ad er Tvofalldt: 1. Pad Menn giefa odrum af sier. 2. Nær Menn hneixla siaalfa sig: Um hverttveggia vil eg med faam Ordum tala.

Enn þu goodi Gud, Styrk oss hier til med Naad þijns Anda, J JEsu Nafni, Amen.

## Utleggingin.

Ver Sem Hneixlar Einn Af Pessum Smaau, segir Frelsarinn: Pad Ord er i Textanum stendur, er dreigid af odru Ordi, sem merkir Ad Halltra, og þad þess vegna, ad sa sem hneixladur verdur, hann er ecki Heilfættur, hann halltrar a Guds Veigi, og geingur ecki riett fyrir DRottni. Petta a vel saman vid vora Tungu, þvi Hneixli dregum vier af þvi Ordi, ad Hnijga edur Hneigia, þvi sa sem Hneixli af sier giefur, hann kiemur odrum til ad hnijga edur rasa, og hneigir hann til vondra Verka. Petta Ord merkir a Grijska Tungu þad Trie, sem Snorunni helldur, a hvert þegar Dijrid rennur, fellir þad hana yfir sig, og verdur Veidi-Manninum ad Braad: Svo brwkar og Diofullinn sijna Eyrendsreka i Heiminum, til ad veida Einfalldar Saalir; Peir hallda Snorum hanns yfir Hofdi þeim: Svo kallar Paulus hañs Viela-Brogd, er hann segir: Ad þeir sem rijkir vilia verda falli i Diofulsins Snorur. Par fyrir segir og DRottinn fyrir Munn Hoseæ, um hina Otrwu Kiennimenn i Juda: Pier erud

Snara i Mizpa, og wtþaned Net aa Tabor, Hos. 5. Dragande Dæme af þeim Veideskap, er brwkadest aa þessum Fiollum. Nu er þesse hin Fyrre Grein af Hneixlenu med Tvennu Mygte: Annadhvert verdur þad med Ordum edur Verkum.

Med Ordum skiedur Hneixled, þegar þeir sem eiga odrum ad undervijsa, þeir kienna Villur og rangañ Lærdoom, þañ ecke er aa Guds Orde bygdur, og leider til Glotunar. Fyrer þessare Drepsoott hefur Guds Fodurleg Millde þyrmt Lande voru, siidañ hid klara Lioos Evangelii skein i hañs Kyrkiu medal vor: Lofad sie hañs Dijrdarfulla Nafn um Allder Allda! Þetta verdur og, nær þeir, sem i Guds Stad eru setter, predika þad sem er Hiegoome; Ecke sundurkliufa Ord Sannleiksins svo sem byriar; Ecke giefa Guds Hiwum i riettann Tijma þad þeim tilheyrer, og tala þad fyrer Foolkenu, sem ei er til Sadningar Saalu þeirra, svo hun er litlu edur eingu nær; Ecke segia hinum Ogudlega til Synda sinna; Ecke leidrietta þann, sem fer villur Vega; Ecke undervijsa hinum Faafrooda; Ecke hugga þann Sorgbitna og Angraada; Jaa, þegar Meñ i Guds Nafne og under hanns Persoonu reka sitt eiged Eyrende, til sijns Abata, og ad leita sialfum sier Virdingar, enn laata Guds Dijrd fara, og eru ei miog huxunarsamer þar uñ, hvad henne vidlijdur: Þessa kallar Paulus Otrwa Erfidara, og Esajas, Maallausa Hunda, sem ei kunne ad giellta, enn þo sterka Hunda til ad eta: Hvar fyrer? Þvi þeir segia þeim Strijd aa Hendur, sem ecke leggia i Munn þeirra, enn boda Frid, nær þeir tyggia med Tonnunum, Mich. 3. Þeir eru Hverfuler, Osañsoguler og Liwga, segiande: Eg skal driwpa, þad er, kieña þier fyrer Vijned, og fyrer aafeingann Dryck, svo sem DRottenn ad Orde kiemst, hia Micheam Cap. 2. Og eg veit ecke hverin þeir betre eru þeim folsku Spaamonnum, er DRottenn talar uñ i Gudspiallenu, er koma i Sauda-Klædum, eñ iñra eru þeir gleypsande Vargar; Þvi einu maa gyllda med hveriu Moote Menn draga Audskotans Ploog, til ad spilla Guds Akre: Og er þetta eitt Kielfilegt og banvænt Hneixle. Nærst þessum tel eg þaa, sem bæde sialfa sig og adra venia aa skamarlegar Ordrædur og Fiblslegt Hial, sem eru Bloot, Muñ-Eidar, daarleg Skiemtan, Hroop og Nijd, liooter Kvedlingar, og þo allra hellst illar Umrædur og Hneixlannlegar uñ Naungann, sierdeilis Dauda Menn edur fiarlæga, af hveriu ad þraa valldlega framkiemur Agg, Reide, Þræta, Mord, Manndraap, og allra Handa Fiandskapur og Daudlegt Hatur: Þetta kalla sumer Ohlutvander Menn litlar Synder, aukhelldur ad þeir varest ad laata jafnvel sijn eigenn Born og adra Faafrooda þetta til sijn heyra; Eñ Paulus segier oss, ad Illt Samtal spille goodum Sidum, 1. Cor. 15. Og framar segier hann, ad þvilijkt ecke Christnum hæfe, Eph. 5. Enn hvad er þad? Eckert añad eñ ad sa sie ecke Christenn, ad Postulans Doome, sem ad temur sier þvilijkt edur uñ Hond hefur; Eñ ef hañ ecke Christenn er, þa er hann ecke Guds Barn, og hefur forbroted hañs Naad, og tapad Velferd Saalar sinnar, nema hann ydrest af Hiarta, enn forþienad ecke einasta, ad Mylnu-Steinn heingdest uñ Hals honum, og yrde i Siaafar-Diwp sockt ur (svo sem hier stendur i Gudspiallenu), helldur og, ad honum yrde i eilijfann

Elld kaſtadſt: Og af þeſſu er nu audſært, hvad ſkielfileg Haadung þad ſie fyrir Gud og øllum Heidvirdum Mønnum, ad hafa þenna Oſooma fyrir Smaa Børnunum, edur ødrum Einføllдum, og draga þaa med ſvoddann Hætti fraa Gudi undir Satans Valld, Hverutveggium, bædi þeim ſem hneixlar, Og hinumſem hneixladur er, til eilijfrar Gløtunar. Þeir eru og ecki Saklauſir af þeſſu, Er hrooſa vondum Verkum, Og þeim, er þau i frammi hafa, forſvara þa, og tala þeim alla Hluti til Umbootar; Þvi hier af leidiſt hinn Einfalldi og Barnid til ad giøra hid ſama, og elſka þad ſem þad loſad heyrir af ødrum ſier Elldri og Vijſari. Þad er ſatt, ad Manninn ſkal elſka, enn Verkinn hata, og færa alla Hluti aa betra Veg: Enn þvi ſkal eg loſa hann, ſem hatar Gud og gooda Sidu? Jafnvel þo margur kalli þad Hæverſku og Spaklyndi, ad giøra þanninn. Eg voga ad ſegia, ad þar er einginn meiri Drepſoott i einni Bygd edur Landi enn þeir Menn, ſem Ogudlega lifa og einkis ſvijfaſt hvad þeir giøra, enn eru þo heidradir i Ordum, og hvad þeir tala edur giøra, Þad er tekid ſvo ſem af Himnum ofannkomid, og jafnvel Klækir þeirra eru Dygdir kallader: Þeſsir eru eitt Atu-Mein alls Heidurlegs Athæfis og goodrar Skickunar, Snara hins vonda Heims, Taal-Fuglar Diøfulſins; Og, ſvo eg þad i einu Ordi ſegie; þeir eru Meiſtarar til ad ſordiarſa, ſvo ſem DRottinn talar um Babylon hiaa Ezechielem. Þvi kalla eg þa litlu betri ſem ala Oſooma þeirra i faanijtu Hrooſi: Þo vil eg hier hafa fraaſkilid þann Heidur, Er Menn eiga Valldſtioorninni ad veita, ecki einaſta Goodum og Froomum, helldur og Hreckvijſum, ſegier Petur: Og ſkrifad er; Høfdingia þijns Lijds ſkalltu ecki Bøls bidia, ſegier Paulus: Enn hitt Annad er eg fyrir ſkommu umtaladi, Þad orſakar ſtoort Hneixli, þvi þad er nockurskonar Raangdæmi, og Riettlætir hinn Raanglaata, Edur, ad minnſta Koſti, leggur Vonda og Gooda ad jøfnu. Nu er allt þetta illt, Sem Allareidu er upptalid: Enn Kunſtinn ſtijgur enn þa hærra upp i Diøfulſins Haaſkoola.

Þar eru þeir ſem ad hafa Valld yfir ødrum, Svo ſem eru Forelldrar yfir Børnum ſijnum, Hwsbændur yfir ſijnum Þienurum, Stoor-Herrar og Maktar-Menn yfir þeirra Undirſaatum; Nær þeſſir biooda Eitthvad þad ſem Ogudlegt er, Svo ad hinir voga ei annad enn hlijda, Þad er eitt fullkomid Ofrijki og Yfirgaangur Satans i ſijnu Rijki: Svo baud Nebucadnezar ſijnum Undirſaatum ad dijrka ſitt Gull-Bijlæti, Dan. 3. Svo ſkipadi Jeſſabel ad wtvega Fals-Vitni aa mooti Naboth, Svo baud Herodias Doottur ſinni ad bidia um Johannis Høfud; Svo kom Jeroboam Iſrael til ad Syndga, Er hann baud ad dijrka þau Skwrgodinn i Dan og Bethel: Og þo ad i øllu ødru ſie Olijku ſamann ad jafna, Þa var ſiaalfur David hinum lijkur i þvi, Er hann liet ſlaa Uriam i Hel med Sverdi Ammons Barna. Þeſſa Eptirmynd høfum vier aa Lands Høfdingium þeim, Er biooda ødrum þa Hluti, Sem Gud hefur Andſtygd aa, Meinſæri, Ofbelldi, Gripdeilldir, Og i hvern hellſt Maata, Sem þeir locka þa edur hræda til ad vinna Diøflinum, Enn mootþægia Gudi: A Hwsbændum, er þeir giøra ſlijkt hid ſama, ad þvi Leiti ſem i þeirra Valldi ſtendur; til Dæmis: Nær þeir biooda þeim edur tæla þa til ad giøra ødrum Oriett ſier til Abata, Ad forſmaa Guds Ord og Helg-

ak

kr Tijdir fyrir sijn Eyrindi, ad hefna aa einhverium; Er þeir þykiast eiga Heiptir ad giallda, Edur ad þeir brwka þa aa einhvern Haatt til ad framkvæma sijnar Eyrndir; Þetta er eitt skadsamlegt Hneixli: Og hid sama er ad segia um Forelldrana, Edur adra þa, sem yfir Borninn eru settir, Edur umgaangast med þeim; Og er þeim þo miklu meiri Vandi aa Hendi, enn øllum ødrum: Fyrst, þess vegna, ad Forelldrarnir eiga hina mestu Rækt aa Børnunum ad hafa, Og er þad Maala sanast, Ad þeir eru færstir sem vilia þeim Illt giora i Lijkamlegum Hlutum, og sumir eru allt Ofhlijfnir i þvilijku, sumir steypa sialfum sier til Helvijtis fyrir þeirra Skulld, Er þeir safna þeim Raangfeingnum Audi, Og kienna þeim ad giora hid sama; Enn trwid mier, ad betra er ad giora Barn sitt Arflaust ad Saklausu, Betra er ad slaa þad og lemia til Oboota, Betra er ad myrda þad, Enn ad hneixla med þvi, ad vijsa þvi aa nockurt Forrædi, Hvar af þvi kynni ad orsakast einhver Saalar-Vodi, Þvi allur Lijkamlegur Skadi er Hiegoomi ad reikna hiaa Meinum Saalarinnar. Hin Aunnur Orsøk til þess, ad oss er vandast vid Borninn, er su, ad þau eru hvad næmust aa hid Vonda, og hvad þau ung mundu, Þad verdur þeim torvelidara ad laata, nær þau dragast aa Legg; Og þvi tekur Frelsarinn þau til Dæmis hier i Gudspiallinu. Hann virdti Þau Blessadur svo mikils, ad hann sagdi: Leifid Børnunum til mijn ad koma; Hann setur þau til Eptirdæmis þeim sem inn vilia gaanga i Guds Rijki; Hann took þau uppaa sinn Armlegg; Hann blessadi þau; Hann segier hier i Gudspiallinu, Ad Þeirra Einglar Siaai Jafnann Sijns Fodurs Andlit Sem A Himnum Er: Meinid þier ecki, ad hann taki þad saart, Þegar þau eru hneixlud, Er han svo miøg virdir og elskar, Þegar þau eru dreiginn fraa Himnarijki, Sem eiga þess vissa Von aa medan þau þannig eru? Munu ei Guds Heilagir Einglar klaga þa saarlega, þegar þeirra Hiord, er þeir eru settir til ad vakta, Þegar hun er svo illa wtleikinn, af þeim er sijdst skylldi, edur ødrum Ohlutvondum, Er vilia sem flesta jafnsvarta sier? Þviad ef þar er Gledi i Himninum yfir einum Syndara sem Ydran giorir, þvi skylldi þa ei Guds Heilogum Einglum lijka þad stoor-illa, Nær svo er hondlad med þeirra Foostur-Born? Þvi kan hver Einn nærri ad gieta, sem nockra Rækt hefur aa þvi Barni, sem honum er Astfoolgid. Og þo nu Frelsarinn tali sier i Lagi um Borninn i Gudspiallinu, Þa vitid, ad allir adrir eru þar innifalldir. Giefid eingum neina Hneixlan, segier Paulus: Enn sierdeilis eru þad þeir, Sem eru hanns, einkum Voladir, Einfalldir, og þeir sem bera hanns Kross, þvi han giefur þeim somu Meiningar Nafn hiaa Matth. 25. Þar hann kallar þa hina Minnstu, Jaa, sijna minnstu Brædur, i sama Capitula. Þvi skulum vier nu vita, ad hinn annar Maati til ad hneixla med Ordum, Er saa, ad raada einhveriium til nockrar Syndar, þegar hann er Sorgfullur og Mootlættur: Jobs Kona segier vid hann i hans stooru Mannraunum: bolvadu Gudi, og far ad deya: Henni eru allir þeir lijkir, Er raada Harmþrwngnum Manneskium til ad leita Oleifilegra Medala, Hinum Siwka til ad leita Fiolkingis Manna, edur brwka adra Hiaa-Trw og Afgudadlijrkan, Hinum Faatæka til ad stela, edur vinna sier inn Fie med Prettum og Raangsleitni, Þeim sem Oriettin lijdur, ad hefna

 sialfur

fiaalfur siin, enn forsmaa Logenn, og stela Hefndene fraa Gude: Hafe nockur eitt Odaada-Verk i Sinne, eins og Absalon, þa vantar ecke einn Achitophel til ad raada honum ad kreinkia Fridlur Fodur siins, 2. Sam. 16. Og nær Ammon lijtur Gyrndar-Augum til sinnar eigenn Systur, þa verdur jafnvel hanns Brædrungur Jonadab til þess ad giefa honum Raad, til ad fremia sinn Ogudlegann Vilia, 2. Sam. 13. Eg vil ei tala um þa sem fleka adra Einfallda til ad giora sier Selskap i þvi, ad Fefletta adra, til ad wtsiuga Hws Eckna og Fodurlausra, til ad draga under sig annars Goots med Yfervarpe Laga og Riettinda: Eingenn hefur þa betur wtmaalad enn Salomon, er hann segier, Prov. 1. Son minn, nær Synduger Menn vilia locka þig, þa kom ecke, þegar þeir segia, gack med oss, vier vilium umsitia Blood, vier vilium umsitia hinn Saklausa: Og skomu þar epter segier hann oss, hvada Taal-Bita þeir brwka til sooddan Veida: Vier skulum finna allra Handa kostuleg Audæfe, Vier skulum filla vor Hws med Herfaang, Vier skulum aller hafa einn Siood. O! Jaa, þier Satans Einglar, verda maa þier hafed aller einn Siood i ydar Fodurs Rijke, sem er Hofdinge þessa Heims; Enn svo munud þier og einn Siood hafa med honum i hinu vellanda Dijke, þegar Guds Veslingar liooma i Rijke siins Fodur, eins og Stiornur Himens; Þier munud segia eins og Israel Fordum, nær þier fagned ydar Raangfeingnum Aud: Þesse eru þau Laun er mijner Elskugar hafa giefed mier, Hos. 2. Enn nær þier uppvakned i Helvijte og Kvolunum, med ollum þeim, er þier leidt hafed til Glotunarennar, med ydar falskre Aeggian, munud þier þa segia: Þesse eru mijn Laun er mijner Elskugar, Hollded, Heimurenn og Dioflullenn hafa giefed mier? Svo er nu þetta hin Skadlegasta og Hneixlannlegasta Taal-Snara, og þad þess helldur, ad slijkt er hallded Framsyne og Skynseme af Bornum Veralldarennar. Menn hneixla og sinn Naunga, nær Menn brixla honum um einhvern Hlut, Jafnvel þann, sem ecke er i hanns Vallde, um Faatækt sijna, um Faavitsku, um Lijkamans Skapnad, herma epter honum og spotta hann; Aller þeir ed svo giora, þeir ecke einasta hæda ad Skaparanum, helldur koma hinum til ad syndga, J þvi hann reidest slijku, og leitast vid ad hefna siin, og faae hann ei Hefndenne framkomed, þa hatar hann þann, sem hann lijdur slijkann Oriett af; Enn Hatred er ein Synd, sem bannar Mannenum inn i Himnarijke: Eg vil enn framar segia: Hver sem brixlar einum um bætta Synd, hann giefur stoort Hneixle af sier, þvi Natturann er svo Illgiorn, ad Sannendunum verda Menn reidaster; Enn vier eigum ecki ad giefa Naunganum Orsok til neirnrar Syndar, annars giora Menn sig Hluttakande i annarlegum Syndum; Og hver vill upptelia allt þad sem Tungann hneixlar med, nær hun er upptendrud af Helvijte, segier Jacob. Eins vil eg geta aadur enn eg skilst vid þetta Maal, sem er þad Satans Ede, er margur Gaarungur brwkar, ad spotta Guds Þioonustu, og hlæa ad þeim er hana ydka: Þetta er riett ad gabba Gud, og hæda ad Christo i sijnum Pijslum; Þvi so sem ad hiner Ogudlegu Kiennemanna Hofdingiar, med þeirra Haaduglegre Medferd, leiddu þad Foolked, sem komu aadur hafde sijn Klæde breidt a Veigenn, og kallad, Hosianna Syne Da-

vids

vids, þeir leiddu þad, seige eg, til ad hroopa litlu siidar: Tak burt þenna, og gief oss Barrabam lausann; Svo fyrerverdur sig margur Einfalldur og Istodulijtell, þegar þeir siaa, ad Christelegt Lijferne afflar þeim Haturs hiaa Monnunum: Og þetta er verra enn allt annad, sem aadur er upptaled, þvi nær Hneixled hefur þrijst Einhvorium til ad burtkasta Guds Otta, og laata meir ad Mannanna Doome enn Guds, þa fylgia þar allar Skammer aa efter: Og þannenn verdur nu Hneixled med Ordunum.

Enn med Verkunum skiedur þad ecke minna: Vei Heimenum Fyrer Hneixlaner, segier DRottenn. Þetta Vei talar hann af Medaumkan, aalijka og þegar hann grætet yfer Jerusalem. Hvar fyrer? Þvi hann saa, ad þar yrdu ad koma Hneixlaner; Ecke af Guds Tilstille, hverium ecke lijkar Ogudlegt Athæfe, helldur af Heimenum, sem liggur i hinu Vonda, og hefur hanns Alvijsa Speke ad vijsu einnig litid til Illsku þessara Tijma, sem er svo mikel, ad i Villu kynne ad leidast, ef skie mætte, jafnvel Utvallder. Nu kiemur Hneixled af Verkunum, þegar Menn drygia openberar Skammer og Leste, sem eru þvert aa moote Guds Bode og Logunum, svo sem Okur, Ranglæte, Agyrne, Ohoof, Osmetnadur, og þad svo Bligdunarlaust, ad Menn ecke einasta fremia þad sialfer, helldur samsinna þeim ed þad giora. Þetta Eytur skadar med Tvennu Moote: Fyrst, ad þad leider bæde adra eins vonda, svo og þa sem af Natturunne eru þo ecke Illgiarner, til ad giora þad Illt er: Saa sem umgeingst med hinum Hallta, hann lærer ad halltra: Saa sem giefur eina lioota Forskrift, hann velldur þvi, ad annad eins lioott verdur epterskrifad; Og Menn hafa allt of morg Dæme til þess, ad Almenningur lockast til ad giora þær Synder sem færster mundu giora, nema þeir sæe adra giora þad fyrer sier, og ad þad være Sidvane og Tijdska Manna aa medal. Enn aa annann Veg hneixlast og þeir, sem Froomer eru og Raadvander, ad þeir verda Opoleinmooder yfer slijku, eins og Elias yfer Achabs Hwse, og Paall yfer Ranglæte Ananiæ Hofud-Prests, svo hann rasade med Tungu sinne: Jaa, þar kviknar i þeim nockurskonar Leide og Oskickannlegt Vandlæte, svo þeir taka þad til Raads, sem Gude er Stygd i, eins og Jonam hendte, er hann flwde undann Guds Bode. Og enn nu munu þeir finnast, er leita svoddann Oyndis Urræda, nær þeir siaa, ad allt geingur Andhælis, annadhvert ad þeir slaist i Selskap med þeim, er þannenn breyta, edur ad þeir yfergiefa sialfa sig og Skylldu sijns Embættis. A ollum er þetta Hneixle Skadsamlegt, enn þo hvad mest aa þeim, sem eru Maals metande og bodner yfer adra.

Kiennemennerner hneixla, nær þeir giora allt annad enn þeir predika, svo ad þegar Almwgenn ber Kienninguna samann vid Lifnadenn, þa verdur Þioonustugiorden lostud, og þeir fallast miklu helldur aa þad, er þeir siaa fyrer Augunum, sem er ein þeigiande Predikun, helldur enn þad þeir heyrdu med Eyrunum, þvi bæde gleymist þad fliott, og þyker eingenn Alvara, nær þvi er hvad siist epterfylgt af þeim, sem þad hellst aattu ad giora; Þvi ecke eru aller þeir er giort gieta þad, sem Frelsarenn bijdur, ad hlijda þvi er þeir tala, sem sitia aa Moysis Stoole, enn breyta þo ecke efter Giorningum þeirra. Enn hvad verdur þa? Þad sama sem Frelsarenn segier, er hann kallade Læresveinana Sallt Jardar: Enn

ef Salltid skiemist, J hveriu verdur þa salltad ? Matth. 5. Og ef Guds Þienarar fi sa illa, Hver er Von aa þvi, ad Tilheyrendurnir giori þad betur ?

Hid veralldlega Valld hneixlar stoorlega, Nær þeir dæma Raanglega, Taka Fie til Dooma, Umhverfa goodum Logum og giora Riettiñ ad Malurt, Svo sem Spaamadurinn ad Ordi kiemst, Taka raanga Eyda vijsvitandi, Tradka Maalum og draga þau, Til ad þreita þañ sem Raangindiñ lijdur. Af ollu þessu framkiemur eitt skielfilegt Hneixli, þvi þad elur Osooma upp i Skaalkinum, og venur hañ af ad hrædast Logiñ, Eñ tekur allañ Dug fraa hinum Frooma, svo hañ verdur hinum ad Braad; edur og ad hañ tekur þad O-Raad, ad ræna Riettinn sijnum Rietti, Og hefna sialfur Vanvirdu sinnar. Og framveigis skiedur þetta Hneixli, Nær þeir sem Valldinn hafa, briioota sialfir Loginn hvad mest: Eru Lauslaatir, Oraadvandir, Agiarnir, svijkia Daglaunarann, Fleka Eigur sijnar wt af hinum Einfallda, Eru Baraattusamir, Ofbelldnir, og fremia allra Handa Skamir og Ohæfu, er þeir straffa aa odrum, svo sem væri ecki Logmaalid giort nema fyrir Almwgann.

Forelldrar og Hwsbændur hneixla Borninn og Hiwinn, Ecki einasta nær þeir leggia einhveria Synd i Vana sinn, helldur og fremia eckert Gott, Eru Toomlaatir i ad heyra Guds Ord, Yfirvalldinu Ohlijdugir, Latir, Hyrdulausir, Reidigiarnir, og lifa i þvilijkum Syndum, Þvi þa meina hinir, ad ei sie fier vandara, og þad heitir riett ad Hneixla Christs hina Smaau, svo sem hier stendur i Textanum. Hinir Rijku hneixla hina Faatæku, nær þeir lifa i allskonar Ohoofi, enn hinir svellta. Faatækir hina Rijku, nær þeir fara illa med Olmusuna, og eru Opacklaatir, giefa svo hinum Orsok til ad hallda þvi iñi, Sem annars ætti wti ad laata: Og þar Veralldinn er nu full af þessu, þaa er ei Undur þo Frelsarinn segie: Vei Sie Heiminum Fyrir Hneixlanir.

Framveigis rijs þar aa Stundum Hneixli af þeim Hlutum, sem hverki eru goodir nie vondir i sialfum sier, eñ verda þo odrum til Hneixlis: Eg vil taka þad til Dæmis; Ad aa St. Paals Dogum leyfdist allann Mat ad eta aa medal Christinna, Eins og nu i vorri Kyrkiu; Saa sem aat allañ Mat, og hiñ, er hiellt sig fraa sumum, bædir voru þeir Gudi eins kiærir, og hverugur vill hañ ad añañ dæmi; Þo segir hañ: Ef ad þiñ Broodir hriggist vegna Fædslunnar, þa geingur þu ecki eptir Kiærleikanum, Tortijn honum ecki med Fædslu þinni, Fyrir hvern Christur daainn er, Rom. 14. Þo nu lijtid þyki i þetta spuñid, þa metur Postulinn þad so mikils, ad hann helldur þad kunni ad verda einum til Glotunar, sem Guds Sonur hefur þo Endurleyst, og hañs dijra Blood svo til Onijtis aa honum; Þvi segier hann og i odrum Stad: Vissa eg ad minn Broodir Hneixladist, skyllda eg alldrei Kiot eta. Þvilijkir eru nu margir Hlutir medal vor, Svo sem er ein og onnur Siergiædi i Umgeingni, er vier kollum Affarasnid aa vora Twngu, eitt og annad Laatgiædi þeirra, Sem annadhvert i Klædaburdi edur añari Hegdan villa vera odruvijsi enn adrir Menn, Hvad jafnvel sumir afoss brwka aa Helgum Tijdum, nijar Uppasindingar i Imsum Hlutum, Sem ecki eru verri enn hid Gamla Skick, Ecki helldur betri, og añad þvilijkt, Sem Adgiætnir Menn faa vel athugad: Þetta er ad sonnu einginn Synd i sialfu sier, eñ

þad

þad verdur ad Synd ef Naunginn hneixlast þar af, til ad tala edur þeinkia illa um þañ, Er svo giorir ad Þarflausu, Og þvi bannar Paulus, ad giora þad nockud, a hveriu ad nockur Brǿdir kunni ad hneixla sig edur steyta, Rom. 14.

Hvad hinu Ødru vidvijkur, sem eg hiet uñ ad ræda, þa kuña Menn hvad mest ad hneixla sialfir sialfa sig; Þad kiemur af þeirri Synd, sem i oss byggir, Voru spilltu Holldi og Blodi; Þess gietur Frelsarinn hier i Textanum, Er hann segier: Ef Þijn Hond edur Footur Hneixlar Þig, / Þa Snijd Hañ Af Og Snara Honum fra Þier. Ecki er þad Frelsarans Meining, ad Menn skuli Vana sig edur Limlesta, Helldur sa, ad vier skulum eckert svo kiært hafa, ad vier ei høfnum þvi, edur fra oss kostum, fyrr eñ þad hneixli oss, svo ad vier follum i Freistni; Og dregur hann hier Dæmi af Læknurum: Oss er einginn Hlutur kiærari enn vorir Limir, og þo ef nockur af þeim er svo rotinn, ad hætt er vid, ad hann meigi seigia hina, Þa lijdum vier þad Læknirnum, ad hann skieri hañ af; Þvi skylldum vier þa ecki deyda vora Jardnesku Limu, Saurlijfi, Ohreinleika, illa Tilhneiging, vonda Gyrnd, Agyrni, Hver ad er Skurgoda Dijrkan! svo sem Paulus ad Ordi kiemst, Col. 3. Og þad sem hann hier segier uñ þessa Lesti, Þad vill hañ sagt hafa uñ allt hid Vonda, sem i giegn Sálunni strijdir, Hvert hann upptelur i Pistlenum til Galatas Cap. 5. Þessier Lijkann Syndarinnar, Sem uñgietur Rom. 6. Þad er hinn Gamli Madurinn, Hver ed brwkar sijna Limu, vondar Gyrndir, til ad reka Andskotans Eyrindi, Eins og einn Verka-Madur brwkar Hendur og Fætur til ad þiona Natturlegu Lijfi, þa byriar oss ad deyda, Þa eigum vier ad affnijda og snara þeim fra oss, svo þeir hneixli oss ecki. Hversu opt verdum vier hneixladir af Høndunum, Þegar Foolskann blæs þær upp, til ad meida Holld Naungans, Þegar Agyrndiñ riettir þær wt til ad grijpa hanns Gootz og Peninga, Þegar Letinn svæfir þær til ad leggia sig samann, Prov. 24. Svo Meñ gieta ecki etid sitt eigid Braud, og verda þvi ad leita þess i annarra Andlitis Sveita. Fæturnir hneixla oss, Nær Leidinn a Guds Ordi og Toomlætid i vorum Sáluhiálpar Efnum giorir þa trega til ad gánga i hanns Hws, Enn swsa til ad hlaupa þangad, sem þeir Hlutir eru ydkadir, hveria Gud hefur bannad; þa er hiñ Gamli Madurinn skiootur a Fæti, enn hinn Nye halltur, Og þa helltum vier oss og hneixlum nærstá miog sialfa. Sama er uñ Augun ad segia, Hverra Frelsarinn og gietur hier i Gudspiallinu. Hvad er i Heiminum? Þad er Gyrnd Holldsins, Fijsn Augnanna og Drambsamt Lijferni; Hversu opt festa sig vor Augu a þeim Hlutum, sem eru fullir af þessu? Fogur Asiund, Audæfi, Metord, Og svoddann Taal Veralldarinnar, Þad er vor Augna-Vodi: O! hvad miklu betur væri þad Auga wtstwngid, Er lætur sig blinda af þessum Hlutum, enn hverfur af Gudi sijnum og hañs Bodordum! Þessvegna giordi Job Sáttmála vid Augu sijn, ad ei lyti hañ þeim til Meyarinnar: Þvi bidur David Gud: Snw þu Augum mijnum, ad ei lijti þau Hiegoomann, Laat mig gánga a þijnum Vegum; giefandi þar med til Vitundar, ad sa sem starir a Glis Veralldariñar, hañ kuñi ecki Guds Veg ad rata. Eñ þad sem DRottiñ hier segier uñ þessa Limu hiñs gamla Mañs,

Þad

Pad vill hann sagt hafa um allt pad sem oss mæ fra Gude draga. Sæ sem virder meir Fodur og Moodur, Systur edur Broodur, edur Eigenn Konu sijna, og jafnvel sitt Lijf, helldur enn Christum, hann hneixlar siaalfann sig. Sæ sem gyrnest pad Embætte, sem hann er ecke Madur fyrer (hvad margur Dære giorer æ pessum Døgum), hañ hneixlar siaalfann sig, pvi hann giorer sig verre med pvi, ad hann fer illa med Guds Umbod, Sokum Fakiænsku edur añars Ougleysis, par hañ hefde añars kañskie goodur Madur vered.

Sa sem tekur sier Hneixle af peim Hlutum, sem ecke eru hneixlannleger, helldur goodær og Gude pecker, svo sem er skynsamlegt Vandlæte i Kieñingunne, Roggseme Yfervalldsins i Stioornenne, Alvorugiesne Skoolameistara, Forelldra og Hwsbænda i Typtanenne og Umvondunenne, hver sem steiter sig æ pessu, hann same hneixlar merkelega siaalfann sig. Svo hneixludu peir sig æ Moyse Guds Manne, pvi hann rak Guds Eyrende skoruglega: A Elia, Michea og Jeremia, af pvi peir vandlættu i Guds Stad: A siaalfum Christo, pvi hann heidrade sinn Fodur, enn peir vanheidrudu hann: A hanns Postulum, pvi peir hlijddu framar Gude enn Monnum. Sæ sem steiter sig æ annars Hægslæte, og meinar sier leyfist allt vid hann ad giora, pvi hinn er ecke Heiptrækur, hann hneixlar siaalfañ sig. Svo hneixludust Israels Syner æ Moyse, pvi hann var hiñ Poliñmoodaste Madur æ Jordunne: A Christo, pvi hann hroopade ei nie kallade, hann æt og drack med Tollheimtu-Moñum og Bersyndugum. Sæ sem er ræangeygdur, ef nockur er goodgiarn, hann hneixlar siaalfann sig; Svo voru peir ed Fyrster voru leigder i Vijngardenn, enn ofundudu hina, sem ecke hofdu nema eina Stund erfidad: Svo var hættad Broodur hiñs fortapada Sonar, er ecke gat lided ad hañs Fader myskunade sig yfer hañ; Svo eru og aller peir, ed sitia Offsioonum yfer annarra Velgeingne og Lucku-Laane, svo sem hefdu peir af Gude eins miked edur meira forskulldad. Sæ ed vogar sier i nockurn Selskap sem honum er ofvaxenn, edur leggur Lag sitt vid pæ, sem hann kann ad hlioota Skada af, hann hneixlar siaalfann sig; Pvi bannade Gud sijnu Foolke ad taka til Egta Canaans Dætur, edur ad giora Sættmæla vid pæ, er hann wtrak fræ peim, ad ei yrde peir peim ad Snoru; Pvi bannar Salomon ad hafa Umgeingne med Reidegiornum Manni. Pad Maaltæke er satt: Ef nockur tekur æ Tioruñe, pa loder hun vid hann: Hefde Israel ecke samlagad sig Skiækiunum i Moabs Lande, pa hefde ecke svo skielfeleg Guds Hegning yfer pæ komed: Hefde Samson ecke bunded svo fasta Ast vid Dalila, pa hefde hann Augunum hallded: Og hefde Petur ecke geinged inn i Biskups Hollena, munde hann ecke hafa sijnum Meistara afneitad. Sæ sem reider sig uppæ siaalfann sig edur sitt Atgiorfe, Ast, Vitsmune, Makt, Rijkdoom, edur nockurn annann Hlut, enn gleimer pvi, ad hann hafe pad peiged; Hann hneixlar hvad mest siaalfann sig, og kann ecke Olückuna ad umflija: Pad kienna oss Dæme Egyptalands, Assyriæ og Chaldæalands Konunga, er æ Augnablike urdu upprætter, pvi peir gæfu ecke Gude Dijrdena: Og hefe eg svo nockud um Hneixled talad. Enn hvert ad sie pess Straff, pad segier Frelsarenn med pessum Ordum: Vei Peim Manne Fyrer Hvern Ad Hneixlanenn Kiemur. Enn hvad pad sie, kieñer

kienner hann oß sialfur er hann sagde: Vei þeim Manne sem Mannsins Son forrædur; Og hier i Gudspiallenu ma þad sia, ad hañ sem ecke kastar fra sier þeirre Hond edur Fæte sem hañ hneixlar, hañ hefur forþienad ad kastast i eilijfañ Elld: Sama er ad segia um hinar adrar Greiner af Hneixlenu; Þvi ecke skulum vier meina, ad sa sem Bornen hneixlar edur adra Guds Vesælinga, hañ mune sleppa þar med; Ad Mylnu-Steinn Heingdest Um Hals Honum, Og Verde i Siafar-Diwp Sockt ur: Helldur tekur DRottenn til þessa, eins og hinns Smanarlegasta Lijfs Straffs a medal Gydinga, til ad sijna Stærd þessarar Syndar.

Þar fyrer, Christner Menn, giefed nu Giætur ad þessare volldugu DRottens Predikun, og lated ydur hana i Eyrum loda, rannsaked ydar undannfared Lijferne, og spyried Samvitsku ydar ad, hveru þier hafed dreged med Orde, Verke, edur Epterdæme a vondann Veg, med Gialijfe, med Lauslæte, med Fegyrne, med Hofmood og Oflæte, og, i einu Orde ad segia, med Dijrkan Veralldarennar og hennar Muna; og, ef hann geingur enn nu a honum, þa legged allann Hug a, ad leida hañ a hina riettu Leid, ef þier vilied lifa, og ydrest hinns af Hiarta. Sa sem nockru stoled hefur, hann a epter Moysis Logmaale Ferfalldt ad giallda. Zachæus sagde vid Christ, þegar hann ætlade sier Christenn ad verda: Hafe eg nockrum Rangt giort, þa gielld eg þad Ferfallt aptur; Enn svo miklu dijrare sem Saalenn er Fienu, svo miklu þijngre sem Guds Reide er Mylnu-Steinenum, svo miklu fegra sem Himnarijki er Stundlegu Eptirlæte, svo miklu meiri Hug skylldum vier leggia a, Christner Meñ, ad bæta þeim aptur, sem vier rænt hofum sijnum Andlegum Fiesiood. Nær þier siaed eitt Ungmenne, einn Vesæling, einn sem DRotteñ bijdur ad medtaka i sijnu Nafne, þa huxed med ydur: Smaer eru þesser ad vijsu, enn hann er stoor, sem er þeirra Fader og þeirra Brooder; Smælingiar eru þeir ad sonnu, enn Hneixled er stoort, Syndenn er mikel, og Straffed Obærelegt; Vesælingar eru þeir, enn sæll er sa, sem ecke hneixlar sig a þeim, þvi hann hneixlar sig a Christo, enn Vei sie hinum: Þar fyrer, ef þier vilied Guds Viner vera, ef þier vilied Saaluhialpena erfa, ef þier vilied Heilagra Eingla Þioonustu nioota, ef þier vilied Helvijtis Kvaler umflija, þa giefed þeim eckert Hneixle, hverke med Orde, Verke nie Epterdæme; Þvi nær þier hneixled þessa, þa hneixled þier sialfa ydur: Þar fyrer medtaked þa i Christi Nafne, svo medtaked þier hann, og faaed ad heyra a hinum Efsta Deige: Þad þier giordud Einum af þessum mijnum minnstu Brædrum, þad giordud þier mier. Þess unne oß ad nioota hin Eilijfa Guddoomsins Hatign, Fyrer JESU Blessada Forþienustu,

AMEN.

# Atianda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 22. Cap.

J Þann Tijma. Þa Phariseearnir heyrdu þad, ad hann hafdi nidur þaggad þaa Saducæos, samannsøfnudust þeir i Eitt. Og eirn Løgvitringur af þeim spurdi hann ad, Freistandi hanns og sagdi: Meistari, Hvert er hid hædsta Bodord i Løgmaallnu? Enn JEsus sagdi til hanns: Þad, ad þu skallt elska DRottinn Gud þinn, af øllu Hiarta þijnu, Og af allri Aundu þinni, Og af øllu Hugskoti þijnu, Þetta er hid Fyrsta og stædsta Bodord. Enn hitt Annad er þessu lijkt, þad; ad elska skalltu Naaunga þinn so sem sialfann þig. J þessum Tveimur Bodordum er innibundid allt Løgmaal og Spaamennirnir. Enn þaa Phariseearnir voru so til samans komnir, spurdi JEsus þaa ad, og sagdi: Hvad virdist ydur umm Christ, hvers Son hann sie? Þeir søgdu Hønum, Davids: Hann sagdi þa til þeirra: Hvernenn kallar David hann þa i Anda eirn HErra? Þar hann segier: DRottenn sagde mijnum DRottne: Sit þu mier til Hægri Handar, þaangad til ad eg legg Ovini þijna Skør Foota þinna. Nu ef David kallar hann einn HErra, hvernin er hann þaa hanns Sonur? Og einginn gat svarad hønum einu Ordi. Og eigi dyrfdist nockur upp fraa þeim Deige hann framar ad spyria.

## Exordium.

Tveir eru Partar Christilegs Lærdooms, Løgmaalid og Evangelium. Løgmaalid er fyrir Moysen wtgiefid, enn Naad og Sannleiki er fyrir JEsum Christum vordinn, Joh. 1. Af Løgmaalinu verdur einginn Hoolpinn, þvi þad verkar Reidi: Fyrir Trwna i Evangelio verdum vier Riettlaatir: Moyses segir oss hvad vier eigum ad giøra; Christur, hvernig vier eigum ad trwa: Moyses foor med Skugga Eftirkomandi Giæda; i Christo er sialfur Lijkaminn oss veittur. Nu er þetta þo ecki svo ad skilia, ad Fedurnir i Gamla Testamentinu hafi af Evangelio Hlutlausir verid: Siaa, eg kiem, i Upphafi Bookarinnar stendur skrifad af mier, þinn Vilia, minn Gud, giøri eg; segir Messias fyrir Davids Munn, Ps. 40. Hver er saa hanns Vilie? Saa, ad Kvinnunnar Sædi skylldi i sundurmola Høggormsins Høfud. Fyrir þad Blessada Fyrirheit hafa þeir allir hiaalpast eins og vier, sem hoolpnir eru vordnir, allt þar til ad Christur leiddi Sannleikann i Lioos. Fyrir Trwna vard Abraham Riettlaatur, og fyrir Trwna, segir Petur, ad Fedurnir hafi hoolpnir vordid: Enn svo sem þeir voru ecki aan Evangelii og þess Astgiafa, svo skulum vier þad og vita, ad vier ecki erum aan Løgmaalsins, þvi DRottinn kom ecki til ad uppleysa, helldur ad uppfylla Løgmaalid, Matth. 5. Satt er þad, ad þeir sem Christo tilheyra, þeir eru ecki undir Løgmaalinu, þad er, undir Løgmaalsins Bølvan, enn þo Krossfesta þeir sitt Holld med

þess

þess Gyrndum og Tilhneigingum, Gal. 5. Þad heimtist ecki af þeim, ad þeir uppfylli Lögmaalid; enn þess krefur Gud, ad Menn lifi eftir þvi sem fremst vier megnum; Edur þvi mundu hanns Postular svo oft biooda oss ad lifa Gudrækilega, Sparsamlega og Riettvijslega i Heimi þessum? Þvi mundi Jacob segia, ad Trwinn sie daud aan Verkanna? Þvi mundi Frelsarinn sialfur wtleggia Lögmaalid, og vijsa Mönnum til þess, ef ecki ættum vier eftir Lögmaalinu ad lifa? Þetta siaum vier i þessa H. Dags Evangelio, i hveriu oss verdur fyrir Sioonir sett öll Skyllda Christinns Manns, sem foolginn er i þessu Tveñu: 1. Ad elska Gud og Naunguñ. 2. Ad þeckia Christum og hanns Persoonu riettilega. Um þetta hefi eg aasett mier framar ad tala.

Enn þu goodi Gud, Styrk oss hier til med Naad þijns Anda, i JEsu Nafni, Amen.

## Utleggingiñ.

I Hinu Fyrra höfum vier Tvo Bodord ad athuga, sem er: Ad Elska Gud; og Annad, ad Elska Naungann. Þad Fyrra kallar Drottinn hid Edsta og Mesta Bodord i Lögmaalinu, svo sem Von er aa, ecki einungis þess vegna, ad eckert er svo ypparlegt, svo Daasamlegt, svo mikillrar Elsku verdt sem Gud, helldur og þess vegna, ad öll önnur Bodordinn hafa sinn Kraft og Mindugleika af þvi, þar allt hvad vier giörum med Ord og Verk, hversu vel sem þad sijnist giort, þad er Onijtt, utann þad framkomi af Elskunni og Virdinguñi til Guds. Allt þad sem Gud hefur bodid, þad eigum vier ad giora, af þvi vier Ottumst og Elskum hann; Eñ hañ eigum vier ad elska fyrir þa Ometanlegu Yfirburdi, er hann hefur yfir allar sijnar Skepnur, hanns Makt, hanns Dijrd, hanns Riettlæti, enn þo allra mest fyrir hanns Giædsku, þvi vier höfum ei so Skynbragd aa ödrum Greinum hanns Dijrdlegu Haatignar; Enn hana finnum vier og þreifum aa henni aa hveriu Augnabliki, þvi hann uppfyllir vora Eftirlaungun med Giædum, segir David, Ps. 103. Og ef vier fyrst vilium Hugleida Giædsku hanns i Lijkamlegañ Maata: Er hann þa ecki saa ed hefur giefid oss Ond og Lijkama? Þvi skylldum vier þaa ecki elska hann af allri Onduvorri? Hefur hann ecki innplantad Raad og Skilning i Saalir vorar? Þvi skylldum vier þa ecki elska hann af öllu Hugskoti voru? Hefur hann ei giefid oss Hiartad, sem er Brwstadur Elskunnar? A hverium skylldi hun helldur festa sig, enn aa honum, sem hana hefur sialfur tilreidt, og bwid svo Daasamlega um hana? Mun hann ei vera saa, i hverium vier lifum, erum og hrærunst? Act. 17. Uppfyllir hañ ecki Hiortu vor med Fædslu og Fögnudi? Upplijkur hann ecki sinni milldu Hendi, og sedur allar lifandi Skiepnur, Ps. 145. Og hvad mest hina Oþacklaatu Manneskiu? O vor Gud! Eg hugsa til þess, er Drottinn brixlar sijnu Foolki hiaa Jeremiam, segiandi: Hefi eg verid Israel svo sem Eydimörk, edur Jörd sw er tapar Avextinum? Jer. 2. Gud giæfi, ad vier villdum og laata oss til Rifia renna þessa hañs Födurlega Hiartagiædsku, og athuga, hvad örlaat hanns Milldi hefur verid; hversu Vijsdoomsfull hanns Guddoomlega Forsioon, ad hann hefur alid oss aa þessum Arum, ei sijdur enn frioossöm Jörd Akur-Kallinn, ad honum sofandi, aa hverium vier höfum þo hvad verst lifad! Ef

 vier

vier hugleidum þetta, ad minnsta Koste i hvert Sinn, er hann veiter oss nockurn sierdeilis Velgiorning, þa mundum vier helldur leidast til ad elska Gud, og ecke segia med Gudlausum Judum: Vier drottnum og vilium ei framar til þijn koma, Jer. 2. Og þo nu ad DRottenn læte oss kienna hardt aa Stundum, annadhvert alla Almennelega, edur og nockra sier i Lage, til ad typta oss þar med, lijsada Kaalfa, Jer. 31. Edur til ad reina sijn Børn, þa eigum vier samt ad elska hann, þvi hvern þann Son, sem Faderenn elskar, þann agar hann, segier Paulus, Hebr. 12. Enn ef þetta er hanns Elsku-Merke, hvilijk Faasinna er þad þa, ad elska hann ei aptur aa moote? Svo sem þad er lijtill Heidur halldenn, ad elska Vine sijna, medann þeir kunna ad duga oss, svo er þad lijted Rœktar-Merke vid Gud, ad elska hann alleina medann allt ad Oskum geingur: Og Gud naade, þad eru þo svo saaer, sem giora þad! Enn svo sem Gulled reyneft i Ofnenum, svo proofast og Elskann til Guds i Mootgangenum; og hvad morgum hefur hann þrijst til ad elska hann, sem þvi aadur fiarlæger voru! Og hafa Menn til þess fulla Orsok, nær Menn gæta þess, ad hvad sem hañs Elskendur vantar hier, þad mun oss margfalldlega Endurgollded verda i Upprisu Riettlaatra; Þad vottar sialfur DRottenn, er hañ segier: Hver sem ad yfergiefur Hws og Brædur og Systur, edur Fodur edur Moodur, edur eigenn Konu, edur Børn, edur Akra fyrer mijns Nafns Saker, hann skal faa Hundradfallt aptur og eignast ad Erfdum eilijft Lijf, Matth. 19. Enn hvern sem ad hann svipter ollu þessu edur svo miklu edur litlu sem honum þocknast, og hann elskar samt Gud sinn, og kysser aa hanns Vond, hann giorer allt hid sama. Munum vier þa nockud minnast Harmkvæla þessarra Tijma, nær vier skijnum eins og Sool i Riike vors Fodurs? Matth. 13. Mun Sonurenn reikna þau Hoggenn er Fader hanns sloo hann, nær hann situr i Tign og Heidre? Þvi er þad faavijslegt, ad vilia ei kaupa þessu; og þvi skylldum vier þa ei elska vorn Himneska Fodur, Jafnvel midt i Hormungunum! Enn hvad almennelegre Typtan vidvijkur, þa giæfe Gud, ad vier villdum eins lynder og samhuga vera i þvi, ad elska Gud, þo hann age oss, sierdeilis þar vier i þessu faatæka Lande meigum jaata þad, ef vier adgiæta vilium, ad hann byrtrekur ecke eilijflega, vier meigum þeckia þad vid oss framkomed vera, sem hann heiter sijnu Foolke, fyrer Munn Joels Spaamanns: Eg skal endurgiallda ydur þau Arenn, sem ad Eingisprettañ, Trie-Ormurenn og Gras-Madkurenn hafa eydt fyrer ydur, Joel. 2. O vor Gud! Þvi skyllder þu Mannenum betala? Hver hefur þier nockurn Tijma giefed, svo þu þurfer honum aptur ad giefa? Rom. 11. Vilier þu giallda oss epter Verdugleikum, þa eru vor Laun Daudenn, vier hofum ecke annad medteked i Straff Syndarennar, enn hvad vier tilunned hofum, og þad med nærsta sinaaum Mæler; Enn þvi velldur þijn Giædska, þijn Fodurleg Elska, ad þu villt svo ad Orde komast: Þar fyrer hugleidum nu, Christner Meñ! Hafi Gud typtad oss Ohlijduga Synda-Præla med O-Aran nockurre, edur odrum Land-Plaagum; Hefur hañ oss þad ecke margfalldlega apturgollded, med hiñi mestu Ar-Giædsku og odru Blijdlæti sijnu? Skylldum vier nu elska nockurn jafnframt honum, er svo leikur vid oss eins og Børn sijn? Eñ hvad segier

Drott-

DRottenn fyrer Munn Joels ſijdar i þeſſum ſama Capitula? Nær þier etid jafnadarlega og erud metter, munud þier lofa Nafned DRottenns? Enn hvert ad hiñ goode Gud hefur ei optlega funded Breſt a þeſſu hia morgum af oſs, þad bid eg þa ad hugleida, um hveria eg higg þad riett=talad ſie, er ſtendur hia Hoſeam Spamanne, i Cap. 13. Und er eins og þeir ſadder urdu, hooft upp Hugur þeirra, þar fyrer hafa þeir gleymt mier. Enn oll þeſſe Lijkamleg Bleſſan, ſvo mikel ſem hun er, ſem þo er ſo mikel, ad alldrei verdur hun fullþockud, þa er hun þo Sma=Muner hia hinum Andlegu Giædum ad reikna, er oſs veitt eru i JEſu Chriſto. Fæum oſs er tamt ad elſka Gud fyrer þær Gaafur, ſem aller jafnt niota, fyrer hanns Sool, er hann lætur ſkijna yfer Vonda og Gooda, fyrer þad Regned, er hann falla lætur yfer Ranglata og Riettlata, Matth. 5. Hvar fyrer? Þviad aller meina ſig þeſs verduga, fyrſt aller hafa þeſs ſomu Not; enn Avoxturenn verdur þo meire hia ſumum, eñ ſumum minne, jafnvel þoott ad Tveir hafe hina ſomu Atburde, þvi Bleſſan DRottenns er þad ſem Hwſed bygger; Eñ hanns Heilſuſamleg Naad i Chriſto er auglioos vordenn ollum Monnum, Tit. 2. Hun er alldrei Avaxtarlaus hia þeim, ſem hana medtaka vilia, og þar er eingeñ Miſmunur a ollum þeim, ſem jafnt bera ſig epter henne, þvi hia honum er eckert Manngreinar=Alit, þar er hverke Gydingur nie Griſkur, Þræll edur Frelſinge, helldur aller eitt i JEſu Chriſto, Gal. 3. Eñ fyrer þeſſa Haaleitu Guds Velgiorninga elſka fleſtir hañ hvad miñſt. Hvar fyrir? Þvi Meñ dæma eptir Holldenu, eñ Hollded ſkyniar ecke hvad Guds Anda er. 1. Cor. 2. Athugum þo hvert meira er, ad ſkapa Himen og Jørd, edur ad lata Gud, ſem hverttveggia ſkoop, taka a ſig Lijkingu ſyndugs Hollds, Rom. 8. Ad ſkapa Mañeñ, edur ad endurſkapa hañ; Ad giøra hañs Lijkama af Molldu, og blaaſa lifande Anda i hañs Naſer, Edur ad ſkapa i honum einn nijañ Mañ, og giefa honum H. Anda; Ad leggia alla Hlute under hañs Fætur, Pſ. 8. Edur ad giefa ſiñ Eingieteñ Son vt fyrer hañ, ad hañ fyrerfareſt ecke, helldur hafe eiliijft Lijf; Ad giefa honum Jardneſka Fædſlu, edur ad ala hañ a ſijns Sonar Holldi og Bloodi; Ad giefa honum Proott og Athurde til ad vtvega Næringu ſijna, edur giefa honum Styrk i Mootgaangenum, Freiſtingunum og Offooknunum? Hvert er meira ad giefa honum Vit og Rænu, til ad fia fyrer þeſſu Lijkamlega Lijfe, edur ſitt H. Ord, ſem hann uppfræder til eiliijfs Lijfs, og ad uppliijſa bæde Viliañ og Skilningeñ, ad hann giete bæde þeckt Gud og elſkad? Hvert er meira, ad giefa honum Maalid, til ad tala vid ſijna Lijka i Heimenum, edur ad giøra hañs Tungu vel talande, ſvo hañ fære vid ſialfañ Gud talad? Og ad ſijdurſtu; Hvert er meira, ad giefa honum Gull og Sylfur, Akur og Kvikfenad, edur ad vtvega honum þañ Feſiood, ſem er a Himnum, hverium ei kañ Molur nie Rid ad granda, Matth. 6. Hver ed Guds eiged Blood og hañs dijrañ Dauda koſtad hefur? Sa ſem þetta ſamanber, hañ mun fiña, ad ſvo miklu Edre ſem Saaleñ er Lijkamanum, ſvo miklu fegre ſem Himnarijkis Dijrd er forgeingelegu Gliſe Veralldareñar, Ja, ſvo miklu Edre ſem Gud er ollum ſijnum Skiepnum; ſvo miklu heitara eigum vier hañ ad elſka fyrer hina Andlegu Velgiørninga, helldureñ þa Lijkamlegu, þviad i þeſſum veiter hann

hvad forgeingilegt er, eñ i hinum sialfann sig, sem ad bliifur, sem er einn og hinn sami, og hañs Ar þrotna ecki, Hebr. 1. Og hver sem Gud alleina fyrir Jardneska Muni elskar, hañ hefur alleina Matar-Ást a honum, eins og einn Hræsnari, sem tilbidur hiñ Riika a medañ hañ elur hañ. Og fyrir þessar Ometanlegu Guds Ástgiafir, eigum vier hañ nu ad elska hvad mest af øllu Hiarta voru, og allri Ondu vorri, og øllu Hugskoti voru; Þad er, af øllum Saalar og Liifs-Kroftum, so sem David biidur; Lofseig þu Ond miin Drottni og allt hvad i mier er hañs Heilaga Nafni. Eñ sii Elska er vier a Gudi hofum fyrir Tiimanlega Muni, hun a ad vera so kroftug, ad hun nai þvi Maali, er hann tilætlad hefur; Sem er, ad hun leidi oss til ad elska hañ i Christo og fyrir Christum, hvers Elska ad Paulus segir ad sie betri enn allt ad vita; og hann lijser Bolvan yfir þeim, sem ecki elska Drottinn vorn Jesum Christum. Og þetta er nu so talad um hid mesta og ædsta Bodord i Logmaalinu.

Hitt Annad er þessu liikt, segir Frelsarinn: Elska skalt þu þinn Naunga sem sialfann þig. Sier hefur Gud sialfum hinn Fyrsta og mesta Heidur skiled; Eñ fyrer þvi, ad sa sem segist elska Gud, enn hatar sinn Brodur, hann er Liugari, segir Johannes, 1. Pist. 4. Þa er audsært, ad Naungans Elska fylgir Guds Elsku iafnan a eptir; þess vegna samteingir og Lausnarinn þessi Tvo Bodord, þvi hverugt maa annars missa. Sa sem elskar Gud, hann elskar sinn Broodur, og enginn elskar siñ Broodur riettilega, nema hañ elski hañ fyrir Guds Sakir. Hier til þarf og mikla Alvoru, og þar Bodord þessi eru so skilld, þa riidur eins mikid a baadum; Svo sem Helviiti er viist þeim sem ecki elskar Gud, svo segir og Christur, ad sa sem reidist Broodur siinum, hann sie sekur Helviitis Ellds, Matth. 5. Þetta Bodord þykir morgum nærsta þrongt, og sierdeilis eftir þvi, sem Christur utleggur þad hiaa Matthæum, segiandi: Elskid Ovini ydar, Blessid þa er ydur bolva, giorid þeim Gott sem hata ydur, og bidied fyrir þeim, sem eru ydur mootfallnir og Ofsækia ydur. Enn Johannes segir þo, ad hanns Bodord sieu ecki þvong; Eg vil og segia, ad eckert Bodord er Riettviisara og eckert Nytsamlegra til Velferdar. Riettviist er þad, þvi hann hefur oss þad bodid sem er sialf Rietviisinn, sem aa Valld aa ad biooda oss hvad hann vill, sem elskadi oss, þa vier vorum hanns Ovinir, sem ad eingum er um neitt skylldugur, enn vier erum honum skylldugir um Saal og Liif, og allt hvad vier erum. Gagnsamt er þad, þvi sa er svo giorir, hann vinnur hinn besta Hlut, þvi hann verdur af Gudi elskadur. Hver er þvilijkur Hlutur, sem ad vita Syndir siinar kvittar? Eñ þad veit hann, sem svo elskar Ovin sinn, ad hann tilgiefur honum hañs Misgiordir, ad Vitni Frelsarans, er hann sagdi: Ef þier fyrirgiefid Monnunum þeirra Misgiordir, þa mun minn Fadir tilgiefa ydur ydar Syndir. Þvi vil eg segia hid sama hier um og Paall sagdi um Mañ og Kvinnu; Sa sem elskar siina eigiñ Konu, hañ elskar sialfañ sig, Eph. 5. Og allt hid sama giorir hañ sem elskar sinn Broodur, og hver sem hañ hatar, hañ hatar sialfañ sig. Enn þessa Elsku til Naungans eigum vier ad auglijsa, ecki med Ordi og Tungu einasta, helldur med Verki og Sannleika, annars elskum vier ecki Riettulega: Gud eiñ veit hvad i Hiartanu byggir, þvi hann rannsakar Nijrunn, þad veit Madurinn ecki, hañ dæmir af Á-

vext-

vortunum. Þvi kann eg ecki ad segia, ad sa elski sinn Naunga, sem eckert Gott lætur af sier leida? Þar til giefur Jacob mier Orsök er hann segir: Ef Systir edur Broodir eru nakinn, og vantar Daglegt Vidværi, enn einhver ydar segir: Farid i Fridi, vermid ydur og mettist, enn giefid þeim þo ecki þad Lijkaminn vid þarf, hvad gagnar þad? Og þetta er nu svo framsagt um þessi Tvo Stooru Bodord: J hverium Frelsarinn segir, ad allt Logmaalid og Spaamennirnir sieu Innifalldir: Enn þegar vier nu rannsökum hvad mikid oss vantar aa ad fylla þessi Guds Bod, þaa mun oss til Hugar koma, ad leita eins gliars Lærdooms, hvar fyrir vier kunnum hoolpnir ad verda. Til hanns vijsar oss Christur i sinni Spurningu til Gydinga, er hann sagdi: Hvad Vyrdist Ydur Um Christ Hvers Son Hann Sie? Hvar um vier vilium nu med faam Ordum tala i hinni Sijdari Greininni.

Gydingar höfdu framsett fyrir DRottinn Tvær Onytiu Spurningar, aadur enn þessi kom til um Bodordinn: Adra baaru Pharisæi og Herodis Þienarar fram, hvert ad leifdist ad giefa Keysaranum Skatt edur ei? Þeim svaradi hann wtaf, ef eg maa so ad Ordi komast, sem verdugt var, þvi Madurinn skal ei svara einum Daara uppaa sitt Tal. Adra Saducæi, er þeir spurdu, hvers ad Konann skylldi verda i Upprisunni af Sio Brædrum, sem allir höfdu haft hana? Þar nidurþaggadi hann, og straffadi þeirra Ovitirleik. Þessi var hin Þridia, og voru um hana ymsar Meiningar hiaa Gydingum. Adrir hielldu hin hellstu vera um Foornirnar: Adrir Umskurnarinnar Logmaal: Nockrir um Hvijldar-Daginn: Enn DRottinn, er sialfur hafdi Logmaalid wtgiefid, i hverium ad biuggu allir Fiaarsioodir Vitskunnar, hann leysti wr henni aan Umþenkingar, til þess ad sijna þeim, hvad mikid þaa vantadi aa Guds H. Logmaals Uppfylling, sem meintu hana ad vera einungis foolgna i wtvortis Verkum, enn ecki til ad kienna þeim, ad nockur giæti af Logmaalinu hoolpinn ordid; Og þvi vijsar hann þeim til Christum og hanns Persoonu, svo þeir vel mættu læra Saaluhiaalparinnar Veg, hefdu þeir haft Vilia edur Vit aa eftir ad taka, edur framar hier um ad spyria, eins og Nicodemus. Hvad Virdist Ydur Um Christ, Hvers Son Hann Sie? Segir Frelsarinn: Þeir Sögdu Honum, Davids. Ecki neitar DRottinn þvi, ad hann væri Davids Son, svo sem ei var Von til. Gud hafdi David heitid, ad hann villdi giefa honum einn Son, hvers Rijki ad skylldi eilijft verda, 2. Sam. 7. Hann er Sonur Davids eftir Holldinu, sem Paulus vottar; Hann er giordur af Sædi Davids; Enn þessi hinn sami Davids Sonur, sem ad er fæddur af Fedrunum eftir Holldinu, hann er þo Gud blessadur um Alldir. Þvi segir nu Lausnarinn framveigis: Hverninn Kallar David Hann Þa J Anda, Einn Herra? Einginn Fadir er svo audvirdilegur, og einginn Sonur svo mektugur, ad Fadirinn kalli Soninn, Herra. Latum vera, ad einn Fadir sie ecki Kongborinn, og Syninum Konungs-Tign hlotnadist, svo ad Fadirinn kalladi hann Herra, af þvi hann ber Guds Persoonu aa Jordunni: Enn hverninn mætti þad eiga heima hiaa David, hver ed sialfur var Konungur, og ætti sier aungvann ædri, nema Gud alleina, sem bijr i Himninum, og er allra Drottinn? Þvi er þad audsied, ad saa er Gud og Guds

Sonur,

Sonur, er hann HErra kallar: Þar fyrer segier Frelsarenn: Ef DAvid Kallar Hann HErra, Hvernenn Er Hann Þa Hanns SOnur? Og svo ad eingenn kyne ad leida sier i Hug, ad þad være nockur af Einglunum, edur Hofud-Einglunum, sem David kallar HErra i þessum Stad, þa færer DRottenn til sijns Mæals þa Grein af Spaadoome Davids, sem eingum Eingle edur nockurre Skiepnu tilheyrer, og ecke utann alleina Guds Syne, sem er sannur Gud, Gude Fodur og Heilogum Anda Sam-Eilijfur og samjafn ad allre Tign, Makt og Vellde, og þo sannur Madur vordenn, svo miklu ædre Einglunum, epter Manndoomenum, sem hann hefur þeim ædra Nafn, þad er Tign, hloted fyrer Ibwd Guddoomsins: Þa segier hann: DRottenn Sagde Mijnum DRottne: Sit Þu Mier Til Hægre Handar, Þar Til Eg Legg Ovine Þijna Til Skarar Foota Þinna. Þviad til hvers af Einglunum hefur hann nockurn Tijma sagt: Sit þu mier til Hægre Handar? Segier Paulus, Hebr. 1. Ja, Eingillenn kvadst vera Sam-Þioon Johannis, er hann talade vid hann i Opennberanenne. Hvernenn mætte þa David nockurn Eingel sinn Herra kalla? Sw er þa Meiningenn i þessu Tale Frelsarans vid Gydinga, ad Christur sie Davids Son, þad er af Fedrunum fæddur, epter Holldenu, og þo Guds Sonur af honum gietenn fyrer allar Allder, þad er sannur Gud og sannur Madur i Einne Persoonu, hvad og sia maa af þeim Mælshætte; Ad Sitia Til Guds Hægre Handar, hvad eingum gietur tilheyrt, nema þeim, sem er ein Persoona, samsett af Guddoome og Mañdoome. Þetta hefdu Gydingar kunnad ad læra, og þo miklu skiliannlegar og betur, enn nockur Syndug Twnga fæe wtmaalad, hefdu þeir lagt nockurn Hug a sitt Mææl, og spurt fremur hier um. Enn vier sem feinged hofum þad ad heyra, og trwum þvi sem þeir heyrdu ad sonnu, enn trwdu þo ecke; Vier, hverium Christur er fyrer Augunum afmaaladur i hañs Orde, vier skulum reikna oss þad fyrer eilijfann Sooma, og hina ædstu Huggun, ad Gud er Madur vordenn, og ad vort Holld er upphafed a Guds Tignar-Stool fyrer Ibwd Guddoomsins. Enn hvad er þad, ad sitia a Hægra Veg Gude? Þad leggur Paulus wt, er hann segier, 1. Cor. 15. Honum byriar ad rijkia þar til hann leggur alla Ovine til Footskarar honum. Enn hvilijkt er þetta Rijke? Þad er, ad hann er settur yfer allañ Hofdingskap og Vellde og Krapt og Herradæme, og oll Nofn sem nefnast, ecke einasta i þessare Olld, helldur og hinne Tilkomande, Eph. 1. Enn undann þessu Dijrdlegu Rijke urdu Pijslernar ad gaanga; þvi lijser hann sialfur, er hañ talade vid þaa Tvo, sem til Emaus geingu, Luc. 24. og lagde wt fyrer þeim Ritningarnar, segiande: Hlaut ei Christur þetta ad lijda, og inngaanga sijdañ i sijna Dijrd? Guds Sonur er ad sonnu Konungur fra Eilijfd, Þess gietur David, segiande: Gud, þinn Tignar-Stooll varer um Alldur og um Allder Allda. Eingenn maa Konungur heita, nema hann Rijke hafe, enn Mannsins Sonur braut sig til Rijkis i giegnum Pijslernar, Daudann og Port Helvijtis, þegar hann took Herleidinguna ad Hersaange, eñ wtsnarade honum, sem hefur Makt Myrkranna, og setteist a Guds Hætignar Stool, Lifer og rijker ad Eilijfu, svo ad hann er vor Konungur vordenn, epter vorre Naattwru, enn vier

hañ

hanns Brædur, Pad er oss elliif Huggun. Verdi eg aumari enn Lazarus, verdi eg auðvirdilegri enn hanns Postular, Verdi eg Afrak og Hreinsunar Foorv Veralldar, eins og þeir, Verdi eg svo fatækur sem sialfur hañ, ad eg ecki hafi þar eg kunni ad halla ad Hofdi mijnu, Pad er mier noog, ad mitt Holld og Blood rijkir a Himnum, og situr a Hægra Veg Gudi, med hverium hann fædir mig og dryckiar, til stadfestu þar um, Ad eg, sem med honum lijd, nuni og sijdann med honum rijkia, og hversu sem minn Lijkami yrdi afskræmdur af Volædi og Vesolld, þa skal hann þo verda samlijkur hanns Dijrdlegum Lijkama; Jaa, Pad er mier ecki lijtil Huggun, ad þad sama Hoild og Blood, sem situr a Guds Hægri Hond, Pad medtek eg i H. Alltaresins Sacramenti, til Styrkingar um Kvittun Syndaminna, Pviad i þeim Lijkama, sem brotim var a Krossinum, og i þvi Bloodi, er þar var wthellt, J þvi sama byggir oll Fylling Guddoomsins Lijkamlega, Svo þegar eg medtek Lijkama og Blood Mañsins, þa medtek eg og sialfañ Gud a moote hverium eg syndgad hefi, og af hverium hvad mest hangir Verdugleiki mijns Syndagiallds. Þar fyrir, Nær eg skielfist af Stærd Synda miña, þa verd eg af þessu huggadur, Pvi ef ad mitt Hiarta fordæmir mig, Pa er Gud meiri Hiarta mijnu; Og þad mun alldrei bregdast, Er Gud hefur heitid i Christo, fyrir Munn Jeremiæ: Efleitad verdur ad Ranglæti Jsraelis, þa skal þar eckert vera, og Syndir Juda skulu eingar finnast, Pvi eg mun fyrirgiefa þeim, er eg mun eptir skilia. O minn HErra JEsu! Fyrir hvers Skulld mun þad vera, ad þinn Fadir midt i Reidinni minnist a Myskunsemina, Hab. 4. Hvar fyrir brestur hanns Hiarta i honum, svo hann hlijtur Syndaranum Myskunsamur ad vera? Jer. 31. Hvar fyrir skiedur þetta, DRottinn minn? Nema fyrir þijna Medalgaungu, Sem situr honum a Hægra Veg. Þegar eg sed eina þreitta Saal, og uppfylli sierhveria angraada Saal, Pa vaki eg til þess, Minn Svefn er mier jafnañ sætur; segier DRottinn eptir Mannlegum Plagsid, til ad wtmaala sijna Elsku til Mañkynsins i Christo JEsu. Vier segiunst ad vera vaknir og sofnir i þeim Hlut, Er vier hofum Yndi af, og svo talar hann hier um sig, Hver þo ecki sefur og ecki sifiar hann: O! Gud giæfi, ad vier værum eins Arvakrir og Ydiusamir i hanns Þioonustu! Jaa, Hvad stoor og Omælanleg sie hanns Giædska yfer þeim, sem jafnvel hafa hinar verstu Syndir drijgt, Pad segier hann skomu sijdar med þessum allra Hiartnæmustu Ordum: Ef ad Himniñ verdur mældur ad Ofañ, Edur Rañsakadur Grundvollur Jardarinnar ad Nedañ, Pa skal eg forsmaa allt Jsraels Sædi, fyrir allt þad þeir giort hafa: Enn þo svo sem þad er Omogulegt ollum nema honum einum, Sem Himininn hefur wtþanid, og mælir hann med siñi Spoñ, og Jordina hefur Grundvallad; Svo er þad Omogulegt, ad Bruñur Myskunseminnar verdi uppausinn, Hver ed alldrei tæmdur verdur, Nema af þeim, sem ecki vilia koma til þessara Vatna, og forsmaa Rijkdoom hanns Poliñmædis, þar til þeir hafa uppfyllt Mælir Syndanna. Hvad mun nu vallda þvi, Christnir Meñ, ad hañ, Sem er eiñ Fortærandi Elldur, sa ed breñur allt til hiñs Nedsta Helvijtis, hañ vill þo vera oss syndugum Ormum svo Nadugur? Hvad velldur þvi, ad Himnarijki lijdur svodd-

ann Ofrijki? Hvad annad enn þad; ad hann, sem er sialfur Gud, hann situr i vora Holldi, hveria hann skañast sijn ecki Brædur ad kalla? Hann situr, segi eg, til Kraftarins Hægri Handar og bidur fyrir oss. Þessi er saa stoori Leyndardoomur, hvern Paulus segir, ad Vitringar Veralldar hafe ecki skyniad, enn þo er opinberadur oss, sem erum Guds Smælingiar. O! þaa stooru Naad, O! þau diwpu Myskunar-Ydur Guds, i hverium hann hefur vitiad vor upprunninn af Hædum; Hønum sie Lof, Dijrd og Heidur, Speki og Kraptur, uñ Alldir Allda, Amen.

# Nijtianda Sunnudag eftir Trinitatis.

Gudspiallid, Matth. 9. Cap.

I Þañ Tijma. JEsus stie aa Skip, foor hañ yfir uñ aftur, og kom i sijna Borg. Og siaa, ad þeir færdu til hañs Limafallssiwkañ Mañ, þañ er laa i siñi Reckiu. Eñ þa JEsus leit nu þeirra Trw, sagdi hañ til hiñs Limafallssiwka: Vertu Hughraustur Sonur, þijnar Syndir eru þier fyrirgiefnar. Og siaa, ad nockrir af Skriftlærdum søgdu med sialfum sier: Þessi Gudlastar. Og sem JEsus saa þeirra Hugreñingar, sagdi hañ: Hvar fyrir hugsid þier so vondt i ydrum Hiørtum? Hvørt er audvelldara ad segia: Þier eru þijnar Syndir fyrirgiefnar; Ellegar ad segia: Statt upp og gack? Eñ so ad þier vitid, þad Mañsins Sonur hefur Makt aa Jørdu til ad fyrirgiefa Syndirnar, þaa sagdi hañ til hiñs Limafallssiwka: Statt upp, tak i burt Sæng þijna, og gack i þitt Hws. Og hañ stood upp, og foor i sitt Hws. Eñ þaa Foolkid saa þetta, undradist þad, prijsandi Gud, saa ed þvilijka Makt hefdi Moñunum giefid.

Exordium.

MArga Hluti kalla Menn Vonda i Heiminum, þar er þo einginn Vondur nema Syndinn alleina; Vier køllum Straff Syndarinnar Illt, enn þad er þo ecki Illt i sialfu sier, þvi þar er einginn Olucka, ad ei komi hun fraa Gudi, sem er alleina Goodur; Fyrir vora Skulld verdur þad Illt, sem þad forþienad høfum med Syndinni, og verdur þad þo mørgum Gott, sem þvi taka svo sem Guds Børn, sier til Andlegrar Heilsubootar. Væri þar einginn Root, þa væri ecki helldur neinn Avøxtur; og væri þar einginn Synd, þa væri einginn Olucka. Daudinn er Verdlaun Syndarinnar, segir Paall, svo er og allur hanns Her, sem undir hann þioonar, Siwkdoomar, Orbyrgd, Hallæri, Offooknir, Bloods-Uthellingar, Skadrædi af Vøtnum og Voda-Elldi: Svo er þa Syndinn hin einasta Orsøk til allrar Oluckú Andlegrar

tar og Lijkamlegrar; Þess gietur Esajas, Cap. 42. Hver hefur giørt Jacob ad Herfanngi og Eydilagt Jsrael? Hefur ecki DRottinn giørt þad, ꝛc. a mooti hveriumm vier syndgad hofum, og þeir villdu ecki ganga a hanns Vegum, Og hann wthellti yfir þaa Grimd sinnar Brædi, og megnu Strijdi? Og þarf hier ecki laangt ad Rokum ad leita: DRottinn JEsus kiennir oss hier i Gudspiallinu, hver ad sie Orsok til alls Mootlætis Mannanna, Þared hann sagdi vid hinn Haalfvisna; Vertu Hughraustur Sonur, Þier Eru Þijnar Syndir fyrirgiefnar. Vitium vier þvi af Gudspiallinu lœra, hvernig vier eigum ad faa Boot vid Syndinni, J hverri vier alldir erum, Hverrar Jllsku Kraptur ad Daglega brijtst wt um Lijkama þessa Dauda, Spillandi allri vorri Umgeingni: Enn þad er Tvennt sierdeilis, Sem er hrein Ydran, Og ørugg Trw og Traust a JESU Forþienustu. Hiaalpa oss hier til, Goodi Gud, med Naad þijns Anda, Fyrir JESUM Christum, AMEN.

## Utleggingin.

DRottinn Sagdi vid Þennann Haalfvisna Mann: Vertu Hughraustur, Sonur, þier Eru Þijnar Syndir Fyrirgiefnar. Einginn Efi er a þvi, Brædur M. Ad þessi Vesælingur hefur Angrædur verid vegna Synda sinna, Er hann hefur þeinkia maatt, ad væru Orsok til sijns Kraankdœmis: Þess vegna sagdi hinn goodi Meistari, Er vissi hvad med Manninum bioo, ad hanns Syndir væru honum fyrirgiefnar; enn þu, Christenn Madur, sem þetta heyrir, athuga hvad JEsus svaradi sijnum Lærisveinum, Joh. 9. Er þeir spurdu hann, hvert hann, sem blindur borinn var, hefdi syndgad, edur Forelldrar hanns? DRottinn svaradi: Hverki syndgadi þessi nie Forelldrar hanns; helldur svo ad Guds Dijrd Opinber yrdi: Ecki meinti JEsus þad, ad hann edur hanns Forelldrar væru Syndlausir, þvi þa hefdi hann ecki blindur fæddur verid, Þar Gud straffar eingann fyrir eckert; Hitt meinti hann, ad hverki hann nie Forelldrar hanns hefdu meira unnid til þessa Vanskapnadar, Enn margir adrir, helldur væri þessi Vanheilindi, sem margur hefdi forskulldad, a hann logd, til ad byrta Guds Dijrd og Almætti hanns Sonar. Eg hygg þad sie Maala sannast, ad ef Gud villdi tilreikna Syndirnar, Þa mundi faair heilskygnir i Verolldinni fædast, Faaer heilum Fæti a Jordina stijga, Faair Ovisinn Arm wtrietta, og einginn um eitt Augnablik heill vera, helldur hefur Gud lagt sumar Skiepnur sijnar i Lijma, Til ad sijna þier Heilbrigdum sijna Dijrd, og hvert Valld hann hefur yfir þijnum syndugum Kroppi, Ef hann vill i Riettlætis Doom ganga; Laat þar fyrir þau Orkumslin, er þu a vdrum sier, enn þu hefur tilunnid, þrijsta Hiarta þijnu til ad ydrast þeirra Syndanna, er hafa hann Gooda Gud styggdann, er lient hefur þier heilvita Saal i heilbrygdum Lijkama, og leikur vid þig eins og Barn sitt med allskonar Medlæti, Jafnvel þoott þu hann Daglega til Reidi reitir. Hvernig a þa Ydraninni haattad ad vera, Barn Guds? Hun a ad vera heit og alvarleg. Þessi Haalfvisni Madur hefur aan Efa verid Sorgfullur i Hiartanu vegna Synda sinna; Þad kienna oss Ord Christi, Svo sem eg strax sagdi. Forgiefins kiemur þu, Barn mitt, fram fyrir Gud, til ad bidia um Kvittun Synda þinna, nema þig

aungri þær, Nema þu grœtir beiskleg med Petri, Nema þu þvoir Christi Fœtur med Tœrum Hiarta þijns, eins og Maria, nema þitt Hiarta brœdni i þier so sem añad Vax, eins og Davids, ecki so miog af Tilfiñingu Guds Reidi, svo sem af Elskuñi til hañs Giœdsku, Sem upplaukt þijnum Augum, Er varst blindur borinn af Moodur-Lijfi og daudur i Syndunum; er þig hefur Endurkeypt fra eilijfu Helvijtis Baali, med sijns Sonar Dauda, og sparad þig sijdann midt i Syndunum : Laat þier þad til Hiarta ganga, ad þu hefur hann moodgad og Daglega styggit, jafnvel med vitanlegum Syndum. Svo aa Guds Barna Ydran hœttad ad vera, og er hun Gudi svo þœg, svo sem ad Syndiñ er honum leid; Jaa, enn þa þægari, Þvi Syndinn gietur alldrei svo stoor vordid, ad ei sie meiri Myskuninn; Hvar sem Syndinn yfirgnæfir, þar yfirgnæfir Naadinn miklu framar: Svo snjtid giorir Gud vr Syndinni, þegar hun er afþveiginn med Ydraninni, eñ hun aa ad vera alvarleg, eigi hun Gudi ad þocknast. Saa sem vill af Hiarta ydrast Syndanna, Hañ skal vel Rañsaka sialfañ sig, og hallda Reikning vid sitt eigid Hiarta af Ordum og Giordum, og svo mikla Kiœti sem hinn Ydrandi hefur haft af Syndiñi, svo mikid Angur byriar honum ad hafa i Ydraninni. Menn eiga ad breyta vid Syndina eins og Amon Fordum vid Systur sijna Thamar; aa medann hann framdi sinn Vilia med henni; Elskadi hann hana, Þar eptir rak hann hana vt af Dyrunum: Þoott honum færi svo Skamarlega, ad ecki sie nœrri þvi verra Dœmi til, þa eigum vier þo eins ad breita vid Syndina; Vier eigum ad laata oss hana leida vera. Og er þad vijst, ad saa sem hefur Gaman af giordum Syndum, nær honum þær i Hug koma, Honum eru þær eñ þa apturhalldnar. Dragi einginn sialfann sig aa Taalar! Ætlum ecki ad Gud nœgist þar med, ad vier laatunst um Stundarsakir ydrast Syndaña, eñ gaungum þo aptur til þeirra, eins og Hundr til Spyu, edur Svijn þad, er velltir sier i sama Saur, 2. Pet. 2. Þegar DRottiñ hafdi fyrirgiefid Hoor-Konunni Glœp hennar, Þa sagdi hann þo: Gack nu burt, Og syndga ecki framar: Giefandi þier þar med til Vitundar, Christiñ Madur; Ad þad er forgiefins, ad þu þiggir Kvittun Synda þinna af Gudi, Nema þu spornir vid þeim frañveigis þad mesta þu maatt. Þegar JEsus saa þann Mann i Musterinu, Er hann skoñu aadur læknad hafdi vid Dijkid Betezda, þa sagdi hann: Siaa, nu ertu heill vordinn, syndga ecki framar, ad ei hendi þig annad verra, Joh. 5. Teiknandi þar med, ad Syndiñ hefdi verid Orsok til hañs Siwkleika. Enn þu, sem framkiemur fyrir Guds Fœtur, til ad laata þier boda Kvittun Synda þinna, af hañs Umbodsmanni i Skrifta-Stoolnum (Þad er ad soñu vijst, ad ef þu ydrast ut af Hiarta Syndaña, og treystir a Jesu Guds Sonar Forþienustu, þa verda þier þær fyrir hañs Blood fyrirgiefnar, þott þær sieu raudar sem Blood, og svo sem Purpuri raudar, og þu Læknadur af ollum þijnum Andlegum Oheilindum; Eñ ef þu ecki keitast vid frañveigis ad Krossfesta þitt Holld af fremsta Megni, þa mun Forþienusta hins Krossfesta ecki miog gagna þier, miklu helldur fordœma þig, Nema þu spornir vid Syndiñi); Vit þad fyrir vijst, ad Christur hefur ecki forgiefins talad um þañ Ohreina Anda, sem vtfer af Mañinum, ad hañ taki Sio Anda sier verri, og hverfi aptur i sitt fyrra

ka Hws, og verdi svo þess sama Manns hid siidara argara hinu fyrra. Einginn er Efi aa þvi, ad DRottinn meinar hier þa, sem Einusinni hafa wtrekid Diosulinn wr Hiarta sijnu, fyrir Guds Krapt og sanna Ydran, Enn byggia honum þo inn aptur, og æfa somu Syndir, Ydrunarlaust, edur og adrar verri: Þad vitnar St. Petur, hanns eiginn Lærisveinn, er hann segir um þa er vellta sier i somu Syndum, ad þeirra hin siidari Kior sieu verri hinum fyrri, þvi betra hefdi þeim verid, ad alldrei hefdu þeir Veg Riettlætisins vitad, helldur enn, ad þecktum honum, ad hverfa aptur fra þvi Bodordi, er þeim feingid er. Christnir Menn eiga ad breita eptir þessum Haalfvisna Manni i hanns Audmykt og Angri fyrir Syndirnar, einnig i Trwnni og Traustinu aa Guds Sonar Maatt og Myskun; Enn ecki eigum vier hanns Soottar-Ferli lijkir ad vera, I voru apturhvarfi til Guds fraa Syndunum: Hann var Haalfvisinn; Svo eigum vier ecki ad vera; þott vier sieum Veikir, þa eigum vier ecki Haalfvisnir ad vera, svo vier meinum ad giefa Gudi Helftina Hiarta vors, enn Helminginn Syndinni og Fiandanum: Gud bannar i Moysis Logum, ad hafa Einn Mælir fyrir hinn Innlenda, og Annann fyrir hinn framanda. O! hvad giora þa syndugir Menn, þegar þeir skamta Gudi wt i Dropa tali, Hver med sijnum Blood-Dropum hefur afþveigid Syndir vorar, Enn Andskotanum giefa Menn fullann Mælir mest allra vorra Lijfdaga; Þad er Baals Þioonusta, Enn ecki Christs: Enn St. Paall segier: Ad Christur og Belial, þad er hinn sami Diofull sem Baal, eigi eckert Hlutskipti samann. Verum þvi annadhvert heitir edur kalldir, þvi þeim sem volgir eru, vill hann skyrpa wt af sijnum Munni, Apoc. 3. Þessi Madur leitadi HErrans, þa hann var veikur ordinn: Lær þad af honum, Guds Barn, ad aakalla DRottinn i Neydinni, enn bijd þo ecki eptir þvi, ad hann neydist til ad straffa þig Syndarinnar vegna. Mørgum hefur ad sonnu Guds Hegning komid til Ydranar, sem ecki hafa þeckt Syndir sijnar fyrri: Enn giæt þess, ad þeirri Ydran, sem framkiemur af Otta Hegningarinnar, Henni er hættara vid ad koolna aptur, enn hinni, sem af Jhugan sijns Overdugleika og Guds Giædsku uppsprettur; Þad sie eg af Achab, Er klæddist i Seck fyrir Gudi, nær honum illa gieck, Enn strax sem Gud hafdi liett Hrijsinu af hanns Hrygg, þa fiell hann fraa honum til annarlegra Guda. Saa sem undann dregur Tijma Ydranarinnar, og meinar ad þar sie alltijd noogur Tijmi til, Hann virdist mier vera eins og saa, Er ecki hyrdir um þott hann lijdi Skipbrot, af þvi þad kunni ad henda sig, ad hann kunni af ad komast aa einum Flaka. Menn segia, Ad saa sem giorir sitt Testament, ecki fyrr enn a Dauda-Sænginni, hann giefi af Erfingians Fe, og ecki af sijnu: Hætt er vid, ad Gud muni eins hallda og kalla þad ecki sier giefid, sem þa er fyrst bodid, nær sagt verdur: Gior Reikningskap þinnar Raadsmennsku, Þu maatt ecki leingur Raadsmennsku hafa. Saa sem Daglega frestar Ydraninni, hann er eins og saa Skulldu-Nautur, er giefur jafnann good Ord, enn betalar alldrei: Skyllda vor er þad Manna, ad lijda þvilijkt hver af odrum, Naaungans Kiærleika vegna, i leingstu Log, þvi vier erum Gudi meira skylldugir, sem er Fadir vor allra; Enn hann er ecki skylldugur ad lijda svoddann Hræsni af oss, hverium vier erum skylldugir um Saal og Lijf. Malachias Spaamadur lijsir Bolvan

yfir þeim, sem eiga Heilbrygdt Fe, enn offra þvi hallta og limlesta. O Guds Barn! mun saa ecki þurfa ad Ottast fyrir þessari Bolvan, sem giefur Fiandanum sinn Ungmennis Alldur, enn ætlar ad Foornfæra Skaparanum þad, sem hañ verdur aa Hækium ad bera? Skioot þvi ecki aa Frest Ydraninni, Barn Guds, helldur þeink aa þinn Skapara i þijnum Ungdoomi; þvi þu veitst ecki nær Angistinn kiemur, og þu leitar ad Fridnum, og finnur hann ecki, Ezech. 7. Og er þad svo hier um wt-talad.

Hvad hinu Sijdara vidvijkur, sem er um̃ Trwna, þaa eru hennar furdulegir Kraftar, og, eg maa segia, Guddoomlegar Verkanir, sem laangt yfirgaanga Mannlegann Skilning, svo miklar, ad þad maa valla med Ordum wtskijra. Hañ sem ad er Hofundur Trwarinnar JEsus Christus, Hebr. 12. Hann hefur giort hina bestu Grein aa þvi, er hann segir vid sijna Lærisveina: Ef þier Trw hefdud, svo sem eitt Mustards Korn, svo mundud þier segia Fialli þessu; tak þig upp og fleyg þier i Siooinn. Og ef ein lijtil Trw kann þvilijks ad orka, hvad mikla Hluti mun þaa hin sterka faa afrekad! Svo sem var Abrahams, er hann trwdi til Vonar þar einginn Von var, Rom. 4. Nu vil eg i þetta Sinn ecki um̃ þvilijka Hluti tala, helldur ad þvi Leiti sem hun þienar til Syndanna Fyrirgiefningar; Og er þad Maala sannast, ad einginn er stærri Kraftur hennar enn saa, þvi minna var þad, ad giora Moysis Staf ad Hoggormi, minna ad sundurskipta Hafinu, miña ad laata Soolina standa kyrra, minna ad tilbyrgia Himininn, og kalla Elld af Himni, þvi allt eru þetta Guds Skiepnur, er honum hlijda Mootmælislaust: Minna er allt þetta, segie eg, helldur enn ad koma Manninum, af Syndiñi og Andskotanum vanskopudum, i Saatt vid Gud; og þvi er þad hin stærsta Jardteikn og Kraftaverk Trwarinnar. Þegar JEsus saa Þeirra Trw (stendur hier i Gudspiallinu), Sagdi Hann Til Hinns Haalfvisna: Vertu Hughraustur, Sonur, Þier Eru Þijnar Syndir Fyrirgiefnar. Tvennt giordi JEsus hier Gott, sem var, ad hann gaf þessum vesæla Manni Lijkamans Heilbrygdi aftur, og svo undir eins Saalarinnar; Enn mikill var þessi Munur, og svo mikill, sem ad skilur Saalarinnar og Lijkamans Vanheilsu; Þvi taladi DRottinn eckert um̃ Lijkamans Ohraustleik, helldur sagdi hann: Þier Eru Þijnar Syndir Fyrirgiefnar; Þar fyrir sagdi hann og vid hina vantrwudu Gydinga: Hvert Er Audvelldara Ad Segia: Þier Eru Þijnar Syndir Fyrirgiefnar, Edur Ad Segia: Statt Upp Og Gack? Enn hier sier þu Krapt Trwarinnar: Adur enn þessi Aumi Madur taladi eitt Ord til Fodur Myskunsemdanna, þa hrærdust hañs Myskunar-Ydur i honum til Medaumkunar; Heitir ecki þetta ad Bænheyra adur enn kallad er? Hinns sama maattu þier vænta, Christinn Madur, nær þu lætur þig af Hiarta aangra þijnar Syndir; Fyrr meiga Himin og Jord forgaanga, enn ad Eitt af hanns Ordum falli aa Jordu, er sagt hefur til eins Ydrandi Syndara, ad þegar hann lætur af Illu, og lærir Gott ad giora, þa skuli hanns Syndir vera honum fiarlægar, sem Austrid er Vestrenu. Fyrr maa Siaafar-Hafid uppþorna, enn ad Brunnur Myskunarinnar verdi uppausinn, sem lofad hefur ad kasta Ydrandi Manns Syndum i Hafsins Diwp, svo

þeirra

þeirra skuli ecki ad eilijfu minnst verda: Þessu kiemur Trwinn til Leidar. DRottinn undradist ecki yfir neinum Hlut, sem hann sa hier a Jardrijki: Allt Veralldarinnar Yfirlæti þóokti honum einkis vert, svo sem Von var a, þvi allt Silfur og Gull var hañs; Hann gaf sig lijtid ad Tali Lærisveinanna, þegar þeir sijndu honum hina kostulegu Bygg-ingu Musterisins, og þookti eckert til þess koma; Enn vid hina Canaaniſku sagdi hann: Kona mikil er þijn Trw. Svoddann Giersemi er jafnvel eins Gaungumanns Trw, i Augliti DRottinns! Og hversu dijrmæt ad hun sie i Guds Augliti, þad giefur DR-ottinn sialfur til Vitundar i Eftirlijkingunni uñ hinn Tijnda Saud og Pening, er hann alyktar med þessum Ordum: Svo segi eg ydur, ad meiri Gledi er i Himninum yf-ir einum Syndugum, sem Ydran giorir, helldur enn yfir Niju og Nijutiju Riettlatum: Holldum þvi þad fyrir satt sem Johannes segir; 1. Pist. 1. Cap. Ef vier jatum vo-rar Syndir, þa er hann Trwr og Riettlatur, ad hann fyrirgiefur oss Syndernar, og hreinsar oss af ollu Ranglæti voru. Svo voru Myskunar-Ydur DRottinns vid-kvæm, er hann leit Eymd þessa vesæla Manns, ad hann sa strax Aumur a honum. O þu Guds Barn! Villtu þa efast uñ, ad hann hrærist Myskunar yfir þier? Þegar þier taka til ad svijda þijn Andleg Kaun, þegar þau fwnu Sarinn taka til ad lifna, og þu tekur til ad Andvarpa i Leynum, segiandi: Jesu Goodi Meistari, Myskuna þu mier. Hvad segier JEsus hia Lucam, Cap. 11? Ef ad þier sem vondir erud, kunnid ad giefa Born-um ydar goodar Gafur, hvad miklu framar mun ydar Himneskur Fadir giefa þeim Heilagann Anda, sem hann þar uñ bidia! Þvi vil eg i fullu Trausti segia: Þegar þu aud-mijkir þig undir Vollduga Guds Hond, og bidur af Hiarta uñ Fyrirgiefning Synda þinna, þa mun hanns Andi bera þijnum Anda Vitnisburd uñ, ad þu siert Guds Barn, Rom. 8. Þvi jafnvel þoott vier sieum Otrwir, þa er hann samt Trwr, sialf-um sier kann hann ecki ad neyta, segir Paulus. Nu er þad satt, Br. M. ad sannydran-de Manns Trw verkar svo mikid hia Gudi, sem nu hefi eg sagt, enn hann a þa ad vera viss uñ þad, ad hann sie bædi Sannydrandi og Riett-trwadur. Margt er lijkt med Skylldum, segia Menn i Ordtæki gomlu; Enn Trwinn og Ydruniñ eru Tvær Systur, er ei meiga skilia: Eins og þad, ad sw Ydran er Onijt i Guds Augliti, sem ecki þvijngar Manninn til ad krossfesta sitt Hollד, svo er og Trwiñ daud an Verkanna, segir Jacob; Og Pall segir: Ad sw Trw alleina gylldi, sem ad er kroftug fyrir Kiærleikann. Med Trwnni foornfæra Menn Gudi sijnum Vitsmunum, og giefa sijna Skilningu fangna undir hennar Hlijdni: Med Ydraninni Offra Menn Viliannum, ad hann sie Guds Bodi undirgiefinn. Trwinn giorir oss ad Guds Lærisveinum: Ydraninn, ad hanns Þioon-um. Trwinn upplijsir vor Hiortu i Skilningi vorra Saluhialpar Efna: Enn Ydr-uninn, ef hun er alvarleg, hun þrijstir oss til ad giora Guds Vilia, og alla Skylldu Christins Manns. Svo sem þad er ecki noog, ad ydrast uñ Stundarsakir, og ganga aptur til ad drijgia somu Syndir, svo er þad ei helldur fullur Christinndoomur, ad trwa uñ Hrijd, eda giora Avoxt Trwarinnar, enn falla þo fra a Tijma Freistingarinnar:

Væri

Væri þad noog til Saaluhiaalpar ad byria vel, Þa sæti Bileam haatt i Himnarijki; Og ef ei þyrfti ad vaka og bidia, Þa hefdu hinar Faavijsu Jömfrwrnar ecki verid wtiloka-adar. Þad er skiemtilegur Draumur, ad ætla, ad Gud muni tilreikna sier Forþienustu Sonarins, Enn villa þo eckert giora af þvi sem Gud bodid hefur. Miog svo er eg uggandi fyrir þvi, ad saa sem geingid hefur i þvilijkri Leidslu allann sinn Alldur fram i Daudann, hann muni uppvakna i Helvijti og Kvolunum; Þvi jafnvel þoott ad Good-verkinn vor, Ef nockur svo kallast meiga, þau sieu ecki Mattug til ad giora oss hoolpna, Þar vier erum skylldugir ad jaata, ad Onijtir Þioonar sieum vier, Jafnvel þo vier giord-um allt þad vier ættum ad giora, samt eru hin Vondu noogu Kroptug til þess, ad for-dæma oss. Eg veit ad sonnu, ad þetta kañ ad sturla margann þañ sem mikiñ Part Æfi sinnar hefur i Illskunni alid; Eg fæ ecki vid þvi giort: Þetta eru þo Gudleg Sannindi: Og ecki er Von aa odru, enn ad syndugs Manns Hiarta muni kienna til, þegar Broddur Logmaalsins tekur til ad stijnga aa Kaununum. Vel sie þeim, er svo eru vidkvæmir, ad þe-ir finna til Saarsaukans! Hinum er ollum midur farid, Er ei kienna til Guds Stroffun-ar, Ecki til Logmaalsins Hootana, og ecki til Helvijtis Ellds-Loga, Hvern þeir forþien-ad hafa, um hveria þad segia maa, Sem Jeremias sagdi um Gydinga: Þu typtar þaa, O Drottinn, Enn þeir finna þar ecki til; Hverra Samvitskur ad Paall segier ad sieu Breñi-merktar. Enn hinum, Sem ad sonnu Ogudlega lifad hafa, Eñ laata sig þo angra sijnar Syndir af Hiarta, og vilia þar aa Boot vinna, Þeim vijsa eg til þeirra Lijknar Orda, er O Drottinn talar til syndugra Manna, Esa. 1. Þvoid ydur, hreinsid ydur, Takid ydar Illsku Breytni fraa mijnu Augliti, Komid sijdann og eigunst Log vid: Þott ydar Synd-ir sieu raudar sem Blood, þa vil eg giora þær hvijtar sem Ull. Þu þeinkir kann skie i Hiarta þijnu: Eg em i Syndinni gietinn og fæddur, Hvernig maa eg Gudi þocknast? Eñ gæt þess, ad þiñ Endurlausnari, Sem er Gud blessadur um allar Alldir, Hañ er fæddur af Fedrunum eptir Holldinu, Hreinn og Heilagur og fraa skilinn Syndurunum: Þu ert syndugri enn adrir Menn, Christur er heilagri eñ allir Menn, Hañ er Forlijkun fyrir þijn-ar, og ecki einungis fyrir þijnar, helldur og fyrir allar Veralldarinnar Syndir: Þu gietur ecki aldeilis af Syndinni laatid, svo þad Vonda lodi ecki vid þig, þa þu villt gio-ra hid Gooda; Þad gat ei helldur St. Paall, Samt fieck hann þad Svar af Gudi: Laat þier nægiast mijna Naad, Minn Kraptur fullkomnast i Breiskleikanum: Þu syndgar optlega; Christur bidur fyrir þier Oaflaatannlega: Þijnar Syndir eru þier yfir Hof-ud geingnar; Samt yfirgnæfir þo Naadinn miklu framar: Þig henda optlega som-u Syndir; sporna vid þeim sem mest þu maatt, svo ad þær drottni ecki i þijnum Daud-legum Lijkama: Enn vit þo, ad JEsus hefur borid uppaa Tried þa Handskriftina, sem mooti þier var, og hana aa Krossinn neglt, Þar er eingin af þijnum Skulldum eptirskil-inn nie Olokinn, Enn brwka þa slijkt til ad afplaana giordar Syndir, Enn ecki til Frelsis ad drijgia þær framvelgis. Þu þykist eckert Verk Gudrækninnar fullkomid giort gie-ta; Þessi Medkienning þijns Overdugleika er Verk Heilags Anda, Þvi bidur hann fyrir

þier

þier med Oumrædilegum Andvorpunum, og hiaalpar þijnum Veikleika: Þu hefur allann þiñ Alldur i Illskuñi alid, og ert adkomiñ Dauda, Hafandi eckert gott Verk Gudi ad biooda; Þoott þu hefdir, Mundu þau kunna ad riettlæta þig? Hvad hafdi Tollheimtu-Madurinn? Luc. 18. Hvad hafdi Ræninginn aa Krossinum? Luc. 23. Hvad hafdi Þrællinn, Sem var sijnum Herra skylldugur uñ 10000. Punda? Matth. 18. Samt uppgaf Herrann honum alla Skulldina. Þijn Trwa tekur til ad veikiast i Daudanum, þa Lijkamans Kraptar eru ad Þrotum komnir, og meiga valla taka aa mooti Daudans Ofbodi; Mundu þa til þess, ad Guds Sonur hefur Daudañ sigrad, þad skal skie, ad hver sem trwir aa hann, saa skal lifa, Iafnvel þoott hann deyi, Joh. 11. Laat þier þa i Hug koma, hvad Fadir hinns Twnglsiwka sagdi: HErra, Eg trwi ad soñu, Eñ hialpa þu Trwarleysu minni. Ein veik Trw er þo Trw; Einn Elld-Neisti er þo Elldur, Ein lijtil Perla glansar svo sem ein Perla; Eins skijn ein veik Trw i Augum Guds svo skiært, svo sem þo hun væri sterkari, Þvi Trwinn er ecki vort Verk, helldur hanns Anda: Þar fyrir beiddu Læriswcinarnir DRottinn ad auka sier Trwna; Laatum hann raada Mælingu hennar, Hann mun ecki sitt eigid Verk Ovirda, Enn laatum þo ecki af ad næra hana med ydugle gri Bæn og Andvarpan. Lutherus segier i einum Stad, Ad eingiñ verdi Fordæmdur, Nema saa sem ei vill trwa: Þad er satt, Ef þad er riett skilid; Þvi saa vill ecki Olmusu hafa, sem ecki vill uñ hana bidia, Svo vill og ecki saa trwa, sem ecki bidur Gud ad skapa hreint Hiarta i sier, og giefa sier nijañ vissañ Anda: Enn hitt er vijst, ad ein veik Hond tekur eins vid Olmusu, svo sem ein Fullhraust, Og eins vel umfadmar ein veik Trw Christs Forþienusta, svo sem ein Fullorugg, Þvi Guds Kraptur fullkomnast i Breiskleikanum, Og einn Veiktrwadur maa uñ sig segia eins og Paulus: Eg formaa alla Hluti fyrir hann, sem mig Maattugann giorir, Christum, Þvi þa eg Breiskur er, þa er eg Maattugur; Þo efldist svo DRottinns Kraptur med honum, ad hann hroosar þvi undir sijna Foornfæringu, ad hann hafi goodri Baraattu barist, Skeidid fullkomnad, og Trwna geymt, Og framveigis sie sier aflogd Corona Riettlætisins, Hveria DRottinn hinn Riettlaati Doomari muni giefa sier aa þeim Deigi, og ecki einasta sier, Helldur jafnvel ollum þeim hanns Tilkomu elska. Heñar niootandi ad verda Unni oss hinn Goodi Konungur Dijrdarinnar, Fyrir JESUM Christum, AMEN.

# Tuttugasta Sunnudag eptir Trinitatis.

Gudspiallid, Matth. 22. Cap.

Á Þeim Tijma. JEsus svaradi og taladi i Añad Sin i Eptirlijkingum til þeirra, og sagdi: Himnarijki er lijkt þeim Kongi, sem Brwdkaup giordi Syni sijnum, Og wtsendi sijna Þioona ad kalla Bodsmeñina til Brwdkaupsins, og þeir villdu ecki koma. J Añad Sin sendi hañ wt adra Þioona,

og sagde: Segied þier Bods-Moñunum: Sjaed, mijna Mæltijd hefe eg tilbwed, mijner Uxar og aled Fie er slætrad, og allt er reidubwed, komid til Brwdkaupsins. Eñ þeir forsmædu þad og geingu i burt, Eirn æ siñ Bwgard, eñ Añar til siñar Verslunar, eñ hiner adrer gripu hañs Þioona, og løgdu þeim Hædungar til, og dræpu þæ. Eñ þa Kongureñ heyrde þetta, vard hañ reidur, og sende wt sitt Her-Lid, og fyrerfoor þessum Mordingium, og brende upp þeirra Borg. Þa sagde hañ til siña Þioona: Brwdkauped er ad søñu reidubwed, eñ þeir sem bodner voru, þeir voru þess ei verduger. Þar fyrer fared wt æ Gatnamooteñ, og biooded til Brwdkaupsins hverium sem þier fiñed. Og hañs Þioonar geingu wt æ Stræteñ, og samañsøfnudu ellum þeim sem þeir fundu, Vondum og Goodum. Og Brwdkauped vard fullt med Bordsett Foolk. Eñ þa ed Kongureñ gieck iñ ad siæ þæ sem til Bordsins sætu, sæ hañ þar eirn Mañ, eige klæddañ med Brwdkaups Klæde; Og sagde til hañs: Vinur! Hvorneñ gieckstu iñ hijngad, hafande ecke Brwdkaups Klæde? Eñ hañ þagde. Þa sagde Kongureñ til siña Þienara: Binded hañs Hendur og Fætur, og kasted honum wt i hin Ytstu Myrkur, þar ed vera mun Oop og Tañagnijstran. Þviad marger eru Kallader, eñ fæer Utvallder.

## Exordium.

HVer ad sie Meining þessarar fogru Epterlijkingar, sem DRotteñ hier framsetur, þad er audræded af ødru Guds Orde, og þo sierdeilis af Predikunum hanns, sem annarstadar ritadar finnast i Gudspialla Bookunum, ecke sijdst af þeirre um Verka-Meñena, sem leigder voru i Vijngardenn, hiæ Matthæum i 20. Cap. Og hinne um þa miklu Kvølldmæltijd, sem er ad finna hiæ Luc. i 14. Cap. Um hveriar bædar nockud hefur talad vered hier ad framann. Konungurenn er hinn Alvallde Himens og Jardar Konungur, hanns Sonur er DRottenn JESUS, siælfur Konungur, ecke einasta epter Guddoomenum, helldur og Manndoomenum, þvi Gud hefur sett sinn Konung yfer sitt Heilaga Fiall Zion, Ps. 2. Jafnvel þoott ei være hanns Rijke af þessum Heime, og allt Vallder honum giefed, bæde æ Himne og Jordu, Dan. 7: Matth. 28. Brwdkauped er hanns Holldtekia, og aller þeir Velgiorningar, Er i henne frambodner verda ollu Mannkyne, enn veitter þeim einum, sem trwa æ Nafn Eingietins Sonar Guds. Hiner Fyrstu, sem bodner voru, eru Gydingar, hverium framar ødrum var boded til þessa mikla Brwdkaups, enn þeir forsmædu þad; svo sem Paulus og Barnabas vottudu, Act. 13. Segiande: Til ydar byriade Fyrst Guds Ord ad tala, enn fyrst þier forsmæded þad, og reikned ydur ei verda Eilijfs Lijfs, þa

snwunst

snwunst vier til Heidingiaña. Sumum bægdu Veralldar Umſvif frá þessare Guds Gióf, ſvo ſem af Gudſpiallenu er audſært. Hiner gripu hanns Þioona, logdu þeim Hadungar til, og Aflijfudu þaa: Þeirra gietur Frelſarenn, er hann ſagde vid Gydinga; Hvern af Spaamonnunum hafa ydar Fedur ecki Ofſoott? Og yfer þaa er geinged þad ſkielfelega Straff, ſem hier umgietur i Evangelio: Fyrſt, þegar Nebucadnezar eydelagde hina fyrre Jeruſalem; og ſijdann yfer Born þeirra, ſem ad uppfylltu Mæling Fedra ſinna, er hun var uppbrend og ad Stein-Hrwgu giord af Tito Veſpatiano, og alldrei uppbygd ſijdann: Hiner, er ſijdann voru kallader, eru Heidner Menn, og, medal annarra, Forfedur vorer, þad Foolk, ſem i Myrkrunum ſat, Eph. 5. Og er inplantad i Stadenn Gydinga, ſem afbrotner voru, Rom. 11. Enn vier heyrum i Gudſpiallenu, ad til þeſſa Brwdkaups er ſafnad Vondum og Goodum, þvi ſegier og Paulus, 2. Tim. 2. Ad i ſtooru Hwſe ſieu ecke einungis Kier af Gulle og Sylfre, helldur og af Tre og Steine, og ſum til Heidurs, enn ſum til Vanheidurs, enn ef nockur hreinſar ſig af þeſſu, þa mune hañ verda Kier til Heidurs helgad: Og ſiaalfur Lauſnarenn endar þeſſa Epterlijkingu med þeirre dijrmætu Grein; Ad MArger SIeu KAllader, Enn Faaer Utvalder. Hvar af liooſt er, ad þeir eru ecke aller Chriſti Þegnar, ſem nefna Chriſtum ſinn HErra, til hvers hann bender oſs med Dæme þeſs Manns, er kom til Brwdkaupſins, ecke ſkrijddur Brwdkaups Klæde, af hverium eg vil taka mier Orſok til, ad tala um þaa Hlute, hvar af einn og ſierhver meige þeckia ſinn Bwning, hvert hann ſie hæfur til ad byrtaſt fyrer Konungenum, nær hann geingur inn ad ſiaa Bord-Gieſtena. Þu Alvallde Konungur Dijrdarennar, ſem villt, ad aller verde Hoolpner, og komeſt til Sañleikſins Vidurkienningar, veit oſs þijns Anda Naad til þeſſa Verks, J JESU Naf ne, AMEN.

## Utleggingeñ.

ENN Þegar Konungurenn Gieck Jñ, Ad Siaa Þaa Sem Til Bordſins Saatu, Saa Hann Þar Einn Mann, Eige Klæddañ Brwdkaups-Klæde; ſegier i Textanum: Hvert ad ſie þetta Brwdkaups-Klæde, er audvitad; Þad er ſiaalfur Chriſtur, og hanns Riettlæte med Trwñe hondlad; þvi fagnar hanns Chriſtne, hiaa Eſajam Cap. 61. ſegiande: Eg gledſt mikelega, og mijn Saala fagnar i mijnum DRottne, þvi hann hefur klædt mig Bwninge Hiaalpræde ſins, og med Klæde Riettlæteſins hefur hann huled mig, eins og Einn Brwdguma i Kieñemannlegum Skrwda, og eina Brwde Jklædda Skarte ſijnu: Þetta er auglioost af ſiaalfre Epterlijkingunne. Hvar fyrer var þeſſum Veſæla Manne kaſtad i hin ytſtu Myrkur? Af þvi, hann var ei ſkrijddur Brwdkaups-Klæde. Hvar fyrer verda hiner Vantrwudu fordæmder? Af þvi, ad þeir trwdu ecke aa Nafn Eingietens Sonar Guds. Hvar fyrer ſættu ecke hiner adrer þvilijkre Reffing, Þvi um hann einn verdur gieted? Fyrer þvi, ad þeir voru Jklædder hinu rietta Brwdkaups Skarte. Hvar fyrer verda Utvalder innleidder i Fognud ſijns Herra? Mun þad ſkie fyrer þeirra eigenn Riettlæte? Fiærre fer þvi. DRottenn, ef þu villt

villt tilreikna Syndirnar, Hver fær þa stadist, segier David, Ps. 130. Eingin lifan-di Manna mun Riettlætast i þijnu Augliti, segier hann: Hvar fyrir er þad þa? Af þvi ad þeir trwdu a hañ, sem Riettlætir Ogudlegañ, segier Paulus, Rom. 4. Og þvi kiemur hann ecki til Doomsins, segier Frelsarinn. Sæll er Sa, Hvers Syndir huldar eru, seg-ier David, Ps. 32. Enn med Klædunum verda Lijtinn huliñ; Eins vor Andleg Blygd-an, med JEsu blessudum Riettlætis Skrwda: Þess gietur hañ sialfur i Opiñberunum Johannis, Talandi vid Biskupinn i Laodicea, Hvern hann Nakinn kallar, þar hañ rædur honum, ad kaupa af sier Gull þad sem i Elldi er reynt, Ad hann rijkur verdi og klæddur hvijtum Skrwda, svo ad Blygdan hanns Fatleysis ecki Opinnberist, Apoc. 3. Naad-ar-Stoollinn huldi Fordum Daga Sattmaals-Orkina, J hverri Logmaals-Toblur-nar geymdar voru: Þu JEsu, Þu ert einn Naadar-Stooll i þijnu Bloodi, Rom. 3. Fyrir þitt Sakleysi, O! HErra, Sem Logmalid uppfyllt hefur, Enn varst þo a mooti Logmaalinu dæmdur, Fyrir þad eru huldar allar vorar Syndir, sem mooti Logmaal-inu giordar eru, þegar vier a þitt Nafn trwum: Hvad mun eg ætla til þess, ad eg syndugur Ormur i mijnum eiginn Klædum byrtast kuñe i þijns Himnesska Fodurs Aug-liti? Hvad mun eg vilia koma fram med þad, Sem er eins og Nidlags-Fat? Hvad mun eg biooda þad fram, sem er Haalfverk? Eg hrædist oll mijn Verk, sagdi hiñ Riett-laati Job: Og þvi mun eg ætlast til þess, ad mijn sieu betri? Hvar fyrir mun eg vilia bæta þann fagra Kyrtil, Er þu mier giefid hefur, med mijnum Totrum? Mun eg heilagri enn Josua hiñ Ædsti Prestur, er stood i saurugum Klædum fyrir Eingli hiñs mikla Raads, Zach. 3. Svo mun best fara, O Drottiñ minn, ad bædi eg og adrir Syndugir Meñ niooti þeirrar Naadar, sem hann naut, ad þu burtakir vort Raanglæti, og skiptir uñ Klædi vid oss. Svo er nu þetta Brwdkaups-Klædi eckert annad enn Riettlæti JEsu Christi med Trwnni medtekid; Þvi Jklædunst vier fyrst allra i Skijrninni; þess gietur Paulus, segian-di: Þier erud allir Guds Born fyrir Trwna a JEsum Christum, þvi hverier sem uppa Christum skijrdir erud, Þier hafid Jklædst Christo; J henni verda oss Syndirnar fyr-irgiefnar, ecki einasta Uppruna Syndiñ, helldur eigum vier, J Krapti heñar, Fyrirgief-ningar Von, uñ alla Æfi vora, a Gioraflegum Syndum, nær vier leitum heñar Riet-tilega: Þvi kallar Petur hana Sattmaala goodrar Samvitsku, þvi einginn kynni uñ eitt Augnablik Roolega Samvitsku ad hafa, Nema hann vissi sier Kvittunar Von Synda sinna: J heñi verdum vier Guds Born; J henni medtokum vier Heilagañ Anda, sem þa alla Endurnyar, Fyrir Krapt Endurgietningarinnar, sem ecki mootstanda honum nie slockva hann; Þvi er saa riettilega skrijddur Brwdkaups-Klædi, sem Endurgietinn er af Vatni og Anda, ef hann ei spillir aptur sinni Endurgietningu, enn þad verdur morgum, þvi midur! og þar fyrir er Skijrniñ ecki einhlijt til þessa Brwnings, nema ad heñar Krap-tur auglijsi sig i oss, nær vier drogunst a Legg, og lærum vorn Christiñdoom, og er þad fy-rst i þvi Jnnifalid, ad trwa Riettilega a Gud, hvad ed skiedur med Tvennu Mooti: Fyrst ad hafa sanna Þeckingu a honum, hañs Stoormerkium, hañs Velgiorningum, sem oss

verda

verda i Ordinu frambodnir: Annad er þad, ad vier treystum hønum, elskum og virdum fram yfir alla Hluti. Hvad þvi Fyrra vidvijkur, þa er þad vijst, ad i Skijrninni jaatum vier Gudi og øllum hanns Stoormerkium; þar til Skulldbundu oss vor Gudfedgin, med sinni Jaatningu; Enn hvad stodar oss su Jaatning, nema vier lærum ad þeckia hann, er vier jaatudum, Hanns Almætti, Hanns Goodgyrni, Hanns Riettlæti, hanns Elsku til vor, og hvad annad, sem hann hefur i sijnu Ordi Opinberad oss til Saaluhiaalpar? Þetta vil eg bidia þa ad Hugleida, sem annadhvert sialfir lijtid edur eckert vita i sijnum Christindoomi, svo sem vita byriar, edur forsooma ad kienna þad sijnum Børnum og Hiwum, jafnvel þoott sialfir nockud vita meigi. Hier stendur i Gudspiallinu, um þa sem forsmaadu Konungsins Bod, enn geingu i burt, Einn aa sinn Bwgard, enn annar til sinnar Syslunar, ad þeir hafi þess ecki verdugir verid. Segied mier þa i Guds Nafni, segid mier, Þier sem allareidu erud kalladir, og til Bords settir i Konungs-Stofunni: munud þier þvi fyrir hlijta, ad þier erud þar Einusinni innkomnir? Munud þier byrtast i þvi sama Brwdkaups-Klædi, er þier laatid Veralldlegar Syslanir, Jaa, Gialijfi og vondann Selskap draga ydur fraa Gudi og hanns Christs Þeckingu? Hversu aagiæter Bordgiestir erud þier vid DRottins Kvølldmaaltijd, nær þier edur ydar Børn vita eingann Greinarmun ad giøra Lijkama DRottinns og annarar Fædu, ecki ad Reyna og Proofa sialfann sig, og ecki ad Rannsaka Hiartad, hvort þier sieud i Trwnni. O! Vei, O! Vei, hversu eru Menn þa til Brwdkaupsins bwnir? Þad heiter med Riettu, ad hafa Alltarid til ad Syndga, svo sem DRottinn ad Ordi kiemst fyrir Spaamannsins Munn, um Afgudadijrkanina i Juda: Vier kieppunst vid ad bwa oss i Skart, nær vier hallda vilium Minning DRottins Dauda, og svo er Heimskann rijk i oss sumum hverium, ad saa sem ecki hefur sialfur, hann laanar af ødrum, hvad ad sønnu er Vijtalaust i sialfu sier; Enn Gud nædi hvad lijtid Sumum muni umhugad vera, ad byrtast i JEsu Christi dijrmæta Riettlætis Klædi, sem wtvegad verdur med sannri Ydran, stødugri Trw, og Asetningi Christilegs Lifnadar! Þarfyrir, Christnir Menn; Lærid ad þeckia Gud og hanns Stoormerki; Lærid ad þeckia sialfa ydur og ydar Overdugleik; Lærid ad þeckia Guds Vilia af hanns Bodordum, svo þier og þeckia meigid, hvad mikinn Skort þier hafid aa þeirri Hroosan, sem fyrir Gudi gyllidir. Hinn Annar Partur vorrar Jaatningar er saa, ad vier lofum ad treysta Gudi og reida oss uppaa hanns Føderlega Giædsku og Forsiaa, bædi i Medlæti og Mootlæti: enn af þessu ber ærid miøg hiaa mørgum hverium, Sem þo meinar sig velbwinn i Lambsins Brwdkaup; J Medlætinu treistum vier uppa sialfa oss sumir hverier, uppa Aud vorn og Metord, uppa Vini og Høfdingia, enn ecki uppa hann, sem er DRottinn alleina Rijkur: Konungurinn af Tyro sagdi i Hiarta sijnu: Eg er einn sterkur Gud: Enn DRottinn segier hønum: muntu segia vid þinn Veganda, Eg em sterkur Gud? Og þo treysta Menn uppa sloddann eina Vatns-Boolu framar enn aa Gud, sem øllu rædur bædi aa Himni og Jørdu; Hvar er þa Traustid? Hvar er þa Trwinn, sem Menn eiga aa Gudi ad hafa? Munu þessir vera hentugir Giestir i Christi Brwdkaups-Stofu, Er sagt hefur; Hver sem

til mijn kiemur, og ei hatar Fodur og Moodur, Konu og Born, Systur og Brædur, og jafnvel sijna eigenn Saal, hann gietur ei vered minn Læresveinn? Menn standast ecke Reide-Svip eins Veralldar Hofdingia, er Menn svo kalla; þegar þeir ygla sig, þa eru sumer Menn buner til ad giora allt hvad þeir biooda, og jafnvel hinar verstu Skamer og Klæke i giegn Gude; enn hann Ottast þeir ei, i hvers Hendi ad oll Veralldarennar Makt er eins og ein lijdande Þoka; og þo vilia Menn Christner heita, þo ætla Menn sier med þvilijku Skape i Lambsins Brwdkaup inn ad ganga, med þeim Guds Hetium, sem jafnvel ecke sitt Lijf elskudu allt i Daudann, þar fyrer hafa þeir nu fargad sinn Skrwda i hanns Bloode. I Mootlætenu eru Menn ecke einasta Oþolenmooder, sem jafnvel Guds Born hender, helldur Moglunarsamer moote Gude, kalla sier Orietta giordann, orvænta hanns Adstodar, grijpa til þeirra Raada, sem hann bannad hefur: Og, i einu Orde ad segia, kasta i burtu Trwnne aa hann, og brioota Oked i sundur. Finne Menn nu eitthvad af þessu hiaa sier, annad hvert, ad þa vante Naudsynlega Þeckingu aa Gude og sijnum Saaluhiaalpar Efnum, og hann hyrder ecke umm ad raada Boot þar aa, sem best hann kann, edur hann Ottast nockra Veralldar Makt, Vinaattu edur Velgeingne, eins miked og Gud, þa drage einginn siaalfann sig aa Taalar, edur meine þad hann sie Riett-Trwadur; þoott hann Kijrdur sie, þoott hann sie Bordgiestur DRottens i Heilagre Kvolldmaaltijd; og fylger þad þa epter, ad hann ei er skrijddur Brwdkaups-Klæde, aa medann hann er so buenn. Take einginn svo Ord mijn, ad eg meine þoott einhverinn kune nockud af slijku ad henda, ad honum þar fyrer eige strax ad kasta i hin ytstu Myrkur: Giædska DRottens er Þolenmoodare yfer Syndum vorum enn svo; þad sijna oss Dæme hinna mestu Syndara, sem þo hafa aadur haft fulla Guds Þeckingu, svo sem Aarons, Davids og Peturs: Enn hitt segie eg, ad Menn skule ecke brwka þessa Guds Naad til ad ala Syndena aa henne. Eg sagda fyrer skommu, ad i Skijrnenne værum vier fyrst Jklædder Brwdkaups-Klædenu; Enn Gud naade! Ad þar fellur svo optlega Blettur aa, og svo ataast þad i Forodum Veralldarinnar, ad þad valla þeckest aa Stundum, enn þad a burtu ad þvo med heitre Ydran og hanns Forþienustu, sem hrein giorer Born Levi, JEsu Christi, hver ad er eins og Saapa Þvottakvenna, seger Spaamadurenn, Malach. 3. Eitt Klæde er jafngott þo ad Saur falle aa þad, ef þad er vel þveiged, nema þad sie Groomteked; Eins er Syndarenn, hann er jafngoodur, þegar hann ydrast af Hiarta, trwer ad sier verde Syndernar fyrergiefnar, og leitast vid ad lifa betur af ollu Megne; Enn velke hann sig svo miog i Gudleysenu, ad hann burtkaste DRottenns Forþienustu, og hyrde ei umm ad leita hennar med þeim Medolum, sem til þess eru giord; Þa segier Paulus oss, ad þar sie einginn Forlijkun fyrer Syndena framar, Hebr. 10.

Eg finn i Heilagre Ritningu svo sem Þriu Troppu Stig til Glotunarennar, fyrer þa, sem medteked hafa þo Guds Anda: Hrygged ecke Heilagann Anda, segier Paulus: Þad skiedur þegar þeir, sem enn þa eru i Guds Naad, þeim verdur þad, ad þeir laata epter Holldenu, þo ecke alltijd af aasettu Raade; Enn veikia þo med þvi Krapta sinnar Endurgietning-

gietningar, svo þeir eru ecke svo liwfer aa ad giora þad Gude lijkar. Aptur segier hann: Slöckved ecke Heilagann Anda. Þad skiedur nær Menn svo venia sig aa syndsamlegt Athæfe, ad þar finnst eingeñ Baraatta Holldsins og Andans, helldur laata Menn Syndena drottna i sijnum Daudlegum Lijkama, svo þeir þioona heñe, þar med tapa Meñ Andanum til fulls, og rata i Guds Ovingan. Hiner Þridiu eru þeir, ed mootstanda Heilogum Anda, svo sem DRotteñ sagde vid Gydinga, og hañs Pijslar-Vottur Stephanus: Þad skiedur, nær einhver forsmaaer Andañ, nær hañ añadhvert straffar Syndena i Ordenu, edr og med sijnum innri Verkunum i Hiartanu, og standa aa moote honum af öllu Megne, svo ad þoott þeir vite hvad riett er og Hiaalpsamlegt, þa smijda þeir sier Meiningar og Affsakaner aa moote Guds Orde, og Innblæstre Heilags Anda, og leitast vid ad styrkia þær med þeim Rökum, sem Hollded og Diöfullenn fyrer þa dicktar: Og þesse er hin sijdarsta Trappa, um̃ hveria mier virdist ad Postulenn tale til Hebræos, Cap. 6. ad valla edur ecke eigi Apturkvæmt til Ydranar. Giæte þvi hver og einn ad siaalfum sier, sa ed þenna Himneska Giest hefur einusiñe hloted, ad hañ laate sig af honum leida i allañ Sañleika, hañ breite eins og Ezechielis Dijr, þau geingu riett aafram̃, eins og þeirra Andlit horfdu, hvert sem ad siaalfur Añdenn foor, þa fooru þau. Svo eigum vier ad giora, Christner Menn, aa medann Gud geingur undann oss i Sky-Stoolpa siña Orda, hvar i Andenn bijr, þar vier raafum i Eydemörku Heims þessa; Þvi ef vier gaungum i Andanum, þa munum vier ei fram̃kvæma Holldsins Gyrnder, Gal. 5. Þar hañ leider alldrei nema til Guds, af hverium hann fram̃geingenn er. Trwed mier, Christner Menn, ad mikel Gaumgiæfne heyrer til þess, ad rannsaka hvert Menn hafa Vitnisburd Heilags Anda um̃ þad, ad þeir sieu Guds Born, edur og, ad þeir leidast af fölskum Anda, sem lofe þeim Arfleifd Guds Barna, uppaa Ovissa Von, sem heinnar eru þo minnst verder, hvad margann mun henda, þvi verr. Þad siaa Menn ecke einasta af Phariseunum, þeim Hræsnurum, er meintu sig alleina ad hafa Lykelenn ad Guds Rijke; Enn hversu laangt þeir hafe fraa þvi vered, vottar siaalfur Sannleikurenn, Matth. 23. Helldur og aa mörgum ödrum, sem ad sönnu ecke efast um̃ Guds Naad, eñ lifa þo eingannvegenn ad Guds Vilia, jafnvel þoott ei dryge þeir Stoor-Glæpe; Þessum rædur Postulenn nærsta heillt, er hann seger: Reyned hvert þier erud i Trwnne; hvad ei verdur med ödru Moote betur giort, enn ad Menn rannsake sinn Lifnad grandgiæfelega, þvi sönn Trw er alldrei Avaxtarlaus, helldur verkar hun fyrer Kiærleikann, hver ad er Lögmaalsins Uppfylling, og allar Christelegar Dygder hefur i sier foolgnar. Ad sönnu er JEsu blessad Riettlæte þad sanna Brwdkaups-Skart, sem Textenn um̃gietur, nær þad er med Trwñe höndlad; Eñ Glansiñ aa þessu Tignar-Klæde eru Verkenn, sem af henne fram̃koma, hver hana auglijsa, og um̃ hana votta; þvi af þeirra Avöxtum skulud þier þeckia þa, segier Frelsarenn um̃ Ulfana, sem koma i Sauda-Klædum; og eins maa um̃ Guds Born segia: Ecke hylur Farve Klædanna Lijte Lijkamans, ei helldur wtebyrger hann Frost og Kullda, helldur Fated, sem ad Lijtenn byrger. Svo giora og Verkenn eingann Riettlaatann, helldur Trwenn, sem þvi velldur, ad vort

Loos

Lioos ſvo lijſir fyrir Monnum, ad þeir vor Goodverk ſiaa, og dijrka vorn Fodur, ſem a
Himnum er, Matth. 5. Soolinn er ecki Byrta, Enn þo giefur hun Byrtuna fraa ſier:
Eplid er ecki Eik, og þo ber Eikinn Eplid: Trwinn er helldur ecki Verk, enn þo er hun
alldrei aan Verkanna; Þvi ſegier Jacob: Sijn mier þijna Trw af Verkunum. Veri
þvi einginn ſvo blindur, ad hann ætli þad hann ſie Riett-Trwadur, aa medann hañ ecki ber
Trwarinnar Avexti. Hvad ſkulu Menn þa tala um̃ hina vondu Olld, Sem vier lifum i?
Eg ſkal giefa þeim eitt Hiarta og einn Veg til ad Ottaſt mig; ſegier DRottinn um̃ Chriſt-
nina aa Nya Teſtamentiſins Dogum, fyrir munn Jeremiæ, Cap. 32. Mun þetta
ſiaaſt hiaa morgum aa vorum Dogum, Þar ed ſvo margt er Sinnid ſem Madurinn er,
Jafnvel i þeim Hlutum, ſem heyra til Guds Dijrkunar, og Saaluhiaalpinni vidkoma?
Ad eg tali ecki um̃ adra Hluti, Svo laangt er fraa þvi, ad Menn hafi eitt Sinni til ad Ott-
aſt Gud, Ad i einu Landi, Einni Bygd, J einni Sookn, er þar daudlegt Hatur, Agg,
Reidi, Þræta, Tvijdrægni, Jnnbyrdis Flaattſkapur: Meñ liwga hver uppaa añañ Lijt-
um og Skom̃um, pretta hver annañ i Kaupum og Solum, ſvijkiaſt aa Jnnbyrdis med
Kiaſſmælum, Berandi Hunaang i Munni, enn Gall i Hiarta. Hvad þa? Eru Guds
Ord ad Brygdmælgi vordinn? Fiærri er þvi; Sie Gud Sannſogull, Eñ allir Menn
Lygarar: Helldur er þad þeſs vegna, ad vier erum ſvo Fraaleitir og Olijkir vordnir hinni
Fyrſtu Guds Kyrkiu, Þar allir Chriſtnir voru Eitt, og allir Hlutir ſameiginnlegir med-
al hinna Trwudu, Og þo hallda allir ſig hafa hid fagra Brwdkaups-Klædi til ad bera.
Brædur mijnir! Vilied þier heira þær Sakir, Fyrir hveriar Gud wtrak ſitt Foolk i
hina Babyloniſku Herleidingu, Hvar þeir maattu lijda ſvo ſkielfilegar Hormungar, ad
valla hefur þvilijkt heyrſt fraa Alldodli, Þær ſtanda ſkrifadar hiaa Ezechiel Spaamanni,
Cap. 22. A þennañ Haatt: Fodur og Moodur virdtu þeir einkis, Vid hinn Framanda
hondla þeir ſvikſamlega, Eckiunni og hinum Fodurlauſa giora þeir Oriett. Eñ ad þeſſu
leika Menn ſier aa Stundum og odru þvilijku, Og þykir þad Hofmeñſka vera: Mun nu
Konungurinn þeckia þetta fyrir Brwdkaups-Klædi, Nær hann lijtur af Himnum ofañ,
til ad ſiaa eptir Brwdkaups-Gieſtunum? Eg vil ei tala um̃ Flaatt ſkap og Undirferli,
er ſvo miog drottnar i Heiminum, Jafnvel medal þeirra, er vel Chriſtnir heita villia, og
ætla ſier einkis Aboota vant. Ein af þeim meſtu Skom̃um, ſem þvijngadi Gud til ad
yfirgiefa ſitt Foolk Juda, var hin ſtaka Otrygd, Sem drottnadi aa þeim Dogum;
Þeſs gietur Jeremias, Cap. 9. Segiandi: Vari ſig hver einn vid ſijnum Vin, Og
treyſtid ei uppaa neinn Broodur, þvi eiñ Broodir hann bregdur odrum, og ſierhver
Vinur brwkar Afdraatt og gabbar Vin ſinn, þeir tala ecki Sañleikañ, þeir kieña Tungu
ſiñi ad tala Lygar, og þreyta ſig i Raangſleitninni. Segied mier; Ef Jeremias mætti
hverfa aptur til Lijfſins, Mundi hann ei þeckia nockud þeſs-Haattar medal vor? Og mar
þad Eingvannveigiñ Brwdkaups-Klædi nefna, Laangtum helldur vil eg kalla þad And-
ſkotans Bodsmañs Ham, Er hañ klæddur var, Þegar hañ taladi vid Evu i Hoggormin-
um, og baud henni uppaa Eplid; Þvi David og Paulus Rom. 3. Segia, ad Hogg-
orma

Tijma. Situr under Vorum þeirra, enn Diofullenn er ſier alltijd lijkur, og þad þeſs helldur, ſem hann veit ad hann hefur ſtyttre Tijma. Eg vil ei ſaa mier til Orda um̃ hina ſkadlegu Agyrne þeirra, ſem utſiuga Hws Eckna og Fodurlauſra Barna, og ſelia hinn Fatæka fyrer einn Skoo. Margann mun Gud ſiaa i hinns Almennelegu Brwdkaups-Stofu ſijns Sonar, þad er, hiñe Sijnelegu Guds Kyrkiu hier aa Jordunne; Eg ſegie, hann mun þar margann ſiaa lijkann þeim, ſem fram̃ falla i Pantſettum Klædum, Jaa, hañ mun ſiaa Blood ſinna Voladra i Loſum Klæda þeirra: Hvad ſyneſt ydur, Chriſtner Menn! Munu Menn i þvilijkum Bwninge inngaanga i Lambſins Brwdkaup? Laangt er fraa þvi: Fyrer þvi hreinſed ydur, þvoed ydur, laated af Illu, læred Gott ad giora, Eſa. 1. Giored hvad Riett er aa hverium Morgne, og frelſed þann ſem Raaned lijdur af þeſs Hende ſem underþrycker hann, ſvo ad Bræde DRottenns ecke wtfare ſvo ſem einn Elldur, ſa ed eingenn faae ſlockt, fyrer Illſku Saker ydar Athafna, ſegier DRottenn, fyrer Munn Jeremiæ, Cap. 21. Enn vilie Menn vita, hvad ad ſie hid rietta Brwdkaups Klæde, þa er þad JEſu bleſſad Riettlæte, med einne lifande Trw um̃fadmad, ſem aadur er ſagt. Enn hvad Avoxtum Trwarennar vidvijkur, ſem alldrei kunna vid hana ad ſkilia, helldur enn Byrtann vid Lioosed, þa fæ eg þad ecke betur ſagt, helldur enn David i hinum Fim̃tanda Pſalme, med þeſſum Ordum: DRottenn, hver fær ad bwa i þinne Tialldbwd, edur hver mun hvijlaſt uppaa þijnu Heilaga Fialle? Hann ſaa ed fram̃geingur Flecklaus og giører Riett og talar Sañleikann wt af Hiarta, Hver ed ecke Svikſamlega mæler med ſinne Twngu, og Naaunga ſijnum eckert Illt giorer, og leggur ſijnum Naaunga eckert Laſtlegt til, hver hann leider hiaa ſier hinn Illgiarna, enn i Heidre hefur hinn Gudhrædda, hver hann ſver ſijnum Naaunga, og ſvijkur hann ecke, hver hann giefur ecke Fie wt uppaa Okur, og tekur ecke Mwtu yfer hinn Saklauſa, hver ed þetta giorer, hann mun ſtodugur blijfa Æfennlega. Lijted nu hier, ſvo ſem i ødrum Speigle, hvernenn þeim byrie Haattudum ad vera, ſem riettelega eru til þeſſa Brwdkaups bwner: Enn vilie Menn þad ei heyra, þa heyred þo, Chriſtner Menn, hver ad urdu Endalok þeſſa Auma Manns, er vanvirdte Samſæted med almennelegum Bwninge: Binded Hanns Hendur Og Fætur, ſagde Konungurenn, Og Kaſted Honum J Hin Ytſtu Myrkur; Þar Mun Vera Oop Og Tanna Gnijſtran. Ecke þarf eg margt ad ſegia af þeſſu Fordæmingarennar Lande, þad er noog, ſem hier ſtendur: Ad Þar Sie Oop Og Tanna Gnijſtran; Og meir vantar oſs þad, ad varaſt Helvijte, helldur enn ad vier ecke nærre gietum, hverſu heitt þad ſie. Þeſſe Veſæle Madur var ecke einaſta wtrekinn wr Brwdkaupenu, helldur og var honum i Myrkvaſtofu kaſtad; Svo munu og aller þeir, er ecke eru JESU Dijrmætum Riettlætis-Kyrtle ſkrijdder, þeir munu ecke Einungis wtrekner verda fraa Auglite Guds, og Styrkleika hanns Dijrdar, 2. Theſſ. 1. Helldur og i Eylijfum Ellde brenna med Dioflenum og øllum hanns Arum. Þegar Iſrael heyrde, ad Guds Reider ſloou i HOREB, Nær Logmaaled var wtgiefed, þa hræddust þeir fyrer Elldenum, og þordu ecke nær ad gaanga: Enn hvad mun verda, þegar hanns Reide tekur til ad breña

allt til nedsta Helvijtis yfir þeim, er valla annad giordu, enn ad brioota þetta Løgmaal, og ydruduft þo alldrei Afbrotanna, edur þeynktu um, ad afplaana þau med Guds Sonar Forþienustu? Elldurinn snerti ecki Gydinga, þo gaatu þeir ei stadist ad siaa hann; Enn hvilijk mun þeirra Ofraun verda, sem i Helvijtis Elldi velltast munu fraa Einni Eylijfd til Annarar? Þar fyrir, mijnir Elskanlegir, Siaaid til, ad þier giørid ydar Utvalningu vissa, 2. Pet. 1. Iklædist DRottni JEsu Christo, Rom. 13. Þad er hans Riettlæti; Iklædist Herskrwda Rieulætisins, Eph. 6. Iklædist Bryniu Trwarinnar og Kiærleikans, 1. Thess. 5. Svo ad þier verdugir verdid i Lambsins Brwdkaupi ad standa frammi fyrir Gudi, Iskrijddir biørtu Lijn-Klædi, sem eru Riettlætingar Heilagra, Apoc. 19. Þeirrar Eylijfu Farsælldar giefe oss Gud ad nioota, Fyrir JEsu sijns Sonar dijrmæta Blood og Forþienustu, AMEN.

# Tuttugasta og Fyrsta Sunnudag eftir Trinitatis.

Gudspiallid, Joh. 4. Cap.

I Þann Tijma. Þar var einn Kongs-Madur, hvers Sonur ad siwkur laa til Capernaum. Þa hann heyrdi þad, ad JEsus var kominn af Gydinga-Landi i Galilæam, foor hann til hans, og bad hann, þad hann færi ofan og læknadi Son hans, þvi ad hann var ad mestu daudur. Þa sagdi JEsus til hans: Nema ad þier siaaid Teikn og Stoormerki, trwid þier ecki. Kongs-Madurinn sagde til hans: HErra, far þu ofann aadur enn Sonur minn andast. JEsus sagdi honum þaa: Far þu, Sonur þinn lifir. Og Madurinn trwdi þeim Ordum er JEsus sagdi honum, og gieck þadann. Enn þaa ed hann foor ofann eftir, geingu hans Þienarar i mooti honum og kunngiordu honum, segiandi: Sonur þinn lifir. Hann spurdi þa þar ad, aa hvertum Tijma þad honum hefdi batnad? Og þeir søgdu honum: J Giær um Sioundu Stundu hvarf fraa honum Kalldann. Þa formerkti Fadirinn, ad þad var umm þann Tijma, aa hvertum ad JEsus hafde sagt, Sonur þinn lifir: Og hann trwdi, og allt hans Heima-Foolk.

Exordium.

Hvad er sterkara enn Leonid? Søgdu þeir i Thimnath Fordum vid Samson, er þeir hofdu raadid Gaatu hanns: Jud. 14. Enn eg vil segia: Ad Trwinn er enn þaa sterkari, þvi hun sigrar þad Leonid af Kyni Juda, er hefur hinn frægasta Sigur unnid, sem umm Alldir heyrst hefur. Þvi lijsir hann Blessadur, er hin Cananiska þreytti vid hann, enn hann sagdi: Kona, mikil er þijn Trwa, verdi þier eftir

þvi sem þu villt. Trwudum er allt mogulegt, þvi sagdi og Frelsarinn, Matth. 17. Ef þier hefdud Trw svo sem Eitt Mustards Korn, þaa mundud þier seigia þessu Fialli: Far þadann og hijngad, og þad mun færa sig, eckert mun ydur Omogulegt vera. Hvad velldur þaa þvi, ad vier sem þo bædi vilium trwa, og trwum aa Christum, ad vier ecki faaum ollu til Vegar komid, sem vier gyrnunst? Þar liggur Svar til, þad sama sem Frelsarinn sagdi Læriſveinunum, er þeir adspurdu hann, þvi þeir hefdu ei gietad wtrekid Twnglmeina Diofulinn, hann sagdi: Vegna ydar Trwarleysu. Og fyrir þvi, ad þessa Heilaga Dags Texti giefur oss Orsok til, ad tala framar hier um, wt af Dæmi Konungs-Mannsins, þa vil eg af honum Tvennt Hugleida: 1. Veikleika Trwarinnar, og hennar Framfor. 2. Guds Giædsku i þvi, ad efla hana.

Styrk oss hier til Nаadugi Fadir, fyrir JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingin.

HVer ad verid hafi Konungs-Madur þessi, eru margar Getur aa: Lijkust er þeirra Meining, ad minni Hyggiu, er ætla hann verid haf ein af Herodis Þienurum; Þvi jafnvel þott Herodes væri ecki Konungur, helldur Fiordungs Hofdinge alleina, þa var hann þo svo nefndur af sijnum, og svo odrum eftir þeim, svo sem ad lesa er hiaa Marcum i Siotta Cap. Og hefur hann þa aan Efa Gydingur verid, þvi Gydinga Þionustu og Sidum lietst Herodes fylgia: Enn þott hann Gydingur væri, og heyrt hefdi Spaadoomana um Messiam, og af JEsu, þad hann giordi þau Verk, sem einginn kunni ad giora, þaa fæst hann ei mikid um hann edur hans Lærdoom, vegna hvers han var þo eftir sijnu Spaamanns Embætti i Heiminn sendur. Svo geingur þad morgum af oss: Vier erum skijrdir, vier erum i Christinndoominum uppaldir, vier kunnum ad þilia vorn Barna-Lærdoom, og sumir vita ad giora Grein aa honum, med wtvortis Vidurkienningu; Enn hversu ad Kraftur Trwarinnar sierijkur i Hiartanu hiaa allmorgum, þad sijnist i Lijkſernis Hattunum, þegar Gud aa ad elska fram yfir alla Hluti, þegar Naunganum aa til ad giefa hanns Misgiordir, og giora Gott hinum Volada, þad sijnist nær Holldid aa ad Krossfesta, og i Krossburdinum þegar oll Mannleg Hiaalp er wti. Orottinn var i Cana þegar þetta skiedi, þad var lijtill Bær og liggur hier um Þijngmanna-Leid fraa þeirri stooru Borg Capernaum, þar giordi JEsus þad mikla Krafta-Verk, er hann sneri Vatni i Vijn, þad var hid Fyrsta er hann giordi i þeim Stad: Þetta hefur Konungs-Madurinn heyrt aan Efa, og þvi leitar hann DRottinns Hiaalpar, enn þo ecki nema til Lijkamlegrar Adstodar, af þvi hanns Sonar Neyd þreyngdi ad honum; Enn miklu meir laa honum aa þvi, ad brwka þetta Krafta-Verk sier og sijnum til Andlegrar Hellsuboodar, þvi saa er hinn rietti Avoxtur Krafta-Verkanna, og saa er Tilgaangur DRottinns, nær hann giordi þau, annadhvort fyrir sialfann sig, edur sijna Postula: Enn Gud nadi oss, ad vier erum eins lyndir og þessi Konungs-Madur var! Medann oss lijdur vel ad ollu þvi sem Lijkamanum vidvijkur, þaa hyrdum vier ecki svo mikig um Saalena, og leitum ei Christs, jafnvel þott allt Hofudid sie siwkt, allt Hiartad

veikt, fraa Hvirfle og allt til Ilia sie þar ei nema Saar, Kaun, Beniar og Þrote: Vier leitum hanns, segie eg, ef oss brestur nockud af Veralldar Munum, þegar vier siwker erum, þegar oss brestur Atvinnu vora, nær vier Offsooker erum, og Rænginde enn lijdum: Og vier eigum so ad giora; Þvi hann er Meistare til ad hiaalpa, og vor Hiaalp kiemur fraa DRottne, sem skapad hefur Himen og Iord: Enn ad leita Guds Rijkis og hanns Riettlætis, þar erum vier so treger til, jafnvel þott þad sie þad eina, sem er Omissande, þvi giordum vier so, þa munde oss allt anad til leggiast; Og seged mier: Hvad er vorre Trw þa betur hæattad enn þessa Konungsmanns? Hann hefur ad vijsu Hofdinge vered. Nockrer ætla ad hann hafe vered hinn same og Chusa, saa ed var Armadur Herodis, hvers Kvinna Iohanna ad sijdann epterfylgde Christo af Galilæa, og þionade honum; Og er þeirra Gaata ecke Olijkleg; Þvi hier stendur um þenna Mann sijdann, ad hann hafe Trwad og allt hanns Heima-Foolk. Enn fyrer þvi, ad hann var Maktar-Madur, en um Christ hefur hann ecke odruvijsse meint, helldur enn um ein Spaamann, svo sem Eliam, Elisæum og adra svoddan, þa vill hann ad DRotten kome ofann med sier. Þesse er slijkra Fugla Tegund, ad jafnvel þott þeim ligge miked aa, vilia þeir læta sig virda framar odrum Monnum. Eins var Jairus Samkundu-Hofdinge lyndur, hver ed var somu Borgar Madur; hann beidde DRottenn ad koma med sier, og leggia Hond yfer Dottur sijna, svo sem hann giæte ecke reist hana af Daudum Fiarlægur, og hefur hann þo aan Efa heyrt þetta Dæme: En þott DRotten liete þad epter honum, þa hefur þad ei vered þess vegna, helldur ad hann giorde þad mikla Kraptaverk i Augsijn svo margra, er i fyrstunne daarudu hann. Hversu lijkt er þetta Naaman hinum Syrlendska! Er Elisæus baud honum ad þvo sig Siosinnum i Anne Jordan, 2. Reg. 5. Þa strauk hann burt i Reide-Svip, og sagdest meint hafa, ad hann munde hafa komed wt til sijn, og aakallad Nafn DRottenns Guds sijns: Hann leit aa Virdingar sijnar, enn ecke aa sinn Lijkþraa Kropp. Ecke giorde svo hin Canaanitska, ecke hin Bloodfallssiwka, ecke hiner Blindu, er saatu vid Veigen og kolludu: Herra, Sonur Davids myskuna þu ockur, Matth. 20. Þesser beiddu um Christi Hiaalp, so sem adra Olmusu, þvi þeir aattu ei miklum Veralldar Aud nie Virdingum ad treysta. Og Gud giæfe, vier villdum og þeckia þad, ad aller erum vier Drottens Þurfa-Men. Ecke gat Naaman kastad af sier Lijkþraane, med hans mikla Gulle og Silfre: Ecke gat Ezechias Konungur bætt sier Heilsuna med allre sine Makt: Og ei gat þesse Konungs-Madur tekad Kollduna fraa Syni sijnum, anars hefde han ecke til Christum komed: En miklu sijdur kunum vier ad auka oss Trwna, en Trwarveikena orsakar marg opt þad Þeckingarleyse, er vier hofum, bædi aa Gudi og sialfum oss: A sialfum oss i þvi, ad vier kollum oss eckert Omaattugt, nær ad Oskum geingur; enn aa Gude i þvi, ad vier treystum honum svo lijted, þegar Manleg Hiaalp er wte. En hvad er þo Maduren? Ein Gufa er hann, hver ed siest um Stundarsaker, en hverfur sijdan, segier Jacob: Hvad er Vijntred fremur en onur Tre? Verdur teked af þvi Efne til nockurs Verks? Segier Drottenn hiaa Ezechielem, Cap. 15. Og hvad er Madurenn aan Guds? Einn Fauskur, sem til einkis er hæfur, nema ad upphogg-

hoggvast og i Ellde brennast. Konungurenn af Egyptalande er Madur, og ecke sterkur Gud, Hestar þeirra eru Holld, og ecke Ande, segier Drottenn vid sitt Foolk, Es. 31. Er þeir treystu þessum Hofdingia framar enn Gude sijnum: Og hvad skylldu þeir þa ætla uppaa sialfa sig, sem læengtum eru minne Mattar! Enn Vantraustet aa Gude kiemur af þvi, ad Menn reiddu sig ecke uppaa hann, þegar vel gieck, helldur uppaa sialfa sig, og færdu Foorner fyrer Nete sijnu. Menn eru Ovaner þvi, ad trwa i Vonenne aa moote edr framar Von, eins og Abraham, Rom. 4. Vier vilium siaa eitthvert Medal fyrer Augunum, ef vier trwa skulum, eins og þesse Konungs-Madur: Hañ beidde DRottenn ad fara ofaann og lækna Son sinn: Ad sonnu var þar nockur Trwar-Neiste hiaa honum, enn miog svo veikur: Svo erum vier og a stundum Skape farner; Jafnvel þoott vier vel vitum, ad Gud hafe Þusund Veige til ad hiaalpa, þa er þad svo sem vier vilium skrifa hinum Allvijsa einn Maata fyrer, hvernenn hann hiaalpa skule. J Þurrvidrenu bidium vier um̃ Regn, J Regnenu um̃ Þurk, eñ ecke svo um̃ Guds Blessan; J Offsooknunum um̃ Fall Ovina vorra, eñ ecke um̃ Guds Adstod aa moote þeim; J Siwkdoomenum um̃ Heilsubeot, eñ ecke svo miog um̃ Þolennmæde: Laangt er fraa þvi, ad eg segie þad sie illa beded, þvi allt skal af Gude þiggia, eñ þo a þad ad vera med þvi Moote, ad vier kostum allre vorre Ahyggiu uppa Drotteñ, Fullorugger þess, ad hañ mune þvi vel til Vegar koma: Eñ vier verdum Opoliñmooder a stundum, ef vier ecke strax Bænheyrder verdum, og þad svo miog, ad oss verdur Lijfed leidt eins og Eliæ, eins og Job, er hañ sagde, Job. 3. Þvi giefur Gud Lioosid hinum Mootlætta, og Lijfed þeim, sem eru Angurfuller, til hverra Daudeñ ei kiemur, þoott þeir bijde eptir honum, svo sem huldum Fiesiood? Þvilijk Ord og Hugsaner pressar Mootlæted optlega wt af þeim, sem jafnvel hafa morgum kiendt og styrkt hinar veiku Hendurnar, eins og Job, enn þeim verdur riettelega svarad med Ordum Eliphas af Theman, er hann sagde vid þenna Guds Astvin: Mun hinn Daudlege vera Riettlaatare enn Gud? Mun Madurenn vera hreinne enn hanns Skapare? Vier erum hanns Verk, þvi moglar þa Leirkiered aa moote þeim sem giorde þad? Hvar fyrer eckert er annad Raad i Mootgaangenum, Born mijn, enn ad hallda stodugt aafram̃ i Bæneñe, þvi komande mun Gud koma og ecke tefia: Svo giorde þesse Konungs Madur; Þo Trwenn være veik, þa gaf hann samt ecke upp ad bidia: DRottenn svarade honum ad sonnu ecke af, enn þo i hardara Lage, ecke ad sijdur bidur hann nærre somu Ordum, segiande: Herra! Far Þu Ofann Adur Sonur Minn Andast: Og maa siaa, ad hanns Trw hefur efist vid þau Ord, er Christur talade. Laatum oss ei fara midur eñ þessum Mañe! Ei visse hañ ad JEsus var Messias, helldur ætlade hañ munde vera Guds Madur nockur, lijkur Spaamoñunum, sem aadur er sagt. JEsu Lærisveinar voru ei sañfrooder um hañs Persoonu i þañ Tijma, auk helldur þesse Okiende Madur. Eñ vier hofum heyrt svo morg Taakn og Stoormerke epter honum, vier vitum ad hañ er af Gude wtgeingiñ, vier þeckium, ad hañ er aptur til Himins uppfariñ, og hefur Moñum Gaafur giefid. Ecki þarf Gud Kraptaverkiñ til þess, ad hiaalpa oss, þau eru giord fyrer hina Vantrwudu, segier Paulus; Enn vier trwum,

og sieginst trwa; þvi er þa Trw vor svo veik aa stundum, ad vier trwum ei nema vier tokum aa, eins og þessir Galilæi, er ecki trwdu, nema þeir sæu Teikn og Stoormerki, og strax sem vier ei finnum til Bænheyrslunar i Lijkamlegum Efnum, þa kollum vier oss yfirgiefna? Vantrwinn er svo megn, ad hun giorir Almætti Guds Vanmaattugt, (ef svo mætti ad Ordi komast) þvi hun metur Guds Kraft eftir Smaamunum sijnum; Þar yfir klagar DRottinn, Zach. 8. segiandi: Af þvi, ad þad er furdanlegt i Augum þessa Foolks, skylldi þad þaa vera furdanlegt i mijnum Augum? Vitum vier ecki, ad þess nær vier erum Gudi, þess meiri hofum vier Smeck eftirkomandi Alldar; Enn nu erum vier honum alldrei nær, enn i Krossburdinum, ef vier berum Christi Ok riettilega. Segid mier, giorir Gud þa illa vid oss, ad hann svarar oss ecki af stundum, nær vier bidium um þetta Tijmanlega, til þess ad auka oss Trwna, og festa Hiarta vort vid þad eilijfa, sem vier eigum leingst vid ad bwa? Þegar Drottinn nu svaradi þessum Manni med fullri Bænheyrslu, þa segir Textinn: Og Madurinn Trwdi þeim Ordum er JEsus Sagdi Honum, Og Gieck Þadann. Svo efldist nu Trwa hanns, er skomu aadur var lijtt-trwandi, han Raadgadist ecki um vid Holld og Blood, þegar hann hafdi feingid Trwna, helldur reiddi sig Einfalldlega og med fullu Trausti uppaa hanns Ord, er han þo ecki þeckti ad fullu, og valla meir enn hann heyrt hafdi, annadhvert siaalfur, edur af odrum, sem voru i Jerusalem aa Haatijdardeiginum: Og þvi er ecki ad undra, þott Guds Born treysti honum, hverium han i sijnu Ordi er fyrir Augunum afmaaladur, hverra Kraftur hann er midt i Hormungunum, Offsooknunum, Angistinni, þvi þa þau veik eru, megna þau alla Hluti, fyrir han, sem þau maattug giorir, eins og Paulus. Þegar Konungs-Madur þessi fyrst trwdi, þaa flijtti hann sier ecki heim ad vitia um Son sinn; þar af maa marka Trw hans, þad var um Siounda Stund ad hann skylldi vid Jesum, þad svarar litlum Tijma eftir Haadeigi, hiaa oss, og ei kom hann heim fyrr enn annars Dags eftir, enn Vegurinn er ei leingri en aadur er sagt: Eins eru og þeir lyndir, sem til fulls eru bygdir aa þann Hyrningar-Stein i Zion, Es. 28. JEsum Christum; Þeir flijta sier ecki miog, segir Spaamadurinn; Þeir hlaupa ecki med Þioofnum til ad stela, ecki taka þeir til faanijtra Raada eins og Achas, Es. 7. Ei giora þeir Samband vid Daudann, nie Saattmaal vid Helvijtid med hinum Gudlausa, Es. 28. Helldur bijda þeir eftir DRottni, styrkia Huga sinn, og eignast Saalir sijnar i Þolinmædi, Luc. 21. Og sared sier temur þetta Hugarfar, i honum er Trwinn fullvaxinn, og Christur ad fullu myndadur. Og hvert skylldi eg helldur flijta mier, DRottinn, ef þu værir reidur? Þott eg upphefde mig med Edom, eins og Orninn, og byggi mier Hreidur medal Stiarnanna, þa mundir þu kasta mier ofan þadan, Obad. v. 4. Og hvert vilia þeir ellta mig, nær þu ert naadugur, nema ad þijnum Footum? Hverra Skor ad Jordinn er, og allar Þioodirnar a henni fyrir þier so sem Vatns-Dropi i Ausu; Þar vil eg flatur liggia, þar vil eg fullorugur bwa, þar vil eg hæda ad ollum þijnum og mijnum Ovinum, þar vil eg Drottinns bijda, og vardveita hans Vegu, þa mun han upphefia mig; Honum sie Lof, Dijrd og Heidur ad Eilijfu, Amen. Svo er nu mot-talad um

Veik-

Veikleika Trwarinnar og hennar Efling, eftir fylgir hid Sijdara, er eg hiet um ad tala.

Gudspiallamadurinn segir, skömu ꜳdur enn Textinn byriar, Ad JEsus Hafi Farid burt i Galilæam, þvi hann hafi sialfur vitnad, ad Spamadur hefdi ei Virdingu i sijnu Fodur-Landi. Margir hallda, ad þar med sie Nazareth meint, sem var Fooster-Jörd DRottinns, og svo er hun kollud hiꜳ Matthæum, Cap. 13. Enn þessi Borg var og svo i Galilæa, þvi getur þad eins vel Judæa edur Gydinga-Land verid, hvar hann fæddur var: Enn hvernig sem þvi er varid, þꜳ reisti hann fram hiꜳ hinni Vantrwudu Nazareth i þetta Sinn, um hveria Matthæus sijdann skrifar, ad hann hafi ei giort þar morg Kraftaverk Sokum þeirra Trwarleysu, og ferdadist til Cana, hver ed lꜳ i þeim Parti Landsins, er nefndist Galilæa Heidingianna, þar lꜳ og Capernaum, er var hin Frijdasta Borg af þeim Tiju Stodum. Þetta Land byggdu margir Heidingiar, þar voru Tyrus og Sidon, þadann var hin Canaaniska, er þreitti vid DRottinn; J. Capernaum var Hundrads-Hofdingiñ, hvers Trw hann svo miog hroosadi. Þetta kiemur mier til ad prijsa hanns Fodurlega Giædsku i þvi, ad snemma tyok hann til þess Blessadur, ad lijta til vor Heidingianna, jafnvel þoott hann sier i Lagi væri sendur til fortapadra Sauda af Hwsi Jsraels. Ecki er ad efa, ad þau morgu Kraftaverk, er hann giordi i Capernaum, er nefndist hanns Borg, þau hafa snwid morgum Heidingia ꜳ Lijfsins Veg. Enn lijtum nu til vor, Christnir Meñ! Smꜳ voru Upptok Christnibodsins hiꜳ oss i Fyrstunni, og ecki var liwflega ꜳ mooti tekid þessari Guds Giof: Vor Christiñdoomur var og svo miog i Veikleika fram eftir Olldunum, þo hofum vier, sem nu lifum, Og svo Fedur og Forfedur vorir til þess fundid, ad þad er satt sem DRottinn segir i Eftirlijkingunni, Matth 23. Ad Himnarijki sie lijkt Mustards-Korninu, hvert ad Einn took og sꜳdi i Akri sijnum, hvert ad er hid minnsta af Sædunum, enn þegar þad vex upp, er þad hid stærsta af Kꜳl-Grosunum, og verdur ad einni Eik, svo ad Fuglar Himinsins bwa sier Hreidur i Greinum þess. Svo hefur nu Gud eblt Christilega Trw hiꜳ oss, sem i Fyrstunni ei vorum nema lijtid Sædi; Þvi ei kunnum vier ad neyta þvi, ad ei bwi Christi Ord rijkuglega vor ꜳ medal. Vier hofum heyrt hanns Kieñingar, hañs Kraftaverk, hanns Pijnu og Dauda, hanns Upprisu og Himnafor, svo ad JEsus Christus er oss fyrir Augum afmꜳladur Krossfestur ꜳ medal vor, ei sijdur enn þeim i Galatia. Gud giæfi, ad vor Christinndoomur þar eftir auglijsti sig i Trwarinnar Avoxtum og Kiærleikans Verkum, svo vier þecktum og findum til, ad Guds Rijki væri inni hiꜳ oss. Menn heyra ecki, ad DRottinn hafi stadnæmst i neirni af Galileæ Borgum, fyrr enn hann kom til Cana, þar hafdi hann ꜳdur giort þad mikla Kraftaverk, er hann sneri Vatnei Vijn, svo sem hier ad framann er umgietid, ꜳn Efa til ad reyna hvern Avoxt ad Bæiar Meim hefdu fært þar af, og hvad þeim hefdi i Trwnni framfarid; Enn þad mꜳ merkia af hanns Svari vid Konungs-Manninn, ad hann ei hafi fundid fyrir sier allt ad Oskum, þvi sagdi hann: Nema Þier Siaid Tꜳkn Og Stoormerki, Þꜳ Trwid Þier Ecki. Hann talar ecki til hanns alleina, helldur til allra þeirra sem nꜳlægir voru,

Svo

ſvo ſem bendande til þeſs, ad jafnvel þoott þeir medtæke hann vegna Kraptaverkanna, ſvo ſem Gudſpiallamadurenn ſegier, þa nædu þau samt ecke þvi Maale, hvar fyrer þau giørd voru, ſem var, ad trwa þad hann være ſaa ſem koma ſkyllde; Hvar fyrer hann og viiſade Johanni, edur, riettara ad ſegia, Johañis Lærisveinum til þeirra. Þannenn breiter Guds Fodurleg Giædſka einneg vid oſs, til ad vekia i oſs Trwna og adrar Chriſtelegar Dygder: Hvad optlega ſtraffar hann i oſs Vantrwna, Bænarleyſed, Avaxtarleyſed, og Oþolennmædena, þegar hann talar vid oſs i ſijnu Heilaga Orde! Vel ſie þeim, ſem liaa þvi Eyrunn til nockrar Epterteektar og Um̃bootar Lijferneſins! Enn Gud naade, ad þad vill ei alltijd aa epterfilgia! Vier heyrum Guds Ord med Leidendum aa ſtundum, eins og Iſraels Syner aatu Manna aa Eydemorkuñe, og þvi verdur oſs ſoo faatt til Raada i Angiſtenne, Jafnvel þoott hwn ſie þad Verkfære, med hveriu ad Gud um̃ſkier þau Oum̃ſkornu Eyrun og Hiortun, ſem ecke aa annann Veg heyra nie trwa vilia. Ecke ſneriſt Ephraim til Guds, fyrr enn hann var typtadur, ſoo ſem lijfadur Kaalfur, Jer. 31. Ecke liede Manaſſes honum Eyrun, fyrr enn hann var beigdur i þwngum Jaarnvidium: Ecke hlijdnadeſt Juda honum, fyrr enn hann lærde þad af Anaudenne i Babylon: Og ecke munde þeſſe Konungs-Madur hafa ſkipaſt vid Ord DRottenns, nema hanns Sonur hefde leiged Daudſiwkur i Capernaum. Svo efler nu DRottenn Trwna i Kroſsburdenum: Og er þad Maala ſannaſt, ad þad ſem Omøgulegt er fyrer Monnum, þad er møgulegt fyrer Gude. Þeim ſem eru aan Guds i Heimenum, þeim er Mootlæted hin meſta Orſøk til Hugarviijls, þad tekur allann Dug wr þeim, ſem ecke Gude treyſta; Enn hañ, ſem reider ſig uppaa Gud, hann lætur DRottenn vera ſitt Hiartans Traauſt og Hlutſkipte, þoott ad Lijf og Saal vanmegneſt; Þeſs gietur Jacob i hanns Piſtils 1. Cap. ſegiande: Halldeed þad fyrir hinn meſta Fognud, Brædur mijner, ſvo opt ſem þier rated i Jmiſlegar Freiſtingar, vitande þad, ad Reynſla ydar Trwar verkar Þoleñmædena. Hvar fyrer verkar hun þa Þolennmædena? Þviad ſvo leinge ſem þar er einn Trwar-Neiſte i Mannſins Hiarta, þa er hann alldrei aan Guds, hverſu lijtell ſem hann er, Enn Guds Kraptur er alldrei lijtell, þo hann bwe i Litlu, þeſs vegna fullkomnaſt hañ i Breiſkleikanum, ſagde hann ſiaalfur vid Paal; Þar fyrer ſkrifar ſaa Guds Madur ſvo kunnuglega hier um̃ til Romveria, Cap. 5. Vier hrooſum oſs af Hormungunum, ſegier hann, vitande Hormungenn verkar Þolennmæde, enn Þolennmædenn Reynſluna, eñ Reynſlann Vonena, enn Vonenn lætur ei til Skam̃ar verda; Þviad Elſka Guds er wthellt i Hiortum vorum, fyrer Heilagann Anda, ſem oſs er giefenn. Hvernenn verkar nu Hormungenn Þolennmædena? Þviad hvar eingenn Hormung er, þar orkar ecke aa Þolgæded, Þvi verkar Þoleñmædenn Reynſluna. Um̃ Ezechiam Konung ſtendur ſkrifad, 2. Chronic. 32. Ad Gud hafe freiſtad hanns, ſvo ad uppſkaatt yrde hvad hann i Siñe hefde; Ecke fyrer þvi, ad Gud viſſe þad ecke, þvi hvar fyrer ſkyllde hann ecke vita hvad med Mañenum bijr, ſem Mañenn ſkapad hefur? Helldur ad hann reynde ſiaalfann ſig, hvad mikla Krapta hann hefde þeiged, til ad bera Guds Alag, ad hanns Trw og Von efldeſt

þeſs

þess meir framveigis; Og þanninn verkar Polinmædinn Reynsluna, Og Reynslan Vonina, Þviad Elska Guds er wthellt i Hiortum vorum: Vier lijdum, Vier freistunst, Vier þolum, Og trwum þo i ollu þessu, þviad vier elskum hann, sem reynir oss, og vitum, ad hvern þann Son sem hann elskar, Þann agar hann. Guds Sonur var svo yfirkominn i Pijslunum, ad hann beiddi ad hinn swri Reidinnar Kaleikur mætti fraa sier takast, ef þad være Fodursins Vilie, Og þo var honum Elskann svo megn til vor Syndugra, ad hann þreytti vid Daudann, og gaf ecki upp, fyrr enn Þad Var Fullkomnad. Hier med hefur hann þad afrekad oss, ad vier hann elskum, Allir þeir, sem aa hans Nafn riettilega trwa, Þviad i þvi er Kiærleikurinn, Ecki ad vier elskudum Gud, helldur ad sialfur Gud oss elskadi, segier Johannes, 1. Pist. 4. Þvi skylldi þa ecki Elskann til hans vera svo rijk i oss, ad vier lijdum þad med Trw og Polinmædi, sem hann aa oss leggur, Til þess, ad verda honum lijkir i Angistinni, Svo vier med honum fagna meigum i Dijrdinni.

Þegar DRottinn hafdi nu svarad þessum Manni nockud hardlega, og hann gaf þo ecki upp ad bidia, Jafnvel þott þad væri i Veikleika, þa vill hann Blessadur ecki wtslockva þenna lijtt logandi Hor-Kveik, Helldur segier hann: Far Þu, SOnur Þinn Lifir. Þad Ord, sem i Textanum stendur, gietur og merkt, Hann Lifir Heill: Hann sem vissi hvad med Manninum bioo, Hann þeckti, ad ei mundi þessi Madur svo Polinmoodur edur Trwarsterkur, svo sem hin Canaaniska, Þvi tefur hann ecki framar fyrir honum. Merk hier þad, Christinn Madur, ad DRottinn veit Tijma og Stundir, nær Maal er ad hiaalpa, Þvi freistar hann einskis yfir Megn fram, svo ad Trwinn þrotni ecki: Fyrir þvi, Jafnvel þott ecki þykist þu gieta borid meira aa Stundum, Þa vit þo, ad hans Stund er enn þa ecki kominn, Sem ad hefur Tijma og Hentugleika i sinni Hendi, Act. 1. Bijd þvi stoduglega eptir DRottni, þa mun hann hneigia sitt Eyra til þijns Akalls, Ps. 40. Eckert sijnilegt Medal saa þessi Konungs-Madur til þess, ad Barni sijnu mundi hoolpid verda, Og þad braast honum, er hann vonadi hellst eptir, Sem var, ad DRottinn mundi fylgiast ofan med honum, þo Trwdi Hann Þessum Ordum, Er JEsus sagdi. Sælir eru þeir sem ecki siaa og trwa þo, sagdi DRottinn vid Thomam, Af þvi hann ei villdi trwa, Nema hann tæki aa honum: Vier kollum þa sæla, er Krapta-Verkinn saau, Enn hann kallar oss enn sælli, Er trwum aa hann, aan þess, ad vier siaaum þau: Ecki villdu Teiknin alltijd þess orka hiaa Gydingum, ad þeir sneruft og yrdu hoolpnir; Þeir spurdu: Hvert Teikn sijnir þu, ad þier leyfist þetta? Þegar hann rak wt þaa er selldu og keyptu i Musterinu, Og hann giordi svo morg Teikn aa medal þeirra: Þeir leitudu af honum eptir Teikni af Himni, þegar hann hafdi wtrekid Dioful þann er Dumbi var, Luc. 11. Eins og þad væri ecki i sialfu sier noogu berlegt Teikn. Hann formællti þeim Oþacklaatu Borgum, Corazin og Betsaida, Hvar hann hafdi giort hin flestu Teikn, og henni, Sem jafnvel allt til Himins var upphafinn, Luc. 10. Þessari somu Capernaum, Er hier gietur um i Gudspiallinu; Enn margann hefur hann leidt aa Lijfsins Veg fyrir einsamlann Ordsins Krapt, og Heilagann Anda, er verkar þar i, Hvers vegr og notid hofum, sem ecki siaa um

og trwum þo : Ad sønnu eru Krapta-Verkinn til þess giørd , ad efla Christilega Trw ; Þad siaaum vier berlega af þessu Dæmi , Sem nu er høndlad uḿ : Þessi Madur kom til JEsum , af þvi hann heyrt hafdi þad sem giørdist i Cana og annarstadar , eñ ecki i þeirri Meiningu i Fyrstunni , ad læra Christinndoominn af hønum , Eins og Nicodemus , eñ þo trwdi hann þeim Ordum , Er JEsus sagdi hønum i Lijkamlegum Efnum , uḿ Bata Sonar sijns , enn sijdann , er hañ fieck ad reina þad er hann trwad hafdi , þa segier Textiñ : Ad Hann Trwad Hafi , og allt Hanns Heima-Foolk. Med hverri Trw ? Ecki ad hann væri eınn Almennilegur Spaamadur , helldur Messias og Frelsari Heimsins , Þvi svo merkir þetta Ord , Ad Trwa , opltega i Ritningunni : Þetta Dаasemdar-Verk var ecki helldur Ydiulaust ; Þad kom Jairo til ad bidia uḿ Lijf-Giøf Doottur sinnar ; þad leiddi Hundrads-Høfdingiann til ad leita Hiaalpar sijnum Daud-siwka Þioon. Vier høfum og þessi Unduc heyrt , og morg oñur fleiri : Laatum þau svo styrkia Hiarta vort i Trwñi , ad alldrei vantreystum vier hønum , Sem er svo vijs , Svo goodgiarn , og Maattugur , Hvad sem oss kann til Handa ad bera ; helldur glediunst , svo sem Petur oss segier , Ad vier hryggdir verdum uḿ lijtinn Tijma , Ef Þørf giørist , med Ymislegum Freistingum , Svo ad Reynsla vorrar Trwar verdi fundinn miklu dijrmætari , enn Gullsins ; Hvert ed forgeingur , og verdur þo i Elldi reynt , til Lofs , Heidurs og Dijrdar , Þegar JEsus Christus verdur Opinnberadur , Hvern vier elskum , enn siaaum þo ei , hvern vier nu ecki siaandi , Enn þo Trwandi aa hann , glediunst med Oumrædilegum og Dijrdlegum Fognudi , Berandi wr bijtum Verdlaun Trwar vorrar , Hvert ad er Saaluhiaalpinn. Hennar niootandi ad verda , Unni oss DRottinn Allsheriar Konungur eilijfrar Dijrdar , Fyrir JEsum Christum , AMEN.

# Tuttugasta og Aññan Suñudag eptir Trinitatis.

Gudspiallid , Matth. 18. Cap.

OG JEsus sagdi til siña Lærisveina. Himnarijkt er lijkt vid eirn Konung , sem reikna villdi vid Þioona sijna : Og er hann took til ad reikna , Kom eirn fyrir hañ , saa ed hønum var skylldugur uḿ Tiju Þusund Punda , Eñ þa hañ hafdi þad eigi til , sem hañ skylldi giallda , Skipadi HErrañ ad selia hañ , hañs Hwsfreyu , og so Børniñ , og allt þad hañ ætti , og borga þar med. Eñ saa Þioon fiell fraḿ , Tilbad hañ og sagdi : Haf Þoliñmædi vid mig , allt skal eg þier giallda. Eñ Herrañ saa Aumur aa þeim Þioon , og liet hañ lausañ , og gaf hønum upp alla Skulldina. Eñ þa hañ gieck wt , fañ hañ eirn af sijnum Samlags Þioonum , saa ed hønum aatti ad giallda Hundrad Peninga , Þañ sama Handtook hañ , greip fyrir Kverkar hønum , og sagdi : Gialld þad þu ert mier skylld-

skylldugur. Og hañs Samlags Ploon fiell fram til Foota hañs, bad hañ og sagdi: Haf Poliñmædi vid mig, Pvi allt skal eg giallda þier. Eñ hañ villdi ecki, Helldur foor burt, og liet hañ i Dyblissu, þang ad til hañ hafdi borgad sijna Skulld. Eñ sem hañs Sam=Ploonar sau hvad skiedi, urdu þeir miøg hryggver vid, Komu og kuñgiørdu sijnum Herra, allt hvad ed giørst hafdi. Pa kalladi hañs Herra a hañ, og sagdi til hañs: Pu Illur Ploon, Alla þa Skulld gaf eg þier upp, af þvi þu badst mig. Hvert byrjadi þier þa ecki Myskunsomum ad vera vid þiñ Samlags Ploon, Lijka sem þad eg var þier Myskunsamur? Og hañs Herra vard reidur, og ofurselldi hañ Kvølurunum, þangad til hañ hafdi borgad allt þad, hañ var hønum Skylldugur. So mun og miñ Himneskur Fadir giøra vid ydur, ef ad hvør ydar sem eirn fyrirgiefur ecki wt af Hiarta, sijnum Broodur, hañs Misgiørdir.

## Exordium.

HAd er skrifad um Augustum Keysara, Ad þa þar Eitt Sinn doo eiñ Riddari, sem liet svo miklar Skulldir eptir sig, ad hanns Arfur vanst hvergi nærri til Lukningar, Pa hafe Keysarinn bodid, ad kaupa Sæng hanns til Handa sier, þviad Umhyggia Stioornarinnar hiellt Voku fyrir hønum optlega: Teiknandi þar med, ad sa Madur mundi Svefnsæll verid hafa, Er hann gat þo nockurn Tijma sofid, svo miklum Skulldum vafinn: Pvi hann sem til Laans tekur meir eñ hañ fær golldid, Hañ hefur Frelsid sellt, Og er Præll hiñs, sem hann Skulldbundinn er: Pess gietur hinn Vijsi, er hann segier: Sa ed byggir sitt Hws med añars Fie, Hann er lijkur þeim, er safnar Steinum ad Grøf sinni, Syr. 21. Enn Prællinn hefur eingar Raadir, Nema þær sem hanns Lavardur vill hønum eptirlaata. Hvernig sem þvi er nu haattad vor a medal, Pa tekur þad yfir, ad vera Okvittur vid hiñ Stoora Himins og Jardar Konung, Sem ecki þarf ad leida Votta ad Skulld sinni, Ecki sækia hana med Løgum, Ecki mørg Umsvif hafa til Atfarar, Helldur kann ad varpa Lijfi og Saalu i eilijfann Elld, nær hønum þocknast, Pvi veit eg ecki hverninn sa kann ad hafa nockra Roo edur Hvijld, Er veit sig Okvittann vid slijkann HErra, Svo sem Skalldid segier: Hver vill vænta sier Værd og Frid, vera Osaattur þo vid Gud? Enn þad eru þo allir þeir, er ei vilia tilgiefa sijnum Broodur hanns Misgiørdir, Svo sem oss i þessa Dags Evangelio berlega kiennt verdur, Af hveriu vier Tvennt Hugleida vilium: 1. Hvad mikid og hverninn Gud oss fyrirgiefi. 2. Hvad mikid og hverninn vier eigum Naunganum ad fyrirgiefa.

Hiaalpa oss i þessu Gudi, rædslunnar Erindi, Naadugi Fadir, Fyrir hann, sem hefur betalad allar vorar Sektir, Þinn Son JEsum Christum, AMEN.

Utleggingin.

Hversu mikid ad Gud oss fyrirgiefi, verdur ecki fullsagt; Ef nockur vissi hvad oft hann syndgadi, þa mætti hann kannskie nærri gieta hvad mikid hønum tilgiefid være, enn David kallar þad Omøgulegt, er hann segir: Hver skilur hvad oft hann syndgar? Þo vilium vier nu fyrst Hugleida, hvilijkann Riett Gud hefur til vor. Miklu er hann stærri enn sa, er vier eigum yfir vorum Vinnu-Dijrum, þvi ecki høfum vier skapad þau, enn hann hefur giort oss, segier David, Ps. 100. Og þegar vier høfdum skotist undir Andskotann, og vorum i hanns Valldi, þa hefur hann Endurleyst oss, þvi þier erud Verdi keyptir, segir Paulus, 1. Cor. 6. Ecki med Forgeingilegum Hlutum, Gulli og Sylfri, helldur med JEsu Christi Saklausu Dijrmæta Bloodi, hver ed hefur giefid sig Lausnar-Gialld fyrir alla; og þegar vier svo Endurleystir vorum, hefur hann helgad oss, þvi Guds Andi hefur kallad oss i hanns Vijngard; Fyrst i Skijrninni, sijdann Daglega i Ordinu og Sacramentunum, svo vier erum ecki vorir eiginn, svo sem Paall ad Ordi kiemst, og þad er riett til vor talad, sem DRottinn sagdi vid sitt Foolk, Esa. 44. Þu ert minn Þræll Jsrael, eg hefi frelsad þig: Enn til hvers erum vier þa skapadir, frelsadir og kalladir? Ecki til ad vera Jdiulausir, helldur til ad Erfida, enn allra sijst til ad skiema edur spilla hanns Akri; Øllum af oss hefur hann sitt Pund i Hendur feingid, sumum meira, sumum minna, enn allir hafa noog, þegar kiemur ad Reikningsskapar Deiginum: Þivon þessi var skylldugur Konunginum 10. Þusund Punda, þad eru 60. Sinnum Hundrad Þusund Cronur, þetta var eingin Smaa-Skulld; Enn þo er þad meira, sem Gud hefur oss laanad, sem er Lijkami og Saal, hver Gud skoop i Ondverdu, eftir sinni Mynd, hver hann Endurskoop, fyrir sijns Sonar Blood i Heilagri Vatns-Laug, hver og Daglega eiga fyrir Hellagann Anda ad Endurnijast eftir hanns Mynd, sem þau skapad hefur: Enn gietum vier nu svarad Gudi þessari sinni dijrmætu Skiepnu jafngoodri? Laangt er fraa þvi, ef vier niootum oss ei Fulltijngis. Hefdum vier wtaf daaid vid Skijrnar-Saaiinn, þaa vorum vier svo ad kalla jafngoodir, enn hversu oft hefur nu slettst uppaa vort Skijrnar-Klædi sijdann? Lijkaminn er hinn Oædri Partur vors Skapnadar, þo eru bædi Saalinn og hann med Guds Bloodi Endurleyst: Hendurnar aattum vier ad brwka til ad Erfida, margur hefur lagt þær samann med hinum Lata; Til ad hiaalpa Naaunganum, enn sumir hafa wtriett þær til ad meida hann. Augun til ad siaa Aumur aa þeim Voludu Guds, Margur hefur stungid þau wt, þegar oss hefur giefist Orsok þar til, enn ecki þegar þau hafa hneixlad oss: Eyrun eru oss giefinn til ad heyra Guds Ord, Þeim læsa Menn fyrir þvi optlega, enn liwka þeim upp fyrir Hiegoomanum; Sumir fyrir skammarlegum Ordrædum og fijflslegu Hiali: Munn og Twngu høfum vier þeigid til ad lofa Gud, og ad hiaalpa Naaunganum, til ad tala Maali Eckiunnar, hins Fodurlausa, og hins Undirþryckta. O Vor Gud; Vertu Naadugur! Hvad margra Þusund Punda Skulld ad þetta verdi, maa raada, ecki einasta af Tregleikanum til Bænarinnar og Losgiordarinnar, Helldur af svo margri Vanbrwkun Twngunnar, Gudlasti, Roog, Lygi, Svardogum, Bakmælgi, Og allri þeirri Ohæfu, Er Spilling Naatturunnar leikur sier ad,

ad, svo sem odru Tabli; Ad eg faai mier ecki til Orda, hversu illa vier hondlum med þessa Tialldbwd Saalarinnar, þar vier briootum optlega nidur þad Guds Musteri, med Ohoossamri og Oskickannlegri Umgeingni. Og ef þar nu fellur þvilijkur Avoxtur af Lijkamanum, hveriuin vier alldrei svarad faaum, meir enn Pioon þessi sijnum 10. Þusund Pundum, hvad mun þaa ecki af Saalunni falla? Hofum vier brwkad Tilhneigingarnar til ad elska Gud og Ottast hann, Viliann til ad stunda þad honum lijkar, Skynsemina til ad æsa sig i þvi, sem vors Fodurs er? Og ecke miklu helldur aa mooti honum, enn hver odrum til Skada, og Fiandanum til Pioonustu?

O! Vei, O! Vei, hversu diwpt erum vier þa socknir nidur i Afgrunn Skulldanna! og væri þo allt goodra Gialldaverdt, nema ad vier afræktum þann Fiesiood, er oss er bodinn af Einskiærri Naad, til ad bæta allt þetta fullum Bootum, og færum illa med sialfst Lausnar-Gialldid, þad er JEsu dijrmæta Blood, sem hreinsar oss af ollum vorum Syndum. Oss er vitannlegt, ad i Heilogu Altarisins Sacramento verda þeim ollum Skullðirnar uppgiefnar, er þad verduglega medtaka; enn hvad segir Paulus um hina? Segir hann ecki, ad þeir eti og drecki sialfum sier Doom? Þad er Fordæmingu: Og segid mier þa: ad hveriu mun þeim gagna Saattmaalans Blood, er hallda þad svo Almennilegt, og troda Guds Son undir Footunum? Vier vitum, ad heilagur Andi upplijsir oss og helgar med sijnum Astgiofum: Hann leidir þa i allann Sannleika, er sier laata stioorna af honum, hann er Pantur Arfleifdar vorrar; Enn hversu oft hofum vier nu mootstadid honum? Hvad tijdt hofum vier hryggt hann, hvad þraasinnum hofum vier nu slockt hann, med vijsvitandi Mootgiordum og Bodorda-Brotum i giegn Gudi, og leigid i þeim ecki all-lijtinn Tijma, Stundum þvert aa mooti Samvitskunni? svo vier hofum mist Naadina, og hefdum hana ad fullu mist, nema Guds Fodurleg Giædska hefdi runnid aa mooti oss Fortopudum Sonum; Og af þessu, sem nu er sagt, sem þo er eingannveginn haalfsagt, þaa kann hvers eins sannydrandi Manns Hiarta ad dæma, hversu mikid ad Gud honum Daglega tilgiefi. Enn hverium tilgiefur hann þa, edur hveria Adferd brwkar hann i þvi? Þad sijnir oss Textinn: Hann Reiknast Vid Pioona Sijna; Svo giorir hann vid oss, hann kallar oss til Reikningsskapar, ad standa Skil aa Ordum, Giordum og Hugrenningum; Svo kalladi Gud sialfur Adam, er hann syndgast hafdi, svo kalladi hann Ninive Borgar Menn fyrir Jonam, svo stefndi hann David til Reikningskapar fyrir Nathan Spaamann, svo stefndi hann ollu Foolki aa Holldtekiu-Dogum DRottinns, med Predikun Johannis Skijrara, svo stefnir hann oss enn i Dag af Munni sinna Pienara, þeir hafa hanns Krofu i Hondunum, þad eru hans Tiju Laga Bodord, vor Medkienning er skrifud i Book vorrar Samvitsku; Hver sem þetta Tvent samanber, hann mun finna, ad hann ecki einasta er 10. Þusund Punda skylldugur, helldur og svo mikid aa mooti hveriu Bodordi af þeim Tiju, er vier aattum upp ad fylla. Enn þoott Menn heyri þetta nu svo oft, þaa eru þo ecki allir svo liwfir aa ad kannast vid Skulldina, og enn sijdur ad giallda, þvi þad er ei til, er giallda skal, hiaa sialfum oss.

Vid svoddann Skullda-Þrioota brwkar hinn Riettlaati Konungur svo sem nockurskonar Hardrædi, Og skipar Ad Selia Þa, Þeirra Konur Og Born, og Allt Hvad Þeir Eiga; Svo selldi Gud sitt Foolk Israel, Nær þeir voru honum Þverbrotnir, þar um spaair Moyses, Segiandi; Devt 32. Hverninn elltir Eiñ Madur Þusund Israels Menn, Og Tveir reka 10. Þusund aa Flootta? Mun þad ei þess vegna, ad þeirra Gud hefur sellt þa? Þar um kvartar David, segiandi: Ps. 44. Þu hefur sellt þitt Foolk fyrir eckert, Og ei aabatast af þeirra Verdi: Svo selur hann þa enn i Dag, Sem ei vilia skipast vid hanns Þienara Aminningar, Þegar hann leggur aa þa Krossinn, tekur af þeim Heilsuna, Þeirra Kvinnum og Bornum, sem haangir af þeirra Saalu, Eins og Benjamins af Jacobs; Sviptir þa Tijmannlegri Blessan, Edur giefur þa i Valld Ovina sinna, ad ei skuli þeir verda Ofurselldir i fraaleitt Siñi, eins og Pharao, Achab og Jeroboam, sem var selldur til ad giora Illt, Hveria hañ hafdi þo aadur fyrir sig kallad, og er þad stoor DRottinns Naad, ad hann breitir þannig vid Syndarañ, aadur eñ hañ hefur uppfyllt Mælir Syndanna. Þegar nu svo ber vid, þa trwi eg flestum komi til Hugar, ad tijsta eins og Tranann, og kurra eins og Dwfann, og ad bidia med þessum auma Þioon: Haf Þolinnmædi Vid Mig, Allt Skal Eg Þier Giallda. Gud giæfi, ad saa Þanki væri stodugri hiaa oss, Eñ hann var hiaa honum! Eñ hvad skulum vier þa gialda? Hvad aa Snaudur fyrir ad giefa? Þoott vier lifdum Eingla Lifnadi, wr þvi vier snerunst til Guds, Þa ættum vier ad jaata: Onijtir Þioonar erum vier, auk helldur ad vier faaum hina minnstu Synd afplaanad af oss til. Þetta er Hugguninn alleina, ad Herrann Saa Aumur A Þeim Þioon, Og Gaf Honum Upp Alla Skulldina. I Uppgiofinni er oll Lwkninginn, I Myskunseminni oll Fullnægiañ, I Christi Forlijkun oll Fridþæginginn: Eñ er hun þa alldeilis giefins? Ad sonnu, ad voru Leiti, enn dijrt hefur hun kostad vorn Borgunar-Mann, Þvi hann gaf sitt Lijf wt fyrir sijna Saudi, Joh. 10. Minn HErra JEsu, Eg hura til þess, Er DRottinn segier fyrir Muñ Esajæ, Cap. 13. Um þær Hormungar, er Chaldæi mundu lijda, af þeim Medis og Persis: Eg skal þad giora, ad einn Daudlegur skal verda dijrmætari enn hid besta Gull: Teiknandi þar med, hvilijkur ad verda mundi Grimleiki Ovinaña, ad Lijf Mañsins mundi ei falt verda fyrir nockurt Verd. Enn hvad var aumt Mannkyn þess, miñ DRottiñ, ad þad mætti ei Endurleysa, Nema med þijnu Bloodi, O Gud! Svo mikil var Brædi Fodursins, Svo mikid hanns Riettlæti, Svo mikil Stærd Syndarinnar, ad hin minsta Yfirsioon vard ei leyst med allrar Veralldarinnar Aud, Og svo dijrmæt var þessi Skiepna, sem i Ondverdu var eptir Gudi skopud, þar fyrir bar Veralldarinnar Skapari Veralldarinnar Syndir; og maa hier, medal annara, af Stærd Lausnargialldsins marka Þijngd Skulldarinnar, sem upp er giefinn. Þegar Syndarinn nu svo framkiemur fyrir Naadar-Stoolinn, med aangraadu Hiarta, I Krapti JEsu Forþienystu, þa er honum Uppgiofiñ vijs: Þvi hvar sem ad Syndiñ yfirgnæfir, Þar yfirgnæfir þo Naadiñ miklu framar. Enn hvilijk Uppgiof? Hann Gaf Honum upp alla Skulldina, segier Textiñ: Svo

fer

ser nu Gud ad tilgiefa Misgiørdina, Þegar hann er Fridstilltur, Þvi brwkar Ritningin þessa Ordshættu: Ad hann kasti vorum Syndum i Hafsins Diwp, og vilie þeirra ecki ad Eilijfu minnast: Ad hann giori oss þær svo Fiarlægar, sem Austrid er Vestrinu. Hvad segier þu, DRottinn minn! Er þu talar um, hversu lijtid Foornirnar gylldi i þijnu Augliti, Esa. 40: Fiallid Libanus mundi ecki duga til ad brenna, Og øll þess Dijr mundu ei hrøckva til Brennifoorna: Enn þu, vor Gud, Sem allt þetta nægir ecki, Þu lætur þier nægiast med ydrandi Manns Taar, Þau sløckva Elld þinnar Reidi, Þau deigia þad Staalid af nordrinu, þau leggia Bønd a hann, sem Diøfulinn bundid hefur; Þu, fyrir hverium ad Þioodirnar eru ecki meir enn Vatns-Dropi i Ausu, Og svo sem Dupt i Metaskaalum, Þu ert ænægdur med einn Harmþrwnginn og Sundurknosadann Anda: Hvar fyrir? Ecki fyrir vorrar Ydrunar Skulld, sem ad jafnvel er Synd af vorri Alsu, Helldur fyrir JEsu Blood, Hvert ed teingist vid Syndarans Taar i Metaskaalinni a moots vid þitt Riettlæti. Þegar DRottinn brixlar Jerusalem um sijna Vanrækt og Þeckingarleysi, Þa segier hann hiaa Esaiam, Cap. 50 Hvar er su Skilnadar-Skraa, Er eg gaf ydar Moodur? Edur hver er saa, af mijnum Kaupanautum, er eg hefi sellt ydur? Siaa, þier erud fyrir ydar Raanglætingar selldir, og sokum Fraahvarfs ydar Moodur, Er hun ein laatinn: Og þo segier hin Eilijfa Giædska fyrir Munn sama Spamanns: Talid þad sem Jerusalem er þooknanlegt, og predikid henni, ad hennar aakvardadur Tijmi sie uppfylltur, Hennar Raanglæti sie betalad, hun hafi feingid Tvofallt af Hendi DRottinns fyrir allar hennar Syndir: Þessi allra Hugggunarsamleguſtu Ord, Eru svo sem Inngaangur til Spaadoomsins um hinn Fyrsta Nya-Testamentisins Ydranar-Predikara, Johannem Skijrara. O minn HErra JEsu! Hver hefur þad Gialldid lokid? Hver nema þu, Gud? Hver ed i þoru Holldi lijdandi hefur oss tvøfalldann Fiesiood afrekad, sem er, Fyrirgiefningu Syndanna, og eilijft Lijf; Þessi er Audur þijns Rijkis i øllu Evangelio, Hverium þu, Konungur Dijrdarinnar, af Einskiærri Naad wtbijtir Þegnum þijnum. Nær vier heyrum Moysen krefia oss Skullda þeirra, Er vier eigum Gudi ad giallda; Þa møglar Holldid, þad geingur honum ecki betur hiaa þvi, helldur enn hiaa sijnum Eiginn i Sydimørkuni: Þad vill laata tala þad, sem þvi er þooknanlegt; Enn hasta þu a þad, DRottinn, Svo þad þeigi, Straffa þad, svo þad hræri sig ecki, Ogna þvi, Þvijnga þad, svo þvi svijdi, enn tala sijdann þad, sem Jerusalem er þooknanlegt, sem er, ad oss sie øll Skulldinn uppgiefin, Og laat oss ecki safna þeim sijdann: Og er þad svo wttalad um hid Fyrra.

Eptirfylgir hid Sijdara med faaum Ordum ad Hugleida. Textinn segier: Enn þa Hann Gieck Ut, Hitti Hann Einn Af Sijnum Samlags-Þioonum, er Honum Atti Ad Giallda 100. Peninga, Þann Sama Handtook Hann, Greip Fyrir Kverkar Honum, Og Sagdi: Gialld Þad Þu Ert Mier Skylldugur. Ecki efast eg um, ad þessi vondi Þioon hefur nærsta Bliwgur, Hræddur og Skialfandi verid, Þegar hann stood frammi fyrir Konunginum, og heyrdi, ad þar ætti Ad Selia Hann Sialfann, Kvinnu

Hans

Hanns Og Born, Og Allt Hvad Hann Atti: Enn þessi Audmykt vardi ecki leingi; strax sem hann var wt af Dyrunum geinginn, Og hañ sa siñ Verkanaut i vidlijkum Þrautum staddann, Sem hann hafdi skomu ædur verid, Høndladi hann vid hañ Myskunarlaust. Gud Naadi oss auma Menn! Þegar vier lesum vort Synda-Registur, og Samvitskann tekur ad lemia oss med Mynningu Illgiordaña, Þa tæmunst vier fyrir Gudi, þeir sem nockud hyrda uñ Saalu sijna: Enn Gud betri þad, ad vier munum svo lijtid til hanns Myskunar, Þegar vier eigum Naunganum ad Myskuna, Og sumir ecki meira enn þessi vondi Þioon! Annars være ecki þeir svo margir, Sem Prisvar, Fioorum Sinnum aa hveriu Ari, Laatast taka Kvittun Synda sinna i Skriptar-Stoolnum, Eñ eru þo Hardsvijradir, Myskunarlausir, Heiptræknir, og vilia ecki hid allra minnsta uppgiefa af sijnum Rietti: Og þetta er nu svo Alment, bædi i Skulldaheimtum, Og svo i Uppgiof Misverkanna, ad þar uñ maa tala þad, Er DRottinn segier, Jer. 2. J Løfum Klæda þinna er fundid Blood hinna Voludu Saalna, Blood hinna Saklausu: Ecki þarf eg ad grafast eptir þessu, þvi þad er yfir allt, segier DRottinn. Þu segier: Hann er ecki saklaus, Hann hefur giort mier stoorum til: Eg segie; Jw, Hann er Saklaus, þegar hañ vill þad ofgiort hafa; Þvi DRottinn segier hiaa Lucam: Ef þinn Broodir syndgar aa mooti þier, Þa aatel hann, og ef hann ydrast, Þa forlaat honum: Villtu þa dyrfast ad kalla þann sekann vid þig, Sem Gud hefur skipad þier saklausann ad hallda? Þu segier: Hann hefur og i þvi Gudi i mooti brotid, ad hann vid mig afgiørdi: Hvad kiemur þad vid þig? Siaa til ad þu giorir þijna Skylldu, Sem er ad fyrirgiefa honum; Hver ert þu sem annarlegann Þioon dæmir? Hann stendur og fellur sijnum Herra; Laat þier ei verda þad sem Petri er laad, Er hann sagdi: Hvad skal þessi? Gief þijna Søk eptir, Laat Gud raada hvad hann giorir af siñi; Eñ þad er vijst, ad hann tilgiefur honum hana, Nær hañ ydrast, þvi er þad Skomm fyrir þig, ad apturhallda þiñi, og nær gaf hann þier Umbod til ad krefia Skulldar sinnar, Nema þu siert Yfirvalld, Og eigir Guds Riett ad sækia? Eñ þar uñ giora Menn sier ecki svo ant aa Stundum, Helldur laata siñ fyrirgaanga, Jafnvel þoott ad slijkt ætti ad gaanga þvert aa mooti þvi sem þad Almennilega tilgeingur, Þvi DRottinn hefur sagt: Blessid þeim sem ydur bolva, enn ecki; þeim sem bolva mier, Og mun einginn ofunda þig af þvi, ad fara til Helvijtis med þa Hefnd er þu stalst fraa Gudi. Þu segier: Gud gietur tekid sinn Riett nær hann vill, Eñ eg ecki, Eg vil taka medañ eg giet. Þu Vitfyrringur! Af þvi ad þu ert Vesæll og Vanmaattugur, Villtu þa hafa stærri Riett enn hinn Almaattugi? Enn þad er þier ecki ofgott ad taka þinn Riett þar sem Gud sleppir sijnum, Þu sier hverninn þad gieck hinum vonda Þioon, Ad Herrann Ofurselldi Hann Kvolurunum, Þar Til hann Hafdi Borgad Þad Hann Var Skylldugur: Enn Frelsarinn segier hier i Textanum: Svo Mun Og Minn Himneskur Fadir Giora Vid Ydur, Ef Ad Hver Ydar Sem Einn Fyrirgiefur Ecki Ut Af Hiarta Sijnum Broodur Hanns Misgiordir. DRottinn segier: Hanns Misgiordir, Hann tekur einga undann, allar vill hann tilgiefnar sieu, Sama segier hann Bak vid DRottiñlega

Bæn,

Bæn, Matth. 6. Þar bidium vier, Ad Gud Fyrergiefe Oss Vorar Skullder, Svo Sem Vier Fyrergiefum Vorum Skulldu-Nautum. Vilium vier þa ad Gud forlæte oss ad nockru Leite, og ecke ad ollu? Ei mun þad Raadlegt, þvi hin minnsta Synd viñur til eilijfrar Fordæmingar, nema hun sie uppgiefenn og forlijkud, þvi sa sem helldur allt Logmaaled, og verdur Brotlegur i Einu, hann er sekur vid oll, segier Jacob: Nu forlæt-ur Gud oss eins og vier Naunganum forlaatum; Þar fyrer, ef vier vilium ad hann til-giefe oss allar vorar Synder, þa fyrergiefum vorum Broodur allar sijnar. Hann Gaf Honum Upp Alla Skulldena, segier i Textanum: Svo eigum vier ad breita; Allt eig-um vier ad uppgiefa, hveriu Nafne sem heiter, hversu rijkt sem þad liggur oss i Skape, hvern Skada, Ovirding edur Vansa sem vier hloted hofum, þad maa ei gyllda, þad skal allt uppgiefa fyrer Guds Saker; Og mun þad eingum þeim Ofgollded þykia, sem Jd-uglega Hugleider, hvad miked honum sialfum sie af Gude uppgiefed. Og hvad vardar mig uñ Ovirding þessa skynlausa Heims, þegar eg liooma eins og Sool i Rijke mijns Fodur? Hier mun margur spyria: Hvert hann sie skylldugur ad uppgiefa laanad Fie og Skullder, sem hann aa ad odrum? Þar til svara eg, ad ecke talar DRottenn uñ Fiaar-Heimtur i þessum Stad, helldur bruukar hann þetta Dæme i Epterlijkingunne, til ad sij-na oss Skylldu vora, i þvi, ad uppgiefa Misgiorder nar: Enn þo vil eg þar uñ segia: Ad ef þinn Skulldu-Nautur er svo Vesæll, ad hann ecke maa missa þad, sem hann aa þier ad giallda, nema hann þar fyrer rate i Armood og Volæde, þa byriar þier ad hafa Þol-ennmæde vid hann, og jafnvel giefa honum upp alla Skulldena, ef hann maa ei annars li-fa, enn þier er fullborged, ellegar ertu sekur i hanns Dauda fyrer Gude, þvi hann er þa Þurfa-Madur, enn Gud hefur feinged honum sinn Riett til þess, sem þu hefur Ofmiked.

Aptur munu Meñ spyria: Hvert ei sie Riettvijst fyrer Gude, ad sækia Riett sinn fyrer Christelegu Yfervallde, aa moote þeim sem oss hafa tilgiort? Þar til liggur Svar; Ad þad leyfest ad vijsu, ef Madur nær ei Riette sijnum a annañ Veg, ella være ei Logenn og Yfervallded af Gude tilskickad; Verolldeñ gietur og ecke aan þess vered, sokum Raungs-leitnis Ohlutvandra Manna: Þo skal þad med slijkre Vareygd giora, ad ei raskest Chri-stelegur Kiærleike, og ad Sækiandenn ecke hatest vid þann, sem hann Varhent aa, nie hverigur vid annann, ei helldur hlaupe til Doomarans fyrer Smaa-Mune hveria, allei-na fyrer Metnadar Saker: Enn fyrer þvi, ad Medal-Hoofed er vandratad i þessu, þa er framveigis verdt ad vita, hvernenn vier eigum ad fyrergiefa. Og er þad fyrst ad athu-ga, ad þeir ed oss moote giora, eru med Tvennu Moote: Þar eru þeir sem giora oss til, og ydrast þess ecke, þyker vænt uñ þad, hroosa sier þar af, edur bidia Forlaats til ad gabba oss, ad ei verde þeir afhendter Doomaranum, enn hafa þo hid sama i Siñe, og J-treka þad nær þeim rædur svo vid ad horfa; Þessum eigum vier þo ad fyrergiefa med þvi Moo-te, ad vier ei olum neina Heipt til þeirra, jafnvel þoott vier neydunst til ad forsvara vort Nafn og Rikte, vora Vine og Vanda-Menn, vorar Eigur og Fiaar-Hlute, sem ann-ars mundu verda O-Raadvondum Monnum ad Braad; ad vier þo ecke glediunst yfer

Oforum þeirra, helldur bidium Gud ad ſnwa þeim; Svo ſegier Salomon: Þegar Ovinur þinn fellur, þa gledſt ecki, og nær hañ hrapar, þa fagni ei Hiarta þitt, ad þad ei ſijniſt Illt i Augum DRottinns, og hann ſnwi fraa honum Reidinni a þig, Prov. 24. Ecki Oſkum þeim neirnrar Hefndar af Moñum, Nema þeirrar ſem Log leyfa oſs, og þo ecki Oſka heñar frekari eñ Tilgiordiñ er, Eñ þo miklu ſijdur, ad beidaſt Guds Hefndar yfir þeim, Allra ſiiſt eilijfs Straffs; Þad er ein Ogudleg Oſk, Sa ed þeſs bidur, hann bidur uñ ſlijka Hefnd, Sem Gud alleina hefur Riett til, og er Afgudadijrkari, Hvad þo margt Foolk giorir i Offtæki Brædi ſinnar; Helldur eigum vier og þeſſum ad fyrirgiefa, enn giefa Gudi Hefndina, og jafnvel þoott vier gaungum ad þvi vijſu, ad þeir muni leita a oſs aptur: Svo giorir Gud; Hañ liet Pharao ſtanda þegar hann beiddiſt Fridar, þoott hann viſſi ad ei mundi hann ſleppa Iſrael; Hann fyrirgaf Achab þa hañ klæddiſt i Seck, 1. Reg. 21. Viſſe hañ þo, ad ſw Ydran mundi ei leingi vara: Eñ Frelſariñ hefur ſkipad oſs, Verid Myſkunſamir, Lijka ſvo ſem ydar Fadir er Myſkunſamur, Og ecki talar DRottinn uñ þad vid Petur, Er hann ſkipadi honum ad tilgiefa ſijnum Brood-ur Siotiju Sinnum Sioſinnum, Matth. 18. Hvert ad hinn Seki ydradiſt ſiñar Mootgiordar edur ei. Adrir eru þeir, ſem wt af Hiarta ydraſt Mootgiordaña, Vilia þad giarna bæta, er þeir brotid hafa, Og ſijna þad i Verkunum, er þeir jaata med Munninum, þa eigum vier aptur i fulla Saatt ad taka, ſvo ſem ecki hefdi a milli borid: Svo giorir DRottinn fyrir Munn Zachariæ; Eg ſkal Myſkuna þeim, og þeir ſkulu vera ſvo ſem alldrei hefdi eg þeim i burtu kaſtad: Og hier meina eg ad eigi heima ſaa Skilmaali, Er ſtendur Lucæ 17. Og jafnvel þo ſvoddann optlega tilberi, Þvi ſvo giorir Gud vid oſs, Einginn af oſs mun neita þvi, ad vier Daglega ſyndgunſt, og viñum ei nema til Hegningar, Og þo er hanns Naad Ferſk og Nij yfir oſs a hverium Morgni, og alldrei hefur hañ nockurn Ydrandi fraa ſier rekid, hverſu opt ſem hann ſyndgad hefur. Ef vier nu vilium þeſſarar Myſkunar nioota, þa audſijnum hana og vorum Brædrum, annars hofum vier aungva Hlutdeild i henni, og þær Syndir, ſem oſs voru adur tilgiefnar, Þær munu oſs ad nyu tilreiknadar verda, eins og þeſſum vonda Þioon, Þvi Myſkunarlaus Doomur mun yfir þann ganga, ſem ecki Myſkun ſijnir, ſegier Jacob, Cap. 2. Og er þad einn ſtoor Daaraſkapur, ad laata Heiptina ſvo fyrir ſig raada, ad Guds Blood og hañs Naad ſnwiſt þeim til Fordæmingar, er þañig breytir. Og ad Meñ gangi wr Skugga uñ þad ad vier ſkylldugir ſieum ad tilgiefa vorum Brooduc, Hverſu opt ſem hañ ſyndgar, Þa bijdur hann, Lucæ 17. Ad honum ſkuli Sioſiñum a Deigi fyrirgiefaſt, ef hañ Sioſinnum ydraſt, Lijklegt er, ad einginn muni optar brioota a Deigi, Og þo ſvo opt ydraſt: Enn hvernig ſem þvi er varid, Þa merkir þetta, ſvo opt ſem hañ brijtur, eptir Ords-Hætti Ritningarinnar: Hinn Riettlaati fellur Sioſinnum a Deigi, ſegier Salomon, Prov. 24. Sioſinnum a Deigi loſa eg þig, ſegier David, Pſ. 119. Ef þier heyred mier ecki, Þa ſkal eg ſtraffa ydur Sioſallt, Segier DRottinn, Levit. 26. Þad er Ofþnilega, ſvo leingi þier ecki heyrid; Þad verdur og ad vera, Þvi ſaa ſem vill vænta Fyrir-

giefs

giefningar Synda sinna allt fram̃ undir Daudann, hann skal og hvern Dag fyrirgiefa allt i Daudann, nær honum giefst þar Orsok til, Og þad af Hiarta, segier DRottin̄ hier i Gudspiallinu, aan Yfirdrepskapar, aan Moglunar, Bryxlis og Eptirtalna: Svo giorir Gud; Hann giefur ollum Einlæglega, og telur ei eptir, segier Jacob, Cap. 1. Þad er ei noog, ad Menn um̃gaangist i Meinleysi, Eñ geyma þo einn Mordingia i Hiartanu, Og kyssa-aa þa Hondina, Er Menn giarna villdu ad af væri; Svoddann Fyrirgiefning er Hræsni fyrir Gudi. Herrann saa aumur aa þeim Þioon, segier Textiñ: Hann kom̃st vid i Hiartanu, ad siaa Eymd hanns, Er i Þrældoom gaanga aatti, med Konu og Bornum, fyrdtur ollu sijnu: Svo stendur Optlega um̃ vorn Frelsara, Nær hann saa Eitthvad Aumt, ad hanns Ydur hafi hrærst af Medaumkan; Svo vill hann ad vier lyndir sieum mooti þeim, sem oss tilgiora, Og ydrast þess. Þad er vel tilfundid i voru Maali, ad siaa Aumur aa einum; Saa þad giorir, hañ kiennir i Briooasti um̃ þann sem hañ Myskunar, Hann tekur sier nockud, Hann ber nockud af hañs Eymd, og verdur sialfur Aumur med sialfum sier, og þad kannskie ecki sijst þess vegna, ad hann veit, ad hann hefur slijkt forþienad, og er slijku Volædi undirorpinn, Ef Gud vill. Hañ sem tilgiefur af Hiarta, hañ aalijtur hvad mikid hañ sie Gudi skylldugur, og hvad brædlega hann kuñi þvilijkt ad henda. J klædist Hiartgroiinni Myskunsemi, segier Paulus, ecki þeirre sem er a Vorunum, og segier: Etid og dreckid, Klædist og vermid ydur, enn giefur eckert hinum Þurfanda; Ei helldur hinni, Er segier: Eg vil tilgiefa honum; Eñ gleymir þvi þo alldrei, er honum var tilgiort: Helldur þeirri sem hefur diupar Rætur i Þelalausu Hiarta, Elskar Ovini sijna, Blessar þa ed Bolva, Bidur fyrir þeim sem Offsækia, og giorir Gott þeim ed misgiora; Og er eckert Skaplyndi farsælla eñ þetta, Eckert Roosamlegra, Og eckert sem betur Hag sijnum uni; Þvi svo sem ad hinn Heiptræki hefur einga Roo, hanns Matur og Dryckur er honum Stor og Beiskur, Þegar Foolskann leggur wt i hvern hañs Lim og Lid, og honum flijgur Mootgiordinn i Hug; Svo maa og um̃ hinn segia, Er Foottredur Oriettinn, þad sem David sijngur, Ps. 119. Mikinn Frid hafa þeir, sem elska þitt Logmaal, Og þeim mætir eckert Hneixli: Þvi aa medal þeirra hellstu Bodorda i Logmaalinu er, ad tilgiefa Misgiordirnar, og þeir hneixlast ecki af Oriettinum, sem forsmaa Oriettinn; Þar fyrir verid brædlega samþyckir ydar Mootstodu-Mor.num, Christnir Menn, aa medann þier erud enn þa aa Veigi med þeim, Svo ecki Ofurselie Mootstodu-Madurin̄ ydur Doomaranum, Doomarin̄ afhendi ydur Kvalaranum, Og þier verdid svo i Oyblissu kastadir. Hvar fraa hiñ Nædugi Gud vardveiti oll sijn Born J JEsu Nafni, og giefi ollum oss svo ad um̃gaungast hver vid añann hier i Nædiñi, ad vier i eilijfum Kiærleika meigum samfagna hver odrum i Dijrdinni, Þad Bænheyri hiñ Nædugi Gud, Fyrir Sonarins Forþienustu, Amen.

# A Allra Heilagra Messu.

Gudspiallid, Matth. 5. Cap.

DEs er JEsus leit Foolked, gieck hañ uppa Fialled. Og þa hañ sette sig nidur, geingu hañs Lærefveinar til hañs. Og hañ lauk upp sijnum Muñe, kiende þeim og sagde: Sæler eru þeir sem Andlega eru Volader, þviad þeirra er Himnarijked. Sæler eru þeir sem Harma, þviad þeir munu Huggader verda. Sæler eru Hoogværer, þviad þeir munu Jardrijked erfa. Sæler eru þeir, sem Hwngra og Þyrsta epter Riettlætenu, þviad þeir skulu Sadder verda. Sæler eru Myskunsamer, þviad þeir munu Myskun hlioota. Sæler eru Hrein-Hiartader, þviad þeir munu Gud siaa. Sæler eru þeir sem Frideñ semia, þviad þeir munu Guds Børn kallader verda. Sæler eru þeir, sem fyrer Riettlætesins Saker Ofsookter verda, þviad þeirra er Himnarijke. Sæler erud þier nær sem Meñerner Hallmæla ydur og Offsookn veita, og tala i giegn ydur alla Vondsku, fyrer mijnar Saker, þo Livgande. Fagned þier og vered Glader, þviad ydvart Verdkaup er miked aa Himnum. Þviad so ofsooktu þeir Spaameñena, þa sem fyrer ydur voru.

## Exordium.

SVo er margt Sinned sem Madurenn er, segier i Gømlum Maals-Hætte. Faaer eru þeir Hluter, sem Aller Gooda kalle, enn i þvi kiemur øllum samann, ad þad sie Gott ad vera Sæll, og vanta ecke uppa þad þeir gyrnast; Þo meta ecke aller Sæluna med einu Auga: Þad sem Paulus hiellt Þreck ad vera, þad kalla adrer Full-Sælu. Þad er skrifad um Anaxagoram Speking, ad Sælkiere nockur hafe spurt hann ad Einhveriu Sinne, hver ad Farsæll være? Og hafe hann svarad: Eingenn Af Þeim, Sem Þu Meinar, Helldur Saa, Ed Þu Kallar VEsælann Ad Vera, Hann Er SÆll. Og hid sama er ad segia um Børn Veralldar þessarar: Þad sem þau Sælu kalla, þad er reindar Volæde, ef riett er aalited. Þesse Haatijdis Dagur er af Lærefedrum Christelegrar Kyrkiu i Fyrndenne helgadur øllum Heiløgum, þad er, øllum þeim, sem hafa yferunned fyrer Lambsins Blood, enn þo sier i Laage þeim, sem i giegnum margar Hørmungar, Utlegd, Ørbyrgd, Hwdstrokur, Forsmaan, Hwngur, Klædleyse, Lijflaat, og allt þad Jllt, er þeir lidu fyrer Christi Nafns Skulld, þeim sem i giegnum øll þesse Ofsoop, segie eg, hafa broteft iñ i sijns HErra Dijrd, og þaa nefner hann nu Sæla i Gudspiallenu, sem er Brunnur allrar Sælu, og fyrer utann hvern eingeñ Sæla maa nefnast, þvi hann er Gud alleina Sæll, og þeir sem i honum eru, alleina Sæler, og eingenn Sæll fyrer utann þaa. DRottenn hafde nærre þvi i hcælft Ar predikad Evangelium Rijkesins, J hveriu þeim verdur Sælann heitenn, er þvi trwa: Hann hafde aadur sagt, ad hver sem tryde aa Sonenn, hann skyllde ei fyrerfarast, helldur

helldur hafa Eilijft Lijf, Joh. 3. Ad saa sem drycke af þvi Vatne, er hann munde giefa honum, skyllde ecke þyrsta ad Eilijfu, Joh. 4. Og fleira þess Haattar hafde hann talad um Guds Rijkis Sælu. Enn so sem ad Kvinnann, er talade vid hann hiaa Jacobs Brunne i Samaria, hun skilde ecke hvad hann meinte, þar hun sagde: HErra, gief mier þetta Vatn, ad ei þyrste mig, og ei þurfe eg ad koma hijngad til ad ausa Vatn; Svo hafa og flester af hanns Tilheyrendum vered Ofrooder um̃ þessa Guds Giof, sierdeilis þar ed Logmaalsins Fyrerheit, vid hver þeir voru uppalder, þau voru annadhvert Lijkamleg, edur vafenn i Hylmingu Lijkamlegra Hluta. Fiolde Manns took vel þessum Bodskap i Fyrstunne, enn þegar til Leingdar liek vid, og þesse Fyrerheit ecke komu svo braadlega fram, þa hefur Foolked geinged i Tvær Sveiter, svo sem raada maa af Joh. Gudspialla-Book-ar Siotta og Siounda Capitulum: Og jafnvel hafa kunned Tvær Grijmur aa sialfa Lærisveinana, þoott ad bæde þeir og adrer sæu Krapta-Verkenn, er hann giorde aa þeim Siwku i Galilæa, Matth. 4. Enn til þess, ad undervijsa bæde þeim og od-rum i sinne Rijkis-Stioorn, þa tekur hann þaa hier Assijdis fraa odrum uppaa Fiall-ed, og talar fyrer þeim Eyrende Rijkesins, i hinne merkelegu Predikun, er ritud stend-ur i Matth. 5. 6. og 7. Capitulum: Hverrar Inngaangur ad er þetta Heilaga Gud-spiall, af hveriu vier i þetta Sinn Hugleida vilium hina Fyrstu SÆlu, og Tvent þar af oss fyrer Hendur taka: 1. Hversu ad Faatæktenn sie Gagnleg. 2. Hvariu þeim heited sie, sem eru Andlega Volader. Enn þu sem ert alleina Rijkur, styrk þu oss Faatæka og Auma til þessa Verks, svo vier verdum i Gude Rijker, fyrer JESUM Christum, AMEN.

## Utleggingen̄.

Sæler Eru Andlega Volader, segier DRottenn: Eg veit, ad Men̄ greinast aa þar um̃, hvad þetta Ord Voladur merke i þessum Stad: Bæde Augustinus og Chry-sostomus hallda, ad þad sieu þeir, ed afneita ollum sijnum Verdugleik, og kalla sig alls Goods Overduga, enn einkis Ills; Og kann eg þvi ecke ad neita, ad su Meining sie og foolgenn i þessu Orde, þvi svo eiga aller Christner Lynder ad vera, hvert helldur Rijker eda Faatæker eru, samt hygg eg þo, ad Lausnarenn meine hier sier i Lage þa, sem eru snauder af Veralldar Munum edur Virdingum, þviad svo mun þeim flestum hafa haattad vered, er honum i þad Sinn epterfylgdu: Þad maa siaa af þvi, er Kiennemennerner og Phari-sæi sogdu Fordum, Joh. 7. Trwer nockur af Hofdingiunum aa hann, edur af Phari-sæis? Enn þesse Almwge, sem ecke kann Logmaaled, er Bolvadur. Og þar ad auke skrifar Lucas alleina i sijnu Evangelio; Sæler eru Faatæker: Og er hann vijkur Rædu DRottenns til hinna, sem Vesæler eru ad Guds Doome; Þa segier hann, Luc. 6. Vei ydur Audugum, þvi þier hafed ydar Huggun medteked: Þa kalla eg þad vijst, ad Drott-enn meinte i þessum Stad, þa sem ei hafa miklu Veralldar Laane ad fagna, ecke alleina þa, sem Orbyrger eru, helldur og þa, sem aa einhvern Haatt eiga vid baagann Kost ad bwa, þvi ad þvilijkra er Guds Rijke, segier Lausnarenn: Þad eru þeir, sem eru eins illa

ſtaddir og Oreigar, Og þo ecki þa alla helldur, Þvi margur er Fatækur, Og ſkickar ſier illa i ſinni Fatækt, Er Oþoliñmoodur, Hleipur med Þioofnum til ad ſtela, viñur alla Ohæfu fyrir Sulltardoom, Til ad rydia af ſier Fatæktinni, Sem i ſialfri ſier er einn Heilagur Hlutur, Þvi Guds Sonur hefur hana Helgad med ſijnu Dæmi, þegar hann giordiſt Fatækur vegna vor, Þar hann var þo Rijkur, Svo vier af hanns Fatækt Rijkir yrdum, Segier Poſtulinn, 2. Cor. 8. Þar fyrir utann er hun Straff Syndarinnar, Og a einga Hlutdeilld i þeſſu Fyrirheiti: Svo eru margir af þeſſum Hwsgangs Herrum, Er ganga a medal vor, og leita ſier Olmuſu i Guds Nafni, Enn giallda Bølvan fyrir Bleſſan, Nær þeir ecki hafa wr hvers Manns Hendi þad þeir vilia: Fraſkilid er þetta Illþijdi ſlijkri Naad; Gud Myſkunar ſijnum Fatækum, Segier Eſajas, Cap. 49. Enn ecki Andſkotans; Þeir verda ad hafa ſlijka Myſkun, er hañ vill veita, ſem þeir liaſt til Þioonuſtu, ad vellta af ſier Chriſti Oki a mooti hanns Løgmali, er ſkipad hefur, ad ſa ſkuli ecki eta, Sem ei vill erfida, 2. Theſſ. 3. Enn Matthæus ſegier oſs hier i Gudſpiallinu, hverier þeir ſieu er þeſſi Sæla tilheyri, Þar hann leggur til þetta Ord, Andlega (ſegier hann): Þad eru þeir, ſem ecki Orvænta i Volædinu, Ecki eru Oþolinnmoodir, helldur til Frids i Hormungunum, i Oſſooknunum, i Angiſtinni, i Naudunum, Eins og Paulus, Þeir ed ecki griipa til Oleifilegra Medala, Og ecki Oſunda þa, er hafa Velgeingni Heims þeſſa, Helldur audmijkia ſig undir Volduga Guds Hond i Mootganginum, Og ſegia ja ſnann, Verdi þinn Vilie: Þeſſir hrooſa ſier i ſinni Fatækt, ſvo ſem Jacob ad Ordi kiemſt: Og þad eru þeir, ed David kallar Guds Volada, Pſ. 72. Þetta er ſu Fatækt, er eg meina ad ecki alllijtid gagni til Himnarijkis. Margt ber til þeſs, Chriſtnir Menn, Ef vier þad vilium riett athuga: Þad er oſs vitanlegt, ad vier dugum ecki til þeſs, ad giora Tvennt i einu; Munum vier þa undir eins fa þioonad Gudi og Mamona? Og er þa hætt vid þvi, ad ef annañhvern ſkal yfirgiefa, ad þeim ſem Skwrgod þetta fagurt þykir, Þeir muni ſegia lauſt vid Gud, Hvern þeir ſia ecki, Enn þijdaſt Mamona, hver ed glanſar i Augunum, ſo ad margann hendir þvilijkt og Gydinga Fordum, vid hveria DRottinn ſegier, Eſa. 22. Þier giorid Farveg a milli Tveggia Mwranna, fyrir Vatni hins gamla Fiſki-Dijkiſins, Enn þier lijtid ecki a þann, ſem þad ſkapad og mindad hefur; Enn ſa ſem eckert a i Heiminum, Hann hefur miklu betri Orſok og Tækifæri til þeſs, ad verda Rijkur i Gudi, Og fyrſt hann þeinkir ecki a Jardneſkann Aud, Þa ſkal hann alldrei draga hann fra þeim Himneſka. Sa ſem miklum Audi ſafnad hefur, Hann liggur a ſijnum Dreggium eins og Moab, Jer. 48. Hann hefur ſijna Umgeingni a Jordunni, Þar ſem hanns Fieſioodur er, Þar er hanns Hiarta; Eñ Oreigiñ þarf ecki ad geima vandlega þad ſem eckert er, Hañs Umgeingni er a Himnum, hvadann hann væntir Frelſarans DRottinns JEſu Chriſti, Ef hañ er añars Andlega Voladur, Hann kieppiſt vid ad ſafna ſier Fieſiood a Himnum. Þar eru og kann ſkie faair ſem hafa Riettfeinginn Aud i Heiminum, Þvi heitir hann og Ranglætis Mamona; Eñ a þeſſari Audlegd, ſem i Himninum er, Eiga allir Koſt ad Saklauſu, Gaungu-Maduriñ

ſvo

svo vel sem Konungurinn, Blindum, Holltum og Lomudum er þar tilbodid, þeir kaupa fyrir alls eckert, sem hann eignast, Og hversu ad þeir sieu hæfari til ad naa þessari Audlegd, sem ei hafa mikid epter ad draga, Þad kieñir oss Frelsariñ, Er hañ segier, ad hægra sie Ulfalldanum ad gaanga i giegnum Naalar=Augad, Enn Rijkum Mañi iñ i Himnarijki; Eg vil ei þar um tala, ad Rijkdoomurinn aflast med Erfidi, Geymist med Ahyggiu, og missist med Sorg, Ef missast skal, Enn su Sorg er sialldann aau Syndar; Morgum hefur hun steypt i Orvænting, Og dreigid til ad bæta Raad sitt aptur med Raangindunum, og ad vijsu eru flestir Ohólinnmoodir yfir Skadanum: Faair eru eins Lyndir og Job, er hañ sagdi: Gud gaf og Gud aftook, Sie Nafn DRottiñs blessad, Job. 1. Enn saa griet alldrei fyrir Gull, Sem ecki aatti þad: Hann sem er sañur Guds Vesælingur, Hann er sem Andlega Voladur; Þoott hañ missi þann Faatækdoom, er hañ brwkar til Dags og Nætur, Þa hefur hañ eckert af siñi Audlegd mist, þvi hun er i Himninum, Hun skieñist ecki, segier Petur, Hana skal einginn fraa honum taka, og þoott hañ skylldi i Hwngri og Klædleysi wt af deya, Þa flijtir þad honum alleina til Rijkis. Þad er skrifad um Alexander hiñ Stoora, þann fræga Konung, ad þegar Lid hañs var allt Ofþwngbwid vordid af Herfaanginu, Svo honum þotti lijtid framgeingt verda, Þa brendi hann upp Faung þeirra, og huggadi þa med þvi, Ad þeir mundi safna Ogrynni Fiaar, Ef þeir liettu þessu af sier, Enn sæktu med Flijti til þeirra Landa, sem væru audug af Gulli og Sylfri. Meigi eg nu samann taka þad sem sundurleitast er, Þa sijnist mier, ad hinn Alvijsi Konungur giori vidlijkt med Faatæktinni vid sijna Volada, Þvi nær þeir hafa orvænt sier Veralldlegs Auds, Þa kieppast þeir eptir þeim Himneska, Þegar þeir ætlast til einkis Lids af Monnum, Þvi faair eru Vinir hins Snauda, Prov. 19. Þa leita þeir Lids hiaa DRottni, og nær hann hefur, svo sem i Speigli, Laatid þa siaa Dijrd sijns Rijkis midt i Orbyrgdinni, Þa giora þeir Skoll ad ollu Oflæti Heimsins, Og er þvi Avoxtur Faatæktarinnar þessi, ad hun gyrnist ei meir enn hun hefur, Og er hun þa rijkari helldur enn Salomon edur Assverus; Jaa, hun gyrnist eckert neina siñ Gud, Og hañ stendur hinum Faatæka alltijd til Boda: Eñ saa er Agiarn, sem vill eiga meira eñ Himins og Jardar Skapara. Allir vitum vier þad, ad vier baarum eckert inn i Heiminñ, Og eins vel, ad eckert munum vier i burtu bera, Jafnvel þoott sijnast meigi, ad nockrir þad ecki satt halldi, Annars mundu Menn leggia meire Hugaa, ad lifa vel, eñ verda rijkir, Og velldur þad þvi, ad Hiartad er svo diwpt nidur sockid i Maurana, ad sumir giæta þar ecki ad, Fyrr enn Daudiñ grefur þa upp, til ad leggiast i eina adra Grof: Þeir gleyma þvi, Ad Naktir komu þeir af Lijfi Moodur sinnar, og svo munu þeir þaangad aptur fara, Job. 1. Þad er ofaan i Jordina, sem er allra Moodir. Þar er einginn kiendur, sem hann kiemur ecki, fyrir þeim Volada: Hann aa ecki vid mikinn Heim ad skiliast; Þvi skal þad ecki draga hann fraa Himnarijki, Og su Audlegd, Er hann aatti i Gudi i þessum Heimi, Og ecki var nema Pantur eptirkomandi Farsælldar, Hun fullkomnast, nær hañ inngeingur i Dijrd sijns Herra, Og rætist aa honum þad, er Syrach skrifar: O! Daudi

Hver

Hversu goodur er þinn Doomur hinum Faatæka? Vier vitum hversu ad hin liootu Skrymsle, er Syndenn og Diofullenn hafa sært inn i Veröldena, Agyrne, Ofund, Ofrijke, Drambseme, Ohoof, og Naauglæte, hversu, segie eg, ad þad sie gagnstædt Himnarijke, enn allt þetta vill haanga vid Rijkdoomenn. Saa skal vel giæta sijn, er ecke hefur neinn Snert af þessu, ef hañ Rijkur er: Þar fyrer segier Paulus; Ad þeir sem vilia Rijker verda, þeir falle i Diofulsins Snorur; Enn Faatæktenne er eingvannveigeñ svo hætt vid slijku, og ad vijsu ecke þeim, sem er Andlega voladur; þvi hann er nær Himnarijke, eñ hiñ, nema saa Rijke aastunde ad vera i Gude rijkur, og i goodum Verkum: Og ad vijsu hefur Christur lagt Grundvoll sinnar Kyrkiu i Fyrstunne af hinum Faatæku; þad kienna oss þesse Frelsarans Ord, er i Gudspiallenu standa; Og med sama Hætte hefur þesse Bygging rised epter hanns Himna-For; þad auglijser Paulus, er hann skrifar til Corinthios, Cap. 1. Siaed ydar Kollun, Brædur, ad hier erud ecke marger Vollduger, ecke marger Gofuger; Þad kienner oss Jacob Postule, hver ed var aa Lijfe Priaatiju Arum epter þad DRottenn var inngeinginn i sijna Dird, segiande, Cap. 2. Hefur ecke DRottenn wtvaled hina Faatæku i Heime þessum, Rijka i Trwnne, og Erfingia þess Rijkis er hañ ætlad hefur þeim sem hañ elska. Þessa Alvijsa Byggingarlags hefur margur Audugur sijdann noted, þvi er þad Synd fyrer oss, ad forsmaa Guds Volada; Enn faaer voru þeir af Rijkismonnum, er geingu DRottne til Handa, medann hann umgieckst i Holldenu; Eg ætla þegar Menn taka Zachariam og hanns Hws, Nicodemum, Joseph af Arimathia, Johañam Hws-Frw Chusæ, þegar Menn taka þessa burt, þa mune hiner teliande, sem skiptudust vid hanns Kienningar af Hofdingiunum, utann þeir sem Neydenn droo til, svo sem voru Jairus, Konungs-Madurenn, og Hundrads-Hofdingenn, og eru þeir þa i Selskap med Faatækum, svo sem aadur er sagt.

Hier af aalykta eg nu svo, ad eins og einn vijs For-Smidur, hann velur hid besta Efne til þeirrar Byggingar, er hann ætlar sier vel ad vanda; Svo hefur og Frelsarenn breytt i þessare sinne Kyrkiugiord, hann hefur valed þad i Underbygginguna, er hann saa ad hentugast var, þad voru hanns Faatæker; Svo var hañ siaalfur, sem var Hyrningarsteirneñ i þessu mikla Forvirke; svo voru hin sterkustu Maattar-Trie þar i, sem voru hañs Postular, uppaa hveria vier bygder erum; svo voru þeirra Epterkomendur fram epter Oldunum, þar til Diofullenn spillte þessu Guds Verke med Agyrndenne, Ofundenne, og Drambsemenne, svo sem lioost er af Christenndooms-Sogunum. Og siaa Menn af þessu, medal annarra, hversu ad Faatæktenn og Guds Rijke eiga vel samann; Enn þo ad Rijke DRotteñs JEsu hefde sijn Upptok hier aa Jordunne, sem var af Umkomulitlum Fiskurum, Olærdum og einkis megnande, þoott þad eflist hafe fyrer utann allt Ofbellde, Haareyste og Vopnaburd, þvi eingenn heyrde hanns Raust aa Strætunum, og hanns Rijke var ecke af þessum Heime, ei helldur Vopn hañs Herfarar Lijkamleg, Hvers Strijds-Menn ad hofdu Tunguna fyrer Verin, Þolennmædena fyrer Atvinnu, Trwna fyrer Skiolld, Kiærleikann fyrer Vijge, Faatæktena, Ja, Siaalfviliuga Faatækt aa

Stund-

Stundum, i Stadinn Gulls og Silfurs, er Heimurinn kallar Afl þeirra Hluta, sem hañ vill lâta Framgâng hafa; Samt hefur þo einginn af Veralldar Höfdingium svo vijdt wtþanid sitt Velldi uñ Heiminn, svo sem hann; Þvi Gud hefur giefid hönum Endimörk Veralldarinnar til Arfleifdar, Svo þad er ad fullu og öllu rætt, sem Esaias fyrir-spâir, Cap. 2. Þad skal skie â Sijdustu Dögum, ad nær þad Fiallid Guds Hwß er sett uppâ adra Fialla-Tinda, og upphafid yfir Hâlsana, ad allar Þiodir skulu þângad saman safnast. Hvert er þad Fiallid? Þad er Christi Rijki: Hvert er þad Hwsid? Þad er hanns Kyrkia: Hver eru þau Fiöllinn? Þad eru Rijki Veralldarinnar uñ Heiminn: Jâ, Einginn hefur svo fliootann, svo frægann Sigur unid, sem vor Kongur, Og þo med sâum og sâtækum Mönnum; Hann lagdi undir sig meira Rijki med Toolf Postulum â stuttum Tijma, Enn Alexander hinn stoori â Toolf Arum med öllum Griklands Her. Einn Madur, St. Pâll, Hroosar þvi, ad hann hafi allt i frâ Jerusalem inn til Illyricum uppfyllt allt med Evangelium; Svo þad er sannkvedid, Er Esaias skrifar; Mun Jördinn fæda â einum Deigi? Mun ein Þiood gietinn verda i Einu? Þar Zion geingur undir eins þwngud med Börn sijn og fædir þau, Esa. 66. Svo hefur nu hinum Stoora Allsheriar Konungi þocknast ad byggia sitt Rijki med Fâtæktinni, Þvi skylldu þa ecki Þegnar hanns kalla hana öllum Rijkdoomi rijkari? Þar hann er alleina Rijkur, Sem þad hefur wtvalid, sem audvirdilegt er fyrir Heiminum. Enn Gud Nâadi oß Auma! Þad er hinn allra mesti Skadi vor, ad þoott vier þerum oß ad þioona Gudi, Þa haungum vier svo fast vid Audinn og Aura Safnid, ad Menn gleyma Guds Bodordum, og stijga frañ yfir þau Takmörk, Er hañ hefur sett oß. Svo erum vier frekir til Fiâarins! Enn hvad er þad, Christnir Menn? Þad er ad færa Foornir i Jerusalems Musteri, enn offra þo samt â Hædunum; þad er ad sveria vid Nafn DRottins, Og þo undir eins vid Malcom, eins og Juda. Heyrum þvi Ord DRottins af Munni Jeremiæ: Ef þu ætlar ad snwa þier aptur til mijn, Israel, Þa snw þier, og reika ecki hijngad og þângad. Eingañveiginn er þad hier med sagt, ad Menn skuli kasta frâ sier allri Umhyggiu fyrir Lijkamanum; Alla Hluti hefur Gud Manninum undir Fætur lagt, Til þeß hefur hann giort Nâtturuna svo rijka, ad Manneskiann skylldi audgast þar af; Eckert hefur hann forgiefins skapad, helldur Mannkyninu til Nota, enn sier til Loß og Dijrdar: Enn hitt segie eg, ad Menn lâti Gud vera Herrann, Eñ Mamona Þrælinn, Jâ, ad vier sieum Audsins Herrar, Enn lâtum ecki hañ drottna yfir oß, eñ þo allra sijst, Ad vier lâtum þenna þietta Leyr svo klessast vid Hiarta vort, Ad vier gleymum Gudi edur hanns Boludum. Og er þad nu svo wt talad uñ hid Fyrra.

Nu Eptirfylgir ad tala uñ þad, Sem hinum Andlega Voludu heitid er. J Textanum stendur: Þviad þvilijkra er Himnarijki. Nu er Guds Rijki med Tvennu Mooti: Eitt er hanns Nâadar-Rijki, Hvert og kallast Himna-Rijki, Matth. 18. Þar ed stendur: Himna Rijki er lijkt einum Konungi, Sem reiknast villdi vid Þioona sijna. Annad er hanns Dijrdar-Rijki; Sâ sem vill nâ til þeß sijdara, Hañ skal endilega hafa

 Hluta

Hlutdeilld i hinu fyrra, og eingenn hefur saa komest i hanns Dyrdar-Rijke, sem ecke hafe adur vered i hanns Naadar-Rijke; Sumer leingur, sumer skiemur: Þar eru nockrer kallader snema Morguns, adrer ecke fyrr enn um hina Elleftu Stund. En þad er vijst, ad hverutveggiu þessu losar DRottenn þeim, sem ad eru Andlega Volader, og þeirra Lijkum.

Hver eru þa Giædenn i DRottenns Naadar-Rijke? Ecke Metord, ecke Audæfe, ecke Sælliyse i Mat og Dryck, ecke Hefnd yfer Ovinum sijnum, nie þad Hiartalag, er feste sig vid nockud af þessu, þvott þad meige þeim gjefast, sem eru Christi Þegnar, þvi Guds Rijke er ecke Matur og Dryckur, helldur Riettlæte, Fridur og Fognudur i Heilogum Anda, segier Paulus, Rom. 14. Og wt af þessum hanns Ordum vil eg i stuttu Maale segia, hver ad sieu Audæfe Guds Naadar-Rijkis: Þad er Riettlætid, ecke vort eiged, sem ecke er betra enn Ridlags Fat, þegar þad er sem Kostulegast; Helldur JEsu Christi, hver oss er til Riettlætis af Gude giefenn. Skyllde eg nu vilia taka nockurn Veralldar-Aud fyrer þad, DRottenn minn? Fyrer þad eru mier Synder mijnar tilgiefnar; Enn þegar þær eru kvittar, þa er eg rijkare i ollu mijnu Volæde, enn Salomon i allre sinne Dijrd; J þvi maa eg byrtast fyrer Auglite þijns Fodur, en ecke i Pelle og Purpura hins Rijka Sælgiætings, Luc. 16. Fyrer þad mun eg Guds Barn kalladur verda, enn ecke þo eg nefndur være Doottur-Sonur Pharaonis. Hvad gagnar þad Mannenum, þvott hann eigenst allan Heim þenna, enn lijde Topun aa Saalu sinne? Hverre eg veit ad borged er, medann eg aa þann Fiesiood, sem hun er Endurkeypt med. Þvott ad Sveinnenn Conia være Signets-Hringur aa minne Hægre-Hende, þa skyllda eg slijta hann þadann, segier DRottenn um Jeconiam, Son Jojachims Gydinga Konungs, Jerem. 22. En eg er þess fullvruggur, DRottenn, ad þu ecke slijtur þijna Volada wr þijns Sonar Hondum, hvar þeir skrifader eru, þvi eru þeir ollu betur til þijns Rijkis borner, helldur enn Veralldarennar Born, hverssu sem þau mektug eru, þegar þau hafa hanns Riettlæti fyrir sig ad bera, þvi hann hefur giefid þeim Makt til ad vera Guds Born, sem aa hanns Nafn trwa, Johann. 1.

Af þessare Root Jesse sprettur Fridurenn, sem Paulus umgietur, þvi hann er Fridar-Hofdinge, Esa. 9. Og er þad nu saa annar Rijkdoomur i Guds Naadar-Rijke. J Rijkiun Veralldarennar er eingenn Fridur: Þegar Menn taka Salomon og Augustum Keysara i burtu, þa skulu Menn ecki finna morg Dæmi til, ad Veralldar-Hofdingium hafi tekist leingi Fridi ad hallda; Jafnvel þvott Goodir og Riettvijsir verid hafi, Og kynni þad skied ad vera, til ad teikna þar med Christi Rijke, J hveriu ad aa Fridnum mun eingenn Ender verda, Esa. 9. Þvi saa eine þeirra var hanns Fyrermyndan: Enn aa Dogum hinns var Lausnarenn i Heimenn fæddur: Enn i Christi Rijke geingur þad odruvijse til; Þar er ecke saa Fridur, sem Verolldenn giefur, helldur hanns Fridur, sem hann oss giefed, sem hann oss epterlaated hefur, hvern eingenn skal af oss taka. Hiner Oguðlegu hafa eingann Frid, segier DRottenn hiaa Esaiam, Cap. 48. Þeir Tonnlast og tyggiast um þetta Volæde, er þeir Rijkdoom kalla, eins og Gadd-Hestar um illt Foodur. Enn Fridurenn i Christi Naadar-Rijke er stadfastur, þvott hanns Undersaatar

ar hafe Piaaning i Heimenum, þa hafa þeir Frid i honum, og eru fullorugger, þvi hann hefur Heimenn sigrad: Pad er Fridur vid Samvitskuna, þvi Syndenn er afmaad med Guds Sonar Riettlæte: Fridur vid Gud, sem er Fridstilltur fyrer hans Blood: Fridur Innbyrdis, og Eindrægne i Andanum medal allra Guds Barna: Og, i einu Orde ad segia: Pad er saa Fridur Guds, sem ædre er ollum Skilninge, af hverium og kiemur Fognudurenn i Heilogum Anda, sem er þin Pridia Astgiof, sw ed Guds Voludum heitenn er i Christi Naadar-Rijke; Pad er saa Fognudur, sem Krossfester Mannenn Heimenum, og Heimenn Mannenum, Gal. 6. Saa ed forsmaaer alla Veralldarennar Glede, saa ed lætur Paal og Silam lofa Gud i Faangelsenu, Danielem gaanga Ohræddann i Leona Grofenne, saa er þvi til Vegar kiemur, ad Menn graata svo sem ei Graatande, og fagna svo sem ei Fagnande, 1. Cor. 7. Svo sem hryggver, og þo jafnann glader, svo sem Faatæker, enn þo marga Audgande, svo sem eckert hafande, og eigande þo alla Hlute, eins og Paulus um sig skrifar, 2. Cor. 6. Þesse er Fognudurenn i Heilogum Anda, sem rijker i Christi Rijke. Þegar Læresveinarner voru hryggver af þvi, ad Lausnarenn sagde þeim fyrer sijna Burtfør til Fodursins, þa sagde hann: Þier hafed nu ad sonnu Hrygd, enn eg skal siaa ydur aptur, og ydvart Hiarta skal fagna, og ydvarn Fognud skal eingenn af ydur taka. Ecke talade DRottenn i þad Sinn um hina eylijfu Hinnarijkis Glede, helldur um þann Fognud, er þeim gafst af hanns Upprisu, hver svo var mikell, ad þeir trwdu ecke þvi, ad hann upprisenn være, fyrer Fagnadar Saker, enn þo allra hellst talar hann um Astgiafer Heilags Anda, er hann hafde lofad ad senda þeim af sijnum Fodur: Hann var saa ed til fulls upprietti Israels Rijke, þad er, Guds Rijke inne hiaa oss, svo þeir hofnudu ollum Hlutum, og reiknudu þaa Þreck ad vera hiaa DRottne sijnum JEsu Christo, og med þeim sama stioornar hann enn nu sijnum Þegnum, Þad er, ollum þeim, er aa hans Nafn trwa; Hann er þad, sem ber Vitnisburd vorum Anda, ad vier sieum Guds Born, enn ef vier Born erum, þa erum vier og Erfingiar, Jaa, Erfingiar Guds og Samarfar Christi, uppaa þad, ad ef vier med honum lijdum, þa skulum vier og med honum Dijrdleger verda, Rom. 8. Þesse Guds Ande er Pantur Arfleifdar vorrar, Eph. 1. Þeirrar sem þar uppe er og ei maa skiemast, eige saurgast og ei rotna, svo sem Petur ad henne kvedur, 1. Pet. 1. Pad er hanns eilijfa Dijrdar-Rijke, er eg fyrer skomu minntest aa, hvert ed hinum Andlega Voludu heited er; Pad er saa Fognudur, sem ecke hefur Auga sied, og ecke Eyra heyrt, og ecke hefur i nockurs Manns Hug uppstijged, seger Esaias: Hvar Gud er allt i ollu, og eingenn Umskipte Liossins nie Myrkursins um Oendannlegar Allder Allda. Eckert Rijke Veralldar hefur svo Mektugt vered, ad ecke hafe þad Eydelagst, og Eitt hefur uppetid Annad; Enn þetta mun eingann Enda taka, þvi vier munum Eilijflega med Christo vera. Veralldar Hofdingiar drottna yfer morgum Misiofnum, sumum Vondum, sumum Goodum, sumum Rijkum, sumum Faatækum, Sumum Trwum, Sumum Hreckvijsum: Enn þetta er Samkunda Hei-

Heilagra, wtvalid Foolk og Konunglegur Prestskapur. Hinn Nafnfrægi Konungur Pyrrhus Epirota Konungur spurdi sinn Sendi-Mann, er hann hafdi giort fraa sier til Romaborgar, hvilijkir ad væru þeirra Raad-Herrar? Enn hann svaradi: Ad Raadid væri eins og Konunga Samsæti; Enn þad maa eg med ollu meira Rietti segia um Hollens Mikla Konungs, DRottinns Zebaoth, Þvi þar eru aller Undirsaatarnir Konungar: Allur Heimurinn nægdi ecki Metorda Gyrnd eins Manns, Alexandri hinns Stoora; Enn Guds Rijki nægir svo miklum Skara, sem einginn fær talid, Og hefur þa hver einn svo mikid Rijki, ad Alexandri Velldi maa i eingann Samiofnud koma. Þegar DRottinn spaair um Vegsemd Christi Rijkis hier i Raadinni, Þa segier hann, Zach. 12. Ad aa þeim Deigi skuli hinn Vesælasti af Juda verda eins og David, og ad jafnvel þeir Heimsku ei kunna ad fara villt, Esa. 35. Þvi voga eg ad segia: Ad hinn Minnsti i Riiki Himnanna muni verda heilagri enn Johannes, Vitrari enn Salomon, Frijdari enn Absalon, Sterkari enn Samson, og Rijkari enn oll Rijki Veralldarinnar og þeirra Dijrd. Þessarar Sælu niootandi ad verda, unn þu oss Konungur eilijfrar Dijrdar, JEsu Christe; Þier, med Fodur og Heilogum Anda, Sie Valld og Heidur, Rijki og Kraptur, um Alldir Allda, AMEN.

# Tuttugasta og Pridia Sunnudag eptir Trinitatis.

Gudspiallid, Matth. 22. Cap.

Y Pann Tijma. Pa geingu Phariseararnir, og hielldu eitt Raad, ad þeir feingi veidt hann i Ordum. Og sendu til hanns sijna Lærisveina med Herodis Pienurum, So seigiandi: Meistari, Vier vitum þad þu ert Sannsogull, og kiennir Guds Gotu i Sannleika, skeitir og eigi nockrum: Þviad þu fer eigi ad Mannvirdingum. Par fyrir, seig þu oss, hvad þier lijst: Hvert leyfist ad giefa Keysaranum Skatt eda eigi? Enn þa JEsus formerkti þeirra Vondsku, Sagdi hann: Hvad freistid þier mijn Hræsnarar? Sijnid mier Mintina Skattsins: Og þeir feingu honum Eirn Pening. JEsus sagdi til þeirra: Hvors Mynd og Yfirskrift er þetta? Peir sogdu honum: Keysarans. Pa sagdi hann til þeirra: Giefid þa Keysaranum, hvad Keysarans er, Og þad Gudi hvad Guds er. Og er þeir heyrdu þetta, undrudust þeir, Forlietu hann og geingu i burt.

Exordium.

Vier vitum, ad þeim sem Gud Elska, samverka allir Hlutir til hinns Gooda, Segier Paulus, Rom. 8. Þetta sannar oll Heilog Ritning med Postulanum, Bædi med Ordum og Dæmum; Einginn hefur sw Torfæra vordid aa Gotu fyrir

fyrir Guds Bornum, ad hinn Maattuga DRottinns Hond hafi ecki rudt hana, og le-
ldt sijna Elskendur þar i giegnum, aa einhvern Haatt, til þess Gooda, Er hañ hefur þe-
im fyrir bwid. Hardydgi Josephs Brædra vard honum til Upphefdar, Gen. 41.
Þvermoodsku Pharaonis sneri Gud sijnu Foolki til Trwarstyrkingar, Exod. 12.
Sw Bolvan er Balach Konungur villdi hafa keypt af Bileams Munni, Num. 23.
Vard Jsrael ad Blessan. Achitophels Raad urdu ecki einwngis ad Onijtu, 2. Sam.
17. Helldur David til Sæmdar-Auka. Araasir Sauls Konungs giordu hann fræg-
ann i Jsrael. Jessabels Offsooknir styrktu Eliam, 1. Reg. 18. Offstopi Hamans
lietti Þrældoominum af Guds Foolki, Esth. 8. Og þursum vier ecki margra Dæma
hier um ad leita: Einginn hefur svo Jllt i Sinni haft, svo sem Kiennimanna Hofdingiar-
nir, þegar Herodes og Pontius Pilatus med Heidingiunum og Jsraels Foolki samañ-
sofnudust yfir JEsum Guds Son, til ad giora allt þad, er hañs Hond hafdi aadur fyr-
irhugad ad skie skylldi, Act. 4. Enn þessari Jllsku þeirra sneri Guds Alvitra Raad oll-
um Heimi til Myskunar og Syndalausnar, Þviad i hanns Nafni, Sem þeir i þad sinn
heingdu uppaa Tried, svo sem adra Bolvan, Þa faa þeir allir Syndanna Fyrirgiefn-
ing, sem aa hanns Nafn trwa, Ad Vitni allra Spaamanna, Act. 10. Svo Meñ meiga
jaata þad satt ad vera, Sem Eliphas segier, Job. Cap. 5. Ad DRottinn faangi hina
Vitru i Slægdum þeirra, Og Raad þeirra, Er i giegn standa, munu detta. Dæmi
þar uppaa hofum vier i þessa H. Dags Evangelio, Þar vier heyrum, ad hinir Olmu
Hundar voru enn nu Einusinni wtsendir, til ad faanga hid Saklausa Guds Lamb, og
hofdu svo haglega tilbwid sijnar Veidibrellur, ad ecki skylldi tilsleppa: Enn hann, sem
vissi hvad med Manninum bioo, og Onijt giorir Raad hinna Ogudlegu, Hann felldi þaa
i hina somu Grof, Er þeir hofdu honum bwid, Og vann aa þeim med þeirra eigiñ Vop-
ni, Svo sem vier heyrdum af Gudspiallinu, Af hveriu vier nu vilium Hugleida: 1.
Hvad vier sieum Yfirvalldinu skylldugir. 2. Hver ad sie Skyllda vor vid Gud
Almaattugann. Styrk oss hier til, DRottinn minn, Fyrir þijns Sonar Forþien-
ustu, AMEN.

## Utleggingiñ.

Biefid Keysaranum Hvad Keysarans Er, segier DRottiñ: Menn leggia þad kañ
skie ad litlu sumir hverier, ad þeir bioda ad hlijda sier, hverra Virding ad vex vid
annarra Undirgiefni: Þad kyñi ad fliwga einum i Þaanka, ad ecki væri ad hen-
da Reidur aa þvi, þoott ad Loginn og almennilegar Skickanir segie þeim nockur Þyngsl aa
hendur, sem eingu gieta af sier hrundid, Sakir Vanmaattar sijns, Þvi þeir somu raa-
da fyrir Logunum, sem Tollana taka: Enn giætum ad hver saa er, ed þetta segier: Þad
segier saa, Sem allt Valld giefid er, bædi aa Himni og Jordu, Matth. 28. Emm er þo i
Þræls Lijki auglijstur, Philipp. 2. Hann sem allt Silfur og Gull aa, Og ecki vill segia
Manninum til, Ef hann hwngrar, Ps. 50. Enn hafdi þo ecki hvar ed hañ maatti Hafdi
sijnu ad halla, Matth. 8. Hann sem aa hverri Styndu kunni ad bidia Fodurinn um 12.

Legion Eingla, Matth. 26. Enn kom þo i Heimenn, ecke til þess, ad lꜳta sier þiona, helldur uppꜳ þad hañ ødrum þiónade, Matth. 20. Hverium Gud hafdi giefid Tignar-Sæte sijns Fødur Davids, Luc. 1. Enn vard þo Forsmꜳn Mañaña og Fyrerlitning Foolksins, Fyrer vorar og allrar Veralldarennar Synder, Esa. 53. Seiged mier, Brædur mijner! Mun hann, sem svo Hꜳttadur var, hafa talad þesse Ord fyrer sijna Skulld, edur munde hann ecke hafa kunnad ad nꜳ Riette sijnum, hefde hanns Rijke vered af þessum Heime? Ecke munde honum hafa þad Torsoꝛt vorded, helldur talade hann þau til Blygdunar þverbrotnum Gydingum, hverier ei villdu þeckia hinn Romverska Keysara fyrer sinn Høfdingia, er þo hafde af Gude þeiged Valld yfer þeim, og til þess, ad kienna þier, Guds Barn, þa Hlijdne, er þu ert Yfervalldenu skylldugur um: Þier kann ad sønnu til Hugar ad koma: Hvad velldur þvi, ad hann skule helldur drotna yfer mier, enn eg yfer honum, þar vid erum þo bꜳder nakter i Heimenn borner, bꜳder eigum vid Ætt ockar til Adams ad rekia, bꜳda hefur Gud skapad, og hverigur ockar hefur neitt af siꜳlfum sier? Þar fellur Svar til: Fyrer Guds Saker skalltu honum undergiefenn vera, hver ad er allra Konungar: Paulus segier med berum Ordum, Rom. 13. Þar er eingenn Valldstiett, nema hun sie af Gude, helldur eru þær Valldstietter, sem til eru, af Gude skickadar, þar fyrer, Sꜳ ed Valldstiettenne mootstendur, hañ mootstendur Guds Skickun, enn þeir ed mootstanda, afla sier Fordæmingar: Þar fyrer, Sꜳ sem segiest Gude vilia vera undergiefenn, hann sie og Valldstioornenne undergiefeñ, hver af Gude er skickud. Þu segier: Hañ kom nakenn i Heimenn eins og eg; Eñ ef Gudi þocknast ad klæda hann i Purpura, enn þig i Totur, ꜳttu Sok ꜳ þvi? Ertu þar fyrir Rangeygdur, þvi ad hann er Goodgiarn? Þid erud bꜳder af Adam komner, enn sꜳ sem hafde Valld til ad mynda Adam af Leyr Jardar, mun hann ecke hafa Valld til ad setia Eitt Kiered til Heidurs, enn Annad til Vanheidurs? Rom. 9. Hverigur yckar hefur neitt af siꜳlfum sier; Af hverium þa? Af Gude; Þar fyrer ꜳttu hvad mest ad virda þann sem yfer þig bodeñ er, þvi þa Virdingu hann hefur fram yfer þig, hana hefur hañ af Gude þeiged; Forakta þvi ecke hanns Skickan, enn lꜳt þier nægiast þiñ deilldañ Verd; Og svo sem Menn eru Konungenum skylduger ad hlijda nærst Gude, J øllum þeim Hlutum, sem Gud ecke bannad hefur, þvi framar ber ad hlijda Gude enn Mønnum, sagde Petur, Act. 4. Svo byriar oss og ad vera þeim undergiefner, sem hañ yfer oss skipad hefur, ad svo miklu Leite sem hañ hefur þad skipad, þvi svo segier Petur, 1. Pist. 2. Vered undergiefnir sierhverre Mañlegri Skiepnu, Saker DRottens, hvert helldur Konungenum, svo sem Yferrꜳdande, edur Stiornurunum, svo sem þeim er af honum eru sender: Sꜳ sem þeim mootstendur, er af Konungenum sender eru, hann mootstendur Konungenum, sꜳ sem Konungenum mootstendur, hann mootstendur DRottne, sꜳ sem mootstendur DRottne, hann steyper sier i Fordæmingu, hvar af þad vill fylgia, ad sꜳ sem sijna Yferbodara svijkur, vanvirder edur mootstendur, J þvi Starfe, er þeir ꜳ Hende hafa, hann er sama Doome undervorpenn hiꜳ Gude. Hvad eru Menn

þa

þa Yfervalldenu skyllduger? Þad segier oss Paulus, Rom. 13. Giallded øllum þad þier skyllduger erud; Þeim Skatt er Skattur heyrer, þeim Toll er Tollur heyrer, þeim Otta er Otte heyrer, þeim Heidur er Heidur heyrer. Tvenut þad Siydara er ecke svo miøg Abootavant, jafnvel þoott ad Otte saa, er standa ætte af Valldstioornenne, halldi sumum Mønnum lijtt aptur fraa vondum Verkum; Enn utvortis Lotning og Virdingar faa Menn noogar, þar er ei yfer ad klaga; Þvi margur verdur til ad kyssa aa þa Høndena, er hann giarnann villde af være: Enn þad sem gialldast aa, er optast tregara hiaa mørgum, ecke sijst vid þa, sem oss eru af Gude skickader til ad vaka yfer Saalum vorum, af þvi þeir ecke hafa Sverded þad Lijkamlega i Høndunum; Enn hvad þvi Andlega vidvijkur, þa hafa sumer Menn svo bryniad Samvitskur sijnar med einu Staal-Hiarta, ad Sverd Andans, sem er Guds Ord, vinnur ecke aa hana, Jafnvel þoott þad sie giørt til þess, ad þreingia sier i giegnum Bein og Merg; Og vil eg ecke faa mier þad til Orda, þoott Menn sieu treger i Giølldunum, Gud giæfe þeirra Christelegum Aminningum hlijdt være, þa mætti þeir hitt einkis akta, þvi DRottenn er þeirra Hlutskipte! Eg vil aptur hverfa til þess, er eg strax um talade; Giefed Keysaranum hvad Keysarans er, segier Christur: Hann talar hier sier i Lage um þær Skylldur, er Yfervalldenu gialldast eiga; Og þetta er ecke Manns edur Eingels, ecke utvortis Verallds Konungs, helldur sialfs Guds Sonar Bod; þar fyrer, ad lijka svo sem saa Kongs Umbodsmadur, er tekur framar enn hanns Herra hefur boded hønum, hann stelur; Svo er og hinn Þioofur i Guds Auglite, er dregur þad af Yfervalldenu, er þvi med Riettu byriar ad hafa, og saa er þad utelætur med illu Giede, hann giører Gialld sitt ad Synd og ad vondu Verke, þvi segier Paall, Rom. 13. Þar fyrer er einsætt Undergiefen̄ ad vera, ecke alleina vegna Reidennar, helldur og Samvitskunnar vegna, hann meinar Konungsins Reide (hver ed Salomon segier, Prov. 20. Ad sie eins og ungs Leons Øskur), helldur og Samvitskunnar vegna, þad er vegna Guds, sem þetta boded hefur, hverium vier erum i Hiørtum og Samvitskum vorum Skulldbundner. Margur Ohlutvandur þeinker svo, og sumer kann skie leife sier ad tala: Eg hefe eckert Gott af Valldstioornenne, hun er ecke nema Almugannum til Þijngsla, þeir hafa miklar Alogur, Menn sæta hørdum Refsijngum af þeim; jafnvel fyrer smaar Saker. Heyr mier, Barn mitt! Jeg vil ecke tala um Guds Bod i þessu, þar Postulenn skipar ad Menn skule vera sijnum Yferbodurum undergiefner, ecke einasta Froomum og Goodum, helldur og einnenn Hardraadum og Hreckvijsum, 1. Pet. 2. Og St. Paall skipar, 1. Tim. 2. Ad bidia fyrer Nerone Keysara, sem þo var Gudlaus Madur: Enn seig mier, kan̄ eitt Haf-Skip ad fara Leid sijna fyrer utann Stijre? Enn þa sijdur kann Londum og Lijdum vel ad gaanga, þeim er eingen̄ stijrer; Hver aa ad straffa Synder og Leste? Hver aa ad refsa Ogudlegum Skaalkum, þeim er Froomum og Meinlausum veita Yfergaang? Hver aa ad dæma aa mille Bloods og Bloods? Hver aa ad skipa Riettindum Manna, svo hver hallde sijnu? Hver aa ad giefa oss Løg ad lifa epter? Hver aa ad skicka oss Kiennendur og Predikara, til ad uppfræda

frœda oss til eilijfs Lijfs? Enn varna vid Eilijfum Helvijtis Elld? Hver er ad verndà oss frà Hernadi og Aràasum Omilldra Mannà, svo ad vier lifa meigum Hœgu og Roo-semu Lijferni med allri Gudrœkni og Sidsemi? 1. Tim. 2. Hver er allt þetta ad gio-ra, Ef þar er eckert Yfirvalld? Gud vardveiti sijna Christnt frà Omilldum Konung-um; Honum sieu og Eilijfar Þackir fyrir þa stooru Rààd, er hann hefur oss giefid fram-ar ollum Monnum i Heiminum! Enn þad þori eg ad segia, Betra er illt Yfirvalld, Enn eckert; Þvi hvar svo astendur, Þar er hvers Hönd i mooti odrum; Þar er hver annars Bodull, Þar er einginn Ohultur um Lijf sitt, Eingin um Born nie Kvinur, Eingin um Eigur sijnar nie Atvinnu, Þar er eingin Sidsemi, Eingin Kiærleiki, eingin Guds Otti; J Einu Ordi ad segia: Þad er haalft Helvijti. Þetta munu þeir Osgar kalla, er lijda þykiast Alogur af Yfirvalldinu, Enn einginn veit hvad aatt hefur fyrr enn mist hefur: Ol-lum Monnum i Heiminum hefur þad ad Vegi ordid, ad taka sier Hofdingia, Þar sem Almenningur hefur tekid til ad stioorna. Jlla gieck þad til a Dogum hinna Ogudlegu Jsraels Konunga, Jeroboams, Manassis, Achabs Og annarra: Þo var þad enn þa verr, Þegar einginn var Doomari i Jsrael, Og hver einn giordi þad riett þootti i hanns Augliti, Jud. 17. Þa var valla nockur Guds Þecking i Jsrael; Þa giordu Beniamin-itar þa Haadung, Er Spolinn hefur aungva verri yfir skinid, Hveria Sodoma og Go-morra mættu skamast sijn vid ad heyra; Þa slaatradi Guds Foolk sijnum eigin Brœdrum og Systrum, Heilli Ættkvijsl, morgum Þusundum Mana, Svo þar var ecki ein Kona eptir i Beniamin: Og hvad vilium vier laangt leita; Vier hofum Eptirdœminn hiaa oss, Þegar þetta Vesæla Land flaut i sijnu eiginn Bloodi, aadur enn Gud gaf oss Konung, svo ad einginn maatti Ohulltur leggiast i Reckiu sijna, Hversu ægiætlega leid oss þa? Hversu foor þa fram i Landi voru? Mundu Menn þa ecki Allshugar fegnir verda ad jaata Konungi; Og ganga undir hann, Til ad hallda Lijfi og Limum, Fridi og Frelsi? Svo er þvi haattad, Br. M. Fyrir oss Syndugum Monnum, Vier hliootum Lagannà Þrælar ad vera, uppa þad vier kunnum Frelsi ad hallda. Hver sem nu yfirvegar allt þad Gooda, Er vier hliootum af Valldstioornjnni, Og undir eins allt þad Jlla, Er hun afstijrir; Hann mundi med betri Samvitsku og fusari Huga giora Christi Bod; J Þvi ad giefa Keysaranum hvad Keysarans er. Enn ef nockrum þykir Valldstiettin Ref-singasom, honum kann eg eckert betra Rààd enn þad, er giefur St. Paall, Rom. 13. Seg-iandi: Villtu ei Valldstioornina Ottast, Þa gior hvad Gott er, Og muntu Lofstijr af henni hafa, Þvi hun er Guds Þienari, Þier til Gooda; Enn ef þu giorir hvad illt er, þa vert Ottasleiginn; Þvi hun er Guds Þienari, Til Hefndar og Reidi þeim sem illa gio-ra: Og er svo utt-talad um hid Fyrra.

Enn hversu mikid ad vier Gudi skylldugir sieum, Þad kann einginn Tunga ut ad skiira, Hverki Engla nie Manna; og þvi mun þad nockur Munnur saa utsagt, Þar sem ad allir Utvalldir, Allir Heilagir i Eilijfu Lijfi faa þad ecki fullgiort um alla Eilijfd? Eilijfa Tijd skal til þess hafa, ad prijsa hina eilijfu Giædsku, og Oendanlegar Alldir, til ad Veg-

sama

sama hanns Nafn, sem alldrei Enda tekur. Hversu meigum vier þa jaata med David: O! DRottenn, minne erum vier øllum þijnum Myskunsemdum: Samt hefur þo hin eilijfa Hiartign boded ad vier prijsa skylldum þær Daasemder, er hann giorer aa medal Mannanna Barna; Ecke fyrer þvi, ad hann þurfte vorrar Hroosunar vid, þvi hann er Gud Blessadur um̃ allar Allder, helldur ad Ihugan hanns Velgiørninga mæige verda oss til Sidboota og Saaluhiaalpar. Vier heyrdum Fyrra Sunnudag talad um̃ hinn Vonda Þioon, sem var sijnum Herra 10000. Punda skylldugur; Munum vier ecke aller meiga sitia aa Beck med honum, þegar ad Skullda-Døgunum kiemur? Saal og Lijkama hefur Gud giefed oss. Til hvers? Ecke til ad brwka þad svo sem vier vilium siaalfer, helldur til ad þioona DRottne þar med: Lijkamenn er hinn Oædre Partur vors Skapnadar, hann hefur Guds Giædska lient oss til ad wtvega Atvinnu vora, svo ad vier i Sveita vors Andlitis kunnum vors Brauds ad neyta, Gen. 3. Þo hefur hann skiled sier Leigu hier af, þvi St. Paall segier: Vited þier ecke, ad ydar Limer eru Mustere Heilags Anda sem i ydur er, hvern þier hafed af Gude, og þier erud ecke siaalfs ydar Menn: Hendurnar hefur hann lient oss til ad brioota Voludum vort Braud; Fæturnar til ad gaanga fwslega i Guds Hws; Augun til ad upplypta þeim til Himens, hvadann oss kiemur Hiaalpenn; Eyrunn til ad heyra Guds Ord, og vardveita þau; Twnguna til ad lofa hanns Nafn: Enn i øllu þessu høfum vier resiast vid hinn Almaattuga, þad hefur geingid Andhælis fyrer oss, vier høfum lied vora Limu Syndenne til Ibwdar, og laated hana drottna i vorum Daudlegum Lijkama, Rom. 6. Þar vier aattum ad liaa þaa Riettlætenu til Verkfæra. Margur wtrietter Hendurnar til Raans og Þioofnadar, til ad meida Holld sijns Naunga, og ad hefna siaalfur sijn, enn stela Hefndenne fraa Gude; Svo laangt er fraa þvi, ad Menn giefe Gude hvad Guds er: Fæturner eru næsta fimer, til ad hlaupa aa hinn breida Veg: Augunn eru Skaalkur, svo ad allur Lijkamenn verde Skaalkur, Grannskign til ad siaa Kvistenn i sijns Broodurs Auga, eñ ad Biaalkanum i siaalfum sier giæta þau ecke; Eyrun klæa epter þvi, er þau heyra vilia, og eru opeñ vid Bulldre Veralldar þessarar, svo ad Guds Ord faa ecke Rwm i þeim: Twngañ temur sier skam̃arleg Ord og Fiflslegt Hial, sem Christnum hæfer ecke, Roog, Lijge, Bakmælge, og annad þvi um̃ lijkt. Æ oss auma Menn! Hversu illa høfum vier þa Gude goldded hanns Hwsa-Leigu! Vited þier ecke, ad þier erud Kyrkia Guds? Segier Postulenn: Enn hann sem Guds Kyrkiu skiem̃er, þann vill Gud skiem̃a, segier hann, 1. Cor. 3. Enn hvernig høfum vier ræktad Guds Hws, Brædur mijner? Þad aatte ad vera Bæna-Hws, enn vier høfum giort þad ad Ræningia-Bæle. Enn ef Gud skilur sier nu þvilijkañ Skatt af Lijkømum vorum: Mun hañ þa laata Saalena bwa Oleigis? Aungvann Veigeñ: Peningurenn, er Judar sijndu DRottne, hann var golldenn fyrer Høfud hvert i øllu Roma-Rijke, þar fyrer gallt og JEsus Skattenn fyrer sig og Petur, er hañ spurde hann ad, hvert Veralldleger Konungar tækiu Skatt af sijnum eigenn, edur af aññarlegum? Matth. 17. Þar hann aatte þo ecke Skatt ad giallda, þvi hañ var ecke einasta

Kongborinn, helldur Konungur ad Eiliſfu; Svo œ og ſierhver Einn af oſs fyrir Sa lu ad ſia, Hun bijr i Leigu-Hwſi, Hun œ ecki einaſta eptir þad ad giallda; helldur og fyrir ſiœlfa ſig: Enn hvad eigum vier þa ad giallda, Edur hver er Skattur hinns Allra Hærſta? Þad giorir hann ſiœlfur bert, Pſ. 50. Ecki et eg Kiot hinna ſterku Uxanna, og ecki dreck eg Blood Hafranna; Offra DRottni Lofgiordinni, og lwk hinum Allra Hærſta þijn Heit. Hver er ſw Lofgiord, Er Gud af oſs heimtir? Er þad noog ad kaſta uppœ hann kvediu ſinni, med einu Pſalm-Verſi? Fiærri ſie þvi, Þad heitir ad nœlæg- iaſt hann med Vorunum, Enn Hiartad er langt þar fra. Gud verdur ecki med Mæl- gi prijſadur þeirri er Heidingiar brwka, og meina ſig fyrir hana ad Bænheyraſt, Matth. 6. Helldur ſvo ſem David, Þar hann ſegier; Lof ſeig þu DRottni Ond mijn, og allt hvad i mier er, hanns bleſſada Nafni. Ef vier vilium Gud œkalla i Anda og Sañ- leika, Þa ſkal Syndarinn koma hrædbur og ſkiœlfandi fram fyrir hinu Heilaga i Jſrael, Hann ſkal yfirvega hanns Heilagleik, og ſiñ Overdugleik; Mergd ſiña Synda, og Fiollda hanns Myſkunſemda; Guds Þolinnmœdi, og ſitt Toomlæti; Guds brennandi Elſku til ſijn, og ſijna Eymd og Olucku, Sem ecki gietur i Lijkama þeſſa Dauda elſkad hañ af ollu Hiarta, og ollum Kroſtum, Er oſs ſvo heitt elſkadi: Og þegar hanns Hiarta er af ſlijk- ri Hugraun brœdnad i honum ſem annad Vax, Þa ſkal hann hroopa af Diwpinu til DRottinns, Eins og David: Mijnar Syndir eru mier yfir Hofud geingnar, Þær eru vordnar mier mikils til Ofþwng Byrdi: Og med Tollheimtu-Manninum: Gud vertu mier Syndugum Lijknſamur; Enn er þu ſvo giorir, Þa mun Andinn bidia fyrir þier, med Ouñrædilegum Andvorpunum: Enn hann er Hiortun Rannſakar, veit hver ad er Andans Meining, Þvi hann er eptir Gudi Medalgœngari fyrir Heilaga, Rom. 8. Og er Gud ſvarar þier i Leyndum Hiarta þijns fyrir Heilagañ Anda, ſœ ed ber þijnum Anda Vitni um, ad þu ſiert Guds Barn, Segiandi: Vertu Hughrauſtur Sonur, þier eru þijnar Syndir fyrirgiefnar: Þa Offra Gudi Lofgiordinni, Og ſeig med JEſu Mood- ur: Mijn Ond miklar DRottinn og minn Andi gladdiſt i Gudi Heilſugia fara mijnum. Þeſſir eru Kalfar Vara vorra, Er vier eigum Gudi ad foornfæra, Oſ. 14. Þad er þad Offrid, ſem fyrir honum gylldir, Þvi Harmþrwnginn og Sundurknoſadann Anda mun hann ecki fyrirlijta, Pſ. 51. Hver eru þau Heitinn, Er vier eigum honum ad lwka? Þad eru þau er vier hietum honum i Skijrninni, Þegar hanns Eingietinn Sonur, Hiñ Frijdaſti medal Mannanna Barna, Trwlofadi oſs ſier i Nœd og Myſkunſemi; Hver voru þau? Þad vier jœtudum Gudi Helga Trw, uppœ hveria vier ſkijrdir vorum, Enn afneitudum Fiandanum og ollu hanns Athæfi. Hver er þa Heilog Trw? Ecki ſw alleina, ſem þeckir Gud ad vera; Hvad einnig giora Dioflarnir, og ſkielfaſt þar af, Jac. 2. Helldur hun, ſem ad verkar fyrir Kiærleikann; Gal. 5. Hver ad er Þolinnmoodur og goodgiarn, Ecki Ofundſiwkur, giorir eckert Illmannlega, Ecki blæs hann ſig upp, er ecki Oſidſamur, Hann leitar ei eptir þvi ſem hanns er, Ei þwnglindur, Hann þeinkir ei Jllt, hañ fagnar ecki yfir Ranglætinu, enn ſamfagnar Sañleikanum, Hañ umber allt, Hañ trw-

er ollu, Hann vonar allt, Hann þolir allt, 1. Cor. 13. Þad er sio Trw, Er vier jatudum Gudi i Skijrninni, Er slijka Avexti af sier giefur, Hverier sijdur meiga vid hana skilia, enn Byrtann vid Soolina. Enn hvert er þa Andskotans Athæfi, er vier neitudum? Þad eru Holldsins Verk, Sem Paulus upptelur, Gal. 5. Hoordoomur, Saurlijfi, Ohreinleiki, Lausung, Skurgoda Dijrkun, Fiolkijngi, Fiandskapur, Þrætur, Kapp, Reidi, Þraattanir, Sundur-Þyckia, Flockadraattur, og annad þeim lijkt: Þetta eigum vier ad laata, Enn hitt ad giora, Ef vier vilium giefa þad Gudi sem Guds er, Þvi svo segier DRottinn fyrir Munn Esaiæ, Cap. 1. Þvoid ydur, Hreinsid ydur, Takid ydar Illskubreitni fraa mijnu Augliti, Lætid af Illu, enn lærid Gott ad giora, Komid sijdann og eigunst Log vid; Þo ad ydar Syndir sieu raudar sem Blood, Þa skulu þær verda hvijtar sem Snioor, Og þo þær sieu sem Purpuri raudar, þa skulu þær verda hvijtar sem Ull. Þeir sem eru skylldir undir nockurn Konung, þeim byriar ecki Einungis ad greida honum Skatta og Skylldur, Helldur og ad strijda aa mooti hanns Ovinum: Nu er einginn þvilijkur Guds Ovinur sem Diofullinn, þvi Christur og Belial eiga eckert Hlutskipti samann, 2. Cor. 6. Nu fyrst vier erum geingnir Gudi til Handa, Þvi skylldum vier þa draga eitt Ok med Satan? Andskotans Taum dregur Holldid, Enn Guds Lidi stijrir Andinn; Laatum oss i honum gaanga, svo munum vier ei fremia Holldsins Gyrndir, Og Iklædunst Guds Herskrwda, svo ad vier gietum mootstadid Prettum Diofulsins, Eph. 6. Þa erum vier riettir Guds Þegnar. Enn JEsus Christus, sa ed Hoggormsins Hofud hefur i sundurmarid, og nidurbrotid Helvijtanna Port, Hann virdist ad troda Diofulinn undir Fætur vora; Enn giefi oss ad beriast goodri Baraattu, behallda Trwnni og goodri Samvitsku, þar til oss um sijdir verdur afsidis logd Coronan Riettlætisins, Sem DRottinn Gud virdist ad giefa oss aa þeim Deigi, þegar vier eigum ad giallda þa Sijdurstu Skulld, Og afhenda þad Gudi hvad Guds er, Sem er Saal og Lijf, Hvert vier hofum ad Laani, Og ecki ad Eign þeigid.

Þad Bænheyri Fadir Myskunsemdanna, Fyrir Son sinn JESUM Christum, AMEN.

# Tuttugasta og Fioorda Sunudag eptir Trinitatis.

Gudspiallid, Matth. 9. Cap.

Vm Þann Tijma. Þa ed JEsus taladi þetta til þeirra: Sia þu Ad Hofdingi nockur gieck ad, Og tilbad hann, Segiandi; Mijn Doottir er nij-sætud, Enn þu kom og legg þijna Hond yfir hana, Og mun hun lifa. Og JEsus stood upp, og fylgdi honum, Og so hans Lærisveinar. Og sia þu, ad Kona, Hver ed hafst hafdi Bloodfall i Toolf Ar, gieck aa Bak til vid hann, Og snerti Falld hans Klædnadar. Þvi hun sagdi med sialfri sier: Ef ad eg mætti ad eins

snerta hans Klædnad, munda eg Heilbrygd verda. Enn JEsus snerest vid, Leit til hennar, og sagde: Vertu Hughraust, Dootter, þijn Trwa giörde þig Heilbrygda. Og a þeirre sömu Stundu vard Konann Heilbrygd. Og þa ed JEsus kom inn i Höfdinglans Hws, og saa þar Lwdur-Peitara og Bulldran Foolksins, sagde hann til þeirra: Vijked fraa, þviad ecke er Stulkann daud, helldur sefur hun. Og þeir dæarudu hann: Enn sem Foolked var wtdrifed, gieck hann þar inn, og took umm hennar Hond: Og Stulkann stood upp. Og þetta Ryckte barst wt umm allt þad sama Land.

## Exordium.

Hað eru merkeleg Ord, sem Esaias Spaamadur skrifar, i hanns Bookar 26. Cap. og þannig hliooda: J Angistenne vitiudu þeir þijn, DRottenn, þeir wthelltu Audmiwkum Bænum, þegar þu typtader þaa. Svo er hættad voru auma Hollde og Bloodi, Christner Menn, ad þegar allt ad Oskum geingur, þa þeckir þad a Stundum hverke Gud nie sinn eigenn Veikleika, og þoott vier siaaum nærre Daglega a þeim, sem DRottenn typtar, hversu ad Manneskiann er sier Onoog umm alla Hlute, þegar hann byrger fyrer henne sitt Auglite, þa er þad eins og þad ecke kome vid oss, svo sem ad einn helldur enn annar sie undann þeigenn þeim Okostum, er Syndenne fylgia, og Eliphas af Theman kallar ollum jafn vijsa, segiande: Ad Madurenn fædest til Armædunnar, svo sem Neistarner af Gloodenne fliwge i Lopted upp: Enn þoott ad þessu sie svo vared, þa sijnest svo sem ecke eige aller vid lijkann Kost ad bwa, þar nockrer bada i Roosum, og vita ecke af miklum Mootgaange ad segia; Hiner þiaast alla Æfe sijna, og siaa valla gladann Dag: Enn þad er Eptersioonar verdt, hvert ad hinna Kiör sieu betre enn þessara, ef Menn þad riett adgiæta: Ad vijsu sijnest þad svo fyrer Mannlegum Doome; annars er þad vijst, ad i Velgeingnenne er Mannenum hættast vid ad gleyma Gude, sem er hin stærsta Olucka, er Syndaranum kann til ad falla. Þegar Jsrael vard fullur og feitur, þa giördest hann Lausláatur: Þegar Skeinkiare Pharaonis var aptur komenn til Virdingar sinnar, þeynkte hann hverke a Joseph nie Myrkvastofuna, Gen. 40. Þegar Nebucadnezar virdte fyrer sier oll hanns Stoorvirke, er hann hafde-laated giora i Babylon, þa upphafdest hanns Hiarta, þar til Gud straffade hann, og liet hann eta Gras med Villu-Dijrum, Dan. 4. Þegar Balthazar sat ad Dryckiu, og wt af Ofmetnade liet saurga Kierenn, sem brwkud hofdu vered til Þioonustunnar i Guds Hwse, þa vard hann rekenn fraa Rijke og Lijfe, Dan. 5. Þegar Herodes Konungur metnadest i sijnu Hiarta af Velgeingnenne, og gaf ecke Gude Dijrdena, þa vard hann sleigenn af Einglé DRottenns, og doo vesælum Dauda. Enn svo ad Guds Born ei rate i þvilijkann Saalar Haaska, þa leggur hinn Goode Gud þeim sijns Sonar Kross a Herdar: Eg þore ad segia, ad DRottenn hefur i sijnu Naadar-Rijke meira wtriett med honum einum,

um, enn med ollu sijnu Epterlæte. Amedal annara hofum vier Tvo Dæme þar uppa, i þessu Heilaga Evangelio, Samkundu Hofdingians Jairi, og hinnar Bloodfalls siwku Kvinnu, og af baadum þeim hverfu ad Trwenn reyniſt og efliſt i Kroſsburdenum, ſvo ſem Gulled hreinſaſt i Ofnenum, 1. Pet. 1. Vier vilium i DRottens Nafne Hugleida: 1. Jairi Dæme. 2. Hinnar Bloodfallsſiwku. O þu Goode Gud! Vert oſs Naalægur med Fulltinge þijns Anda, J JESU Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

SJaa Þu Ad Hofdinge Nockur Gieck Ad Og Tilbad Hañ; ſegier i Gudſpiallenu: Lucas og Marcus ſegia hañ hafe vered Samkundu Hofdinge: Kañ ſkie hañ hafe hverutveggia vered, þvi Gydingar hofdu Hofuds-Meñ i hverre Ætkvijſl, og þar ad auke hofdu þeir Forſtodu-Menn i þeirra Samkundum; Hvernig ſem þetta hefur vered a ſig komed, þa hefur hann þo mikils metenn vered medal Gydinga, enn Lijkinde er, ad hann mune ecke hafa matt JEſum mikels, aadur enn Naudenn þrijſte honum til þeſs. JEſus hafdi i heillt Ar kieñt, predikad og giordt Kraptaverk i Capernaum, eñ þeſs er ei gieted, ad Hofdinge þeſſe hafe feingeſt miked þar uñ, Fyrr eñ hanns einka Dootter var adkomeñ Dauda. Þad maa og allvijda leſa i Gudſpialls Sogunum, ad þeſs haattar Menn hotudu JEſum framar og offsoktu, enn ad þeir mundu leita Lids hiaa honum i nockrum Hlut, og þar fyrer ſogdu Gydingar Fordum Daga, er þeirra Sendemenn komu aptur, og ſogdu uñ DRotteñ, Joh. 7. Alldrei hefur nockur Madur talad ſvo ſem þeſſe, þa ſvorudu þeir, ſegie eg; Hvert erud þier og villter, trwer nockur af Hofdingiunum aa hann, edur af Phariſæunum. Ad eg ſaae mier þad ecke til Orda, ad Judar hofdu aaliktad, ad hver ſem medkiende JEſum ad vera Chriſtum, hann ſkyllde bannſettur vera, og rækur fraa þeirra Samkundu, Joh. 9. Edur uñ þad tale, ad Samkundu Hofdingenn reiddeſt honum nærſta miog, er hann læknade Kvinnuna aa Sabbats Deige, þa er i 18. Ar hafde Ohrauſt vered, Luc. 13. Af hveriu ollu ſiaa maa, ad Guds Sonur hefur ecke Velþockadur vered hiaa þeſs ſlags Foolke; Eñ ecke ad ſijdur rak Neideñ þeñañ Mann til ad falla JEſu til Foota med audmiwkre Bæn, ſvo ſem bæde Lucas og Marcus ſkrifa, ſvo þad rættiſt aa honum, ſem David uñ ſig ſkrifar, Pſ. 18. Þegar eg kveliunſt, þa aakalla eg DRottenn, og hroopa til Guds mijns, þa Bænheyrer hann mijna Rauſt, af ſijnu Muſtere. Eñ þu, Chriſteñ Madur, ſem þetta heyrer; Tak þetta Dæme þier til Vidvorunar og Trw þinne til Styrkingar, ef aaliggur: Þu hefur maaſkie ecke hyrdt ſvo uñ ad leita ad JEſu aa medann þier vel gieck; A medann þu varſt aa Bloome þinnar Æſku, þad kann vel vera, ad Synder þijns Ungdooms hafe vered margar: Hafe nu DRottenn vitiad þijñ med Kroſſenum, þa kannaſt þar vid, ad hann bender þier til þeſs ad koma til ſijn, ſem ad er DRottiñ þiñ Læknare; Hafe Gud ecki ſtraffad þig med Lijkamans Ohreyſte, þa ranſaka þo vel, hvert þu alheill ſiert. Þeſſe Hofdinge aatte Eina Einka Doottur, ſem aan alls Efa hefur vered honum kiærare enn oll hanns Aleiga: Þu aatt og fyrer einne Saalu ad ſiaa, koſtulegre Dijrgrip finnur þu ecke i allre Veroldenne, þvi hv-

ad gagnar þad Maninum, segier Endurlausnarin, ad hann eigniſt allan Heim þena, En lijdi Topun a Saalu sinni, Matth. 16. Dijrmæt er hun, Ecki einasta þess vegna, ad hun er i Fyrstu eptir Guds Mynd skøpud, Helldur hins annars laangtum framar, ad hun er med Guds Bloodi Endurkeypt: Giæt ad hvert hun Heilbrygd er; Þier virdist ad svo sie, af þvi þu kiennir þijns einkis Meins, og þijn Saala er ecki Orooleg i þier, svo sem Davids var; Enn trw mier til, Kiæri, ad þau Saarinn eru ecki betri, Sem daud eru, helldur enn hin, Er svijda: Muntu þar fyrir hraustari vera, Þoott þu siert lijkur þeim er Jeremias segier, Cap. 5. Þu typtar þa DRottinn; En þeir fina þar ecki til.

Ber Lijfernis Haattu þijna samann vid Mæli-Snwru Guds Heilaga Løgmaals, Hvert þu hefur elskad DRottinn Gud þinn af allri Ondu þinni, Og øllu Hiarta þijnu, og øllu Hugskoti þijnu, Og þinn Naunga sem sialfann þig, Hvert þu gietur sagt med hinum Rijka Yngling, sem kom til JEsum, og villdi faa ad vita hvad hann giøra skylldi, svo hann mætti eignast eilijft Lijf, Matth. 19. Ad allt þetta hafir þu giørt fraa Barndoomi þijnum: Og vil eg nu sleppa þessu, Þviad einginn Manna hefur um Æfi Guds Løgmaal uppfyllt, Nema hann Einn, sem bar vorar Syndir, og alla Løgmaalsins Bølvan, sialfur Syndlaus, Hreinn, Heilagur, Og fraaskilinn Syndurunum, Heb. 7. En seig mier; hefur þu halldid gløggvann Reikningskap vid sialfann þig hier um, Svo þu hafir ydrast Syndanna af Hiarta, og laatid þier þær leidar verda? Hvert þu hefur lagt vid þijn rotinn Saar og Andlegann Hollds-Fwa Þann Plaastur, er alleina kann ad græda, sem er JEsu Blessad Blood med Trwnni medtekid af Læknarans Hendi, og hvert þu ad Sijdustu hefur af Alvøru kappkostad, ad betra þin Lifnad, Hvert þu hefur ecki geingid Umþeinkingarlaust aptur til sømu Synda, vellt þier i sama Saur, Og syndgad uppaa Naadina, Og hvert hinn sijdari Dagurinn hefur bætt nockud um fyrir hinum Fyrra? Reynid ydur, segier Paulus, Hvert ad þier erud i Trwnni. 2. Cor. 13. Giørum svo! Vitum til, hvad heitt vier elskum Gud, Þegar Holldsins Fijsn er ødrumeiginn; Hveria Trwar Avexti vier finnum i Fari voru; Hvert Guds Andi verkar i oss fyrir sanna Ydran; Hvert vier erum svo tilbwnir med vorn Reikningskap, ad hveriu Kvølldi Dags, ad vier sieum þar vissir, ad þoott vier deyum, þa munum vier samt lifa, Joh. 11. Allt svo lengi ad vier ecki temium oss þetta Hugarfar, Þa þeinkia Menn hid sama, sem Eingillinn af Laodicea, Apoc. 3. Eg em Rijkur og Audugur noog og þarf Einkis vid, Enn þu veitst ecki, segier DRottinn, ad þu Vesæll ert, Aumur og Voladur, Blindur og Fatlaus; Eg ræd þier, ad þu kaupir Gull af mier, Gull þad i Elldi er reynt, Svo þu Audugur Verdir, og Iklædist hvijtum Klædum, svo ad Vanvirda þinn ar Fatleysu ecki Opinberist. Enn nær vier hølldum Reikning vid sialfa oss, Þa faaum vier ad þeckia, ad vorar Misgiørdir setur hinn Alskygni Gud frami fyrir sig, Og vorar Ovitannlegar Syndir frami fyrir sijnu Augliti, Ps. 90. Hvad þa, Brædur mijnir? Munu þa ecki um sijdir upplwkast vor Augu, Svo ad vier faaum ad siaa, Ad allt Høfudid er siwkt, allt Hiartad er veikt, Fraa Hvirfli og allt til Ilia Er þar ecki nema Saar, Kaun, Beniar og Þroti, Esa. 1.

Hvad er þa vor Saala betur aa sig kominn, Enn þessi Hofdingians Doottir, Su er var Daudvona, Edur og Andvana Lijk, svo sem Matthæus skrifar. Stoor Naud þreingdi Jairum til ad leita Christi; Enn laatum oss ecki vera Rækarminni vid Saalir vorar, Enn hann var vid Doottur sijna! Einginn er Krossburdur meiri, enn sa Baraatta, sem er aa millum Holldsins og Andans, Gal. 5. Og Tilfinning Synda sinna, med hverium vier hofum hinn Naaduga Gud styggdann, Hun uppþurkadi Davids Krapta, svo sem þa Hey þornar aa Sumri, Hun lagdi hann i Daudans Dupt, Hun hiellt Voku fyrir hanns Augum, Þad hann vard svo Maattlaus, ad hann gat ecki talad, Ps. 77. Enn hvad skulum vier þa Raadstaka, Br. M.? Hvad giordi Jairus? Hann fiell til Foota JEsu, segier Marcus, Og bad hann mikilega: Gior slijkt hid sama, Christinn Madur, Ef þu villt ad þijn Saala heilbrygd verdi; Audmijk þig undir Volldugu Guds Hond: Eg jaatadi DRottni Synd mijna, segier David, Og þa fyrirgafstu mier þad: Þad var og satt, Þvi undir eins og hann sagdi: Syndgast hefi eg aa mooti DRottni, Þa svaradi Spaamadurinn Nathan honum: Svo hefur DRottinn Synd þijna i burtu tekid, 2. Sam. 12. JEsus rækti þad ecki vid þenna Samkundu-Hofdingia, Þoott kannskie ad bædi hann og hanns Lagsmenn hefdu foraktad hann meir enn um eitt heillt Ar, Þvi hann vissi ad hanns Saala var Angurfull i honum, og villde þvi ecki leggia Sorg ofann aa Sorg, Helldur gieck hann strax aa þa Leid, er hann beiddi hann um. Hier rætist þad sem Esaias um hann spaair, og Matth. 12. Itrekar, segiandi: Hann mun ecki deila og ecke kalla, og einginn mun aa Strætunum hanns Raust heyra; Einn braakadann Reyr mun hann ecki sundurbrioota, Og einn Rijukanda Hor-Kveik ecki wtslockva. Hins sama hefur þu ad vænta, Christinn Madur, Hver hellst þu ert; Hiaa Gudi er eckert Manngreinar-Alit; Þegar þu med David kallar til DRottins aa þijnum Mootgangs-Tijma, Þa þu uppriettir þijna Hond aa Naattar-Þeli og lætur ecki af, Fyrir þvi ad þijn Saala vill ecki huggast laata, Ps. 77. Jaa, allra hellst þegar þu bidur um Fyrirgiefning þinna Synda, Þvi til þess er Guds Sonur i Heiminn kominn, ad hann nidurbrioti Diofulsins Verk, 1. Joh. 3. A medal hverra Syndinn er hid versta. Edur meinar þu ad hann, sem liet þad ad Bæn Jairi, ad uppvekia hanns Doottur, aan hvers hann kunni þo hoolpinn ad verda, ad hann muni neita þier um Kvittun þinna Synda, nær þu hennar Sorgfullur leitar, þar hann veit ad þu kannt ecki aan hennar Saaluhiaalpina ad erfa, Enn hann er þo i Heiminn kominn til þess, ad kalla Synduga og ecki Riettlaata til Yfdrunar, Matth. 8. Og vill ad allir Menn verdi Saaluhoolpnir og komist til Sannleiksins Vidurkienningar, 1. Tim. 2. Af Hiartgroonni Medaumkan og brennandi Elsku til Syndugra Manna Hroopadi JEsus fordum Daga: Komid til mijn allir þier sem Erfidid og Þunga þiaadir erud, eg vil Endurnæra ydur, Matth. 11. Þvi kiemur þu þa ecki til Guds, Hvers Syndir ad eru yfir þitt Hofud geingnar, Og þier mikils til Ofþung Byrdi vordnar? Þar þu veitst ad hann svarid hefur og sagt: A hverium hellst Tijma ad hinn Ogudlegi snijr fraa sijnu Ogudlegu Athæfi; Svo sannarlega sem eg lifi, Hanns Misgiorninga skal ecki ad Ei-

lijfu minst verda, Ezech. 18. Slijka Hlute afrekar Umvondun DRottens hiaa Syndugum Monnum, þa henne er med audmiwku Hiarta teked; svo vier meigum jaata þad satt ad vera, sem Paulus til Hebræos segier, Cap. 12. Ad oll Typtan, medan hun aliggur, þyke oss hun Sorg og eingenn Glede ad vera, enn epteraa giefur hun Fridsamlegann Avoxt Riettlætesins. Jairus þesse var eiñ Samkundu-Hofdinge, aan Efa eiñ Skriftlærdur og uppfrædur i Moysis Logmaale, enn i þvi fiñur hañ eckert Raad moote Daudanum, sem ei var Von, þvi Bookstafurenn deyder enn Andenn lijfgar, 2. Cor. 3. Bæde hann og hanns Dootter hofdu syndgad aa moote Logmaalenu, enn Logmaaled skylldar þaa alla under Daudann, sem ecke uppfylla þad: Svo hofum og ecke vier Synduger Menn neinnrar Hiaalpar ad vænta i Logmaalsins Verkum, þoott vier sieum þau skylduger ad giora, þvi Logmaaled er innkomed svo ad Synden yfergnæfde, segier Paulus, Rom. 5. Þad er, ad hun yrde uppvijs, þvi aan þess mundum vier ei Syndena þeckia. Þad er ei añad eñ eitt Brijne, aa hveriu Daudenn hvesser siñ Brodd, þar ed Syndenn er Broddur Daudans, eñ Kraptur Syndareñar er Logmaaled, segier Paulus, 1. Cor. 15. Þvi þad fordæmer þa sem hana drygia: Hvar hofum vier þa Lijfs ad leita? J Trwñe a hañ, sem Logmaaled hefur uppfyllt, Daudann sigrad, og bored Synder vorar upp aa Tried, enn fest þar Handskriftena þa sem moote oss var. Eñ svo sem Paalmavidurenn rietter sig upp under Þwnganum, svo vex Trwenn i Krossburdenum. Eg skal ecke segia, hversu Trwarsterkur ad Jairus hefur i Fyrstunne vered; Þad sijnest hañ hafe ecki meint, ad JEsus Guds Sonur være, helldur Spaamadur nockur, svo sem Elias, edur Eliseus, saa ed kyñe ad uppvekia Dauda eins og þeir, annars munde hañ ecke hafa meint, ad hañ þyrfte ad gaanga heim med sier, og leggia Hond yfer Dottur sijna: Hitt er vijst, ad hañs Trw hefur ecke svo sterk vered, sem Kviñu þessarar, er hier um gietur, edur hinnar Canaaneisku, edur Hundrads-Hofdingians. O miñ HErra JEsu! Hversu naakvæm er þijn Lyknar Hond til ad endurnæra hinn riwkanda Horkveik! Hann liet sier þad ecke noog þykia, ad hann Bænheyrde hann svo fliott sem hinn kunne ad bidia, og gieck strax af Stad, helldur aa Vegenum styrkte hann Trw hañs med þvi allra daasamlegasta Krapta-Verke, er hann giorde vid Kvinnuna: Ad soñu hefde Frelsarenn kunnad ad laata þetta Almættis-Verk leint vera, eins og onnur, er hann bannade ad bera wt, enn þad villde hañ ecke: Hanns Lijknar Hond er Frioossom: Hañ giorde hier Tvennt i einu: Hañ læknadi hina Naudstoddu og Faaraadu Konu, er allre Aleigu sinne hafde forgiefins kostad uppaa Læknara, og under eins styrkte hann hennar og Jairi Trw: Þvi trwed mier til, ad hañ hefur ecke forgiefins talad þesse Ord: Þijn Trwa Giorde Þig Heila. Jaa, eñ þa framar, þegar Hws-Karlar Jairi runnu i moote honum, svo sem Lucas og Marcus skrifa, og sogdu: Omaka ecke Meistarann; Þijn Dotter er saalud, þa hefde honum maatt til Hugar koma, ad þad være wte, eñ JEsus sleppte ecke siñe Hende af honum, helldur sagde til hañs: Ottast ecke, Trw þu alleina. Laat þetta Dæme vera þier jafnañ fyrer Augum, Chr. M. Þegar þijn Trwa tekur til ad veikiast i Mootgaangenum, og þier kiemur

til Hugar med David, ad Gud hafi forgleymt Myskunsamur ad vera, Ps. 77. Siaa hier hvad trwr ad Þinn Lausnari er, ad hann freistar einkis yfir Megn fram, 1. Cor. 10. Þu megnar ecki hinn allra minnsta Trwar-Neista ad kveikia i Þier, Guds Verk er Þad, Er Þad veik Trw, Þa er Þad Þo Trw, Gud ann sijnum Giorningi, Laat siaa, ad Þu alleina ecki wtslockver hañ med Ÿbolifimædiñi og Bænarleysinu, Og vert svo viss um, ad hañ blæs sialfur ad Þvi gloandi Koli, Er hann hefur lagt aa Varir Þijns Hiarta: Hañ liet ecki Petrum sockva, Þo hann væri Trwarveikur, Matth. 14. Hañ leifdi ecki ad hanns Lærisveinar forgeingiu: Þoott Þeir være lijtil-Trwadir, Luc. 8. Hañ uppvakti Lazarum Þoott Martha efadist um, ad hann mundi fyrr upprijsa, Enn aa sijdasta Deigi, Joh. 11. Og hversu opt ataldi hann Lærisveinana fyrir Þeirra Trwarleysi; Svo ad Þeir beiddu hann og sogdu: HErra, auk Þu oss Trwna, samt ebldist Guds Kraptur svo med Þeim, ad Þeir urdu Þess Allshugar fegnir, ad Þeir mattu niota Þeirrar Æru, ad Þola allar Hardungar hanns vegna. Jeg vil ei tala um Þad mikla Myskunar-Verk, er JEsus giordi vid hinn Tunglsiwka, Og Fodur hanns, Er hann sagdi: Ef Þu trwir, Þa er Trwudum allt mogulegt; Enn Fadirinn æpti Haastofum og Taaradist mieg, segiandi; Jeg trwi HErra, enn hiaalpa Þu Vantrwo miñe: Og JEsus rak Diofuliñ wt af hinum Twnglsiwka, Took i Hond hanns og reisti hann upp, Marc. 9. Svo laat Þier nu og nægiast DRottinns Naad, Christinn Madur, Þoott Þier finnist, ad Þijn Trwa ecki sem sterkust sie, Þvi hanns Kraptur fullkomnast i Breiskleikanum, 2. Cor. 12. Og er Þetta nu svo wt-talad um hid Fyrra.

Eptirfylgir ad tala med faam Ordum um Þad Sijdara. Ecki minna Traust edur Hiaalpar Von stendur Christnum Manni af Þeirri Myskun, sem vor Frelsari giordi aa Þeirri aumu Konu, Er med Trw sinni Þadi Heilbrygdi af honum. Evsebius skrifar i hanns Christinndooms-Sogu, 7. Bookar 17. Cap. Ad hun hafi heidinn Manneskia verid, Kyniud wr Cæsarea Philippi. Þier kynni til Hugar ad koma, syndugur Madur, ad Christur hafi ecki giora viliad Þvilijk Stoormerki, Nema medal sijns Foolks og Gydinganna: Enn Dæmi hinnar Cananæisku, Hundrads Hofdingians, hinna Diofulodu i Gergeseanna Landamerkium, sijnir allt annad; Og Þvi skylldi hann neita Þeim Krapta-Verkanna, hverium hann hafdi fyrirhugad Naad Evangelij, svo sem stendur hiaa Esa. 62. Ad DRottinn muni framleida sitt Riettlæti og sijna Dijrd fyrir allar Þioodir: Þu segier; Gud giorir Þo ecki Krapta-Verk Manna aa medal aa Þessum Dogum: Enn seig mier; Hvert er Krapta-Verk meira enn Þad, ad hann hefur giort oss Abrahams Sonu af Steinum, Þad er, af Heidingium, Þeim er Stocka og Steina dijrkudu, og voru Þeim sialfir lijkir: Þessi vesæla Kvinna var Þwngum Siwkdoomi undirvorpinn, og Ohrein kollud eptir Logmaalinu, Hver hana snerti, skylldi Ohreinn vera allañ Dag til Kvollds; Enn ecki skiedi Þad Þar fyrir, ad Kvinnurnar aa Þeim Tijma være meir Ohreinar f Guds Augliti, helldur eñ einn daudur Lijkami, Hvern eingiñ matti snerta, Helldur svo sem Þad var bodid i Guds Logum, til ad teikna oss Andlega i Syndunum dauda, svo

var og hitt til ad minna oss aa Spillingu Naatturu vorrar; Enn þott ad þesse saurꝛda Manneskia være svo aastykomenn, samt fyrerlijtur ecke JEsus hana: Allt er Hreinum hreint, Tit. 1. Svo var og honum, sem er Hreinn og Heilagur, og frꝛskilenn Syndurunum: Þesse Kona var Ohrein epter Levitanna Logmaale, svo ad eingenn mætte hana snerta, nie Klæde hennar; Enn strax sem hun hanns Klæda-Falld snerte, er siaalfur Levi Born hrein giorer, þa vard hun bæde Hrein og Heilbrygd. Tak þier þad til Huggunar, syndugur Madur, þegar Satan freistar þijn med Orvæntingunne, kann skie ecke fyrr enn i þeim sijdurstu Andarslitrum, nær hann er sem aakafastur, þvi hann veit hann hefur stuttann Tijma. Þitt Riettlæte er svo sem Nidlags-Fat: Hvad munu þa vera þijnar Bloodugar Illgiorder? Enn siaa! Hier er opnadur eiṅ Brun̄ur Davids Hwse, og þeim sem byggia til Jerusalem, til Hreinsunar Syndaranum og Bloodfalls Siwkum: Þu ert Ohreinn, svo sem Kona þesse, og eckert Ohreint maa innkoma i þa Himnesku Jerusalem; Enn hier er Blood JEsu, sem hreinsar þig af ollum þijnum Syndum, 1. Joh. 1. Þijnar Synder eru raudar sem Blood, Esa. 1. Enn JEsus er fyrer sitt eiged Blood Einusinni Inngeingenn i þad Allra-Helgasta, ad wtvegadri Eylijfre Endurlausn, Hebr. 9. Þar fyrer vill hann giora þær hwijtar sem Snioo. Þu hefur eckert Gude ad lwka fyrer Syndena: Þesse Kvinna hafde ecke helldur neitt ad giallda i Læknis-Laun, þvi hun hafde eidt þar til allre Eigu sinne, ad hun mætte heilbrygd verda, eṅ foor þo jafnann vesnande; JEsus æskte og aungra Launa af henne, helldur sagde hann: Vertu Hughraust Dootter, Þijn Trw Giorde Þig Heilbrygda. Haṅ krefur og ecke Endurgiallds af þier, þvi hvad maa Madurenn Gude giallda? Trw þu alleina þvi, ad hann sie Forlijkun fyrer þijnar, og ecke einasta fyrer þijnar, helldur og fyrer allar Veralldarennar Synder, 1. Joh. 2. Og heyr þau Lijknarfullu Ord, er hann talar, Esa. 55. Heyred, hver sem ad þyrstur er, kome til þessara Vatna, og hver sem eckert Gialld hefur, haṅ kome og faae fyrer eckert; Komed, segie eg, komed og kauped fyrer utann Peninga, og utann Andvyrde, bæde Vijn og Mioolk; Hvar fyrer laate þier ydar Peninga wte fyrer Matleysu, og ydar Erfide fyrer þann Hlut, sem ei kann ad sedia? Kona þesse gieck Bak vid JEsum, hun var Ohrein, hun var Or-Faatæk, hun var ad ollu Leite aumlega aa sig komenn, hun þorde ecke ad yrkia Orde aa hann, og skam̄adest sijn ad bera sijna Kveinstafe fram̄ fyrer slijkann HErra: AE! Hvad mætte Syndarenn þeynkia, saa er optlega hefur vellt sier i sama Saur, og eins og Hundurenn geinged aptur til Spijunnar? Mun hann ecke fyrerverda sig, ad koma fram̄ fyrer hann, J hvers Auglite ad ecke eru Himnarner hreiner, fyrer hverium hiner Dijrdlegu Cherubim hylia siin Andlit? Sannlega være þess meir enn Von: Enn fyrer JEsu Forþienustu Skulld, hvers Asioonu þeir byrgdu, og hræktu i hanns Andlit, þa meigum vier med fullu Trauste gaanga til Nadar-Stoolsins, svo ad vier Myskun odlunst, i hentugann Tijma, Hebr. 4. Þo skalltu vita, Syndugur Madur, Skylldu þijna, þegar þu, sem ert Molld og Aska, dyrfest ad tala vid Drotteṅ, ad honum ber Dijrdeṅ og Heidureṅ, eṅ þier ber Blygdan þijns Andlitis;

Svo giorde þesse Kvinna, þvi hlaut hun Myskun; Svo giordu hiner 10. Lijkþráu, þeir stoodu fiærre, þvi urdu þeir hreinsader; Svo giorde hin Bersynduga i Simons Pharisæara Hwse, med hverium JEsus var ad Heimbode; Hun kraup Bak til vid hanns Fætur, og þvode þaa med Taarum sijnum, og þerrade med sijnum Haar-Lockum, kyste þaa, og smurde med Vidsmiøre, eñ er Pharisæariñ hneixladest þar a i sijnu Hiarta, og meinte þad være Ohæfa, ad slijkur Stoor-Syndare skyllde snerta hann, sem Foolked hiellt Spaamann ad vera, þa liet JEsus hann sialfann leggia Doomenn a, ad saa munde elska meir, sem meira uppgiefed være, enn DRottenn sagde til hanns: Af þvi hun elskade miked, þa eru hennar mørgu Synder fyrergiefnar. Ad Sijdurstu snerter Kona þesse hanns Klæda-Falld, epter þvi sem hun Raad fyrer giorde med sialfre sier; Nær þorde hun ecke ad gaanga, og er lijklegt, ad hun hafe ætlad ad dyliast, þar hann stood midt i Mann-Þraungenne, og munde hennar þvi ecke giæta. Margur hefur JEsum snorted i þessum Hoop, enn eingenn svo hart sem þesse Kona: Þad stendur skrifad um vorn HErra, ad þegar hann saa Aumur a nockrum, ad hanns Ydur hafe komest vid i hønum af Medaumkan; Svo hefur og hier vered; hann fann Krapt wt af sier gaanga, hañs Fodurleg Giædska gat ecke leynt sier, Brunnur Myskunareñar vall hier upp sialfkrafa, og sialft Himnarijke þolde hier Ofrijke. Enn laat þier þad af þessu til Hugar koma, Guds elskulegt Barn, ad JEsus Christur er uppfareñ yfer alla Himna, og er ecke framar med oss ad Lijkams-Vistum, samt uppfyller þo hañs Klæda-Falldur þad heila Mustere, sem er Christeleg Kyrkia Guds hier a Jordunne; þar um spaer Zacharias, Cap. 8. Þad skal skie a þeim Døgum, ad Tiju Menn af øllum Twngumaalum skulu þrijsa i Klæda-Falld Gydingsins, og segia: Vier vilium fara med ydur, þvi vier heyrum ad Gud sie med ydur. Hverniger hañ þaa med siñe Kyrkiu hier a Jordunne? J Ordenu og Sacramentunum, þad eru hanns Klæde, þar er hann ad fiña, þangad aattu ad þrijsa med Trwareñar Hende, þaa ertu hønum eins nærre, og enn þa nær enn þesse Kona, eñ allra hellst skalltu til þessa Raads taka, þegar øll oñur bila; Nær hiñ sijdarste Mootgaangur, Daudeñ, þier ad Høndum kiemur, og þijnar Lijkamlegar Hendur þreifa ei leingur; Haf þa svo fest þijna Trwar-Hønd a þessum JEsu Klæda-Fallde, um Naadar-Tijmañ, ad þu slepper hønum alldrei fyrr eñ hañ blessar þig, og mun i giegnum hañ ofañ fliota til Saalar þiñar Kraptur af Hædum, saa ed hana Heilbrygda giøri af øllum Saalar og Lijfs Meinum. Eñ hañ, sem eingañ vill fraa sier reka, er til hañs kiemur, hañ sem lofad hefur ad Bænheyra medann þu ert ad bidia, hañ sem sialfur þreytte vid Daudann, og took aakaflega ad bidia, og kann þar fyrer ad sampijnast Eymdum þijnum, hann, segie eg, mun svara Saalu þinne fyrer Heilagann Anda, hver ed vitnar med þijnum Anda, ad þu siert Guds Barn; Vert Hughraust, Mijn Dootter, Þijn Trwa Giørde Þig Hoolpna. Þad veite oss øllum Goodur Gud, Fyrer JEsum Christum, AMEN.

# Tuttugasta og Fimta Suñudag eptir Trinitatis.

Gudspiallid, Matth. 24. Cap.

Á Þañ Tijma. JEsus sagdi til siña Lærisveina: Nær ed þier siaid Svivirding Foreidsluñar (af hverri sagt er fyrir Spaa=Maññ Daniel) standandi i Helgum Stad. Hvor sem þad les, Hañ hyggi þar ad. Hverier þa eru aa Gydinga=Landi, flijie þeir aa Fiøll, Og hvør hañ er aa Niaafri, Fari hañ eigi ofañ nockud ad taka wr sijnu Hwsi, Og hvør sem aa Akri er, Snwi hañ ei aptur, ad taka sijn Klædi. Eñ Vei Þwngudum og Briooste=Mylkingum aa þeim Døgum! Eñ bidied, ad ydar Floottí verdi ecki uñ Vetur, og eigi aa Þvott=Deigi. Þviad þa mun verda so stoor Hørmung, hvillijk ad eigi var i fraa Upphafi Veralldariñar, allt til þessarar Stundar, og ei helldur mun verda. Og nema ad þessir Dagar verdi styttir, Verdur ecked Holld Hoolpid. Eñ fyrir Utvalldra Sakir, þa skulu þeir styttast. Eñ ef nockur segier þa til ydar: Siaaid, Hier er Christur, eda þar, Þa skulud þier ecki þvi trwa. Þviad þar munu upprijsa Fals=Christar og Fals=Spaameñ, og þeir munu giøra stoor Taakn og Undur, so ad i Villu munu leidast (ef skie mætti) einniñ Utvalldir. Siaaid, Eg sagda ydur þad fyrir. Nu, Ef þeir segia til ydar: Siaaid, Hañ er aa Eydimørku; Þa gaangid ecki wt: Siaaid, Hañ er i Laun=Kofum; Þa trwid eigi. Þviad lijka sem Elldingu wtgeingur af Uppgaungu, og skijn allt til Nidurgaungu, Lijka so mun og vera Tilkoma Mañsins Sonar. Þviad hvar hellst ad Hræid er, Þaangad munu og Ernirnir safnast.

## Exordium.

JEsus bijdur sijnum Lærisveinum i þessu Gudspialli, ad þeir skuli ei Trwa, Þoott ad þeim sagt verdi: HJer, EDur Þar, Er CHRJSTur; Þvi Þar Muni UPPrijsa MArgir FAls=Christar Og Fals=Spaameñ, Med ødru fleira sem Eptirfylgir, Og i Gudspiallinu sier lijkast hermir. Allt rættist þetta strax eptir hañs Daga, Svo af þessu maa siaa, ad þad satt er, sem Paulus um hañ segier: Ad i hønum sieu hulldir allir Fiaarsioodir Vitskuñar. Ecki einasta fund ust þeir medal Gydinga, Er sig giørdu ad Christo, Svo sem var Bar=Cochebas, er Anno 130. Safnadi Ogriñi Hers aa mooti Hadriano Keysara, og sagdist vera Stiarna sw, Er Bileam uñ spaair Num. 24. Helldur og medal þeirra er sig Christna kølludu, Svo sem var Simon hiñ Fiølkuñi, og Otal fleiri, sem wt komu af hañs Skoola, og tøldu Foolkinu þa Trw, ad þeir væru Heimsins Endurlausnarar, Giørdu og mørg følsk Krapta=Verk, Svo sem af Fornum Christindooms Søgum er alkuñugt; Vid þessum tekur JEsus Vara sijnum Lærisveinum, Og ecki einasta þeim, Helldur og øllum þeim, sem hañ og hañs Kieñingar elska mundu, Þvi svo sem hañ sagdi

i Barn=

i Bæniñi til ſijns Himneſka Fødur: Eg bid ecki einaſta fyrir þeim ( Hañ meinti Læriſveina,) Helldur og fyrir þeim, ſem aa mig trwa munu, fyrir þeirra Ord: Svo hefur hañ og þetta øllum þeim ſagt, Er Poſtuleg Kienning bodud verdur, Svo ſem hañ med berum Ordum ſegier hiaa Marcum, i 13. Capitula: Pad eg ſegie ydur, Pad ſegie eg øllum, Vakid þier: Og fyrir þvi, ad Aminiñg þeſſi heirir og oſs til, yfer hveria lijklegt er ad Heimſins Endir ſie kominñ, Pa vil eg hana alleina med ſijnum Lærdoomum Stuttlega yfirvega.

Hvar til oſs adſtodi Goodur Gud med Krapti ſijns Anda, JESU Nafni, AMEN.

## Utleggingiñ.

Alldrei kunnum vier Guds Fødurlegri Giædſku þar fyrir ad fullþacka, ad hañ hefur Landi voru þyrmt fyrir Villum og Afgudadyrkun; Hañs Nafn ſie þar fyrir Lofad og Vegſamad uñ Alldir Allda! Samt mun þo ecki Satan laata oſs Hlutlauſa: Varni Guds millda Hond vid þvi, ad hann deydi Saalir Mañaña med ſolſkum Kienningum, Pa leitar hann til med illum Dæmum, med vondum Fortølum, og Aeggian til Laſta og vondra Verka, med Tooraleti og Hyſkni i þvi ad vijſa þeim Guds Gøtu, ſem hana ecki faa ſiaalfir ratad: Litlu ſkiptir med hveriu mooti ad Fiandiñ og hañs Verkfæri ſvijkia Daudlegra Manna Saalir wr Guds Hendi. Jll Heimſins Eptirdæmi, Sierdeilis þegar þau ecki ſtroffud eru, þau eru ſterkari til ad draga Taum Andſkotans, eñ nockur Villu Madur: Margur mun vera fyrir raanga Trw Fordæmdur, Og þo kannſkie ei færri fyrir illañ Verknad; Par fyrir ſegier og Endurlauſnariñ: Vei þeim Manni, fyrir hvern ad Hneixlaniñ kiemur, Matth: 18. Eptirdæmid er ein Almennileg Tunga, Sem allir ſkilia. Pad var halldid Furduverk uñ Mitridatem Konung i Ponto Ad hann hafdi i Lidi ſijnu allrahanda Pioodir, og gat þo talad ſinni Tungu vid hvern þeirra; Enn þad er ſtærra Furduverk, Ad eitt Eptirdæmi talar þeigiandi vid alla Menn, ſem þad heyra, Og þoott þad ſie Hlioodlauſt ſiaalft, Giorir þad Puſund Tungur ſkijrt talandi: Jll Dæmi ſpilla bædi Vondum og Goodum: Vonda draga þau til Eptirbreitni; Pvi hvad elſkar ſier lijkt: Pann Gooda, til ad tala illa uñ þann, Sem þad af ſier giefur; Pvi faaar eru ſvo Raadſettir, ad ecki hallmæli þeim ſem Jllt adhefſt; Jafnvel þoott Verkid byrie ad hata eñ Manninn elſka, Og Menn eigi ad Lagfæra þad ſem illa fer, Enn laſta ecki, Svo ſem Paulus aaminnir þa i Galatia, ſegiandi, Cap. 6. Brædur; Ef nockur verdur yfirſtijginn af einhverri Hroſun, Pier ſem Andlegir erud, Leidriettid þann ſama med hoogværum Anda. Pad er ad vijſu ſatt, Ad einginn er ſaa aa medal vor, Er kienni Villu neina; Enn hvert ad vier kunnum þar fyrir ad hrooſa oſs af þvi, Ad hin ſanna Trw aa Chriſtum, fyrir hveria Menn Saaluhoolpnir verda, hvert ad hun drottni i allra Manna Hiørtum, Par uñ mættu Menn efaſt næſta miøg. Endurlauſnariñ ſegier uñ Fals-Spaamenniña, Ad af þeirra Avøxtum ſkulu Menn þeckia þa: Og hid ſama þori eg ad ſegia uñ þa, Ed ſier hrooſa af Gudhrædſlunni ( Pad er af Chriſtinndoominum, Svo ſem Paulus hana aa Stundum nefnir) Eñ afneita þo hennar Krapti, 2. Tim. 3. Hver er þa Chriſtileg Trw? Hun ed verkar fyrir Kiærleikann, Gal. 5. Enn hvernig hønum varid ſie aa þeſſum veſtu og ſijduſtu Døgum, Pad finnur hver Eirn, þegar hañ

stijngur Hendenne i sinn eigenn Barm, og spyr sitt Hiarta ad, hversu fws ad hañ sie ad tilgiefa sijnum Naunga hanns Misgiorder: Hvad miked hánn vill missa af sijnum Munum, til ad hiaalpa þeim Auma og Naudstadda: Hversu liwfur hann er ad afsaka sinn Broodur, tala vel um hann, og fæera alla Hlute til betra Vegar: Hversu Kostgiæfner ad Forelldrar og Hwsbændur eru i þvi, ad ala upp Born sijn og Hiw i Guds Otta og goodum Sidum: Med hveriu Skape ad Born og Þioonustu-Foolk hlijda Forelldrum og Hwsbændum, edur hiner Undergiefnu þeim Yferbodnu. Allt ætla eg þetta fare i Olestre hiaa morgum Mañe: Hver þad heyrer, hann hygge þar ad! Edur hver er þa Christenndoomurenn, er Menn hroosa sier af, þegar Kiærleikann vantar? Hver ad er Saal Trwariñar, svo sem Jacob segier; Ad hun sie daud aan Verkaña, Cap. 2.

Hier stendur i Ondverdu Gudspiallenu: Nær þier lijted Svijvirding Foreydslunnar, Standande i Helgum Stad: Margar Getur eru aa þvi, hvad þetta vered hafe. Nockrer meina þad hafe vered Bijlæte hinns Romverska Keysara: Adrer neita þvi, og segia þad hafe alldrei innkomed i Jerusalems Mustere: Sumer ætla þad eckert annad sie, enn Her Romveria, af þvi, ad þegar Lucas skrifar um̃ þetta Efne, segier hann: Þegar þier siaed Jerusalem um̃kringda med Herskyllde: Edur og svo Oalldar Flockur sa, er komu fyrer Eydelegginguna braust inn i Jerusalem, og saurgade Mustered med Morde, Manndraapum, og allra Handa Svivirdingum; Þesser voru Gydinga Kyns, og kolludu sig Zelotas, þad er, Vandlætara, og var þad Svivirding noogu stoor, ad þeir settu uppaa sig Nafn Gudlegrar Vandlætingar, sem Guds Mustere smaanudu og svijvirdtu, verr enn nockurn Tijma Heidingiar: Til eru þeir sem hyggia, ad þesse Svijvirding Foreydslunnar hafe vered Gull-Ornenn su, er Herodes Konungur liet setia uppaa Mustered, til Ægiætis vid Roma Rijke, hvers Merke ad Orninn var, og hofdu Romveriar aa þeim Atrwnad mikenn; Þess gietur Tacitus i sinnar Annaala Bookar Cap. 2. Er og all-lijklegt, ad þad hafe nockud þesshaattar vered; Þvi Svijvirding Foreydslunnar, su er Daniel talar um̃, Cap. 11. Er aan alls Efa Bijlæte Skwrgodsins Jupiters, er Antiochus Epiphanes liet setia inn i Guds Mustere, af hveriu raada maa, ad þesse, er Daniel um̃ spaaer, Cap. 9. Og Endurlausnarenn hier um̃ gietur, mune hinne Fyrre aa Einhverń Haatt hafa lijk vered: Samt er allt þetta ad vijsu Ovijst. Og þoott eg segie hier um̃ Imsra Manna Meiningar, til Froodleiks þeim, er epter vilia taka; Þa vardar oss, Christna Menn, nærsta lijted hier um̃: Enn hitt byriade oss ad Rannsaka, hvert ad Svijvirding Foreydslunnar kynne ecke enn nu ad finnast i Guds Kyrkiu, ef vel er leitad. I Jerusalem hafde Gud sett Minning sijns Nafns Æsennlega; Hin Lijkamlega er nidurbroteñ, Guds Reide-Stormur hefur henne um̃ Koll kastad, eñ hin Andlega mun verda hiaa oss til Enda Veralldar, Matth. 28. Enn hvert henne er alltijd svo hreinne hallded, sem byriar, þar er vandlega adgiætande; Jeg sagde, ad i Jerusalem hefde Gud sett Minning sijns Nafns, þar bioo hann yfer Cherubim, enn þad er ecke minne Naad, ad hiñ ædsti Prestur hefur sagt til vor, Joh. 14. Hver sem elskar mig, hañ vardveit-

er mijn Ord, og minn Fader mun elska hann, til hans munum vid koma, og Vistar-Veru hia honum giora. Enn æ/oss Daudlega Menn, under Syndena sellda! Hversu lijtil er Minning Guds Nafns hia oss, þegar vier metum alla Hlute framar hanns Dijrd! Hversu lijted af vorum Gagnsmunum, voru Lijkamans Epterlæte, vorum Virdingum, vilium vier æ Stundum missa fyrer hanns Elsku! Hvad opt metum vier Bod Mannanna meir enn Guds, og hrædunst meir þa ed Lijkamann kunna ad deyda, enn þann, sem Lijfe og Saalu kann ad kasta i eilijfann Elld! Hvad opt giorum vier sialfa oss ad Gudum, er vier tilreiknum vora Hamingiu og Lucku-Laan Framsyne vorre og Erfidismunum, enn giætum ecke ad þvi, ad nema Gud vakte Borgernar, þa vaka Voku-Mennerner til forgiefins, nema Gud bygge Hwsed, þa erfida þeir ed byggia til Onijtis! Ps. 127. Hvad lijtil er Minning hanns Nafns hia oss, þegar vier vanbrwkum hanns Heilaga Nafn, sverium og liwgum þar vid, Jaa, þyker þad eingenn Synd vera, þvi þad sie Daglegt Maal! Jaa, margur selur JEsum fyrer minna enn Judas, sa ed leggur hanns Nafn vid hinn allra minnsta Hiegooma: Hversu lijtil er Minning hanns Nafns hia oss, þa vier foroktum hanns Heilaga Ord, og fordunst þaangad ad koma, sem þad er um Hond haft! Hversu lijted minnunst vier þa æ hann sem Mootmælenn þolde af Syndurunum, til ad opennbera Syndugum Monnum Lijfsins Veg! Þegar vier vilium ecke lia vor Oumskorenn Eyru til ad heyra þad, sem er þo Kraptur Guds til Saaluhialpar ollum þeim sem trwa, Rom. 1. Menn sitia æ Stundum under Heyrn Guds Orda, og vita ad Heilagur Ande er i Ordenu, og þad er eins og eitt Mustards-Korn, hvert ad er hid minnsta medal Saadanna, enn vex þo svo hatt, ad Fuglar Himensins bwa sier Hreidur i Greinum þess, Matth. 13. Samt villa Menn ecke lia þvi hid allra minnsta Rwm i Akre sijns Hiarta, hvar inne þad friosgast meige og Avoxt bæra. Svo sitia vorer Bwgardar, vor Akneyte og allra Handa Hiegoomi Veralldarennar þar, sem hin Heilaga Guddoomsins Þrenning ætte ad sitia, J sijnu Mustere, sem ad er vort Hiarta, 1. Cor. 3. Segied mier i Guds Nafne, segied mier; Er ecke þvilijkt Svivirding Foreydslunar standande i Helgum Stad? JEsus hefur laated i sijna Kyrkiu hier æ Jordunne innsetia sitt Bijlæte, þad er Kiærleikurenn, þad er hanns Mynd, þvi hann er Gud, og Lioome sijns Fodur og Jmynd hanns Guddoomlegrar Persoonu, Hebr. 1. Enn Gud er Kiærleikurenn, 1. Joh. 4. Þetta sitt Bijlæte fieck hann i Hendur sijnum Elskulegum Læresveinum, er hann sagde, Joh. 13. Þar af skulu aller þeckia ydur, ad þier sieud mijner Læresveinar, ad þier elsked hver annan. Þessa Lijknesku JEsu settu þeir inn i hans Kyrkiu hier æ Jordunne, med allre Trw og Dygd, þvi skrifad er, Act. 2. Ad aller Hluter voru sameigenleger med þeim Trwudu i Jerusalem; Þeir baaru Eigur sijnar fram fyrer Postulanna Fætur, til ad skipta þeim upp medal Naudþurftugra, og aller voru þeir i Eindrægne Andans: O hvad Olijker þessum Tijmum! Þar Raan og Stuldur, Okur, Harddrægne, Rangsleitne i Kaupum og Solum, Myskunarleyse, Agg, Reide, Fiandskapur, Ofund og Drambseme þykia, sumra Manna æ medal, annadhvert einger Okoster, edur og svo smaaer Lester

ad

ad vera: Er þad hanns Bijlæti, Sem svo heitt elskadi oss, ad hann doo fyrir oss Rangslæta, Þa vier vorum hanns Ovinir? Rom. 5. Er þad hanns Lijking, sem ecki upplauk sijnum Munni, Þegar honum var mootmællt, Helldur enn Saudur til Slatrunar leiddur? Esa. 53. Er þad hanns Mynd, Sem gieck i krijng, Giordi Gott og græddi alla, Ja, Allt giordi hann vel, Þvi Dauſa liet hann heyra, Og Mallausa tala? O! Vei, O! Vei; Jeg Þori ad segia, Þar er onnur Mynd innkomin, ecki hins Romverska Keysara edur hanns Merkis, helldur Andskotans og hanns Merkes, Sem er Syndin, hveria ad Madurinn lætur drottna i sijnum Daudlegum Lijkama, Og liær Limu sina henni til Vopna. Þier erud af Fodurnum Fianda, Og leitist vid ad fyrirkoma mier, Segier JEsus vid Gydinga, Joh. 8. Enn þeir, ed eru Hardbriooſtadir, Asælnir, Sierplægnir, Og ecki þyrma hanns Limum, Munu þeir ecki strijda undir sama Merki og þeir ed hann hofudu og af Lijfi tooku? Edur hvad er þad, sem Raustinn af Himni sagdi vid Paal, Act. 9. Er hann foor med Hernadi og Ofridi til Damascum, a mooti Guds Sofnudi: Saul, Saul, Þvi Ofsækir þu mig? Edur þad sem Doomari Lifendra og Daudra vill segia til hinna Gudlausu, Þegar hann kiemur i Skijum Himins med Makt og miklu Velldi, A hinum strannga Deigi alls Hollds: Hvad þier giordud Einum af þessum mijnum Minnstu Brædrum, Þad giordud þier mier? Matth. 25. Andskotinn kom i Orms Lijki, Þegar hann sveik vora Fyrstu Moodur; Þad var hanns Mynd; Enn Christur nefnir þa Eytur-Orma og Nodru-Kyn, Matth. 23. sem ad utsiuga Hws Eckna og Fodurlausra; Þeir ed Tijunda Mintu, Anis og Cumen, Hluti sem ecki var Ispunnid; Enn gleymdu þvi sem hellst er i Logmaalinu, Trunni og Myskunseminni: Mun ecki þessi Hoggormsins Mynd Allvijda vera skridinn inn fyrir DRottinns Altari, Sem er Mannsins Hiarta? Þar Flaattskapur og Undirhyggia, spunnin saman vid Agyrni og Fedraatt og adra þvilijka Lesti, þykir Framsyni ad vera, Og sa Vitfyrringur, Sem ecki kann ad fleyta sier i þessu.

Christur segier hier i Gudspiallinu; Ad Hæski þeirra Tijma, sem koma muni eptir Jerusalems Eydileggingu, Muni svo mikill verda; Ad i Villu muni Jafnvel leidast, ef skie kynni, Utvalldir; Og þad vegna Fals-Spaamanna, Þeirra er spudu eptir Guds Almætti, Og sviku margar Saalir fra honum: Svo skiedur og a þessum vondu Dogum alltijtt og allvijda, Ad þeir sem annars mundu Froomir vera, Þeim tekst þad ecki vegna hinna Rangsnunu og Hreckvijsu i Verolldinni, Um hveria Salomon talar, Prov. 1. Ad þeir segie: Kom med oss, Vier viljum umsitia Blood, og hylia oss ad Osekiu fyrir hinum Meinlausa; Vier skulum eignast mikil Andæfi, Og fylla vor Hws med Herfang, Legg Felag med oss, vier skulum allir einn Siood hafa. Einga argari Fals-Spaamenn þarf, enn þvilijka Belials Syni, Og svo spillta Natturu vora; Þvi hver einn freistast þegar hann af sinni eiginn Gyrnd verdur tældur og afvega leiddur, þar eptir Gyrndinn, Nær hun er friooſsom vordin, fædir hun Syndina, Enn þegar Syndinn er giord, Fædir hun Daudann, Segier Jacob, Cap. 1.

Dragi enginn sialfann sig a Tælgr þar med, Þoott ad slijkir umgaangist med sama

Hætti

Hætti og adrir i Guds Christni; Þeir heyra Ordid, enn færa ei Avoxt-þar af, Þeir brwka Sacramentinn, Enn þo sier til Dooms-Afellis; Þeir segia: HErra HErra, Eñ giora þo ecki Fodursins Vilia; Þvi vill og Doomarinn til þeirra segia a hinu mikla Allsheriar-Þijngi; Ecki þeckta eg ydur. JEsus segier um Fals-Spaamenning, ad þeir komi i Sauda-Klædum, Enn innra sieu þeir glepsandi Vargar: Svo eru og þeir, Ed locka Einfalldar Saalir fraa Gudi med vondum Fortolum; Þessir eru þeir, er St. Judas umtalar i hanns Pistle, segiandi: Þessir eru Blettir i ydar Kiærleiks-Veitslum, Nær þeir hallda Samsæti med ydur, Fædandi sialfa sig Hyggiulaust, Sky fyrir utann Vatn, Hveriu Vindurinn i kriing feykir, Rotnar Eykur og Avaxtarlausar, Tvisvarsinnum daudar og upprættar. Og ef þann Veg var hattad a hinum Fyrstu Christniñar Dogum, Þegar ad Krapta-Verkinn fylgdu enn þa Kienningunni; Hvad mun ei nu vera, þar ad þvi mun lijda, ad Mannsins Sonur ecki finni Trw a Jordu? Luc. 18. Og lijklegt er, ad þeir Tijmar nu yferstandi, Sem Roddinn af Himni spaair um, Apoc. 12. Vey ydur sem a Jordunni bwid og a Sioonum, Þvi Diofullinn er ofañ til ydar fariñ, Hafandi Brædi mikla, af þvi hann veit hañ hefur stuttann Tijma. Nu fyrir þvi, Christnir Menn, ad hier er slijkur Vodi a Ferdum, Þa verdum vier af hinum Gooda Meistara aminntir i þessa Heilaga Dags Evangelio; Laatum oss ecki feikia af hveriuni Vindi Lærdoomsins, Eph. 4. Edur teigia med Hafgyu-Saung Verralldarinnar i Snorur Diofulsins. JEsus giorir þad hier bert med skijrum Ordum, Hvernig hann og hanns Kienningu þeckia meigi fraa Annarlegum Lærdoomum. Ef Þeir segia: Hann Sie a Eydimorku, stendur hier; Ad sonnu kiendi JEsus i Eydimorku, Þo i margra Þusunda Aheyrn, Ecki i Laun-Kofum, Þvi hann taladi eckert i Afkimum, helldur kieñdi hann Opinnberlega i Musterinu; Þar fyrir lijkir hann Tilkomu sinni vid Elldingu þa, Er wtfer af Uppgaungu, Eñ skijn allt til Nidurgaungu, Hvad eg hygg ad ecki sie ad skilia um hanns Tilkomu til Doomsins, Helldur um hanns Naadar-Tilkomu i Ordinu, og Leyptran Evangelii, Hvers Byrta ad strax eptir hanns Himna-For, Og allra hellst eptir Jerusalems Eydileggingu, upplijsti mikinn Part Veralldar fraa Austri til Vesturs; Og þad dreg eg þar-af, ad hier talast ecki um Skiootleik Elldingarinnar, Helldur um hennar Byrti, Og JEsus er hier um Kienningar ad tala, Enn ecki um sijna Tilkomu til Doomsins, Fyrr enn sijdar i þessum sama Capitula. Um þessa Byrti Guds Evangelii og sinnar Predikunar talar Paulus, 2. Cor. 4. Segiandi: Þar fyrir hofum vier affalad oss þau Fyllsni, Er Menn meiga skamast sijn fyrir, Ecki gaangandi med Undirhyggiu edur falsandi Guds Ord, Helldur i Opinnberun Sañleikans, Giorandi oss i allra Mañа Samvitskum Velþockada fyrir Gudi; Þvi ef vort Evangelium er hulid, Þa er þad þeim hulid sem tapadir verda. Nu fyrst ad Guds Fodurleg Giædska hefur svo vijdt wtbreidt Þeckingu sijns Nafns, Svo þad Foolk, sem sat i Myrkrunum, hefur sied Lioos mikid, Matth. 4. Og hun er eiñig til vor komiñ, sem bwum undir þessu ytsta Heimsins Skauti, svo ad segia a Footskor Veralldarinnar, Þa laat þinn Foot vera swsañ, Christ-

enn-Madur, til ad gaanga i Guds Hws, þar sem hanns Ord er um̃ Hond haft, og lijd
ecke ad Saalu þijna velge vid þvi svo sem odru Liettmete, þvi þad er Foodur hennar, aan
hvers heñe mun med Eilijfu Hwngri saalgad verda i Helvijti, hvar Fordæmder ecki faa mu-
nu eiñ Dropa Vatns til ad kiæla Twngu sijna med, þar þeir kveliast i þeim Loga, Luc. 16.

Hvar Sem Ad Hræd Er, Þaangad Safnast Ernirner: Þetta talar Guds Sonur
aan alls Efa um̃ siaalfann sig. O miñ HErra JEsu! Þvi er svo adkveded þijnum bless-
ada Lijkama? Hvern ad jafnvel Einglarner og Hofud-Einglarner tigna; Fyrer hver-
ium ad Kraptar Himnanna bifast; Fyrer hverium øll Verollden̄ leikur aa Reide Ski-
aalfe; J hverium ad bijr øll Fylling Guddoomsins Lijkamlega, Col. 2. Hann verdur
hier Hræ nefndur. Hvar fyrer er þetta skied, Christner Menn? Jeg minnest aa mijnar
Synder aa þessum Deige, sagde Skeinkiare Pharaonis Fordum i Ægyptalande: Og
þvi munde oss þa ecke øllu skylldara vera, ad miñast aa vorar Jllgiorder, sem hafa Guds
Son kvaldann, og Hertoga Dijrdarennar aa Krossenn festann? Þvi sannlega bar hañ
vorar Synder, og vorum Orkumslum hlood hann aa sig, Hegningenn hefur aa honum
leiged, og fyrer hanns Beniar erum vier Heilbrygder vordner: Hann er vordenn hinn
Fyrerlitlegaste og Forsmaanarlegaste, Fullur Eymda og Kraankleika; svo sem saa, ed hyl-
de sitt Andlit fyrer oss, og þar var eckert aa honum, sem vier virdtum, Esa. 53. J einu
Orde ad segia: Hann var svo sem eitt wtkastad Hræ, svo sem Madkur og ecke Madur,
fyrer vora Skulld, sem laaum i voru Bloode, wtkastader aa Vijdavaangenum, og þar
var ecke eitt Auga sem Myskunade oss, þegar hann sagde til vor, i voru Bloode, ad vier
skylldum lifa, Ezech. 16. Enn þenna Maals haatt framsetur vor DRottenn til þess,
ad kienna sijnum Læresveinum, hvar hann sie ad finna, sem er, i hinne sonnu Christelegu
Kyrkiu, er hann hefur stiptad hier aa Jordunne, þar er hañs ad leita i Ordenu og Sacra-
mentunum: Þaangad sækia aller hanns Elskendur; Svo sem Ernerner ad Hræenu. Ef
eg verd upphafenn fraa Jordu, þa mun eg draga alla til mijn siaalfs, segier JEsus, Joh.
12. Hann meinar aan alls Efa, þegar hann yrde upphafenn aa Krossens Gaalga; Þvi
Johañes skrifar: Ad hañ hafi sagt þetta, teiknande med hverium Dauda hañ deya mundi.
J þessum JEsu Dauda hafa allar Harmþrwngnar, allar Sann-Ydrandi Manneskiur,
allar þær sem hwngra og þyrsta epter Riettlætenu, þær hafa þar, segie eg, eitt Andlegt
Foodur, ecke sijdur enn Ernerner i Hræenu. Heilagur Johannes, saa ed þetta skrifar,
um̃ hvern og segiest, ad JEsus hafe hann elskad, hann verdur samlijktur einum Erne, og
þad þess vegna, ad hann hefur med hanns Andlegum Skilninge svo haatt floged, ad eing-
enn hefur svo Greinelega talad um̃ þann Orannsakanlega Leindardoom Guddomsins
Þrenningar, og Holldtekiunnar Christi, sem hann i hanns Evangelio og Pistils Fyrstu
Capitulum. Ein Riett-Christenn Saala er einn sannur Christi Læresveinn, hvern hann
elskar, heñar Um̃geingne er aa Himnum; Hvar heñar Fiesioodur er, þar er heñar Hiar-
ta, Enn heñar Fiesioodur er aa Himnum, hverium ei kann Molur nie Rid ad granda,
Matth. 6. Hun flijgur upp i Hædirnar med Trwariñar Vængium, undir hverrar Hlijd-

at hungiefur sijna Skilningu fängna, þar finnur hun sitt Foodur, þvi hans Holld er sannarleg Fæda, og hanns Blood sannarlegur Dryckur: Þetta sitt Holld og Blood gaf hann sijnum elskulegum Læresveinum til Nautnar i DRottennlegre Kvølldmaaltijd, skomu ædur enn hann Lijflaatenn var, og giørdest svo sem eitt Hræ fyrer vorra Synda Saker; Þaangad safnast enn nu i Dag, epter hanns Bode, aller þeir sem erfida og Þwnga eru þiaader, til ad endurnæra Saaler sijnar og ad minnast Dauda DRottenns, med hverium þeir forlijkter eru vid hinn lifanda Gud. Hann sedur þinn Munn med Giædum, og endurnijar þinn Ungdoom, svo sem Arnarennar, segier David, Ps. 103. Hverge skiedur þad helldur, enn i Medtoku Christi Holldsog Bloods, þa Madurenn þess neyter undir eins med Trwarennar Munne, og einn Harmþrwngenn Ande smackar hvad sætur ad DRottenn er; Þvi JEsus segier: Eg er hid Lifanda Braud, sem af Himnum ofan kom; Ef nockur etur af þessu Braude, hann skal eylijflega lifa: Enn þad Braud, er eg gief, er mitt Holld, sem eg mun wtgiefa fyrer Lijf Veralldarennar, Joh. 6. Hann meinar hier samt hina Andlegu Nautn, sem med Trwnne skiedur: Fyrer þvi segier hann aptur svo, Joh. 11. Eg em Uppriisann og Lijfed; Hver sem aa mig trwer, þoott hann sie daudur, þa skal hann samt lifa: Jaa, af þessare Andlegre Nautn, verda þeir Himneskir Erner, sem eru Christnar Saaler, Andlega Endurnijader, og alltijd ein nij Skiepna i Guds Auglite, þvi af henne vidurkveikest Trwenn, af Trwnne kiemur Elskann, af Elskunne fædist Kiærleikurenn til Naungans, af hverium ad uppspretta allar Christelegar Dygder og Mannkoster: Þar fyrer segier JEsus enn þa, Joh. 6. Saa sem etur mitt Holld og dreckur mitt Blood, hann blijfur i mier og eg i hønum: Enn saa Madur er blijfur i hønum, og hann i Manne-num, hann ber mikenn Avøxt, Joh. 15. Eg hygg JEsus hafe teked þenna Ords-Haatt af Jobs Bookar Cap. 39. Þar ed DRottenn segier vid hann um Ørnena: Hun bijr i Klettunum og i Fiollunum, og i Turnunum, þadann skygnest hun epter Ætum laangt aa Leid med Augum sijnum; Hennar Ungar drecka Blooded, og hvar sem Hræenn eru, þaangad flijter hun sier. Minn HErra JEsu! Hver er hann, sem segier, Cant. 2. Mijn Dwfa, þu sem i Biargskorunum bijr, og i Fylsnum hinna þverhnijptu Klettanna! Sijn mier þitt Andlit, og laat mig heyra Raust þijna, þvi þijn Raust er fogur, og þijn Asijnd Lysteleg: Ertu ei sialfur þad, minn HErra JEsu? Hver er hin sæta Raustenn? Þad er þad Lofed þu hefur þier tilreidt af Munne Smaa-Barnanna, sem mylkia sinnar Mood-Briost, og þinnar Unnustu. Hver er hin fagra Asynd? Þad er sw, sem þu oss afrekader, þegar þijn Asiaana vard afskræmd, meir enn annarra Manna. Hver er þijn Dwfa, minn HErra? Þad er þijn Christeleg Kyrkia, sem hier verdur i Evangelio Ørn kollud. Hveriar eru Biargskorurnar? Þad eru þijnar Blessadar Under, þu sem ert vort fasta Biarg, og Hella vors Hiaalpræðis. Hverier eru hennar Ungar? Þad eru þijn og hennar Børn, þijn Børn, sem DRottenn hefur giefed þier, Esa. 8. Og ecke epter Holldsins Villo, edur Mannsins Villa, helldur epter Gude eru fædd, hverium þu hefur og Makt giefed Guds Børnum ad vera, Joh. 1. Hvert er þad Blooded, er þeir lepia?

Þad er þitt Blood, O! JEsu, Sem ad hreinsar oss af øllum vorum Syndum, 1. Joh. 1. Hvert er þad Hræid, Er þeir safnast ad? Þad er þinn blessadur Lijkami, Sem er sannarleg Fæda, Joh. 6. Og aa Gaalgañ var fyrir vorar Jllgiørdir heingdur. Þaangad viliumvier safnast, Þar viliumvier Sadning finna Saalum vorum, Þar viliumvier Lifa og Deya; J þessum Biarg-Skorum vilium vier hylia oss aa hinum strannga Deigi, medann Reidinn fram hiaa geingur, Og ecki segia til Haalsanna, Hylied oss, Edur Fiallanna, Hrinied yfer oss, Þvi þu DRottiñ ert vor Kastali, Vort orugt Vijgi, vort fasta Biarg. Þier med Fødur og Heilogum Anda Sie Lof, Prijs, Heidur, Vegsemd og Æra, af øllum Utvøldum Einglum og Møñum Søgd og Swnginn, um̃ Alldir Allda, Amen, J JEsu Nafni Amen.

# Tuttugasta og Siotta Suñudag eptir Trinitatis.

Gudspiallid, Matth. 11. Cap.

Y Þañ Tijma. JEsus Andsvaradi og sagdi: Eg þacka þier Fadir og DRottiñ Himins og Jardar, Ad þu duldir þetta fyrir Spekingum Og Vitringum, Og opiñberadir þad Smælingium. Ad soñu, Fadir, Þviad þad var so þægilegt fyrir þier. Aller Hlutir eru mier i Valld gefnir af mijnum Fødur. Og eingiñ þeckir Soniñ nema Fadiriñ, og eingiñ þeckir Føduriñ nema Sonurin, Og hverium Sonuriñ vill þad Opiñbera. Komid aller til mijn, Þier sem Erfidid, Og Þwnga erud hladnir, Eg skal Endurnæra ydur. Takid aa ydur mitt Ok, Og lærid af mier, Þviad eg em Hoogvær og af Hiarta Lijtilaatur, Og munud þier fiña Hvijld Saalum ydrum, Þviad mitt Ok er sætt og mijn Byrdi er liett.

## Exordium.

Walla trwi eg, ad nockur Huggunarsamlegri Grein fiñist i Heilagri Ritningu, Eñ þau Dijrmætu Ord Frelsarans, Er standa i þessu Blessada Evangelio, med hverium hañ hefur til siñar Naadar og Endurnæringar bodid øllum þeim, sem Erfidi drijgia, og Þwnga eru þiaadir. Hvad kañ saa Gledilegra ad heyra, Sem allskins Syndum hladiñ er, Og einkis aa Von nema eilijfra Vijsla, Helldur eñ þad, Ad hañ, sem allt Valld er giefid aa Himni og Jørdu, Matth. 28. Hañ bijdur til sijn ad fyrra Bragdi svoddañ eiñi Voladri og Tapadri Mañeskiu, Og ecki einasta bijdur heñi til sijn, Helldur og lofar ad hañ vilie Endrnæra hana? Þetta er svo Dijrmætt Ord; ad eckert kann Fagnadarsamara ad hugast edur talast: Eñ hverier ad sieu meintir med þessum Lausnarans Ordum, Þar um̃ er ecki allra Meining eins. Sumir ætla ad DRottiñ hafi talad hier um̃ þaa sier i Lagi, sem ad leitudu Saaluhiaalpariñar aa þeim Døgum i Kyrkiu-Sida Løgmaalinu, J Fedraña Setningum, Og i Verkum Løgmaalsins; Eñ kuñu þo einga Hvijld ad fiña Saalum sijnum þar af. Þessi Meining er Guds Ordi Samhlioda, Þvi Esaias, Cap. 9. Kallar Løgmaalid, Byrdar Þwnga. Adrir meina ad hier med sieu þeir meintir, sem undir Krossenum stynia, og bera Christi Ok aa Herdum sier, Eñ briota þo ecki Okid i sundur, Edur Yverkallast aa moti Gudi, Sem þad aaleggur. Ad Sijdustu ætla nockrir, ad þad sieu

sieu þeir, sem stynia undir Byrdi Syndaña, og skielfast fyrir Guds Reidi og eilijfri Fyrirdæmingu. Nu fyrir þvi, ad hiñ Stoori Biskup med þa vellærdu Twnguna plagadi aa sijnum Hiervistar Døgum mikla og marga Hluti i faaum Ordum iñi ad binda, Þa hygg eg ad allt þetta, Sem aadur er uñ gietid, sie fooígid i þessu Maali, Hañ bijdur øllum til sijn, Þad er øllum þeim, sem aa einhvern Haatt eru mæddir edur Þwnga þiaadir, Jafnvel Ogudlegum, Ydrunarlausum og Þverbrotnum, Hverium hin mesta Byrdi aa Herdum liggur, Þoott ei fiñi þeir til heñar; Þar hañ er fyrir alla daaiñ, 2. Cor. 2. Og fyrir hveria hañ daaiñ er, Þeim hefur hañ til sijn bodid, Þvi eingiñ vill hañ tapist, helldur ad allir komisi til Sañleikans Vidurkieñingar, 1. Tim. 2. Eñ søkum þess, ad Nu er eingiñ saa medal vor, sem leiti ad Saaluhiaalpiñi i Løgmaalsins Verkum edur Setningum, Eñ uñ Krossburd DRottiñs hefi eg nockrum Siñum aadur talad; Þa vil eg i þetta Siñ tala uñ þaa, sem undir Byrdi Syndaña þreittir eru, Og hvad þad sie hellst, sem oss eigi ad leida til ad taka feigins Hendi aa mooti þessu Naadarfulla Tilbodi. Eñ þu Glædskurijki Fadir, Sem øllum hefur til þiñar Myskunar bodid, Styrk oss med Krapti þijns Anda til þessa Verks, Fyrir JEsum Christum! AMEN.

## Utleggingiñ.

Þoott þar eckert añad væri, Sem kyñi ad hræra oss til ad fagna þessu Glædskurijka Bodi, þa er þad vor eiginn Eymd: Hver er svo Þyrstur, ad hañ verdi ecki feigiñ ad drecka, Hwngradur ad mettast, Þreyttur ad hvijlast, Sioohrakiñ ad naa Høfñiñi, Siwkur, ad hañ ecki giefi Aleigu sijna til, ad hañ meigi heill verda, og saa ed i Faangelsi situr, ad hann kaupi ecki Lausn sijna dijrum Doomum? Eñ nu er þad audvitad, ad Manneskiunni, aa medañ hun er undir Guds Reidi, Heñi er midur farid eñ øllum þessum. Eingiñ Þorsti, Hungur, Erfidi edur Siwkdoomur kañ ad iafnast vid þad, ad eiga Von aa hañs Oblijdu, Fyrir hvers Augliti ad skiaalfa Fiskar Siaafarins, og Fuglar Himinsins, og Dijr Merkurinnar, og øll Skridkvikindi aa Jørdunni og allir Meñ, sem aa Jørdunni eru, Fiøllinn klofna, Biørgiñ hrynia, og allir Mwr-Veggir munu til Jardar falla, Ezech. 38. Eckert Haf-Root er svo sem Belials Beckir, Ps. 18. Svo sem þau Votninn, Sem gaanga inn ad Saalu eins aangraads Syndara, Ps. 69. Hver eru þau Bønd og Fiøtur, Sem meigi jafnast vid Myrkranna Hlecki, 2. Pet. 2. Vid þad Dijki, sem vellur af Elldi og Brennisteini? Apoc. 21. Og kunnum vier ecki ad efast uñ, ad allt þetta er Syndaranum bwid, Þegar vier lesum i Løgmaali DRottiñs, Devt. 27. Ad saa skuli Bølvadur vera, sem ecki helldur allt þad sem þar er inni skrifad: Segied mier þa, Børn mijn; Hvilijk Faasiña er þad, ad taka ecki aa mooti honum med allskonar Blijdu, Sem bijdur Mønnunum ad giøra þa kvitta vid Oskøp þessi? Hiaa hverium øll Veralldarinnar Ogiæfa, Hwngur, Fatleysi, Banvænar Soottir, Ørbyrgd, Utlegd, Offsooknir, Ellds-Naud, Sverds-Eggiar, Og iafnvel sialf Fiørbrotiñ i Daudanum; Þoott allt þetta i Einu hladist aa Eina Manneskiu uñ allann Heims Alldur, þa væri þad, segie eg, hid mesta Eptirlæti og Sæla hiaa hinum eilijfu Hørmungum, er Syndiñ hefur tilunnid. Og væri nu þetta Tilbod ecki svo mikils virdandi, Ef vier hefdum nockud til þess unnid, Edur leitudum þess ad Fyrra Bragdi, Þvi þad kynni þa ad heita svo sem nockurskonar Verdkaup, Svo sem ef einn Þienari giørir eitthvad þad, sem sinum Hofdingia vel lijkar,

ad hann setur hann vid sitt Bord, og sæmer hann Giöfum, Jafnvel meir enn hañ hafde tiluñed: David giorde vel vid Mephibozet, og liet hann eta Mat vid sitt Bord, Sökum Vinaattu sinnar vid Jonathan Fodur hanns, 2. Sam. 9. Vidlijkt giörde hann og vid Son Barzillai wr Gilehad, 1. Reg. 2. Enn þvi er ecke til ad segia hiaa oss; Eingiñ leitar ad Gude, þegar hann kiemur i þenna Heim, sialfur bijdur hann oss til sinnar Endurnæringar i Skijrnenne: Þad maa um alla Menn segia, sem Ritningenn segier um hina Vantrwudu Verolld, ad allt Holld hafe fordiarfad sijna Vegu, Gen. 6. Reidennar Börn fædunst vier, Eph. 2. Reidennar Börn mundum vier uppalast, og deya Reidennar Börn, nema Gud fyrer JEsu Dauda hefde meire Myskun aa oss giört. Eg heyre ecke i Gudspiallenu, ad þad Foolked, sem var samannkomed ad heyra þessa Predikun, þad hafe leitad epter þessu Tilbode. Hann Blessadur var i þessare Rædu ad straffa þær Oguðlegu Borger Corazin, Betzaida og Capernaum, i hverium giörd voru flest hanns Kraptaverk, og er hann sem mest aangradest af Maña Opacklæte, þa spratt upp þesse Lijknarfulla Vatns Æd af Brunne Myskunarennar: Og skulum vier ecke meina, ad hañ hafe þad alleina talad til þess Foolksins, er þa nalægt var, helldur og til vor, sem Ord hañs heyrum enn nu i Dag. Dæmed þier nu sialfer, Brædur mijner; Ef eiñ Naudstaddur og allskonar Eymdum hladeñ visse sier Hæle vijst, og villde þess ecke leita, Jafnvel þoott ecke være honum þad boded, Jafnvel þoott hann mætte hafa stoora Eptergaangsmune þar fyrer, munde hañ ei Raadlaus hallden af öllum Moñum? O! Hvad tefur oss þa ad reña aa moote vorum Brwdguma, er ad Fyrrabragde hefur oss, Glæpa-Moñum og Ovinum sijnum, þessa dijru Heilsu-Giöf framboded, og liett af oss þessu Oke? Þu segier kannskie i Hiarta þijnu: Eg fiñ ecke til þessarar Byrdar, vel fer um mig, og eg kienne mijn einkis Meins. Þetta er allt Offsatt, hvad Gud naade! Findu Meñ til Meina siña, þa mundu fleire heilbrygder verda: Þu typtar þa DRottenn og þeir finna þar ecke til, sagde Jeremias, Cap. 5. Um Foolked i Jerusalem; Sama maa eg segia um þa, sem Guds Heilaga Logmaals Reidar-Þrumur slaa um Eyrun, og þeir fiña þar ecke til, þoott þar fliwge einn Skruggu-Steinn af Sinai i hveriu Orde. O Þu Vesæll Madur! giæt þo þess, ad betra er eitt miked Saar, ef þad er lifande, helldur enn lijtel Skeina daud og fwenn; Betre voru allar Raanglætingar Tollheimtumannsins þegar þær voru jaatadar, helldur enn allt Phariseæarans Riettlæte, sem hann stærde sig af, Luc. 18. Betre voru Synder hinnar Bersyndugu, sem þvode JEsu Fætur i Taarum sijnum, helldur eñ Vandlæte Simons, er kallade þad Ogiorning, ad snerta hana, Luc. 7. Þu ert þier eingra Stoor-Glæpa medvitande, muntu þar fyrer vera Saklaus fyrer Gude? Veitstu ecke ad Himnaña Himnar eru ecke hreiner i hañs Auglite? Job. 15. Þvi muntu þa vera, sem Daglega syndgar, og vinnur ei nema til Hegningar? Veitstu ecke, ad jafnvel hin minnsta Synd steiper Mannenum i eilijfa Glötun, nema Sonur Guds hefde bætt fyrer hana? Ecke einasta hann, sem giörer Stoormerkenn af þvi sem bannad er i Logmaalenu, helldur og saa, sem ei giörer allt þad sem i þvi boded er, hann er Bölvadur, Gal. 3.

Muntu

Muntu þa ecke vid Gud ſekur vera; Þoott ei veger þu Mann, edur kreinker Egta Kviñu þyns Naunga, edur ſteler med Laununng hanns Fe munum? Edur er þad forgiefens, ſem hann hefur ſagt, Matth. 5. Hver ſem lijtur eina Konu til ad gyrnaſt hana, hann hefur allareidu dryǵt Hoor med henne i ſijnu Hiarta: Og, hver ſem reideſt Broodur ſijnum, hann er Raads ſekur? O! Gud giæfe, ad Menn væru ſvo Koſtgiæfner i þvi, ad rannſaka ſialfa ſig, ſvo ſem ad hniſſa um̃ aña rs Haattſeme! Þad er oſs ecke ſvo forult ad giora, Jafnvel þoott eckert ſie oſs þarfara edur Naudſynlegra, til ad nalægiaſt vorn Frelſara med Chriſtelegre Ydran, þad er ſvo Omiſſande, ad ef vier vilium þad ecke giora, þa giorer hann þad, ſem ad Hiortun og Nijrun rannſakar: Þvi ſegier hann hia Zophoniam, 1. Cap. Þad ſkal ſkie a þeim Deige, ad þegar eg rañſaka Jeruſalem med Lioose, ad eg ſkal ſtraffa þa Menn, ſem eru ſamañgrooner vid þeirra Saurende; Ecke þeſs vegna, ad DRottenn hafe Þorf ad rannſaka vorar Hugrenningar, aller Hluter eru Berer og Nakter fyrer hanns Augum, Ebr. 4. Helldur ad hann augliiſe Fatleyſe vorrar Blygdunar, Apoc. 3. Nær vier hana ei ſialfer þeckia vilium, og kaſta vorum eigenn Preck i vorar Aſioonur, ſvo ſem Malachias ad Orde kiemſt, Cap. 2. Þegar vier vilium ecke þvo hann af med Taarum vorrar Ydranar. Vite þvi aller Menn, ad eingenn er ſvo Heilagur, ad ef hann a fram̃ fyrer Gud ad koma, ad hann ecke a einhvern Hatt meige lietta af ſier Byrde Syndariña. Enn hvernenn maa hann heñe aflietta, hafe hañ alldrei til hennar fynded? Og ſvo leinge hann ecke til hennar finnur, ſvo leinge er hann Gude og hañs Syne fiarlægur; Hann er komeñ ad kalla Synduga og ecke Riettlata til Ydrunar, Heiler hafa ecke Læknarans Þorf, Matth. 9. Guds Sonur er i Heimenn komeñ til ad lækna þad ſem Sundurmareder; Enn hvernenn maa hann þitt Hiarta lækna, ef þad er heillt, og þu finnur til eingra Meina?

Eg heyre hier i Gudſpiallenu, ad hann bijdur til ſijn Ollum Þeim Sem Erfide Drygia, Og Þwnga Eru Piader, þad er, ollum þeim, ſem eru ſundurkramder af Megne Samvitſkunnar, fyrer þeirra Afbrota Saker, hverier ed erfida i Taarunum, og væta um̃ Nætur ſijna Sæng med David, hverium Guds Hond er Of-þwng vordenn, og þar er eingenn Maattur i þeim fyrer hanns Ognan, Pſ. 38. Og laangar ſvo epter DRottne a Þurrlendenu, Pſ. 63. Þeſſum bijdur JEſus til ſinnar Endurnæringar, enn ecke þeim ſem hrooſa ſier af þvi, ad þeir ſieu ecke eins og adrer Menn, Luc. 18. Ei helldur hinum, hverier þoott ad þeir ſieu hinum verſtu og ſwluſtu Klækium og Skom̃um hladner, þa fiña þeir ecke meira þar til enn Kletturenn, þo Menn legge heilann Skips-Farm edur alldrei ſvo mikenn Þwnga ofann a hann; ſvo maattugur er Dioſulleñ i þeirra Vantrw, Eph. 2. Þar fyrer, ſyndugur Madur, vilier þu niota þeſſa Tilbods, og allra helſt i Heilagre DRotteñs Kvolldmaaltijd (hvar Endurnæringeñ er aan Mælingar frambodenn ollum Þreyttum og ollum Sorgbitnum) Vilier þu þeſſa Not hafa, ſegie eg, þa kvel Hiarta þitt med Jhugan þinna vondu Verka, og Guds Heilaga Logmaals: Alldrei eru þau ſo faa, ad ecke meige þau ofbiooda þier, nær þu hugleider þitn Overdug-

leik

leik og hanns Riettlæti. Tem þier slijkt Hugarfar, Og slijt Hiarta þijnu med svoddann Paunktum Daglega, Þa muntu brædlega erfida þig moodann, Og svo mikinn Þwnga finna, ad þu munt valla faa undir risid, Þa ertu og fyrst hæfur til ad taka aa mooti þessu Bodi, Þvi Giallð Peningurinn verdur ecki giefinn þeim, Sem Jllt ad hafast, Ei helldur þeim, Sem eckert vinña, Helldur þeim, Sem bera Hita og Þwnga Dagsins, Matth. 20. Þoott sumir beri hann skiemur eñ sumir; Og þoott i þeim Stad tali Frelsarinn um hid Eilijfa og Oforþienta Verdkaup aa Himnum, Þa er þo su Endurnæring, sem eitt Ydranndi Guds Barn finnur i Vitnisburdi Heilags Anda þar um, ad þad sie Guds Barn, hun er, Segie eg, Pantur þeirrar eilijfu Endurnæringar, sem Johannes umtalar i hañs Opinberana Cap. 14. Þar hann prijsar Sælu þeirra, sem i DRottni dandir eru, Þvi þeir hvijlast edur Endurnærast af Erfidi sijnu; Jaa, ef þier svo giorid, Born mijn, Þa mun ydur brædlega lannga eptir Gudi, svo sem Hiortinn eptir ferska Vatni, Ps 42. David laangadi eitt Sinn i Brunniñ i Betlehem, enn þegar þeir færdu honum Vatnid, þa villdi hann ecki drecka, helldur wthellti þvi fyrir DRottni, 1. Paral. 12. Enn þegar þier wthellid ydar Taarum fyrir Gudi, Sem Þecking Syndanna hefur kreist wt af ydar Augum, Þa mun hann Endurnæra ydur med þeim Himnesku Vatns-Straumum, sem fram fliota af Stooli Guds og Lambsins, Apoc. 22. Hver sem þar af dreckur, Hañ skal ecki smacka Daudann ad eilijfu. Komum þvi til þessara Vatna, Giegnum þessu Tilbodi; Komum og kaupum fyrir alls eckert, Bædi Vijn og Mioolk, Esa. 55. Og þoott ad Angist Syndanna kunni ad þrijsta svo miog ad Hiarta Syndarans, Nær hann stendur undir Ransaki Samvitskunnar, ad hann telie sig Overdugann Guds Naadar, þa gior ei þijnum Frelsara þann Oriett, ad þu efir um hanns Guddoomlega Myskun, Sem er eins stoor og hann er siaalfur, Hversu sem þu ert hinum verstu Syndum hladiñ, ef þu ydrast af Hiarta, og lætur af þeim, Hver sem þad efar, Þad er eins og hann villdi setia Christ af Tign sinni, Þvi hann er þess vegna Konungur vor Syndaranna, ad hañ hefur sigrad vora Ovini, Enn keypt oss Gudi til Handa med sijnum Dauda. Seig mier, Hvad skal sa hafa til ad bera, Sem einum skal Myskuna, Neina Maattinn og Viliañ? Enn um hvertveggia þetta tekur DRottinn allann Efa fraa Syndaranum i þessu Heilaga Gudspialli. Fyrst segier hann: Allir Hlutir eru mier Ofurgiefnir af mijnum Fodur: Þetta talar Christur eptir Manndoominum, Þvi eptir Guddoominum er hann Siaalfraadi allra Hluta Fraa Eilijfd til Eilijfdar, med Fodur og Heilogum Anda: Enn fyrst honum er allt Valld giefid bædi aa Himni og Jordu, af honum sem þad alleina hefur, Og sem alleina kann ad fyrirgiefa Syndirnar, Þvi skylldi hann þa ecki kunna ad tilgiefa þier þijnar Syndir, Hversu sem þær liootar eru og Andstyggilegar, Nær þu hatar þær, Og villt af þeim lata? Hann sagdi Fordum þegar Judar hneixluduzt aa þvi, ad hann sagdi vid hinn Hvalfvisna; Þier eru þijnar Syndir fyrirgiefnar: Hvert er liettara ad segia, Þier eru þijnar Syndir fyrirgiefnar, Edur ad segia, Statt upp og Gack? Matth. 9. Minn HErra JEsu, Meira kostadi þig þad ad Endurskapa mig af Andskotanum Vanskap-

adann

adann, Helldur enn ad skapa honum Heilsuna, Sem þu hafdir i Fyrstune i Moodur-Lijfi skapad, Eñ fyrst þu sijndir med þessu Kraptaverki, ad Mañsins Sonur hefdi Makt til ad fyrirgiefa Syndir aa Jordu, Þa giet eg ecki efast um̃, ad þu kunnir mijnar Syndir ad tilgiefa, Hversu sem þær swlar eru: Þu sem sagdir til ens Haalfvisna: Statt upp, Tak Sæng þijna og gack i burt, Matth. 9. Eg veit og ad þu gietur hiaalpad mier med Naad þijns Anda, ad rijsa upp af þeim Syndanna Bed, Er eg svo leingi hefi sofid aa. Gud er alleina saa, sem Daasemdar Verkinn giorir, Ps. 72. Hann er og saa alleina, sem tilgiefa maa Syndina: Hverttveggia giorir þu hier, O Drottinn minn, þvi giet eg ecki um̃ Valld þitt efast; Enn um̃ Viliann miklu sijdur, þvi þu segier hier i Gudspiallinu: Komid Til Mijn Allir. Þa veit eg ad þetta Tilbod nær og til mijn, Þott eg væri Syndugri enn allir Menn; Þegar eg Erfida i Þeckingu og Jaatningu Synda minna, J hverium þu minn Frelsari hefur Erfidad, Esa. 43. Þegar eg var þinn Ovinur, Rom. 5. Þvi þu segier: Komid Til Mijn Aller Þier Sem Erfidid; Og þegar eg stin undir Punganum, Er þu barst minna vegna, Þegar Hegninginn laa aa þier, Enn eg vard Heilbrygdur fyrir Beniar þijnar, Esa. 53. Þvi þu segier; Komid Til Mijn Sem Þwnga Erud Þiaadir. Til hvers? Ecki til þess, ad skipa mier ad borga hinn sijdarsta Pening, þvi Gud hefur fyrir þijna Skulld uppgiefid mier alla Skulldina: Ecki til þess, ad eg lwki þier þa Handskriftina er þu hefur aa Krossinn neglt, Col. 2. Helldur til þess, ad þu takir a mooti mier faaraadri Manneskiu, Svo sem Fadirinn vid hinum auma Syni, Er sinni Arfleifd sooad hafdi, Luc. 15. Þvi vil eg Alls-Hugar feiginn koma, O! HErra JEsu, og þvo Fætur þijna med Taarum mijnum, Og smyria þa med Angri mijns Hiarta og Elskunni til þijn, Er mier hefur svo margar Syndir tilgiefed, Luc. 7. Ef eg þess verdugur verda mætti, fyrir þijna eigiñ Forþienustu. Komid Til Mijn Allir Þier Sem Erfidid, segier Bruñur Giædskunnar: Þetta mætti tilheyra jafnvel hinum allra-Heilogustu Monnum, Noe, Abraham, Job, Eliæ, Johañi Baptista, Og jafnvel Guds Moodur sialfri; Svo Heilagur er Gud, Svo er hann Riettlaatur, ad hann maa ei lijda hid miñsta Grand aa Manneskiunni, aan fullkomins Endurgiallds fyrir Syndina, eñ þad verdur ei golldid nema i Christi Forþienustu, Og af henni hafa Meñ eingiñ Not, utañ Meñ ydrest Syndanna af Hiarta, Enn ad ydrast Syndaña, Kostar þañ alltijd nockurt Erfidi, Sem þeckir Guds Haatign og sinn Veikleika, þar fyrir skulu hañ allir Kvitrunar bidia, Ps. 32. aa þeim Tijma nær Reikningurinn skal halldast; Fyrir þvi hrædist Job oll sijn Verk, Enn ef hann hræddist þau, og jafnvel hin bestu, Þa mun þeim Guds Mañi þoott hafa, ad hañ þyrfti Ydranar vid, Hver alldrei geingur Erfidislaust af, Eigi hun Gudi ad lijka; Þar um̃ ber lioosast Vitni hañs sijdarsta Jaatning fyrir honum, Cap. 42. Eg straffa sialfann mig, og ydrast i Molld og Osku: Þetta sagdi Job, um̃ hvern Gud vitnadi aa mooti Satan, ad eigi væri hanns Lijki i Landinu, ad hañ væri fullkomiñ, Riettviis, Gudhræddur, og fordadist þad Vonda, Job. 2. Hvar af Menn siaa, ad þad satt er, Sem Paall segier: Ad allur Heimurinn sie fyrir Gudi Sakfallinn, Rom. 3. Og ad einginn sie svo

 Heilag-

Heilagur, ad hann ecke allshugar feigenn meige taka þessu Náadarfulla Lausnarans Tilbode; Enn þar minn HErra segier: Komed til mijn aller þier sem þrwnga erud þiaader/ þa kalla eg mier boded med þessare Gudlegu Raust, og øllum Stoorsyndurum, sem miken̄ Part Æfe sinnar hafa i Priootskunne og Glæpunum aled, enn fyrst hann hefur þad talad, hvers Blood ad hreinsar oss af øllum vorum Syndum, 1. Joh. 1. Hañ sem er Forlijkun fyrer allar Veralldarennar Synder, 1. Joh. 1. J Krafte þeirrar Foornar/ i hverre Gud forlijkade Heimeñ vid sialfann sig, 2. Cor. 5. þa giet eg ecke ætlad, ad hañ/ sem alleina er Sannordur, Rom. 3. Ad hann mune spyrna mier Syndugum Orme burt af Skor Foota sinna, nær eg þar ligg med sannre Ydran, og fullum Asetninge til Yfirbootar: þvi skyllde eg þa laata mijnar Illgiorder og Bloodug Afbrot hindra mig fra/ ad taka þessu Giædskufulla Tilbode med hinum mesta Fognude mijns æangrada Hiarta! J þessu styrkia mig hañs Blessud Fyrerheit, þar hañ svared hefur, ad hañ ei vilie Syndarans Dauda, helldur ad hann snwe sier og life, Ezech. 33. Um̄ þetta taka allann Efa fra mier þau Dijrmætu Ord, er hann talad hefur, ad hann vilie eingann fra sier reka þann sem til hanns kiemur, Joh. 6. O! þvi skyllde eg vera þa svo Myskunarlaus vid sialfann mig, ad eg ei skyllde leita hanns Náadar, þar eg veit hañ er svo Myskunsamur? þad er kunnugt, hversu ad Juda hafde reitt DRottenn til Reide, og hversu ad hañ neyddest til ad reka þa wt wr þvi Landenu, er hann hafde giefed Fedrum þeirra; Eñ þegar hañ hafde teked þa i Saatt aptur, þa segier hin eilijfa Giædska, Zach. 10. Eg skal Myskunna þeim, og þeir skulu vera eins og eg hefde þeim alldrei burtkastad. Svo langt er fra þvi/ ad Gud tilreikne Sannydrande Manne drygdar Synder, þegar hann snijr sier til hanns af øllu Hiarta, og þoott svo meige tilbera, ad DRottenn legge a þig Tijmañlega Refsing/ Christenn Madur, þu sem a JEsum trwer, fyrer undannfarnar Synder, til þess ad þu ecke meiner þig Saklausann ad vera, þa laat þier ei Hug fallast, edur ætla ad hann mune burtreka eilijflega. Valla nockur þiood i Heimenum hefur svo þwngre Hegningu sætt af hanns Volldugre Hende, svo sem hanns Frumgietenn Sonur Jsrael, Exod. 4. Um̄ nockra Stund; og þo segier Fader Myskunsemdanna, Jer. 31. Heyred þier Ord Drottenns, O! þier Heidingiar, og kunngiored þad i fiarlægum Londum, og segied: Hann ed sundurdreifde Jsrael, hann samannsafnar honum, og vardveiter hann, svo sem Hyrder Hiord sijna, þvi DRottenn endurleyser Jacob, og frelsar hañ af þess Hende, sem er sterkare honum. þacker sieu þier, þu Dijrdareñar Konungur, ad þetta Fridar-Bod er og komed til vor, þinna Aumustu Vesælinga, sem bwum a Hala Veralldarennar; þvi vilium vier Allshugar fegner heyra hiñs gooda Hyrders Raust, sem til sijn bijdur øllum þeim sem Erfide drygia, og þwnga eru þiaader. Hver er sa þioon, ef hann misbrijtur nockud vid sinn Lanar-Drottenn, og hafe hann nockra Æru-Taug i sier, edur hyrde um̄ Velferd sijna, ad ecke leite hann Saatta til hanns a alla Vegu, sierdeilis ef hann a Fyrergiefningar Von. Nu þoott vier a hverre Stundu, hveriu Augnablike, styggium DRottenn Himens og Jardar; þvi skylldum vier þo ecke samt leita Forlijkunar hia honum/

er vier vitum ad er svo audvelldur ad taka vid Syndurunum, ad hann segier, Zach. 1. Snwed aptur til mijn, og skal eg snwa mier til ydar. Hier þarf ecke Joab ad brwka Vijsdooms Konuna af Thechoa til ad frida fyrer Absalon hiaa David, 2. Sam. 14. Ecke þarf hier Paulum til ad sætta Onesimum vid Philemonem, Philem. v. 10. Enn hier er JEsus Christus, Gud og Madur, saa einaste Medalgaangare millum Guds og Manna, 1. Tim. 2. Hann segier, i Krapte þess Umbods, er hann hafde af hinum Allvallda Konunge, til ad sætta Mañkyned vid hann og sialfann sig; Hann segier med fullum Myndugleika: Komed Til Mijn Aller Þier Sem Erfided Og Þwnga Erud Þiaader, Eg Vil Endurnæra Ydur. Þad er eitt mikid Fyrerheit, sem Gud giefur Jacob edur Israels Hwse, Jer. 30. Hanns Hofdinge skal af honum koma, og hanns DRottnare skal af honum framgaanga, hverium eg biooda mun ad hann naalægest mig; Þvi hver er saa, sem þore ad lofa sier i sijnu Hiarta, ad hann vilie naalgast mig? segier DRottenn. Hver er saa Hofdinge? Þad ertu Dijrdarennar Konungur, JEsu Christe! Hver er saa DRottnarenn? Þad ertu Guds og Mariu Sonur, þu sem af Meyar Lijfe ert wtgeingenn, af Lijfe Doottur Jacobs, jafnvel þoott þinn Utgaangur sie þo fraa Eilijfu, Mich. 5. Hverium eg mun biooda til mijn ad koma; segier DRottenn. Þvi skal hann til þijn koma, O! HErra? Hañ sem bijr i þijnu Skaute fraa Upphafe Eilijfdareñar, Joh. 1. Og epter Mañdoomenum er hañ saa Madur sem þier nærstur er, Zach. 13. Vor vegna hefur hann naalgast þig, O Gud! Sem fiarlæger vorum, laangt fraa þijnu Auglite, og fraa Vellde Dijrdar þinnar, Eph. 2. Hverium kasta atte i hin ytstu Myrkur. Vor vegna er hann þier naalægur vordenn, svo sem Kieñemadur epter Skickan Meichizedechs, Hebr. 5. Inngeingenn i þad Allra-Helgasta, i Himeninn fram fyrer þig, med eina Foorn, ad wtvegadre eilijfre Endurlausn, Ebr. 9. Hver er saa, sem þyrde ad lofa i Hiarta sijnu, ad hann villde naalgast þig? Hver villde taka sier þann Heidur til? Eingenn syndugra Manna. O DRottenn! Hvad munu Haalm-Straaeñ bwa vid eiñ forærande Elld? Edur Riked vid Stormeñ af Eydemorkunne? Hvad Leyreñ vid Jaarn-Spijruna? Hvad Vatns-Boolann, hvad Gufa Jardarennar, vid Reidarslog Himensins? Hañ einn, hañ eiñ maa þig naalægiast, fyrer hverium Troonarner og Magtarvolldenn skialfa, og hann tilbidia, Ebr. 1. Hver alleina i Himeneñ uppstijgur, Mañsins Sonur, sem ofann er stijgenn af Himne, og þo aa Himnum, Joh. 3. Og med honum munu uppstijga aller þeir sem hañ hefur med sier dreged, þa hañ upphafeñ var, þad eru aller ydrande Syndarar; Aller Þeir Sem Erfida og Þwnga eru Þiaader; Jaa, aller þeir sem trwa aa Nafn Eingietens Sonar Guds, Act. 10.

Eñ þess er ad giæta, Br. M. Ad þessu Naadarfulla Tilbode fylger Skilmaale nockur. Taked aa ydur mitt Ok, og Læred Af Mier, Þvi eg em Hoogvær, og af Hiarta Lijtilaatur. Eg vil nu i þetta Siñ ecke tala margt um Ok DRottens, er sier flage nefnest hañs Kross, og er inifalid i Mootlætingum þessara Tijma, helldur vil eg tala um þad, sem hlijder þvi Ese, er eg i Ondverdu hoof um ad tala, sem i Tveim Hlutum er foolged; Þad er i Fyrstu

ad plaaga Saalu sijna med Hræsnislausri Jaatningu og Tilfinningu Syndarinnar, hvar af Ydraninn kiemur. Og i Annann Maata, ad Krossfesta hinn GamlaMañinn, Rom. 9. Er sig fordiarfar i Gyrndum Villudoomsins, Eph. 4. Þessi Krossburdur er Gudi hvad kiærastur; Og ef Manneskiann temdi sier hann Daglega, Þa mundi þad afstijra morgu Utvortis Mootlæti, Jafnvel þo DRottinn aa Stundum virdi sijna bestu Astvini med Teikni sijns Sonar. Vier skomunst vor ad sonnu, ad jaata Syndir vorar fyrir Monnunum: Vier dylium þær hvad mest vier kunnum, Jafnvel fyrir þeim sem verri eru enn vær (nema þeir sem Diofullinn hefur svo barid Sigg i, ad þeir hafa mist alla Tilfinningu, svo þeir stæra sig af Glæpunum); Og þad velldur þvi, ad Syndinn er svo lioot, ad jafnvel margir þeir sem Ohlutvandir eru, Hata hana og lasta aa odrum; Enn þvi munu Menn vilia dylia hana fyrir Gudi, Eins og allir Hlutir sieu ecki berir og naktir fyrir honum? Ebr. 4. Enn þetta giorum vier ecki einasta, Nær vier ecki jaatum Syndirnar, Helldur og nær vier ecki Rañsokum þær, Leitum ecki eptir þeim Smaasmuglega i innstu Filsnum Hiarta vors Hugskots, og ecki ydrunst þeirra af Hiarta, Nær vier hofum fundid þær. Eñ þvi dylium vier Siwkdoominn fyrir Læknaranum? Edur Þorfina og Vanmaattinn fyrir honum, Sem er alleina Rijkur? Þyrmir þu sialfum þier, Þa mun hañ þier misþyrma, Ef þu hylur, þa mun hann opinnbera; Þvi skylldi eg ei vilia aangrast fyrir honum, sem gledst af þessu Angri, Og vill mier þad launa med Þusundfalldri Gledi? Þvi eg vil Endurnæra ydur, Segier Lausnarinn. Þvi mun eg skyrrast vid ad jaata Syndir mijnar i Augsyn Heilagra Eingla, Þar meiri Gledi er i Himninum yfer Einum Syndugum, sem Ydran giorir, Enn yfer Niju og Nijutiju Riettlaatum? Luc. 15. Menn hafa alldrei heyrt, ad Gud hafi deilt Jll-Deilum vid eirn sannydrandi Vesæling; Enn um hina segier hañ, Jer. 2. Eg skal þraatta vid þig, Af þvi þu segier: Eg hefi ecke Syndgast; Enn hvar med þraattar hann? Ecki med Ordum toomum, Ecki med Overgmaals-Hlioodi, Svo sem Spaamadurinn ad Ordi kiemst, Helldur med Drepsoott og Manndraapum, Ezech. 38. Og jafnvel med Ylfri og Tannagnijstran vid þa, Sem ecki skipast vid þetta Naadar-Tilbod. Þar fyrir, Brædur mijnir, þess betur sem vier þeckium Guds Fodurlega Giædsku, i þvi, ad taka vid Syndaranum, Nær hann ydrast, Og þess meiri Haaska sem vier vitum oss bwinn vera, Nema vier ydrunst; Þess helldur leggium allt Kapp aa, ad bleita vor Hiortu fyrir Gudi, Svo Heilagur Andi faai þar inni-bwid, aan hvers vier ecki gietum til JEsum komist, Svo sem vier medkiennum i vorri Trwarjaatningu: Og er þad ecki noog, ad aangrast fyrir Syndirnar um Stundar Sakir, þad er eins og Elldur i Sinu Hlaupi, ad laata sier volgha nockra Stund um Hiartarræturnar, Nema Ydraniñ verdi oss svo sterk, ad vier hotum þær Syndirnar, er oss aadur hafa hvad kiærastar verid. Hvad gagnadi þad hinum Volldugu i Jerusalem, ad þeir gaafu lausa Þræla sijna og Ambaattir? Þegar Nebuchadnezar hafdi lagst um Borgina, enn hneptu þau aptur i Þrælbooin, nær hann vor burt vikinn um Stundarsakir, Jer. 34. Eins er þeirra Maña Ydran

kan, sem graata Syndir sijnar fyrir Gudi, enn hverfa þo aptur til hinna somu: Soddann Ydran fordæmir Manninn meir, Eñ affsakar; Þvi hun sijnir þad, ad hañ hefur þeckt Syndina, Og vill þo ecki af henni laata. DRottiñ hefur kieñt Syndugum Mañi eirn Skriftargaang hia Jeremiam; Hann skylldi oss alldrei wr Mynni falla: Þier skulud hafa Leida aa sialfsum ydur fyrir ydar Raanglætinga Sakir, og skamast ydar fyrir ydar Svijvirdingar, Og blygdast fyrir ydar Vegu. Ef Meñ lietu sier þetta Hugfast vera, Þa mundu þeir ecki laata sier þykia svo vænt um Syndina, ad þeir vellti sier i henni aptur strax, sem þeir eru geingnir fraa Prestsins Kniaam. Good Uppbyriun er þad ad sonnu, ad ausa wt Hiarta sijnu fyrir Gudi med Jaatningu Syndanna, Og ecki skiedur þad nema fyrir Verkan Heilags Anda: Enn St. Paall aaminnir þa i Thessalonica, 1. Thess. 5. Ad þeir ei skuli slockva Andañ; Og mun hañ þad viliad hafa ollum sagt; Hryggid ecki Heilagañ Anda Guds; J hverium þier Innsigladir erud til Dags Endurlausnarinnar, Segier hann, Eph. 4. Hvar af audsært er, ad Madur kañ med Apturhvarfe til Syndarinnar ad fæla Guds Anda fraa sier. Eins og Dwfurnar flya Reikinn; Svo flijr Guds Andi Syndsamlegar Huxanir: Eñ þegar Heilagur Andi er burtvikinn; Hvad liggur þa fyrir Vesælli Manneskiu? Ecki annad eñ fyrir Saul Konungi, 1. Sam. 16. Ad þegar Gud took sinn Anda fraa honum; Þa þusti yfir hann Guds vondur Andi; Jaa ecki annad, enn ad einn Ohreiñ Andi tekur Sio adra Anda sier verri, og hverfur aptur i Hws sitt hvadann hann kom; Og verdur svo þess Mañs hid Sijdara argara hinu Fyrra, Luc. 11. Jaa, Þad kann ad koma þar, ad saa sem svo tijdt forsmaair Anda Naadarinnar, Ebr. 10. Ad Gud verdi honum svo reidur um sijdir, ad hann yfergiefi hann i Fraaleitt Sinni: Eins og Paall talar um Heidingiana, Rom. 1. Þad er Maalshaattur Guds optlega i Ritningunni, Ad þegar Manneskiañ lætur sig aangra Syndina, Þa vilie hann ydrast þess Illa, Er hann hugdi ad giora henni; Enn þessi Fodurleg Giædska Hinns Myskunsama Guds; Sem aatti ad draga oss til Ydrunar, hun aflar morgum Daara enn meiri Þverwdar, Svo þeir hverfa aptur til Spijunnar, sem Petur ad Ordi kiemst, 2. Pet. 2. Af þvi Gud hefur svo tijdt forlaatid þeim Syndina; Enn siaai þeir til, Sem þanninn hafa vanid sig til ad misbrwka Guds Poliñmædi, ad ecki verdi þeim sagt eins og Jerusalem: Þu hefur yfergiefid mig, þu ert aa Bak aptur horfinn; Þar fyrir vil eg wtrietta miina Hond aa mooti þier, til ad farga þier; Eg em vordinn þreyttur af ad ydrast, Jer. 15. Gud giæfi, ad þeir sem Einusinni hafa smackad hid gooda Guds Ord, og Krapt Eptirkomandi Alldar, þeir villdu Hugleida hvad miklu yndælli er, Jafnvel sw Hrygd; sem ad er eptir Gudi, 2. Cor. 7. Helldur enn allur Heimsins Munadur, Þegar hann geingur sem hædst: Þvi ef hid Heidna Skaalld segier, Ad þar sie nockur Vellyst i þvi ad graata; Hvad mun ei þeim þykia, sem Andi Fagnadarins pressar Taarinn wt af Augunum? Takid aa Ydur Mitt Ok, segier Frelsarinn hier i Gudspiallinu, Þvi Mitt Ok er Sætt, Og Mijn Byrdi Er Liett. Eg vil ecki i þetta Siñ tala svo eiginnlega um Kross-Byrdi DRottinns i Utvortis Mootlætingum, Og þa Hugsv-

olun hinns gooda Anda, ſem henne jafnann fylger, helldur vil eg tala hier um̃ Deydingu Holldſins, og Kroſsfeſtingu hinns gamla Adams, ſem bijr i oſs; Seige mier þeir, ed Einuſinne hafa kiennt aa hvad ſætur ad DRottenn er: Mun nockur Aſſverus i ſijnu ſtoora Heimbode, Eſth. 1. Mun nockur Baltazar i ollu ſijnu Ohoofe, Dan. 5. Nockur Herodes i ſijnum Hopru-Danſe, Matth. 14. Nockur Benhadad i Herbwdum ſijnum, 1. Reg. 20. Munu þeir, ſeige eg, una ſvo vel ſijnum Hag; Svo ſem Riett-trwads Mañs Saala i Jaatningu Synda ſinna fyrer Gude; Þegar Ande DRottenns ber heñe Vitni um̃, ad hun ſie Guds Barn? Rom. 8. Alldrei heſur hinn Gamle Madurenn ſvo mikel Umbrot, ad ecke ſie þad Yndæle þeim, ſem i Guds Herſkrwda berſt, Eph. 6. ad ſigra hañ, og hann gledſt af Logmaale DRottenns, ſegier Paall, Rom. 7. Jafnvel þoott hann ſiña þykeſt eitt annad Logmaal i ſijnum Limum, ſem Hertake hann under Syndarennar Logmaal. Ad ſonnu kunna hiner ad klædaſt Pelle og Purpura, og hafa koſtulegt Bordhalld, Luc. 16. Margur mun ſaa vera, er ſegier til Saalar ſinnar, þegar hañ hefur alls Nægter misjafnt wtvegadar: Et og Dreck Saala mijn, þvi þu heſur til margra Ara ſafnad, Luc. 12. Enn alldrei kann þetta ad jafnaſt vid þaa Moadar-Mola, er detta af þvi Himneſka Borde ofann aa Foot-Skor DRottenns, Matth. 15. Hvar vier ſynduger Ormar ſkrijdum og mænum i Himenenn, epter hinne eilijfu Hugſvolun, er Guds Ande heiter oſs fyrer Paals Munn, ef vier berum Chriſti Ok med Polennmæde. Læred Af Mier Þviad Eg Em Hoogvær Og Af Hiarta Lijtelaatur. Hvar fyrer? Hier um̃ talar Poſtulenn, Hebr. 5. ſegiande: Þoott hann Sonur Guds være, þa heſur hann lært Hlijdnena, af þvi ſem hann lided heſur. Segied mier nu, þier ſem erud Ættleidingar, og ecke Guds einka Syner, eins og hann var: Munud þier nockurn Tijma leggia þann Kroſs a hinn gamla Adam, ad ecke haſe DRottenns Kroſs vered honum þijngre, ſem hann bar aa ſijnum Lijkama, ſamlijkur Holldenu Syndenne undervorpnu, þegar hann var af ollum yfergieſenn; Og jafnvel af ſijnum Himneſka Fodur? Marc. 15. O! hvilijk Mynkun er nu þad, ad vier ſkylldum ei vilia vaka Eina Stund med honum, til ad þiaa Saaler vorar med Chriſtelegre Ydran, og Deydingu vorra vondra Gyruda; Þar hann heſur loſad oſs ſijns Anda Hugſvolun, nær vier ſvo giorum! Taked aa ydur mitt Ok, ſegier DRottenn hier. Enn hvad er Chriſti Ok? Þad er allt þad, ſem Menn bera med Polennmæde, hvert helldur þad kiemur fraa Gude ſiaalfum, ſvo ſem eru Siwkdoomar, Aſtvina-Miſſer, Skade ſaa, er vier meinum ad kome ad Hendingu, edur annad þvilijkt: Ellegar hañ kiemur fraa Monnunum; Svo ſem er Orie...r, Forſmaan, Oſſookner, og þeſshaattar: Edur og ad þad er Straff vorra eigenn Synda, er vier ſiaalfer aa oſs leggium i Ydranarennar Verke, og Baraattunne moote Holldſins Gyrndum. Allt er þad Chriſti Ok, ef Meñ bera þad ſo ſem hann ſkipad heſur, þvi eckert af þeſſu kann ad henda oſſ, ſem vier ecke forþienad hoſum med Syndenne, edur annadhvert fyrer hanns Tilhlutan edur Tillaatſeme; Enn ef vier koſtum Okenu i burt med Oleyfelegum Hætte, Jer. 2. Þa verdur þad Heilſuſama DRottenns Ok ad Dioſulſins Oke: Ef vier erum Okolennmooder i

Siwk-

Siwkdoomenum, Moglunarsamer i Orbyrgdenne, ef vier giolldum einn Oriett med ocrum, og bætum vorn Skada med Skada Naungans; Þegar vier þañ Veg breitum, þa hofum vier eingrar Endurnæringar, eingrar Hugsvolunar ad vænta Saalum vorum, þa hverfur Sætleike sa, er Christi Oke og hanns Byrde fylgia; Ja, hvad meira er, ad þad Ok, sem oss verdur uppaalagt fyrer Heimsku vorrar og Synda Saker, þad kunnum vier ad giora ad DRottenns Oke; ef vier berum þad med Hoogværd og Christelegre Þolennmæde. David er oss til Epterdæmis hier i; Eg efast ei um, ad þad hefur geingid honum til Hiarta, þegar hann var rekenn fra Rijke af sijnum eigenn Syne, 2. Sam. 15. Og þegar Mord-Eingellenn sloo Foolked Sokum hanns Yfersioonar, 2. Sam. 24. Þo vann hann svo miked aa med sannre Ydran og Audmyke Hiarta sijns, ad Gud leidde hañ heim aptur, med Sæmd og Heidre, 2. Sam. 19. og linade Plaagurnar, 2. Sam. 24. Laatum oss þesse Dæme til Christum leida, audmijkium oss under Volldugа Guds Hond, 1. Pet. 5. Veigenn vitum vier, sporum ecke ad gaanga hañ, tokum aa oss hid sæta Ok Christi, og skiootum oss ecke undann hanns Byrde, svo vier meigum finna eilijfa Endurnæring, eilijfa Hugsvolun Saalum vorum, og gaanga inn til hanns Hvijldar. Þad veite oss goodur Gud, fyrer sijns Sonar blessada Forþienustu, AMEN.

# Tuttugasta og Siounda Suñudag eptir Trinitatis.

Gudspiallid, Matth. 17. Cap.

A Þeim Tijma. Og Sex Dogum þar epter, took JEsus med sier Petrum og Jacobum, og Johañem Broodur hañs, og hafde þaa Afsijdis uppaa haatt Fiall, og ummyndadest fyrer þeim. Og hañs Asiaana skein sem Sool, eñ hañs Klæde urdu svo biort sem Lioos. Og siaa, ad þeim byrtust þeir Moyses og Elias, og toludu vid hañ. Eñ Petur ansade og sagde til JEsu: HErra, hier er oss gott ad vera; Ef þu villt, þa vilium vier giora hier Þriaar Tialldbwder: Þier Eina, Moysi Eina, og Eliæ Eina. Og þa hañ var þetta ad tala, Siaa, ad biart Skij ummskygde þaa. Og siaa, ad Roddeñ wr Sktjenu sagde: Þesse er Sonur miñ Elskulegur, ad hverium mier velþocknast, hlijded þier honum. Og er Læresveinarner heyrdu þad, fiellu þeir fram aa sijnar Asiaaner, og urdu miog hrædder. Eñ JEsus gieck til þeirra, took aa þeim, og sagde: Standed upp og vered ei hrædder. Eñ þa þeir litu upp, saau þeir aungvañ nema JEsum alleinasta. Og er þeir geingu ofañ af Fiallenu, baud JEsus þeim, og sagde: Þier skulud aungvum þessa Sijn segia, þar til ad Mañsins Son er upp aptur risen fraa Daudum.

Exor-

## Exordium.

PEirra Gudir eru Fiallana Gudir, Sogdu Fordum Pienarar Benhadads Syrlands Konungs, Er þeir voru elltir af Israels Mønnum; Grætlegt er til þess ad vita, hvernin Satan hefur blindad Manneskiuna, ad Skynsemi Holldsins smijdar sier svo Dærlega Pænka um Guds Hæ-tign, svo sem ad hanns Rijki sie ecki eins rijkt i øllum Attum hans Velldis; Enn hvernig sem þvi er nu varid, Pa siæ Menn þo, ad Gud hefur sig hvad mest opinberad Mannkyninu æ Fiøllunum: A Fiallinu Sina utgaf han sitt Løgmæl, Exod. 20. A þvi sama Fialli taladi han vid Eliam i Hellinum. A Fiallinu Moria taladi Guds Sonur vid Abraham, Er han villdi hafa offrad Gudi Syni sijnum Isaac, Gen. 22. A þvi Fialli stood Jerusalems Musteri, Hvar Gud hafdi sin Elld og sin Ofn, Esa. 31. Og mæ sijnast, ad Gud hafi Teiknad med þessu, ad han væri hin allra Hærsti, og byggi i Hædunum, svo ad Diøfullinn hefur og apad eptir þessari Guds Dijrkan, Eins og i morgu ødru, og lætid sier æ Hædunum þioona: Pad vitna þær Hædirnar medal Guds Foolks, Er han svo miøg til Reidi reittu, æ hverium han segier, Ad ei sieu nema Prettir. Enn i þessa Dags Evangelio heyrum vier hina Allra Dijrdlegustu og Hügguna rsømustu Opinberan, Par hinn Eingietni Sonur Fødursins, Iklæddur voru Holldi, Ummyndadist Synilega fyrir Lærisveinunum æ Fiallinu Helga, Hvert ed hinir Gømlu Lærifedur Christnenar hafa meint ad vera Fiallid Tabor i Galilæa. Af Fiallinu Nebo i Moabs Landi sijndi DRottinn Moysi alla Fegurd og Giædi Canaans Lands, Enn æ þessu Fialli hefur han sijnt Lærisveinunum, og øllum þeim er æ Soninn trwa fyrir þeirra Ord, inn i þad Himneska Canaan, Er han nefnir sijna Hvijlld, Hebr. 3. Og til frekara Vitnis þar um Pa vil eg kvedia ydur, Guds Børn, til ad gænga Affijdis med Christo og hans Lærisveinum, til ad Hugleida þessa Dijrdlegu Opinberan, I hverri Tvennt er ad athuga, Sem er: 1. Siælfa Forklærunina. 2. Vottana sem Nærlægir voru. DRottinn, vertu i Verki med oss, og Nææd þijns Anda, Fyrir JEsu Forþienustu, Amen.

## Utleggingin.

HAnn Ummyndadist Fyrir Þeim, segier Textinn: Ecki er þad svo ad skilia, ad hans Manndoomleg Nætturu hafi umbreytst æ nockurn Hætt, helldur Forklæradist hun; Hin Dijrdlega Guddomsins Fylling, sem i hønum bioo, skaut wt Geislum sijnum i Mannlegu Holldi, Svo þeir kynnu ad siæ hans Dijrd, Dijrd svo sem Eingietins Sonar af Fødurnum; Hann afklæddist, Svo ad segia, Þioons-Myndinni um Stundar-Sakir, Enn ecki Nætturunni. Tak þad til Hugleidingar af þessu, Guds Barn, ad ædur enn þu mætt samlijkur verda þessari Dijrdlegu Mynd þijns Frelsara, sem hier ummgietur, Þa byriar þier ad ummyndast eptir hans Mynd, Sem þig skapad hefur, þad er, Endurnijast i þijnu Hugskoti, Þvi svo segier Frelsarinn, Nema þier ummyndist, og giørist svo sem þetta Ung-Barn, Þa kunnid þier ecki ad inngænga i Guds Rijki. Matthæus skijrir fræ þvi i Textanum, Hvijlijk ad verid hafi Forklæran þessi, Þar han segier, Ad Hanns Asiæna Hafi Skynid Sem Sool; Og skulum vier þo ecki ætla, Ad Sool Riettlætisins, Mal. 4. Hafi þo ecki øllu fegur skynid, enn þessi, er æ Himninum lioomar; Þvi hennar Byrti kunnum vier allir ad standast, Enn þegar Lærisveinunum gafst Sijn þessi en mikla, Þa skrifar Marcus, Cap. 9. Ad þeir hafi vordid Ottaslegnir, svo ad Petur vissi ecki hvad han taladi, Svo sem bædi hann og Lucas, Cap. 9. skrifa, helldur tekur Gudspiallamadurinn Lijking af Soolunni, Þvi hann hafdi eckert biartara ad jafna vid, Sem Daudlegum skiliast kunni, og ei skulum vier helldur meina þetta hafi verid sw

Dijrd,

Dijrd, er Guds Sonur ætte hiaa sijnum Födur, adur enn Grundvollur Verølldarennar var lagdur; Þvi jafnvel Utvallder skulu skijna eins og Sool i Rijke sijns Fodur, Matth. 13. Enn hvilijk su Byrti mune vera, er þar af audsært, ad vier skulum verda Englunum jafner, hverra Siooner ad Daudleger Meñ þo valla stadest faa; Þvi sagde Manoha: Vid munum sannlega deya, þvi vid hofum sied Eingel DRottenns; Og skulum vier þo vita, ad Dijrd og Hæatign Guds Sonar yfergeingur svo miked Englaña Dijrd, sem hann hefur þeim Ædra Nafn Odlast. Framar segier Textenn, Ad Hañs Klæde Hafe Vorded Svo Biort Sem Lioos: Þegar Moyses kom ofann af Fiallenu Sina med Logmaaled, þa skrifar Paulus, ad hanns Asiaana hafe vered svo biort, ad Israels Syner hafe ei maatt lijta i giegn henne, alleina af þvi, ad hann hafde vid Gud talad, og þo fieck Moyses hana byrgt med Skijlunne, er hann heingde fyrer sitt Andlit; Eñ þetta yfergnæfer, hier faa ecke Klædenn innelukt þann skiæra Guddoomsins Fegurdar Liooma, sem bioo i Christi Forklaarudu Hollde, helldur skein hun i giegnum, svo þau urdu fogur eins og Lioos. O minn HErra JEsu! er þetta su Mynd, sem ad hieck aa Krössenum, þegar þu giordest Bolvan fyrer mijnar Synder? Sw sem Esaias uñ talar i 53. Capitula, segiande: Þar er eingenn Mynd edur Fegurd aa honum, og þegar vier lijtum hann, er þar eckert Alit, sem vier gyrnunst, hann er forsmaadur og Maña Audvirdelegastur, hann er plaagadur af Meinum, og Kraankdæmum alvanur, og svo sem einn Madur er byrger sitt Andlit fyrer oss, svo Foracktannlegur, ad vier virdum hañ Einkis? O Þu Saklausa Guds Lamb! hvilijk voru nu þesse Umskipte, DRottenn, minn? Hvad vorum vier Synduger Ormar, ad þu, Lioome Fodursins Dijrdar, skylldær svo bera vor Kraankdæme? Hvad þrijste þier til þess, miñ Lausnare, ad þu skylldær breyta þessare Dijrd i þa herfelegu Asiaan, er Spaamadurenn talar uñ? Eckert añad enn þijn Guddoomleg Elska, þijn diwpu Myskunar-Ydur, J hverium þu vitiader vor Upprunnenn af Hædum. Enn þu Guds Barn, sem heyrer þenna Dijrdlega Atburd, tak þier hina mestu Huggun af honum, þegar Guds Fodurleg Giædska virder þig med sijns Sonar Krosse, ad svo Dijrdlegur sem hañ giordest hier fyrer Augum Læresveinaña, svo Vegsamlegur og ollu Vegsamlegri muntu verda, nær þu iñgeingur i þijns Herra Fognud, ef þu tekur hanns Ok aa þig, og fylger honum epter, þvi þessa hañs Dijrd saau þeir Daudlegum Augum, svo sem bæde Petur og Johañes votta; Enn þad hefur ecke Auga sied, og ecke Eyra heyrt, og ecke hefur þad i nockurs Manns Hug edur Hiarta komed, hvad Gud hefur þeim tilbwed sem hann elska: Enn Elskann til hanns siest alldrei betur enn i Mootlætenu, þar reynest hun svo sem Gulled i Ofnenum, þar er faa Leikvollurenn, hvar ed hinar Andlegu Kiempur eiga ad sijna Frækleik siñ; Þar er Skeid-Flotureñ, er aller þeir eiga ad hlaupa med Paale, sem vilia Hnossed odlast. Lucas hefur sagt oss þad, hvert ad vered hafe Inntak þess Samtals, er þeir Moyses og Elias aattu vid DRottenn aa Fiallenu Helga, sem var uñ þa Utfor, er hann skyllde fullkomna i Jerusalem, Þad er su Burtfor til Fodursins, er hann nefner hiaa Johannem, i 16. Capitula, J

þeirre Hiartnæmu Predikun, er hann talade fyrer Læresveinunum undir sijna Pijslar-Gaungu, þa ed hann fullkomnade og batt fullann Enda aa þad, sem hanns Fader hafde honum umboded. Ecke hefur þesse Syn edur þetta Samtal skied fyrer Christi Skulld, þvi sialfur visse hann allt þad er yfer hann ætte ad koma; Sialfur þeckte hann og Guddoomsins Hætign og Vegsemd, sem ad i honum bioo, helldur Postulanna vegna, hverier ed sijdann mættu þola svo miklar Hørmungar, Fiøtur, Hwdstrokur, Ofsookner, Umsaatur, Jaa, Sijta og Graata, þegar Heimurenn fagnade, og þad fyrer Christi Nafns Saker, svo ad alltijd nær þeir i Hormungunum miñtust aa þessa Dijrdlegu Openberan, skylldu þeir hafa þad, þeir kynnu ad endurnæra Hiarta sitt med, sem var Ein Fullvissa um þvilijka Dijrd, er þeir saa nu fyrer Augum sier; og þvi er ecke ad undra, þoott ad þeir og þeirra Lagsmenn gengiu glader wt fraa Raadenu, nær þeir Hwdstrykter voru, Jaa, ecke þoott ad St. Paall være vel til Frids i Ofsooknunum, i Angistenne, i Naudunum, þar hann hefur ecke einasta þessa Sijn heyrt, helldur og var sialfur i hinn Pridia Himen uppnumenn. Petur hafde fyrer skomu spurt DRottenn ad, hvad þeir skylldu i Laun hafa, sem ad yfergaafu alla Hlute, og fylgdu honum epter? Enn DRotteñ sijner honum hier aa Fiallenu, ad svo miklu Leite sem hann siaa kunne, i þessu Daudlega Hollde, hvers hann ætte Von fyrer sijna Pioonustu, og er þad Maala sañast; Petre þootte svo miked til þessa koma, Jafnvel þoott ecke være þad meira hiaa hinne Eilijfu Dijrd, helldur enn Rikte Salomonis fyrer Drottningunne af Arabia, honum þootte svo miked til þess koma, segie eg, ad hann sagde: Hier Er Oss Gott Ad Vera. Hann var fæddur i Judæa, Einu Lande, sem er Paradis af Verølldenne, hann hafde vijda vered med Christo, bæde þar og i Galilæa, hañ hafde sied Jerusalems Mustere, og hina kostulegu Guds Pioonustu þar inne; Enn ollu gleymde hann þvi sem til baka var, hier þeckte honum alleina Gott ad vera. O! hversu munu þeir þa gleyma ollu Ofløte Veralldar, ollu Epterlæte og Fagnade i Heimenum, er sitia Lambsins Brwdkaup i Himnenum! Ad vijsu var Sijn þesse mikel, er Postulunum gafst, og sæla maa þa kalla af henne, eñ þo er þeim ei minna veitt, sem DRottenn auglijser sig i Hiartanu, þvi sæler eru þeir, sem ei siaa og trwa þo, sagde Lausnarenn Fordum vid Thomas; Þad sie eg aa svo morgum Þusundum Pijslarvotta DRottenns, um hverla þad sannkveded er, sem Esaias spaaer, Cap. 24. Ad þeir prijsudu DRottenn midt i Elldenum. Petur var vidstaddur þessa Openberun; Hann heyrde Moysen og Eliam tala um Fullkomnan DRottenns Utfarar, og þar ad auke heyrde hann Fodursins Raust, þo gleymde þesse Guds Vinur ollu þessu skomum Tijma þar epter, i Biskups-Hollenne, ecke varde þesse Umynndan DRotteñs leinge hiaa honum; Enn þegar Christur var i honum til fulls myndadur, svo sem Paulus ad Orde kiemst, þa munde hañ fyrr hafa þolad hinar skielfelegustu Pijsler Veralldar, eñ ad falla fraa Christo, og gafst Raun þesse optlega sijdann; Og þetta er nu svo Sioon aa JEsu Christo, er vier eigum ad kosta Kapps um ad naa, aa allre vorre Reisu fraa Vøggunne til Grafarennar; Þad er þad Heilaga Fiall, er vier eigum ad klifrast uppaa,

medañ

medann vier lifum. Saa sem þannig hefur komed Auga aa Christum, hañ kallar DRottenn fyrer sitt Hlutskipte, þoott ad Saal og Lijf vanmegnest, og nær hann Gud sinn hefur, þa skeiter hann hvorke um̃ Himen nie Jord. Enn svo sem ad þetta er eitt miked Hlutskipte, hver sem þvi nær, Jaa, svo miked, ad Himen og Jord meiga i eingann Samjøfnud koma; Svo skal og miked til þess vinna, ef vier vilium verda niootande Arfskiptis Heilagra i Lioosenu, Col. 1. Ef vier viliuni þocknast Gude i Lioose Lifande Manna, Psal. 56. Þa byriar oss ad skrijdast Hvijta-Vodum, ecke sijdur enn þeir i Fyrndenne, sem Skijrn og Christnetaka villdu, þad er, ad vier Jklædunst Herklædum Lioossins, ad vier Jklædunst einum nijum Manne, ad vier Jklædunst Guds Herskrwda, þad er, Jeinu Orde ad segia, med Paals Ordum, Col. 3. Ad vier Jklædunst svo sem Utvalder Guds H. og Elskuleger Hiartgrooenne Myskunseme, Goodgyrnenne, Lijtelætenu, Hoogværdenne, Þolennmædenne. Eg veit þad maa þykia undarlega til Ords teked, ad Postulenn temur sier þenna Ordshaatt, ad Jklædast Dygdunum, einn valla kann þo nockur betre ad finnast: An Klædanna gietum vier ecke lifad, þau eru þad sem veria oss Froste og Kulda; Svo kunnum vier ecke helldur ad lifa Andlegu Lijfe fyrer utann þenna Saklepsesins Skrwda: Hann værnar oss vid Helvijtis Bruna. Klædnadur DRottenns vard fagur og Leiptrande af þvi, ad Guddoomsins Byrte, sem i hanns Hollde bioo, hun skein i giegnum þau, eins og Soolenn Glered, svo eigum vier ad laata þad siaa i vorum Lijfernis Haattum, Ordum og Athøfnum, ad Gud bwe i oss fyrer Trwna, þad bijdur Frelsarenn Læresveinunum, Matth. 5. Med þessum Ordum: Svo lijse ydar Lioos fyrer Monnum, ad þeir siae ydar Goodverk, og dyrke ydar Fodur, sem aa Himnum er: Eñ fyrer þvi, ad Daglega slettest uppaa vort Skijrnar Klæde, aa medann vier gaungum i giegnum Forod Veralldar þessarar, þa maa þad Daglega þveiged verda. Marcus skrifar um̃ Klædnad DRottenns, Cap. 9. Ad hann hafe svo Biartur vered, ad eingenn Þvotta-Madur aa Jordu kunne þvilijkt ad giora: Og sama er ad segia um̃ vort Brwdkaups-Klæde, þad kañ eingenn svo hreint ad giora aa Jordu, ad i Guds Augum byrtast meige; Þad maa um̃ oss alla jaata, sem DRottenn segier um̃ sitt Foolk, Jer. 2. Þoott þu þvoer þig i Sallt-Petre, og safnir þier mikellre Saapu, þa ertu samt Ohreinn fyrer mier: Hann einn, hann einn gietur þau ad fullu hreinsad, sem er eins og Kopar-Smidsins Elldur, og eins og Saapa Þvotta-Manna, Mal. 3. Þad er þitt dijrmæta Blood, minn Frelsare, J hveriu ad aller Heilager hafa þveiged sinn Skrwda, Apoc. 7. Svo kanntu og DRotteñ miñ, ad giora jafnvel Synder mijnar hvijtar eins og Snioo, þoott þær sieu raudar sem Blood, og Ullhvijtar, þoott þær Purpura raudar sieu, Esa. 1. Jaa, Eg em þess fulloruggur, ad nær þu breider þiñ lioomande Klædafalld wt yfer mijn saurug Tötur, þa mune þeirra ei giæta; Guddoomsins Fylling, sem i þier bioo Lijkamlega, hun skein i giegnum þiñ Klædnad aa Fiallenu Helga, eñ Sorte miñar Jllsku mun alldrei gieta brotest i giegnum þessa Byrte inn i Augu þijns Himneska Fodur: Þessu fulltreyste eg, DRotteñ minn, þvi eg veit, ad þu ert komenn til ad leita ad þvi sem tapad er, og ad kalla

Synduga, Og ecki Riettlaata til Yðrunar. Þier sie Lof, Æra, Makt og Dijrd, ad Eilijfu, Amen.

J Munni Tveggia edur Þriggia skulu øll Ord standa, Sagdi DRottinn i Løg-Boek finni Fordum: Enn um̃ þetta Þijng maa eg segia þad, Er Johannes segier i hanns Fyrsta Pistils Fim̃ta Capitula. Þrijr eru þeir sem vitna aa Himni, Og Þrijr eru þeir sem vitna aa Jordu. Hier eru Þrijr Vottar Jardneskir, Og adrir Þrijr Himneskir. Eg vil tala fyrst um̃ þa Jardnesku, Þvi Textinn gietur fyrr um̃ þa. Þad voru Petrus, Jacobus og Johannes, Þessir voru eingir Smælingiar i Guds Hwsi, Jafnvel þoott þeir væru halldnir Afrak og Hreinsunar-Foorn hiaa Verølldinni. Petur var saa ed fyrstur allra Postulanna þeckti, ad JEsus væri Christur Sonur Guds Lifanda, Matth. 16. Hann var saa ed Drottinn fyrstum afhendti Lykla Himnarijkis, til ad leysa og Binda, ecki þad, ad Petur afhendti þa hinum Postulunum wt af sier, Helldur giørdi DRottinn þad sialfur sijdann: Hann lagdi Lijfid ofann aa sijna Medkienningu um̃ JEsum, Þvi Jafnvel þoott ecki hafe Menn svo vissar Søgur um̃ hanns Lijflaat, Þa kieñir Johañes oss þad, ad Lausnarinn hafi spaad honum þvi; Ad hann mundi Gud med sijnum Dauda Dijrka. Jacob var saa, Er fyrstur allra af þeim Toolf liet Lijf sitt fyrir Vitnisburdiñ JEsu, Og undirskrifadi hann med sijnu Saklausa Bloodi. Johannes var saa, Ed laa fyrir framann DRottinn um̃ Kvølldmaaltijdina, Honum auglijsti hann Svikarañ, Hañ er saa Lærisveinn, um̃ hvern skrifad stendur, ad JEsus hafi hann Elskad; Hann hefur og Greinilegast af øllum Gudspiallamønnunum talad um̃ Persoonu Frelsarans, Honum Auglijsti DRottinn þa miklu Hluti, er skie skylldu aa eptirfylgiandi Tijmum; Svo sem lioost er af hanns Opinberunum: Hann lifdi og leingst allra Postulanna, til ad mootstanda þeim Ebioni og Cerintho, Er neitudu Guddoomi vors Frelsara. Og þess vegna er þad af Gudlegri Forsioon skied, ad hann fieingi hanns Hæatign Augum ad lijta i þessum Stad, Svo hann þess betur kynni þar um̃ ad vitna. Moodir þeirra Jacobs og hañs beiddi Frelsarañ um̃, ad Añar Sona siña mætti sitia honum aa hægra Veg, eñ Añar aa vinstri, DRottinn svaradi henni; Þier vitid ei hvers þier bided; Eñ þo sijnist mier, ad hann Blessadur hafi ad nockru Leiti ordid vid Boon hennar i þessum Stad, Þar hañ took þaa framar ødrum med Petri, til ad sijna þeim svo sem Aleingdar inn i þa Dijrd, sem hann aa hiaa sijnum Himneska Fødur. Enn af þessari Veglegu Sioon hafa þessir Guds Menn lært, Þar þeir valla gaatu stadist hana, ad ei mundi þeim hendt i þessu Daudlega Holldi ad sitia honum aa Hægri edur Vinstri Hlid i Dijrd Himnanna, Og þvi sporudu þeir ecki sijna Daudlega Lijkami sijdann fyrir hanns Skulld, þegar þeir vaxnir voru eptir fullkomnum Mælir Christi Alldurs, svo þeir med Paulo, Phil. 3. naa kynnu, i Upprisu hinna Daudu, Hnossinu þeirrar Køllunar, sem þar uppi er i JEsu Christo. Enn vier, sem nu heyrt høfum Vitni þeirra um̃ Forklaaran DRottiñs, Og vitum ad þeir inngeingnir eru i Dijrd sijns HErra; Vier skulum leggia allann Hug aa, ad vera eins lyndir og þeir, ad vier holldum alla Hluti Þreck ad vera, Og jafnvel sialft Lijfed,

Svo

Svo vier avinnum Christum, Phil. 3. Þvi hver sem ad hatar Saalu. sijna i þessum Heimi, hann mun vardveita hana til eilijfs Lijfs, Joh. 12. Og þessir eru nu hinir Jardnesku Vottar ad Stoormerki þessu, Sem tekid hafa vid Vitni þeirra Himnesku: Um̃ hveria eg hefe hier eptir nockud ad tala.

DRottinn sagdi Fordum undir sijna Pijnu, Joh. 12. Fadir, Vegsama þitt Nafn, og Raustinn af Himni svaradi honum: Eg hefi Vegsamad, og eg skal aptur Vegsama, Þa sagdi hann vid Lærisveinana: Þessi Raust skiedi ecki vegna mijn, helldur ydar vegna. Svo maa eg og segia um̃ þaa Himnesku Votta, sem Textinn um̃gietur, ad ei byrtust þeir DRottni fyrir hanns Skulld, helldur þeirra sem med honum voru; Jaa, vegna allra þeirra, sem eptir þeim heira mundu þenna Tilburd. Vottarnir eru Þrijr af Himnum, Moyses, Elias, og siaalfs Fodursins Raust, Er vitnadi af Skijenu. Moyses var einn trwr Raads-Madur i ollu Guds Hwsi, Hann valdi Gud til ad wtleida sitt Foolk af Egyptalandi, Hann taladi vid Gud i Horeb, Þegar Jsrael villdi hafa sig undann þeiginn, ad heyra Raustina DRottins Guds sijns, Hann medtook Logmaalid af hanns Hendi, og taladi vid hann Optlega eins og Madur vid Mann talar. Hvert Moyses hafe vered hier med Saal og Lijkama, skal eg ecki margtum̃ tala, Þad er vijst, ad hann Doo aa Fiollunum Habarim, Hvadann Gud sijndi honum Landid Canaan, Og Gud groof hann i Dalnum, segier Ritninginn, Devt. 34. Þo er Lijklegt, ad Moyses hafe hier allur verid, Þvi um̃ Eliam er þad vijst, ad hann foor med Önd og Lijkama til Himens, Enn eingann Mun giorir Matthæus edur hinir Gudspiallamennirnir þeirra i sijnu Riti um̃ þessa Opinberan. Nockrir færa til ad stydia þessa Meiningu, Þad sem stendur i Judas Pistli, v. 9. Ad Michael Hofud-Eingill hafe þrattad vid Satan um̃ Lijkama Moysis, Svo sem ad villdi Andskotinn hafa feingid Valld hanns, Enn Gud hafi hann uppnumid, Og ad vijsu lijtur Petur til þeirrar Sogu, Er þar skrifud stendur, J sijns Sijdara Pistils Odrum Capitula. Enn hverninn sem þessu er varid; Þa veit eg, ad hann sem uppvakti Son Ekiunnar af Sarepta, Og hinnar Sunamitisku, Hann sem Lazarum leiddi wt af Grofinni, Hann sem uppreisti Doottur Jairi, Hann sem liet marga Framlidna gaanga wr Grofunum i Christi Upprisu, Honum var ecki um̃ Megn, ad laata Moysen koma til þessarar Haatijdar aa Fiallinu Helga med Önd og Lijkama, Og þessi var nu Hinn Annar Himneskra Votta af Monnum. Enn hinn var ad sijnu Leiti eingu minni, Elias, Hver med ollum Rietti maa nefnast hinn Ypparsti af Spaamonnunum, Hann var hinn mesti Vandlætari vegna Guds Nafns, Hann liet slaatra Jessabels Spaamonnum vid Lækinn Kischon, Honum sendi Gud Elld af Himni yfer þaa Tvenna Fimtiju Achabs Sendi-Menn, Hañ fieck med Bæn af Gudi Dogg af Himninum, Þa ecki hafdi rignt i heil Þriw Ar, Hañ foor med Elldlegum Hestum og Vognum til Himna, Hann taladi vid Gud aa Fiallinu Horeb, Eins og Moyses, Og badir fostudu þeir i 40. Daga og 40. Nætur, Eins og Christur i Eydimorkenni, Beggia þeirra gietur og Malachias i Pridia Capitula

sinnar Mœla-Bookar, under eins og hañ endar hid Gamla Testament. Slijka Votta hyriade Guds Syne ad hafa til Dijrdar sinnar, er hann Forklarradest; Og skulum vier vita, ad Gud giorer eckert Forgiefens, auk helldur svo mikla Hlute, sem þesse var, øll var og Þorf a þvi; Sw Tijd var nærre komenn, ad Gud munde slaa Hyrderenn, og ad Sauder Hiardarennar mundu sundur tvistrast; Enn hversu ad Læresveinarner hafe vered bwner under þa Ogn, þad sijna oss Gudspialls Søgurnar. Ad sønnu hafde Petur lijst þvi skomu adur, Matth. 16. Ad JEsus være Christur Sonur Guds Lifanda, og kallade Frelsarenn hann sælann þar fyrer; Þvi Holld og Blood hefde honum þad ecke openberad, helldur Ande sijns Fødurs; Enn þo took Hollded svo ad raada skomu þar epter, er JEsus talade um sijna Pijnu, ad Petur ataldeⁿ hann, og sagde: Spara sialfann þig, ad ei verde þier þetta; Ja, þegar hann heyrt hafde, ad Moyses og Elias toludu vid DRottenn um hanns Sijdurstu Utfør fraa Jerusalem, þa var þo Einfelldnenn svo rijk i Holldenu, ad hann sagde: Vier Viljum Giora Hier Þriaar Tialld-Bwder: Þier Eina, Moysi Eina, Og Eliæ Eina; Og þoott hann hefde Maal fyrer hinum Postulunum, þa er audvitad, ad þeir hafa eins Faakiæner vered. Hier maa nu segia þad sama um þenna Guds Ast-Vin, sem Paulus um sig segier: Þegar eg var Barn, Giorda eg sem Barn, Og eg talade sem Barn. Petur var enn nu ecke fullvaxenn i Christenndoomenum, og þvi talade hann Bernsklega. O Þu Guds Madur! Munde hann nockud þurfa Tialld-Bwdar vid, Hvers Asiaana ad skein sem Sool, og hanns Klæde voru biort eins og Liꝺos? Munde hañ ætla sier ad eiga langa Dvol a þessu Fialle, sem adur sagt hafde: Ad hann munde Lijflatenn verda i Jerusalem, hvad þu og heyrder, Guds Vinur, af þessum Tveimur Himnesku Vottum? Var þesse Openberan til þess gior, ad hun skyllde leinge vara, og ei miklu helldur til ad vera Forsmeckur hinnar eilijfu Dijrdar? Þvi skyllde Moysi og Eliæ giora Tialld-Bwd, eins og ad ei være i JEsu einum Sælann full? Riett hafa þeir nu Marcus og Lucas skrifad um þetta Faafræde Peturs, ad hañ hafe ecke vitad hvad hann sagde, Kannskie þvi, ad Felmtur var yfer þa komenn: Enn i þvi maa marka Elsku þa og Traust, er hann hafde a DRottne, ad hann giorer ei Raad fyrer neinne Tialld-Bwd handa sier edur sijnum Lags-Mønnum, þvi hann hefur vered Fulltrwa þar um, ad þar sem hanns HErra være, þar mundu og þeir verda. Svo skulum vier og Lynder vera, Christner Menn, þegar vier erum visser um Christs Vinattu, þa verum ecke Hugsiwker fyrer Lijfe þessu. Hvar kunnum vier svo ad vera hia JEsu, ad oss illa lijde? Hvar meigum vier svo vera fyrer utann hann, ad oss vel lijde? Vørpum þvi allre vorre Ahyggiu uppa DRottenn, hann mun þvi vel til Vegar koma. Og þesse var nu Veikleike Peturs og hinna Læresveinaña. Enn til þess ad bwa þa under hina miklu Freisting, sem a epter fylgde; Þa skiede nu þesse Dijrdlega Jarteikn, og þoott þeim fielle st miog svo Hugur, þegar i Raunernar rak, þa er þad vijst, ad þeir hefdu miklu midur hast sig, hefde þeir aan hennar vered. Þesse

er

Þesser voru þeir Þrijr Læresveinar er JEsus took Assijdes med sier, aa þeirre Naatt er hann Forraadenn var, þegar Kvolenn hoofst. Gud naade oss Auma og Synduga! Vier gietum hverke þolad Heitt nie Kallt med JEsu; Þessa Dijrdlegu Syn gaatu þeir valla stadest, enn i Kvolenne svaafu þeir, þa yfergaafu þeir hann aller: Enn þacker sieu þier, hin Gudddoomlega Speke, þu kannt ad midla fyrer oss bæde Medlæte og Mootlæte, epter þvi sem þu veist hvad med Mañenum bijr: J þinne Dijrdlegu Forklaaran lietstu þijna Postula sia þijna Dijrd, ad svo miklu Leite, sem þeirra Daudleg Augu gaatu þolad, enn i Kvolenne leyfder þu þeim ad sofa um̃ Hrijd; Þu gafst þeim og Faarleyse, þegar Hoopur Manna var yfer þig komenn, svo þad maa jaata, DRottenn miñ, ad þu ert Einn Biskup Freistadur aa allann Haatt lijka sem vier, þo aan Syndar; Þar fyrer kanntu ad sampijnast Eymdum vorum.

Adur enn eg skilst vid þetta Maal, þa vil eg þar um̃ tala, ad Postularner þecktu þaa Moysen og Eliam, er þeir alldrei hofdu þo aadur sied. Lijkleg er þeirra Gaata, er meina, ad af Samtalenu hafe þeir maatt þeckia þaa: Enn hverke Moyses nie Elias hofdu Greinuglegar spaad um̃ DRottenns Pijsler, helldur enn David og hiner Spaamennerner, Sierdeilis Esaias, neina hann hafe þaa vid Nafn kallad, hvar um̃ eckert er skrifad, þvi helld eg þad lijklegra, og nærre þvi fyrer satt, ad Guds Ande hafe þeim þad Opeñberad i þad Sinn: Þvi hañ sem liet Samuel þeckia Saul Konung, aadur enn han hafde hann sied, Sem liet Johannem þeckia sinn HErra i Moodur-Lijfe; Hañ gat og audvelldlega giefed Christi Læresveinum þessa Þeckingu aa Moyse og Elia; og er þad ecke lijtel Huggun fyrer Christna Menn, ad hver Einn mun þeckia ecke einasta sijna Astvine, i þeirre Himnesku Glede, helldur og alla Utvallda, sem hafa yferunned fyrer Lambsins Blood, fraa þeim Fyrsta til þess Sijdarsta, sem inngeingur i Fognud sijns HErra, og med þeim Eilijflega gladiast, og Gude Lof sijngia aa þessu Fagnadarens Lande: Og er nu þetta sagt um̃ Moysis og Eliæ Vitne, sem voru fraa Himnum. Eñ hier kiemur eiñ ollum meire, sem uppfyller bæde Himen og Jord, þad er Fader DRottenns vors JEsu Christi, sem hier vitnar: Þesse Er SOnur Minn Elskulegur, Honum Skulud Þier Heyra. Riett er Gaata Hieronymi Lærifodur, ad minni Hyggiu, er hann skrifar, ad Moyses og Elias hafe þess vegna vered sveipader i Skije þvi hinu biarta, aadur enn Raustañ kvad vid, ad ei skylldu Postularner meina, ad annarhver af þeim være saa, er til var talad: Og þegar þeir uppstoodu, þa saau þeir eingann nema JEsum: Þeir saau hann alleina, J hverium alleina er Saaluhiaalpenn: Þeir saau hann alleina, sem er hinn einaste Medalgaangare mille Guds og Manna: Eñ hvilykur er nu Vitnisburdurenn? ÞEsse Er Minn ELSKUlegur SONur. JEsus stood hier i sijnum fullum Manndoome, fullum af Guddoomenum, og þo segier Faderenn: ÞEsse Er Minn Elskulegur SOnur; hvar af audsært er, ad Christur er Guds Sonur, Bæde epter Guddoomenum og Manndoomenum. Minn Frelsare! Þeir kolludu þig Timburmannsins Son: Þiñ Fader segier: ÞEsse Er Minn Elskulegur Son-

ur. Þeir sögdu ad þu giorder þig ad Gude, af þvi þu kallader Gud þinn Fodur, enn Gud segier hier: Þesse Er Minn Elskulegur SOnur: Þeir sögdu: Vier vilium ecki láta þenna drottna yfer oss, Enn DROttinn allra Drottna, Þinn Fadir, Er þeir kolludu sinn Gud, Enn þecktu hann þo ecki, Hann segier. : Þessi Er Minn Elskulegur Sonur, Honum Skulud Þier Heyra. Moyses hafdi adur fyrir sagt, Devt. 18. Spaamann mun DROttinn uppvekia ydur af Brædrum ydar, Honum skulud þier heyra: Enn sa hinn sami kom til sinnar Eignar, og hanns eiginn þecktu hann ecki. Moyses lærdi og sialfur meira hier, Helldur enn hann sialfur hafdi fyrirspaad: Ad sonu vijsadi hann til hanns i greindum Spaadoomi, Enn hier sa hann þad, Sem bædi hann og margir Spaamenn gyrntust ad sia, Og sau þad ecki. Abraham sa hanns Dag ad sonnu, Enn ei sa hann DRottinn vorn Holldi Jklæddann, Eins og Moyses i þessum Stad. Allra Sijdarst vil eg giæta þess Mÿskunar-Verks, Er DRottinn giordi a Læriſveinunum, Er þeim var lidid i Briooſt af þessari Dijrdar-Sioon, ad hann gieck ad þeim, Og snort þa, Og sagdi: STandid Upp Og Verid Ohræddir. Hann sem alvanur var Dijrdinni, og þo i Maunlegu Holldi Opinnberadur, Hann kunni best ad vægia Holldsins Veikleika: Þad sijnir hanns Manndoom, ad hann Snart þa, Þad auglijsir Hanns Guddoom, ad hann reisti þa a Fætur med þessu Atviki. Minn HERRA JESU! Eg veit ad þu ert ei sijdur Mattugur nu enn þa, Og eckert Manngreinar Alyt er hia þier: Svo þegar vier follum i Andlegt Omegi, Og hofum engann Matt edur Frid i vorum Beinum vegna Syndanna, Þa gietur þu Snortid oss, Og reist oss a Fætur aptur, Ja, DRottinn, þegar hid Sijdarsta Aungvitid lijdur yfir oss i Daudanum, Snert oss þa, minn Frelsari, Og seig til Saalar vorrar: Statt upp og vert Ohrædd, Og leid oss inn i þijna Dijrd; Þar er oss Gott ad vera, Þar vilium vier Eilijflega med þier bwa, Þier, Fodurnum og Heilogum Anda Og Endanlegt Lof syngia, um Alldir Allda, Amen.

## ERRATA.

### J Fyrra Partenum.

PAg. 27. Lin. 2. Pa þun, les Pan þu. P. 41. L. 25. Nafni, l. Nafn. P. 122. l. 16. Ægyptal, l. Ægyptal. P. 162. L. 22. færa, l. fara. P. 186. L. 33. a Trwne, l. af Trwne. P. 198. L. 34. Fol: l. Foolk. P. 226. L. 10. reiddist, ecke; a ad vera: reiddist ecke, Pag. 242. L. 1. herlsur, l. hefur. P. 315. L. 11. Suds, l. Guds. P. 320. L. 24. Voladi, l. Volada.

### J Sijdara Partenum.

PAg. 50. L. 12. Mum, l. vorum, ibid. L. 13. Voranefkium, l. Manefkium. P. 54. L. 26. sitia l. setia, ibid. L. 27. gamlra, l. gamla. P. 78. L. 28. frestar, l. freistar. P. 79. L. 4. epckia, l. þeckia. P. 180. L. 1. Gud, l. Gudi.

Hvad annad smaaveigis hefur kunnad yfersiast vid Pricking þessarar Bookar, er Goodfws Lesare bedenn ad lagfæra og lesa i Maaled.

* * *
* * * * * *

